# Almenn
# Landaskipunarfrædi,

útgefin

at tilhlutun og á kostnad

hins íslenzka

Bókmentafélags.

---

Fyrri partrinn.

Med fimm kortum.



---

Kaupmannahöfn.
Prentud hjá P. E. Rangel.

1821.

# Formáli.

Hid íslendska Bókmentafélag leggur hérmed undir almennings álit, hinn fyrra hluta rits þess, er það fyrir nockrum árum sidan tókst á hendr ad láta semia. Augnamid þess er, ad fá fósturjørdu vorri frædibókar, í þeirri vís= indagrein sem nefnist Jardarfrædi og Landa= skipun edur Geographia, hverrar landsmenn vorir híngad til hafa ad mestu leiti þarfnast Þókti best fallid, ad rit þetta væri í tveim pört= um, af hvørium hinn fyrri innibindur það sem markverdast er ad segia um jardarhnøtt vorn yfir høfud, án þess ad litid sé til landa og ríkia afstødu á hønum, hvad ætlad var til

at hinn sídari hlutr ritsins skyldi náqvæmar útskíra. Á seinni tídum hafa menn ad vísu jafnadarliga miøg svo fáum ordum farid um þad, sem fyrri hluti rits þessa fráskírir og hafa sett þad svo sem lítin inngáng í jardarfrædis-ritum sínum; hafa þeir þad til síns máls, ad flest sem í þessum inngángi finnst, eigi heima og sé náqvæmar útlistad í ødrum vísindagreinum svosem stiørnufrædi, mælifrædi, náttúruspeki og svo framveigis, hvadan óþarfi sé ad lána þad. En bædi er þad, ad ein vísindagrein verdur traudliga svo adgreind frá annari ná-skyldri, ad þær ecki bádar hér og þar géti hins sama; líka virdist oss, ad jardarfrædin, ef hún ad verdugleikum er álitin sem einfær vísinda-grein, muni ad minsta kosti eiga ad drepa á flest þad, sem hlydir til at útlista jardarhnøtt vorn, hvørt heldur er yfirhøfud edur hans ein-staka parta; og verdur þá eckert ofstalid af því

sem vér høfum ávikit í þessum fyrra hluta rits vors; land vort er þarhiá næsta fátækt af þeim frædibókum, sem heyra til stiornu- eda mælingar-frædi, náttúruspeki og þesshátttar, en nockra þeck-íngu á því almennasta af þessum vísindum þarf þó til ad géta skilid þá eiginligu lands-askipun til hlýtar. Rit þetta er ad vísu stær-ra ordid, enn vid fyrsta álit þurfa þætti til ad létta brádustu naud landa vorra í þessari grein; enn oss virdtist þat rádligast, med því kostnadr var tillagdr á annad bord, ad verki þessu væri svo aflokid, ad bókin iafnvel þénad giæti, sem skémtilig og fródlig lestrarbók fyrir þá medal landsins vísindamanna, sem ecki eiga kost á ad útvega sér útlendra ritgiordir um þetta efni; vissum vér og at þeir mørgu af løndum vorum, sem eru giarnir á vísindi og fródleik um framandi þióda háttu, muni virda oss til góda þó bókin verdi nockurum ørk-

um stærri enn hún hefdi í minnsta lagi gétad verid; líka er hætt vid, ad hún hefdi ordid flestum, eins leikum sem lærdum, Íslendíngum, midur girnilig og skemtilig, og þessvegna midur samsvarad tilgángi vorum, ef hún ei hefdi annad innihaldid, enn stutta og þurra uppskrift landa, lida og stada, sem litid umþeinkíngaresni géfur, og þessvegna traudliga festist í minni lesendanna.

Þeir menn sem eptir bón félagsins hafa tekist á hendur ad færa bók þessa í letur, vóru Herra Ofirauditeur bý- og hérads-fógeti Grímr Jóhnsson, hvor ad sér tók fyrri partin og Herra Studiósus Theologiæ Gunnlaugr Oddsen, sem tókst á hendur ad semia hinn sídara; en bædi var þad, at félagit ecki gat á einu eda tveimur árum risid undir þeim kostnadi, sem veria þurfti til útgáfu rits þessa, og þeirra landkorta sem því fylgia skyldu, ásamt ann-

ara bóka, sem félagid um sömu mundir vildi á prent láta gánga, enda hindrudu líka margfaldar embættisannir og adrar sýslanir nefnda menn, frá ad gëta varid þeim tíma til þessara starfa sem þau krefdu, ef þau skyldu fliótt af hendi leysast; hér vid bættist einnin, at þegar Herra Yfirauditeur G. Jónhsson sumarid 1819 flutti hédan frá bænum, vantadi þann sem félagid fengid gæti í hans stad til ad enda þad sem eptir var ófamid af fyrra parti ritsins, því flestir af félagsbrædrum vorum, sem í þeim vændum voru, þurftu ad veria tíd sinni annadhvört til embættissýslana eda eigin lærdóms ydkana. Studiósus júris Þórdr Sveinbiörnsson tókst loks á hendr, ad framhalda hinum fyrra parti ritsins og er annar og þridji þáttr hans af honum giördr. Þessar hér greindu kríngumstædur vonum vér afsaki oss ad fullu í augum nærgiætinna og skinsamra landa

vorra, þó bókin ecki fyrr enn nú komi úr smidum vorum, og vilium vér þvi ecki fara þarum fleirum ordum oss til afbøtunar.

Landkortin, sem nú útgánga undireins og fyrri partr bókarinnar eru 6 ad tølu, eitt yfir sérhvørn helmíng eda hálfkúlu hnattarins, þridia yfir Danmørk, fiórda yfir Noreg og Svíaríki, fimta yfir Norduválfuna og siøtta yfir vora eigin fósturjørdu. Landa og bæanøfn eins og velflest ønnur ørnefni høfum vér á þeim sett á norrænu, hvar þvi hefir ordid vidkomid, og ad svo miklu leiti sem oss er af fornritum kunnugt ad brúkad hafi verid, giørdum vér þad i þvi augnamidi, at landar vorir, til hvørra brúkunar þau voru ætlut, giætu hæglegar á þeim fundid ørnefni þau, sem í forfedra vorra sagnaritum kynnu fyrir at koma, hvør ed oftast eru ad øllu fráleit þeim, sem i framandi túngum brúkud eru. Ecki

hefir því ordit vidkomid, ad á þeim stædu øll landa, hérada, og bæa,nøfn, sem nafnkénd eru álitin, því til þess hefdi þurft stærra rúm enn kortin leyfdu, hvor giørd eru eptir mæliqvarda í minna medallagi, enn svo mørg þessi nøfn ætlum vér þar finnast muni, sem nægia mættu velflestum løndum vorum til þess, at þeir géti giørt sér greiniliga hugmind um afstødu hinna nafnkéndustu landa og stada á hnettinum. Hvad Íslands korti sérilagi vidvíkur, er þess hér ad géta, at af því vér vildum þad skyldi ad stærd samsvara hinum landkortunum, er þad ei svo stórt, sem ønnur eldri kort yfir þetta land, hvorsvegna ei hefir ordid vidkomid, ad géta þar nema hinna markverdustu hérada, sveita, fialla vatnsfalla og kyrkjustada. Félag vort hefir ei ad sídur verid svo heppid, ad géta á því sýnt landsins sanna skøpulag og afstødu frá ødrum løndum á hnettinum, samqvæmt þeim

mælingum af landsins sióarströndum, sem á seinni tímum hafa giördar verid.

Þess hlýdir og ad minnast, ad kort þessi ecki eru grafin á eyr, sem þó ad fornu hefir tídkanligt verid, heldur hafa þau verid sumpart málud, sumpart grafin á marmarastein og þareptir prentud. Var þetta giört bædi til at spara félagi voru kostnad, en einkum til þess ad þau verda skyldu kaupendunum ódýrari.

Ad lyktum óskum vér af einlægni ad bædi þessi, sem hvør önnur félags vors vidleitni ad frama lærdóms-mentir og vísindi hiá landsmönnum vorum, mætti hafa forsælan ávøxt!

Deild hins íslendska Bókmentafélags í Kaupmannahöfn þann 3ia Febr. 1821.

Almenn

# Landaskipunarfrædi.

Fyrra parts fyrsta deild:

Jardarfrædi.

# Innihald.

# Fyrri partrinn.

## Um jardarinnar edli og innbúa ysirhøfud.

Þá vísindagrein, er skírir frá jardarhnetti vorum, frá hans løgun, hræríngu og sambandi vid ønnur himintúngl, frá hans ysirbords edli og ásigkomulagi, svo og frá því hvørnin mennirnir hafa skipt jørdunni í lønd og ríki, og frá ástandi og menníngu þiódanna, kølludu grickir γεωγραΦια, þad er á vora túngu jardarfrædi. Henni má skipta í tvo hluta, þann fyrri, sem gefur ávísun um jardarinnar náttúru og innbúa ysirhøfud, og þann sídari er kéunir ad þeckia einstøku landa og lída sundurgreiníngar, ásigkomulag og sidu. Þessi partr jardarfrædis kallast réttilega landaskipun.

Fyrri partinum hafa menn skipt í þriá þætti: høndlar eirn um jardarinnar løgun, stærd,

hræríngu og samband vid adra himinhnetti og kallast jardarmálsfrædi (matematisk géógrafía); annar um edli jardarbarkarins og lifandi og liflausra hluta sem á hønum finnast, og heitir jardaredlisfrædi edr edlisútmálun jardar (fysisk géógrafía); enn þridji um þad, hvørnin jørdin skiptist og um mannlegar skiptanir í løndum og ríkium yfirhøfud, er kallast almenn ríkiafrædi (almenn landaskipun, pólitisk géógrafía).

Landaskipan hafa menn skipt í fornaldar-, midaldar-, og nýrri tídar landaskipun eptir því sem hún útlistar landa og ríkia ástand í gamla daga fyri þiódaflutníngin mikla, edr á midøldinni ádr vesturálfan fannst, edr þareptir alt ad vorum døgum; þó er þessi sundurgreining miøg óskilmerkileg, því audrádid er, ad ástand ríkia og landa ekki hafi einlægt verid þad sama á vissum tilteknum, sídst svo laungum tímabilum (stadøldrum), né heldur snøgglega umbreyttst allstadar í einu vid þau tilteknu tímaskipti, þótt greindar høfudbiltíngar mest hafi skarad framúr í þessu tilliti.

# 1ti Þáttr.

Um logun og stærd jardarinnar, svo og hennar hræringu og samband vid adra himinhnetti, med þaraf leidandi undirstödugreinum til rímtals.

§. 1.

Í fyrsta áliti virdist oss ad jördin sé ógnarlega stór flötr, er á allar sídur nái út ad himinsins hvelfíngu (firmamentinu edr himinfestíngunni).

Þetta er forfedranna eldsta hugmynd um lögun jardar; þeir héldu ad hún væri mikid stór kríngla, þó med mishædum, hvörrar óþénndu ytstu takmörk á oss óskilianlegan hátt væru samteingd edr samlögudust himinhvolfinu. En skiótt urdu menn af ímislegum atvikum varir vid, ad þeim skiátladi miög í þessu efni, og fyrir laungu erum vér komnir ad fullkominni raun um, ad yfirbord jardarinnar ecki sé krínglótt og flatt heldur hnöttótt. Eru þartil mörg rök, hvaraf þessi eru en áþreifanligustu:

1) Hvar sem vér nemum stadar á jördunni er sá reitr, sem vér yfirlítum ætíd krínglóttr og eins stór á allar hlidar; vér stöndum í midpúnkti hanns, og þó útsiónin sé öldúngis óhindrud, stickar reitrinn fyri vorum siónum

að því hæst, sem vér stöndum hærra. Þessi merkiligu atvik væru oldúngis óskiljanleg, ef jörðin væri flöt, en verða, sem hvor sér, auðskilin sé hún hnöttótt.

2) Af fjarlægum hlutum, svosem: löndum, fjöllum, turnum, skipum, sjáum vér, jafnvel á sjó í blídalogni, þá eingar ójöfnur hindra útsjónina, í fyrstu, ecki nema það allraefsta (t. d. fjallatinda, topp og efstu segl eda efsta hluta reidans á kaupförum), en af nedri hluta (svosem skipskrocknum og undirseglum, eda undirlendi) sjáum vér því meira sem nær ber að. Þessi atburdr gétur ecki orðsakast af sjóndeyru vorri, því ef svo væri, yrdi hlutrinn að sönnu æ skírari og skírari fyri vorum sjónum, því nær sem drægi, en hann byrtist oss samt strax allr í einu, og vér eygdum þá ecki fyrst nockurn hluta hanns, allrasidst þann efsta sem optast er minnstr fyriferdar. Það sem í fyrstu byrgir nedri part hlutarins, getur því ecki annað verið, enn þrotnun jardar og bugr edur hvel hennar milli vor og hlutarins *).

---

*) Sjá Conferenceráðs M. Stephensens ypparligt ritgiörð um "alstyrnda himinin" í Vinaglеdi, einkum bls. 37 og 38.

3) Ad þessi ávali jardarinnar nái í kríngum hana, og ad hún sé sívöl á allar hlidar edur hnøttótt, er audsært þaraf, ad þeir atburdir, sem nú eru taldir, allstadar reinast eins. Þó hafa sjófarendur miklu óbrygdanlegarr dregid héraf allan efa, med því ad sigla 23 edr 24 sinnum íkríngum alla jørdina eptir sama horfi, er seinast hefir leidt þá heim aptur til þeirra landa hvadan þeir í øndverdu løgdu afstad *). Íkríngum slæt giætu menn ad sønnu ogsvo farid, en yrdu þá í hvoriu vetfángi ad sveigia stefnulínuna á annanhvørn bógin. Eiginlega sýna þó þessar siglíngar íkríngum jørdina ecki nema ad hún sé sívøl frá austri til vesturs, því frá nordri til sudurs, hafa menn enn ecki fengid siglt íkríngum hana, sakum ens mikla hasíss undir heimsskautum.

4) Þegar jørdina ber ámilli sólar og mána er skuggi hennar á mána ætíd krínglóttr; þetta sýnir berlega ad hún siálf er hnøttótt, því annars mætti skugginn einhvørn tíma verda kantadr, þared hún snýst svo margvíslega, jafnvel ámedan á formyrkvuninni stendur.

5) Þegar vér ferdunst sudurávid á jardarhnettinum, siáum vér ad því skapi fleiri stiørnur, af þeim, sem fyri framan oss eru, og þær hæcka

*) Siá vinagledi bls. 36.

því meirr á loptinu fyri vorum sjónum, sem sunnarr dregur; en þarámóti lækka og sökka jafnódt þær stiørnur sem fyrir aptan oss eru. Hvertámóti, því nordarr sem vér komum þess færri sjáum vér af sunnan stiørnum og þess fleiri af enum nordlægu. Eins ber vid fyri þeim sem ferdast austur á bógin, ad fyri þeirra sjónum koma øll himintúngl fyrri upp, en seirna fyri þeim sem vestur fara.

Væri jordin fløtr, þá sæu menn allstadar eins margar stiørnur; þær kæmu þá allstadar upp og geingi undir um sama leiti.

Á fyrri tídum neitudu menn af vankunnáttu lnattløgun jardar, og giørdu sér í lund, ad ef hún væri hnøttótt yrdu þær manneskiur (eda adrir hlutir) ad detta, sem væru nedanverdt á jørdunni, eda á hlidunum, og ad sjórinn mundi þá lika ecki haldast vid í þeim ibúnga farveg, heldr leitast vid ad verda flatr. En fyri laungu eru menn farnir ad skilia hvorsvegna þetta ecki skédur; ber þad til þess, ad allir hlutir hvervetna á jardarhnettinum sem þeir finnast, leita eptir þýngdaredli sínu, edur réttara addráttarkrapti jardar, nidur ad midpúnkti hennar. Í enum stóra loptgeim er eckert uppi eda nidri, ofan- eda nedanverdt nema í samanburdi vid oss og midpúnkt jardarhnattarins; jordin er fyri oss og øllum

hlutum sem á henni finnast undir, og midpúnktr hennar hid nedsta; frá honum til jardarbarkarins er hvervetna uppá vid, og loptid fyri ofan allt þad sem er á jørdunni. Þad sem dytti út í loptid, dytti því øldúngis ecki nidurávid, heldr uppámóti sem er ómøgulegt *).

Þessi þýngd sem dregur alla skapada hluti nidur ad midpúnkti jardarinnar er líka ordsøk í ad allir partar siásarins allstadar leita jafnt á sømu leid, og þessvegna er þad ómøgulegt ad hanns kúpuvaxni farvegr edur stelling géti haggast.

Ecki skérdist heldur hnattløgun jardar af fiøllum, sem á henni eru. Þad hærsta fiall Thimbérassó í Qvító í Sudur-Ameriku vid midjardarlínuna, er á hæd ecki nema eitt 1900sti partr af þvermáli eda þyckt jardar, og er því ámóti henni ad reikna, sem sandkorn ámóti 7 feta þyckri kúlu.

Ad jørdin sé hnøttr enn ecki sløtr edur kríngla hefir og syri mørgum øldum verid vidur-

---

*) Paradauki hafa náttúruspekíngar med røkum sannad, ad sá løotstepull sem fergir hvørn mann nidur ad jørdu vegur hérum 30 þúsund pund, og er því nægilegr, til ad halda oss í kyrrleika. (siá í ødrum þætti §. 19.)

kénnt af vorum greindu og gódu forfedrum, siá t. d. Kóngs skuggsiá bls. 63, 198 og vídarr.

§. 2.

Eptir mælingum og reikníngi mælifrædis-manna (mælingameistara) á seirni tímum, er þá med nógum rokum sannad, ad jørdin ecki er regluligr hnøttr (fullkomlega hnøttótt) heldur nockud ísløt á tvær hlidar, andspænis hvøria ámóti annari, nefnilega vid nordur og sudur, en digrust um midbikid; hún er því ad skøpulagi nockud svipud ígulkéri.

Ecki er samt meiri mismunur á leingsta og stytsta þvermáli (æqvatórial- og pólar-þvermáli) jardar enn svo, ad þau eru í somu hlutfollum sem tølurnar 203 og 202 (eda eptir reikníngi annara sem 187 og 186), og skackar því miøg litlu þó hún í flestum tilfellum sé álitin fyri hnøtt. Til eptirmyndar henni og til þess skilmerkiliga ad fá útlistad hennar løgun, stærd og hræríngu, hafa menn smídad sér holar reglulegar kúlur af stinnum pappír, eda ødrum efnum, sem menn kalla **jardarmyndir** (á látínu globos), og á hvøriar menn, fyri utan lønd og høf, hafa sett vissa púnkta og hríngi, sem ecki eru til á siálfum þeim verulega jardarhnetti, en eru þó naudsynlegir til mælisrædiligrar útlistunar um hnøttinn og einstøku stadi á hønum. Med flat-

stjónarmálverki, (flata- edr flatmindunarteikníngu, gagnstjónarteikníngu) hafa menn dreigid upp eptir líkíngu jardar á hnattkort (hnattarkort) af hverium tvö (No. I og II) fylgia þessari bók og sýna allt yfirbord jardarinnar á tveimur kríngl- um (nefnil. þeirri eystri og vestri), sem menn hæglega géta ímindad sér samanlagdar sem hol- an hnött, svo ad málverkid sé utanverdt.

Af þeim baugum, sem finnast þará, og strax skal skýrskíra, eru sumir kalladir stór- baugar (circuli majores), þeir skipta hnett- inum í tvær jafnar helftir og hafa sama mid- púnkt sem hnötturinn, en adrir smábaugar (circuli minores), er skipta hönum í tvo ójafna parta, og hverra midpúnktr ecki er sá sami og hnattarins (er utanverdt vid hnattarins mid- púnkt). Allir baugar skiptast í 360 mælistig edr grádur (sem í bókum ritast 360°) hvert mælistig í 60 minútur (60′) og hver þessara í 60 sekúndur (60″). Med ítrekudum mæl- íngum um midbik jardar og vid heimsskautin, eru menn komnir ad raun um, ad medalleingd eins mælistigs af stórbaugi yfirum jördina frá nordri til sudurs er 3 þíngmannaleidir edr 15 almennar (gégrafiskar) mílur *), og er hún

*) A eitt þvílíkt mælistig gánga: astronómiskar míl- ur (hver $\frac{1}{1000}$ af helmíngi jardar þvermælis)

því ummáls 1080 þíngmannaleidir (5400 alm. mílur). Þvermál hennar er þareptir reiknad ad vera hérum 344 þml. (1719 edr 1720 mílur) og allt yfirbordid hérum 371280 ferhyrndar þml. (9,282,000 ferhyrndar mílur), en hennar líkamliga innihald hérum 21 milliónir þíngmannaleidir líkamamáls (2646 edr 2659 milliónir kroppligra (líkamligra) mílna).

Athugagrein 1. Öll mæling er, eins og þeir hlutir sem mælast, þrennslags: madr gétur annadhvørt mælt a) afstødu eda línu, þad er kallad leingdarmál, t. d. þegar mældur er vegr, bordi, vadmál edur þesshattar; b) allt yfirbord einhvørs hlutar; þetta giørist med ferhyrndum mæliqvørdum þeim er hafa jafna leingd og breidd, og kallast flatamál edur víddarmál; hértil heyrir vallarmál og þesskonar; eda c) allt innihald eda stærd einhvørs líkama

---

$17\frac{1}{3}$, danskar $14\frac{77}{100}$, engelskar $69\frac{1}{8}$, franskar (lieues) 25, géógrafiskar (almennar) 15, griskar (ólympisk stadia) 600, hollendskar 19, íslendskar þíngmannaleidir 3, íslendskar sjómílur (vikur sjáfar) 9, norskar 10, prussiskar $14\frac{37}{100}$, rómverskar gamlar 75, rússiskar $104\frac{1}{4}$, skotskar 50, svenskar $10\frac{2}{5}$, sjómílur (engelskra, hollendskra og franskra) stórar 20, sjómílur litlar 60, spanskar $16\frac{2}{5}$, vallendskar stórar 60, vallendskar smáar 75, þýdskar stórar 12, tyrkneskar $66\frac{2}{3}$, úngariskar $13\frac{1}{2}$.

(á leingd, breidd og hæd); þad kallast likamamál (stærdarmál) og verdur tiltekid eptir líkamligum mæliqvordum, sem hafa jafna leingd, breidd og hæd.

Athugagrein 2. Þær í mælifrædi med rokum stadfestu undirstødugreinir eptir hvørjum ofantédr útreikníngr er giør; eru: a) þvermál og kríngmál hvørs eins baugs eru í somu hlutfollum sem 1 : 3,14 (1 : $3\frac{14}{100}$) eda 113:355; b) yfirbord hnattar í flatamáli finnst, þegar menn marfalda þvermál med ummáli, og c) innihald hanns ad líkamamáli, þegar menn margfalda flatamál yfirbords med $\frac{1}{6}$ parti af þvermáli.

§. 3.

Tilsýndar geingur sólin og allr himinsins hér, á vissu tímaskeidi aptur og aptur ikríngum jordina, sem oss vyrdist halda kyrru fyrir. Í barnæsku mannkynsins og lángt fram eptir oldum, álitu menn þessa hræríngu ad vera ena sonnu, og héldu jordin væri veraldarinnar kyrri midpúnktr. En eptir þad stiornuvitríngar náqvæmarr lærdu ad þeckia himininn, og stærd og fiarlægd himintúnglanna, sáu þeir hversu bernskulegt þad var, ad leida sér í hug, ad en afbodslega stóra sól, og allar adrar í ómælanlegum fiarska verandi stiornur, giætu farid ikríngum jordina á hvorium tveim dægrum, hvartil þyrfti slíkt feiknar hradfæri er lángt yfirstígur alla mannlega

ímindun *), og ad þarámóti himinsins hræríng øldúngis má koma oss eins fyri siónir og er miklu skilianligri af daglegum snúníngi jardar-innar eptir gagnstædri stefnulínu frá vestri til austurs. Nú á tímum efast þarfyri eingi vel-fródr madr um framar, ad sólin er kyr, en ad jørdin sífeldliga veltist í hríng eins og hiól á ási, án þess ad vér verdum þess varir; ber þad til þess, ad dampahvolfid veltist med oss, og hræríngin er svo hæg og jøfn, og vér henni þaradauki frá blautu barnsbeini eins vanir og blódsins umrás í líkamanum; álíkt og þegar menn á bárlausum sió sigla í hægum byr fram med landi, eda aka á ísi, sýnist þeim siáfar-strøndin, med øllum þar siáanligum hlutum,

---

*) Stiørnuvitríngar hafa fært nógar líkur til ad frá oss til næstu fastastiørnu sén 5000 milliónir jardar þvermála; yrdi þareptir þvermál um-ferdarhríngs þessarar fastastiørnu kríngum jørdina 17 billiónir og 200,000 milliónir mílna, og um-ferdarhríngrinn siálfr 54,008,000,000 000 mílur. Þetta hlaup ætti stiarnan þá ad þreyta á 24 kluckustundum, og ætti því ad ferdast á 1 tíma 2,250,000,000,000 mílur, og á hvørri mínútu 37,500,000,000 mílur. Hvílíkt ofsa hradfæri! Sá fliótfærasti hlutr, sem vær þeckium, er liós-byrtan, og hún þarf þó 8 mínútur til ad koma frá sólu til vor, sem eru 21 milliónir mílna.

færast apturábak eda ámóti þeim, en þeir siálfir ásamt skipi eda akfæri halda fyrru fyrir, vegna þess þeir ecki finna til skipsins eda sledans hægu og jöfnu hræringar*). Að manneskiur og adrir hlutir á hnettinum ecki hvirflast út i buskan, kémur af því, ad allir hlutir leita nidur ad midpúnkti jardar, og þessi addráttarkraptr jardar (vis centripetalis) yfirgeingr miøg framfararflugid (fleigi- edur slaungukraptin vis centrifuga) sem snúningrinn kémur til leidar þegar ekkert hindrar, og sem mundi færa hlutina út í loptid fyrst nærri jördunni, og sidan meira og meira út frá hveli hennar eptir beinni svo-kalladri snertilínu (tangent) **).

Jordin snýst alltaf i snarkringlu med jafnri hræringu frá vestri til austurs, svo ad í um-snúningstíma hennar allir partar jardaryfirbords sins hvør eptir annan snúa ad og frá sólunni;

---

*) Ein sú óbrygdulasta røksemd fyri því ad jørdin snýst sem hiól, er atburdr sá, sem vér í heidríka vedri gétum daglega séd, ad enn stóri biørn (eitt af stiørnumerkiunum) snýst í hríng, og vér siá-um hann eptir dagsetur á qvøldtíma snúa ødru-vísi enn morgunin eptir ádur dagar.

**) Þessi ódfluga snúníngr (fráflugskraptr) veldur því ad jørdin er ecki øldúngis hnøttótt, heldur einúngis hnattarlík, og digrari um midbikid (siá §. 2).

á þeirri hlið sem að sólu veit er dagr, á hinni nótt, og eru jafnt skipt á alla parta jarðar. Frá byriun umsnúningsins þángað til jörðin er komin í sama horf, frá einhvörri af þeim stiörnum er kyrrar eru, sem hún í ondverðu var, líða 23 klukkustundir 56 minútur og 4 sekúndur; kallast þetta stiörnudagr (stiörnuhríngr eður stiörnutvídægur, dies primi mobilis), og er sama sem jarðarinnar fullkomlegr umsnúníngr um ás sinn. En vegna þess jörðin þaraðauki alltaf líður frá vestri til austurs í kríngum sólina (sem seinna mun verða ámynnst í 13 §.) umbreytir hún á hverium tveim dægrum afstöðu sinni frá sólu nockuð, eptir því, sem hún kémur austar, og verður því eptir fullendtan kríngsnúníng, enn þá að snúast nockuð leingur um ás sinn á annann umsnúníng, áður hún fái náð sömu afstöðu frá sólu, sem hún dagin áður hafði við byriun snúníngsins; þessi tímaleingð er 3′ 56″, og sá tími sem líður frá því sólin einn dag er hæfst á lopti, þángað til dagin eptir í sama mund, og sem kallast sólardagur (sólarhríngr, sólartvídægur, dies solaris) er því 24 klukkustundir, og skiptist eptir afstöðu sólar og hennar byrtu í morgun, hádegi, qvöld og miðnætti, og í 8 eyktir er heita: ótta, (þá sól er í landnorðri), miðmorgun, hyrdis rismál (sól í fullu austri),

dagmál (sól í landsudri), hádegi, nón, midraptan, náttmál, midnætti*); hvør eykt eru 3 klukkustundir, en hvør klukkustund skiptist i 60 minútur, og hvør þessara í 60 sekúndur **).

Venjuliga álíta menn midnætti fyri byrjun sólarhríngsins (dagsins); frá einu midnætti til annars er náttúrlegr (edur alþýdulegr) dagr. Siófarendur og stiørnufródir menn reikna dagin frá einu hádegi til annars, og þessi tími kallast siómannligr dagr. Gydíngar byria dagin ad aptni, Vallendskir láta klukkur sínar slá 24, vér 2svar 12 tíma og Frackar 10 tíma, svo ad hvørr af þeirra tímum varir $2\frac{2}{5}$ af vorum. Vinnu- edr handverksdagr (dies

*) Siá Biskups Jóns Arnasonar ritgiørd um íslendsk eyktamørk aptan vid Rýmbeglu bls. 11 til 16.

**) Allir stiørnudagar eru jafnlángir, en sólardagar ójafnir, því jørdin fer, sem seirna skal géta (§. 13), ecki ætíd med sama hradfæri kríngum sólu, en stundum hradar, stundum seirna, eptir því sem hún er nærr edur fiærr sólu. Héraf ordsakast tvøfaldr tímareikníngr, nefnil. medal-tíd og sønn tíd. Sú fyrrtéda kallast ogsvo stiørnufrædistíd (astronómisk tíd) af því ad stiørnumeistarar í reiknínqum sínum álíta alla sólarhríngi (sólardaga) jafnlánga.

artificialis) nær frá **sólar uppkomu** til **sólseturs**; en þareð hann eptir þessu undirlagi yrði miög ójafn hér á nordurlöndum, má ogsvo reikna hann eptir Gulaþíngslögum gömlu, frá **óttu** til **náttmála**, edur tilsamans 18 klukkustundir *).

Af ofantédu er augliöst ad **sólar uppruni** og **sólsetur** einasta eru tilsýndar; menn halda þó enn þessum ordatiltækium frá fyrri tídum, vegna þess túngumálid ecki á önnur réttari, og menn frá barnæsku eru vanir vid þá hugmynd, ad sól, túngl og stiörnur komi upp og gángi undir, þó vær raunar séum þad siálfir eda vorar stödvar á jördunni, sem snúast ad sólu, túngli og stiörnum.

§. 4.

Sú beina lína eptir hvörri sérhvörr þúngr hlutr úr lopti stefnir á midpúnkt jardarinnar, heitir **lódbein (lódrétt) lína**, þess púnkts, hvar hlutrinn fyrst kémur vid jördu, því lód, uppheingt á þrædi, fóstum á efri enda, midar nidurávid eptir henni. Hún kallast og **hvirfillína** (vertíkallína, linea verticalis), því standi madr upprèttr á nefndum púnkti, þá midar

*) Siá Biskups Jóns Arnasonar ritgiörd um íslendsk eyktanöfn aptan vid Rýmbeglu bls. 4—10.

hlutunum í fallinu á hvirfil hanns, og eptir honum endilanngnum á midpúnkt jardar. Ímyndum vér oss vora hvirfillínu leingda ge̋gnum jardarinnar midpúnkt, uns hún ke̋mur út hinumegin, andspænis ámóti oss, og þareptir út í loptid, þá verdur hún einnig hvirfillína þeirra, sem hinumegin jardar búa gagnstædt oss, og þessir kallast vorir andfætíngar (antipodi), því fætur þeirra snúa einmidt ge̋gn vorum.

Pared himininn fyrir vorum sjónum er eins og hvelfíng, ge̋tum ve̋r ímyndad oss vora og vorra andfætínga hvirfillínu dregna út ad yfirbordi himinsins (sem í raun re̋ttri ecki er til, því himininn er eingi sannkølld festíng, heldur einúngis takmørk vorrar sjónarviddar í þeim takmarkalausa geim); púnktr sá hvar vor hvirfillína nær himinhvolfinu kallast vor hvirfilpúnktr (á arabisku zenith), og þar sem vorra andfætínga hvirfillína nær himinhvelfíngunni er vor iliapúnktr (á arabisku nadír); hann er hvirfilpúnktr vorra andfætínga, eins og þeirra iliapúnktr er sami sem vor hvilfilpúnktr.

Hvør ein manneskia hefir sinn hvirfil- og iliapúnkt fyrir sig, hvar sem hún stadnæmist á hnettinum; þessir púnktar umbreitast vid minnstu hræríngu.

§. 5.

Tveir púnktar jardarýfirbordsins, hvørr gégn ødrum, sem eru kyrrir medan hún snýst í snar-kringlu á hvørium 2 dægrum, kallast **heims-skaut** (pólar, á látínu poli terræ). Þad sem oss er ſiærlægast og í þeirri átt hvar sólin sést um hádegi kallast þad **sydra**: (sudurpóll, polus antarcticus), en þad sem því er gagnvart og vér búum í nánd vid, køllum vér þad **nyrdra heimsskaut** (nordurpóll, polus arcticus). Bein lína, dreigin frá einu heims-skauti til annars, fer ígégnum midpúnkt jardar, og vegna þess jørdin á sínum daglega umsnún-íngi snýst íkríngum hana kallast hún **ás** edur **hiólgaddr jardar** (axis terræ). Nyrdra heimsskautsins hvirfilpúnkt má kalla **nordrskaut** edur nordurpúnkt **himinsins**, en hvirfilpúnkt ens sydra heimsskauts, **sudrskaut** edur sudur-púnkt hans.

**Athugagr.** Af §. 3 er audséd, ad jørdin ómøgulega gétur haft fleiri enn tvø heims-skaut, sem eru bádir snúníngspúnktar (nefnil. **nordrid** og **sudrid**). Hin 2 ordin **austur** og **vestur** eru ecki nema átta-nøfn, sem gésa tilkynna vissa stefnu, eins og **hægri** og **vinstri**, en einganvegin nockurn fastan púnkt edur vissan stad á jørdunni; því ef madr til d. ferdadist frá

Íslandi beint í austur, giæti hann farid kríngum allan nordurenda heims íaégnum Finnmørk, Síberiuland, nordurhluta vesturálfunnar, Grænland og svo heim til Íslands, og þó ætid stefnt í austur, þared Ísland er í austur frá Grænlandi, en Grænland í austur frá vesturálfu, og hún í austur frá Síberiu landi o. s. fr. Allteins ef hann færi vestureptir, þá giæti hann og farid kríngum nordurenda jardar allagøtu heim til Íslands, þó hann ætid stefndi beinlínis í vestur. En færi madr beint í nordur eda sudur, þá yrdi hann, þegar hann væri kominn til ens nyrdra edur sydra heimsskauts, ef hann vildi halda áfram, ad ferdast hinumegin á hnettinum, frá nordri sudurábógin og frá sudri nordurábógin, ádur hann giæti komid heim til Íslands aptur. Sú hugmynd, ad heimsskautin ættu ad vera fiøgur, er komin til af því, ad menn ádur ímyndudu sér jørdina sem kríngla, edur fløt, á hvørium midt ámilli nordurs og sudurs ættu ad vera tveir vissir púnktar, edur svo ad segia horn á jørdunni, þótt eingin hefdi komid svo lángt hvørki austur né vestur. En ad þessi hugmynd sé bernskuleg, er ad framan sýnt og sannad.

## §. 6.

Þá þeckíngu vér nú høfum á sambandi jardar vorrar vid hina himinhnettina, eigum vér

ad þacka pólskum stiörnuvitríng, Nicolás Cópernicus ad nafni, som fæddist 1472 í Thorn á Preussalandi og deydi fullt 70tugr ad aldri. Fyrrum séllust menn almennt á lærdóm hins stiörnufróda Claudius Ptólomæusar, sem lifdi á annari øld eptir Krists híngadburd. Ad hans meiníngu átti jørdin ad standa kyr og sólin þarámóti, med øllum ødrum stiørnum, ad fara í kríngum hana. Sá danski adalsmadr Tycho Brahe (fæddr 1546) vildi ecki fallast á þenna lærdóm, og var sømu meiníngar sem Cópernicus, ad því einu undanteknu, ad hann ecki hélt ad jørdin geingi íkríngum sólina. Enn gamli griski heimsspekíngr Pythagoras, qvad fyrrum hafa kénnt hid sama sem Cópernicus um ordu veraldarinnar. Cópernicus skiátladi þó í því, ad hann hélt umferdahríngi þeirra reikandi stiarna (plánetanna) ad vera fullkomlega krínglótta, en þeir eru þó í raun og veru nockud aflángir eins og sporaskia (ellipser, siá §. 16). Þetta uppgøtvadi sá skarpvitri Keppler fyrstr manna. Hann lifdi réttum 100 árum sídarr enn Cópernicus, og studdist ad miklu leiti vid þad, sem af Tycho Brahe var um lángan tíma uppteiknad, himintúnglanna gáng áhrærandi.

Adrir lærdir menn hafa varid miklu ómaki til ad finna þær reglur eptur hvørium tímanum,

samqvæmt med himintúnglanna gángi, yrdi hag-anlegast og vissast sundurskipt; köllum vér reglur þessar rým, edur tímatal. Uppruni þess tímatals, sem vér nú brúkum, er frá Rómverium; toldu þeir í fyrstu ecki nema 10 mánudi og byriudu árid med Martius, hvad ed siá má af þeim enn brúkudu, nú midur hæfilegu, mánada-nöfnum: September, October, Nóvember, December (o: sá 7di, 8di, 9di, 10di); en þeirra annar kóngr Núma Pompilius bætti 2ur mánudum, Janúarius og Febrúarius, vid byriun ársins. Þareptir endurbætti Rómverianna nafnfrægi hers-höfdíngi Július Cæsar, sem stiórnadi Rómaveldi skömmu fyrir Krists fædíngu, rýmtal þeirra á ný, hvörium nytsama starfa hann til vegar kom med hiálp stiörnuvitríngsins Sósigenes frá Egypta-landi, sem lagadi tímatalid ad nockru leiti eptir sinna eigin landsmanna; hann ágvardadi ad árid væri ad réttu lagi 365 dagar og 6 tímar, og vóru þessir 6 tímar ecki medtaldir nema hvört 4da ár, vid hvört bætt var heilum deigi, svoad þad reiknadist ad hafa 366 daga, en hin önnur einúngis 365. Þared nú ársins rétta leingd, eptir stiörnufródra reikníngum, er 365 dagar, 5 tímar 48′ 48″, so hafdi Sósigenes í raun og veru bætt árlega 11′ 12″ meir vid enn vera skildi, og dró þad sig svo saman, ad á 16du öld eptir

Krists híngadburd, nefnilega 1582, var ruglingr á ordinn um næstum 13 daga, sem menn reiknudu sem lidna, þó þeir í raun réttri ecki væru þad; Páfi Gregóríus 13di med því nafni, lét því, med rádum og forsi í stiørnuvitríngsins Alvysii Cilii endurbæta þad gamla tímatal, sleppa úr þessum ofteldu 13 døgum og framveigis áqvarda: ad hvørt 4da ár skyldi ad sønnu vera hlaupár, en hvørt 140ta ár, sem eptir þeirri reglu ætti eirnin ad vera hlaupár, skyldi þó álítast sem almennt ár. Þessi af Páfa Gregóríusi giørda endurbót tímatalsins kallast veniulega: hinn nýi stíll, en Cæsars rýmtal þarámóti kallast sá gamli stíll edur þad júlianiska tímatal; fylgia Rússar því enn, og eru nú ordnir á eptir oss um 14 daga og verda þad þó ávallt meir og meir því leingur sem vid leikur. Miøg óskandi væri ad allar þióðir fylgdu sama tímatali, því opt rídur þad á miklu ad eitt einasti dagr sé réttilega áqvedinn; hér vantar enn stórmikid á; þannig til dæmis halda þeir, sem vidurkénna gydinga trúarbrøgd medal nordurálfubúa, enn vid þad tímatal sem tídkadist í austurálfunni fyrir Krists fædíngu; byria árin á haustum og reikna tølu þeirra frá hinni svokølludu skøpun (þad er: þeirri stórkostlegu breitingu á vorum hnetti, sem seinast gaf hønum sitt núverandi ásigkomulag) 3760 árum

fyrir Krists fæđingu. Mahómetanar byria tíma≠tal sitt frá þeirra spámanns Mahomets flótta frá Mecca til Medína árid 622 eptir Krists fæđingu, hvørt tímabil þeir nefna Hegira; vér Kristnir þarámót telium frá Krists hingadkomu. Grikkir á fyrri tídum tøldu frá byrinn leika þeirra, sem Júpiter til æru voru, um jóla leiti, haldnir hvørt 4da ár í stadnum Olympia; skédi þetta fyrst 776, árum fyrir Krists burd. Þeir gomlu Rómveriar tøldu frá bygging Rómaborgar 753 árum fyrir Krists fæding.

Mánadanøfnum Rómveria høldum vér enn, og eru þau líka hiá flestum ødrum þióđum al≠mennt brúkud. Carl enn stóri færdi ný mánada≠nøfn inn í Þýdskalandi; Ný-Frackar giørdu slíkt hid sama í stiórnarbiltingunni 1789. Bædi hiá oss, Dønum og Nórdverium hafa mánudirnir þaradauki ønnur nøfn enn þau rómversku, og eru þau tekin af eigin múngumálum hvørs þessara landa, og þannig løgud ad af þeim ráda meigi árstídina eda størf manna á hvørium fyrir sig; þannig køllum vér Janúarium midsvetrarmánud, October Slátrunarmánud, Nóvember ridtídar≠mánud, December skammdeigismánud o. s. frv. Auk þessara høfum vér nøfn á ødrum mánudum, sem ecki verda þeim sconefndu bókmánudum sam≠fara, og eru ad vísu eptirstødvar þess rýmtals

sem Nordurlandabúar hast hafa ádur þeir løgudu þad eptir Rómveria sidum; þessi byria frá midium vetri og eru: Þorri, Góe, einmánudr, gaukmánudr edur harpa, eggtíd eda stecktíd, sólmánudr, heiannir, tvímánudr, haustmánudr, gormánudr, mørsugr.

Þad tímabil sem kallast **vika** hefur af flestum þiódum frá øndverdu verid áqvardad ad vera 7 dagar, og er þad máské grundvallad á túnglsqvartilaskiftum, sem vara nærseldt eins leingi. Dagar vikunnar kølludust af Rómverium eptir 7 himinhnøttum; sá fyrsti og annar eptir sólu og túngli, sá 3ji eptir strídsgudnum Mars, 4di eptir Mercúrius, 5ti eptir Júpiter, 6ti eptir Venus og sá 7di eptir Satúrnus. Hiá forfedrum vorum í Danmørk, Svíþiód, Norvegi og á Íslandi fyrst eptir þess byggíngu, kølludust dagar líka eptir nockrum gudum þeirra; sá 1ti og 2ar eptir sól og túngli, 3ji eptir Týr, 4di eptir Odni, 5ti eptir Þór, 6ti eptir Freyu og hinn 7di nefndist þvottdagr edur laugardagr, líkast til af því ad þá hafa menn tídkad ad taka laugar. Þessi vikudaga nøfn vorra forfedra líkiast meir Persa og Inda, og annara austurlanda þióda, enn Rómveria eda Grickia, og vidhaldast enn hiá Donum, Svíum og Enskum, en á Íslandi eru nøfn þess 3ia, 4da, 5ta og 6ta dags, skømmu

eptir kristnun landsins og að ráðstöfun Biskups Jóns Ögmundssonar umbreitt, vegna þess hönum, sökum heimskulegrar vandlætingar, þóktu nöfn þessi bera ofmikin keym heiðindómsins; þessir dagar eru nú kallaðir þriðjidagr, miðvikudagr, fimtidagr og föstudagr (af því að þá var mönnum að fasta í pápisku). Sérhvørr dagr í øllu árinu kallast eirnin þaradauki eptir nafnfrægum mønnum, hvørra mynníng með því móti skyldi á lopti halda, og sérilagi eptir postulunum og øðrum heilögum mønnum, sem í hinni fyrstu kristni var áqvørðuð sérleg dýrkun.

Athugagr. Næsta merkilegt er það með hve mikilli alvørugéfni og ástundun forfeður vorir ydkað hafa rýmtalið, og hve gloggt og náqvæmlega, og með hve mikilli vissu þeir gátu fundið og talið til allra hátíða og merkisdaga á hvørju ári, bæði á undanførnum og eptirkomandi tímum; óskandi væri að þeirra eptirkomendur vildu feta þeirra fótspor í þessu efni, og ecki leggia undir höfuð sér þessa bæði nytsömu og indælu lærdómsment, tímatalið, heldur leitast við að byggia það á þeim fastari grundvelli, sem stiørnufræðinnar núverandi ásigkomulag frambýður. (Siá Rimbeiglu, Havniæ 1780, editionem S. Biörnonis, og Fingrarím Jóns Biskups Arnasonar.)

§. 7.

Stórbaugr (§. 2), sem vér ímindum oss dregin yfirum allt midbik jardar, ætíd jafnlángt frá bádum heimsskautum kallast **midjardar-lína** (æqvator) stuudum slétt og rétt: **línan**, af því hann skiptir yfirbordi jardarinnar í tvo jafna helfinga, þann **sydri** og **nyrdri hálf-hnøtt** (hemisphærium australe et boreale). Hann kallast og **jafndægralína** edur **jafn-dægrabaugr**, vegna þess ad sólina um jafn-dægur (þegar dagr og nótt allstadar á jardarhnett-inum eru jafnlaung, nema vid heimsskautin) ber einmidt yfir þenna hríng. Baugar, sem ímind-ast dregnir samsídis og allstadar jafnlángt frá midjardarlínu yfirum hnøttinn, kallast **jafnfara-baugar** (paralleli æqvatoris sev circuli longitudinum), þeirra stada á jørdunni, yfir hvøria menn íminda sér þá dregna. Þeir géta verid ótal, eru allir **smábaugar** (§. 2) og hafa sína midpúnkta í jardarásnum. Helfingr af nockrum jafnfarabaugum er ad líta á hnattkort-unum sem íbiúg þverstrik, næstum jafnfara mid-jardarlínu. Bædi hún og þeir skiptast eins og adrir hríngar í 360 mælistig; á línunni er hvørt mælistig 3 þingmannaleidir, sem ádur er gétid, en á jafnfarabaugnum er því meira vant í þetta bein-línis mál, sem nærr dregur heimsskautum.

Ámedal jafnfarahrínga eru einkar markverdir hvarfbaugar edur sól-hvarfabaugar (tropici) og hiólgaddahríngar edur heimsskautabaugar (arculi polares). Sólhvarfabaugar eru tveir, sinn hvoriumegin jafndægrabaugs, eru allstadar 23° 28′ frá hønum, og kallast svo vegna þess sólina um sólhvørf edur sólstødur ber beint yfir þá. Sá nyrdri milli jafndægrahríngs og nordurheimsskauts, yfir hvørium sólin stendur um vor sumarsólhvørf kallast krabbahvarfbaugr (tropicus cancri), og enn nyrdri, er sólin stendur beinlínis yfir á vorum vetrarsólstødum, steingeitar-hvarfbaugr (tropicus capricorni). Heimsskautahríngar eru og tveir: nyrdri hiólgaddshríngr (polaris arcticus) er 23° 28′ frá nordurheimsskauti, og sydri hiólgaddshríngr (polaris antarcticus) eins lángt frá sudurheimsskauti.

## §. 8.

Stórbaugr, sem vér getum ímindad oss dregin yfir midbik jardar, frá nordri til sudurs, gégnum bædi heimsskautin, og skipta jardarhnettinum í enn eystri og vestri hnattarhelfíng, kallast hádegisbaugr (meridianus) þeirra púnkta, ígégnum hvøria hann geingur, vegna þess sólina

frá øllum slíkum púnktum að sjá, ber um hádegi beinlínis yfir þenna baug.

Af slíkum hádegisbaugum sjást nockrir á hnattkortunum sem íbiúg lángstrik gégnum bæði heimsskautin. Hvørreirn staðr á jörðunni hefir sinn hádegisbaug fyrir sig, hvørs helfíngr er hádegisbaugr ens gagnstæða púnkts hinumegin jarðar, og mega því af þessum baugum ímindast ótal, sem allir eru jafnstórir, en þó vegna jarðarinnar sköpulags ecki fullt eins lángir og jafndægrabaugrinn. Þó eru øll mælistig á þeim álitin að vera 3 þml. eður 15 almennar mílur, hvørt um sig, og má því á landkortunum brúka þá fyrir mæliqvarða til að finna staða fjarlægð hvar sem maðr vill. En jafnfarahríngar, sem æ verða minni og minni, verða ei svo brúkaðir *).

Hiá andfætingum vorum og øllum sem búa undir vorum hádegisbaug hinumegin á jörðunni, er miðnætti um vors hádegisbil, en hiá þeim jarðarbúum, hvørra hádegisbaugr er 90 mælistigum af jafndægrabaug austarr enn vor, miðt ámilli vors og vorra andfætinga, er þá qvøld (sól

*) Tveir fastir hádegisbaugar á jörðunni sem gánga ígégnum jafndægra- og sólhvarfapúnktana kallast **jafndægra- og sólhvarfa-kólúrar** (colurus æqvinoctiorum et solstitiorum).

í midaptans stad), og hiá þeim, hvørra hádegis-baugr er 90 mælistigum vestarr enn vor, er morgun (sól í midsmorguns stad) þá hiá oss er hádegi. Á þessa lund eru øll dagsmørk (allar eyktir edur daga- og næturtímar) í sama mundi útlutud ymsum jardarbúum eptir þeirra ýmislegu bústød-um á hnettinum, svo ad á hvøriu 15da mælistigi af midjardarbaug edur jafnfarahríngi í austur, er einni kluckustund framordnara, og á hvørri 15du grádu í vestur einni kluckustund minna fram-ordid. Þessi atburdr kallast af stiørnufródum mønnum mismunr hádegis ad tíd (tí-mamismunr hádegis). Af hønum má finna hádegismismun í mælistigum, ef menn reikna 1 mælistig á 4 tímamínútur og sá sem vestarr er, dregr sínar kluckustundir, mínútur og sekúndur frá stundum, minútum og sekúndum þess jardarbúa hvørs bólfesta er austarr.

Athugagr. 1. Héraf ordsakast ad stáfarendur, sem sigla austuráleid eptir sømu stefnulínu, siá sólina dag frá degi koma fyrri upp enn daginn ádur, og verda þeim því alþýdu-legir dagar æ styttri og styttri enn hefdu þeir heima verid. En þegar þeir, eptir ad hafa siglt kríngum hnøttinn, koma heim, hafa þeir og lifad einum degi fleiri enn þeirra landsmenn sem um kyrrt sátu. Þeir sem þarámóti, á sinni siglingu kríng-

um jørdina, stefna í vestur, hafa, þegar þeir koma heim aptur, lifad einum degi færri enn heimamenn; ber þad til þess, ad sólin dag frá degi er þeim æ seinna uppruninn enn daginn ádur. Verda þeim hvørein 2 dægur nockud leingri enn 24 kluckustundir. Ferdist 2 reisendur sinn í hvøria gagnstæda átt, annar í austur en hinn í vestur allt í kríngum jørdu, er almanak ens fyrrnefnda ordid einum degi lengra enn heimamanna, og ens sídara einum degri styttra, siálfir eru þeir komnir 2 daga hvørr frá ødrum, þó jørdin hafi vellest eins opt fyri bádum. Þetta vard Jóhan Sebastian Cano, (sem ásamt med Magellan sigldi kríngum jørdu, og kom heim med þad einasta skip sem vard eptir) fyrstr var vid. Þá hann kom til Spánar var þar 7di enn umbord 6ti Septbr. 1522. Brá bædi skipverium og heimamønnum heldur kynlega vid og voru lengi oldúngis óvissir um hvørnin til hefdi geingid, þángad til stiørnufródir menn útskýrdu ordsøkina. Sídan vita þeir sem sigla kríngum jørdu náqvæmlega þenna mismun fyrirfram og leidrétta þeirra almanak ádur þeir koma heim. Annars er oldúngis einu gyldandi hvørsu lengi ferdin kríngum jørdu varir, á 1 ári mismunar 1 degi eins og á 10 eda 20 árum. Lika er þad sama hvørt ferdin er bein edur krókott.

Athugagr. 2. Hádegisbaug má á hvørium stad finna med því móti ad madr í sól-skíni stíngi priki edur staf lódrétt nidur í jørdina. Þar sem skuggi prikſins er styttstr er hádegisbaugrinn, því þar er sól hærst á lopti.

§. 9.

Stórbaugr, semímindast dreginn yfirum midbik jardar, á þá lund ad hann allstadar sé jafnstærlægr, og 90 mælistig frá vorum og vorra andsætínga fótsporum, kallast enn sanni sióndeildarhríngr (deildarbaugr, horizon rationalis) og skiptir hnettinum í þann efra og nedra hnattarhelfíng (eptir því sem plagsidr vor er ad komast ad ordi þó rángt sé, siá §. 1). Hann kallast sá sanni, því menn gætu séd allt út ad honum eda 90 mælistig frá oss á allar hlidar, væru menn adeins svo vel skygnir og hvel jardarhnattarins ecki stædi fyrir. En eptir ófullkomligleika vorrar siónar, sáum vér ecki yfir litid nema møg litla bólu edur kúpu af hveli jardaryfirbordsins, og sá hríngr, sem takmarkar vora útsión, kallast tilsýndar edur náttúrlegr sióndeildarhríngr (horizon sensibilis), og er jafnfara enum sanna. Hann skiptir hnettinum í ennsýnilega og ósýnilega helfíng, og verdur æ stærri og stærri, ad því hæst, sem vér støndum hærra, t. d. á fiøllum edur í

mafturkorsum á hafskipum. Þegar himintúnglin byrtast oss fyrst í sióndeildarhríngnum, segiast þau ad koma upp, og þegar þau, eptir þreitt hlaup sitt yfir hálfa himinhvelfínguna, hverfa i sióndeildarhríngnum hinumegin, segiast þau ad gánga undir (edur setiast í ægin).

Sióndeildarhríngr vors hvirfilpúnkts og iliapúnkts er á himinhvolfinu, samfara enum sanna sióndeildarhríng á jørdunni og er utanum hann í ómælanligri fiærlægd. Sólin hefir og sinn sóldeildarhríng á jørdunni, og einasta ad hønum, en ecki leingra, nær hún ad senda sína geisla á hvørin vetfángi, en sá gagnstædi hnattarhelmíngr er þá dimmr. Þó breytist þessi sióndeildarhríngr sólar, á hvøriu augnabliki vegna jardarinnar umsnúníngs á ási sínum, svoleidis ad hún smámsaman upplýsir allan hnøttin, og sá helmíngr sem fyrst naut sólarbyrtu, seinast verdr ødúngis myrkr *).

*) Um jafndægur, þá sól er þrádbeint yfir midjardarlínu, geingur sióndeildarhríngr hennar gégnum báda pólana, en þetta haggast smámsaman, svo ad þegar hana ber nordast yfir hnøttin, geingur sióndeildarhríngr hennar 23° 28′ hinumegin nordurheimsskauts og þessumegin sudurheimsskauts, og þegar hún er sydst, 23° 28′ hinumegin sudurheimsskauts og þessamegin nordurheimsskauts.

Sióndeildarhríngnum skipta menn i vissar áttir, sérílagi til ad fá skírari hugmynd um viudauna ýmislega stefnulínu, og eru þær annadhvørt høfudáttir eda milliáttir (aukaáttir). Høfudáttir, edur høfudvindar, eru fiórar, nefnilega: sudurátt (meridies), sú sem midar ad sydra hiólgaddsenda, nordurátt (septentrio), er stefnir ad nyrdri hiólgaddsenda, austurátt (oriens), hvar sólin um jafndægur kémur upp, og vesturátt (occidens), hvar sólin um þann tíma geingur til vidar. Amilli þeirra eru 90 mælistig af sióndeildarhríng. Austur og vesturátt takmarkast ecki vid neirn fastan púnkt, heldur ná ikríngum allan jardarhnøttin (siá athugagrein vid §. 5).

Milliátta nøfn eru eptir visśri ordu samskeitt af nøfnum høfudáttanna. Þær fiórar áttir sem eru midt ámilli høfudáttanna, 45 mælistig frá hvørri þeirra, eru: landsudur, útsudur, útnordur og landnordur. Skipti madr hvørium þessara 8 sióndeildarhríngsbuga i tvo jafna parta, fá menn 8 nýar milliáttir, nefnilega: austurlandsudur, sudurlandsudur, sudurútsudur, vesturútsudur o. s. fr. Nefndar 16 áttir skipta, sem hvørr sér, sióndeildarhríngnum í 16 jafna buga, hvørn $22\frac{1}{2}$ mælistig; en sé þessum hvørium fyrir sig aptur

skipt í tvo jafna hluta, koma enn 16 nýar milliáttir, sem á norrænu ecki hafa allgeing nøfn, þó hægt sé ad smída þeim hagstæd íslendsk nøfn af þeim útlendsku. Stundum skipta menn hvørium þessára 32 buga af sióndeildarhríng (sem eru $11\frac{1}{4}°$ hvørt um sig) enn framarr í tvo jafna parta, og verda þá 64 áttir, og á þessa lund mætti framhalda sundurgreiníngunni í 128 áttir o. s. fr.

Athugagr. 1. J dønsku og þýdsku og fleiri túngumálum eru nøfn enna fyrstnefndu milliátta samskeytt af høfudáttanna nøfnum á þá lúnd ad nordur og sudur (N. og S.) sem þær yppurstu áttir nefnast fyrst, austur og vestur (O. og V.) þarámóti seinast, svo sem N. O., N. V., S. O., S. V. Hinar milliáttirnar kallast: N. N. O., O. N. O., O. S. O., S. S. O., S. S. V., V. S. V., V. N. V., N. N. V., N. S. O., O. S. N., O. S. S., S. S. O. o. s. framv. Lík samskeyting er ecki heldur dæmalaus á íslendskum ritum, þó svo ad A. (austur) setst fyrir O. *)

Athugagr. 2. Skipti madr á ofantédan hátt krínglóttri skøl eptir þeim 32 edur 64 vindáttum edur vindstrikum, kallast þad

*) Siá Conferenzráds M. Stephensens ritgiørd um Meteóra í ritum ens íslendska lærd. lista fél. 3 bind. bls. 134 og 135.

vindrós, og finnst á landkortum sem eru teiknud eptir stórum mæliqvarda; er hádegislínan þará adgreind frá hinum áttunnum med pílu, hværrar oddr snýr í nordur. Á þeim 5 fyrstu landkortum, sem fylgia skulu bók þessari, var slík vindrós ónaudsynleg, þar hádegisbaugar (§. 7) nógu greinilega sýna nordur og sudur, hvaraf audveldt er ad finna hinar áttirnar; en á Íslands kort er væntanlegt hún verdi málud. Festi madr vindrós, med máludum áttanafnum, á segulsteinsnál sem lidugst gétur snúist í hring á hvøssum stálbroddi *), og setji nidur í øskiu, med gleri yfir, svo kalla menn þad kumpás **).

§. 10.

Hiólgaddshringar, hvarfbaugar og línan

*) Frá edli segulsteinsins og hvørnin segulsteinsnálar tilbúast, mun skýrt verda í jardaredlisfrædi.

**) Þessi ypparlegi leidarvísir slófarenda er uppfundinn á 14du øld af neapólitaniskum manni Jóhann Flavió Gjøia frá Amalfi; þó eru sumir þeirrar meiníngar, ad uppáfyndíngin frá øndverdu sé Egyptskum ad þacka, og Jacob Vitry, sem deydi 1244, skrifar ad segulsteininn finnist í Indíum, dragi á heimuglegan hátt járn ad sér, og ad þegar madr nuddi hønum á járnnál, svo snúi hún æ mót nordri og sé þarfyrir stómsiinum harla naudsynleg.

skipta jardarhuettinum í 6 jardarbelti *) (jardarreimar edur jardarsvædi, zonæ), sem eptir ýmislegu loptslagi hafa fengid ýmisleg nøfn: þad 1ta og annad kallast brunabelti edur brunareim (zonæ torridæ), og liggur hún ámilli beggia hvarfbauga, hérumbil $23\frac{1}{2}$ mælistig beggiamegin línunnar, og undir sólmerkiahríng (siá §. 13). Línan skiptir brunareim í tvær, þá nyrdri og sydri. Þær eru tilsamans 46° 56′ edur 141 þíngmannaleid á breidd, og undir línunni 1080 þml., en undir hvarfbaugum $990\frac{2}{7}$ þml. umhverfis, og eru þau ad flatamáli (svædimáli) hérum 146000 ferhyrndar þíngmannaleidir. Sólin geingur tvisvar á ári þrádbeint yfir hværium stad í þessu belti (ad fráteknum þeim, sem liggia í siálfum hvarfbaugum, yfir hvøria sólin ecki ber þrádbeint nema einu sinni árlángt) en eptir og ádur, ber hana annadhvørt sudur- edur nordurábógin. Sólargeislar falla því ætíd næstum lódrétt á þessa reim, og er þar því ævarandi sumar og miøg heitt; þó sefast hitinn nockud af hafrænunni, sífeldum jafndægrum, jardarinnar hálendi kríngum línuna, háum fiøllum og sterkum og tídum rigníngum, hvarum sídarr mun frekarr sagt verda.

*) Hvør lønd liggia í hvøriu belti má siá á hnattkortunum.

Það 3ia og 4da kallast mildabelti (mildu- edur blídvidris-reimar, zonæ temperatæ) ámilli beggia hvarf- og hiólgaddsbauga; það nyrdra milli nyrdra hiólgaddshrings og krabbahvarf- baugs, og ed sydra milli steingeitarhvarfbaugs og ens sydra hiólgaddshrings. Hvort þeirra er 43° 4′ edur 129 þml. á breidd, en takmarkalínur þeirra vid hiólgaddsbauga hérum 430 þml. um- máls; þær eru ad flatamáli hvor næstum 92000 ferhyrndra þíngmannaleida. Sólin kémur aldrei yfir hvirfilpúnkt innbúa þessara beggia reima, en þeir siá hana ætíd um hádegi í sømu átt, nefn- ilega: þess nyrdra beltis innbyggiendur í sudri og þess sydra í nordri.

Ísland liggur allt í nyrdra milda- belti, þó allra ytst vid siálfan hiólgaddsbaug- in, eru þar því ecki eins jøfn kulda og hita árs- tídaskipti sem í ødrum løndum, er sunnarr liggia í sama belti; því í tilliti til vedráttufars er mikill munr landa; nálægt brunabelti er hitinn, og í nánd vid kuldabelti kuldinn, miklu meiri enn um midbikid, sem því eiginlega er réttkallad mild- abelti edur blídvidrisreim.

Það 5ta og 6ta eru kuldabelti (kulda- reimar, zonæ frigidæ) kríngum heimsskautin og innan vebanda beggia hiólgaddshrínga. Þau eru eiginlega ecki belti edur reimar, heldur hnatt-

kúpur (jardarinnar endahvel, jardarhvel), hværra midpúnktar hiólgaddseudar eru. Þau eru ad þvermáli hvært um sig 46° 56′ edur 141 þml. og ummáls hérum 430 þml., en ad flatamáli hérum 15,400 ferhyrndar þíngmannaleidir.

Á ytstu takmørkum þeirra undir hiólgadds-baugum geingur sól ecki undir um sumar sólstød-ur, og kémur ei heldur upp um vetrar sólstødur. Þessir leingstu dagar og nætur vaxa ódum eptir því sem nærr dregur heimsskautum, undir hvør-ium allt árid ecki er nema einn dagr og ein nótt, hvør 6 mánudi á leingd. Í bádum þessum reimum er mesti hluti ársins vetr, vegna þess sólargeislar annadhvørt øldúngis ecki ná til þeirra, edur falla miøg á ská.

Athugagr. Eins og ádur er sagt, er þessi áqvørdun vedraskipta eptir jardarreimum, er kallast geografisk klimøt, mikid óskilsamleg og ófullkomin; því á reima-skilum er beggia loptslag hid sama edur áþeckt. Loptid kólnar smámsaman meira og meira frá línunni út ad heimsskautum, svo ad ei má grein á giøra kuldaaukning eptir áqvednum takmarkalínum, allrasídst svo fáum sem þeim nú nefndu.

Jardarfrædismenn sáu þetta fliótt og tóku því þad ráds, ad ímynda sér dregna jafnsarabauga bádumegin línunnar, all-

stadar hvar enn leingsti dagr hafdi varid hálfa kluckustund *), og kölludu hvöria reim milli tveggia slíkra jafnfarabauga eitt tíma-klímat. Þared allir dagar undir jafndægrahring eru 12 kluckustundir, en leingsti dagr undir hiólgaddshringum 24 kluckustundir, svo urdu frá línunni til hiólgaddshrínga beggiamegin 24 tíma-klímöt; en þared dagaleingd vex svo ódum frá hiólgaddshringum út ad heimsskautum, settu menn takmörk þeirra eptirfylgiandi klímata þar sem dagr var ordinn hálfum eda heilum mánudi leingri, og ákvördudu því alls 30 eda 36 mánada-klímöt. Menn voru þá þeirrar trúar, ad hiti og kuldi væru í sömu regluligum þó umhverfum hlutföllum sem dagaleingd, eptir hvörri menn því ákvördudu afstödu og vedurlag hvörseins stadar á ofantédan hátt. A seirni tímum eru menn komnir ad fullri raun um, ad loptlag ecki ad öllu fer eptir sólarhæd edur dagaleingd, og hafa líka fundid áreidanligri medöl til ad finna fiarlægd stada frá jafndægralínu, hvörsvegna þessi reima klímöt eru geingin úr gyldi, en nafnid heimfært uppá lopt og vedurlag, án tillits til dagaleingdar og kallast nú náttúrlegt edur fýsiskt klímat.

---

*) Undir línunni er ætíd jafndægur, en þadan til póla er æ stærri og stærri munr dags og nætur.

§. 11.

Hvörsu stærri tiltekinn stadr á hnettinum sé jafndægrabaugnum er metid eptir mælistigum á hádegisbaug stadarins, frá jafndægrabaug, allt ad stadnum. Þetta kallast stadarins afstødu-breidd (géógrafisk breidd, latitudo loci), og er annadhvört en sydri edur nyrdri (borealis v. australis). Stadir sem liggia undir línunni hafa alls einga, en heimsskautin ena stærstu breidd, nefnilega 90 mælistig, og stadir, sem liggia undir sama jafnfarabaug hafa sömu afstødu-breidd. Þared jardarhnøttrinn, eptir §. 2, er nockud íflatr á tvo vegu vid heimsskautin, en meira kúpuvaxinn undir línunni, er audrádid, ad madr þarf ad ferdast leingra undir heimsskautum enn undir línunni, ádur breiddin, sem er útreiknud eptir hæd stiarna á himinum, breitist um eitt mælistig. Breiddarmælistig verda því á þessa lund nockud minni um mldbik jardar, enn undir heimsskautum; þó nemur þetta ecki meiru enn svo, ad af þeim pørtum, hvaraf breiddarmælistig undir hiólgaddshringum inniheldur $57\frac{4}{10}$ (57,422), inniheldur 1 svodan mælistig undir línunni $56\frac{7}{10}$ (56,753); mismunrinn er því ecki meiri enn hér-umbil $\frac{1}{32}$ partur úr þingmannaleid, hvörsvegna í jardarfrædisritum er venjulegt ad meta øll breiddar mælistig jafnstór. Eins mørg mælistig

og breiddin er, eins lángt nær stadarins siónbeilld-arhríngr yfirfyrir þad heimsſkaut sem nærst er stadnum, edur med ødrum ordum: heimsſkautid er, eptir vorri hugmynd, ad grádna- edur mæli-stignamáli, eins lángt fyrir ofan siónbeilldarhríng stadarins og stadrinn er frá jafndægralínu, og þessa upphæckun heimsſkautsins (pólsins) frá deildarbaug, kollum vér stadarins pólhæd (elevatio poli), sem ætid er jøfn breiddinni. Undir línunni er því heldur eingi pólhæd, því deildarhríngr geingur þar einmidt ígégnum bædi heimsſkaut; þarámóti hefur hvørt heimsſkaut 90° pólhæd, því þeirra siónbeildarhríngr er siálfr jafndægrabaugr, sem allstadar er 90° frá heims-ſkautum.

Athugagr. Pólhæd og breidd má finna med því ad adgiæta einhvøria stiørnu, sem ecki geingur undir. Ein þvílík stiarna sést á nyrdra hnattarhelmíngi, í nánd vid nyrdra heimsſkautid, íkríngum hvørt hún sýnist ad gánga á hvørium 24 klukkustundum, og kallast leidarstiarna (pólstiarna). Á sydri jardarhelfíngi nióta menn ecki þessa ad, og verda því ad finna breiddina uppá annan máta.

§. 12.

En til þess giørsamliga ad ráda afstødu einhvørs stadar á hnettinum er ecki nóg ad vita

hve lángt hann í nordur eda sudur er frá jafn-dægralínu, heldur ber þarfyrirutan ad vita hve austarlega edur vestarlega hann er, og er það metid eptir stærlægd hans frá tilteknum hádegis-baug, sem þá kallast enn fyrsti hádegis-baugr (meridianus primus). Þessa stærlægd meta menn eptir mælistigum á línunni, edur stad-arins jafnfarabaug frá þeim fyrsta hádegisbaug, allt ad stadnum, og kallast stadarins afstødu-leingd (longitudo loci). En þared stadrinn annadhvørt liggur austan- eda vestanverdt vid enn þannig áqvedna fyrsta hádegisbaug, gétur leingdin, eins og stundum finnst í nýari jardar-frædaritum, skiptst í ena eystri og vestri leingd, hvaraf hvør fyrir sig nær 180° hádum-egin út ad þeirri gagnstædu helst ens fyrsta hádeg-isbaugs, þó er veniuligra og efalaust réttara (sjá athugagrein vid §. 5) ad reikna leingdina einasta austurávid frá enum fyrsta hádegisbaug, svo ad þeir stadir, sem undir hønum liggia hafi 0° eda 360° leingd, þeir sem liggia einu mælistigi aust-arr, hafi 1°, og þeir sem eru 1 mælistigi vestarr 359° leingd. Sá fyrsti hádegisbaugr er ými-lega áqvardadr í ýmsum løndum, svosem:

í Rússlandi er sá haldinn fyrsti hádegisbaugr sem geingur gégnum Péturshorg,

í Fránkariki sá sem geingur gégnum Paris,

í Stóra Bretlandi sá, sem geingur gégnum Grænuvík edur Lundúnaborg,
í Hollandi sá, sem geingur gégnum fiallid Pico á Teneriffa,
í Sviaríki sá, sem geingur gégnum Uppsali,
í Kina (Sina) sá, sem geingur gégnum Pecking.

En Frakka kóngr Lodvík 13 skipadi sínum jardarfrædismønnum ad draga þann fyrsta hádegisbaug gégnum eyuna Ferró, sem er vestlægust af þeim canarisku eyum fyrir vestan sudur-Álfu, til þess øll jardarfrædisrit og landkort gætu ordid samhlióda. Sídan hafa flestir jardarfrædisritarar, einkum þióðverskir og nockrir franskir, komid sér saman um, ad ákveda einn hádegisbaug, sem liggur einmidt 20° vestarr enn Parísar hádegisbaugr, sem þann fyrsta, og geingur hann í grend vid téda eyu, hvørrar midbik er undir 359° 56' leingd. Eptir þessum fyrsta hádegisbaug, eru flest þýdsk landkort, og sérilagi þau, sem fylgia eigu þessari bók, teiknud.

Allir stadir, sem liggia undir sama hádegisbaug hafa sømu leingd, en leingdar mælistig eru ecki eins og breiddar, øll næstum jafnlaung, því þau teliast ecki einasta á línunni, heldur ogsvo á jafnfarabaugum (samfarabaugum), sem æ minka meirr og meirr ad því hæsi sem nærr dregur heimsskautum. Eitt leingdarmælistig er því undir

jafndægrabaug 3 þingmannaleidir, en þareptir æ ſtyttra og ſtyttra þángad til þad, undir heims-ſkautum á 90° breidd, er alls eckert.

Athugagr. Þær fornaldarþiódir ſem meſt idk-udu ſióferdir og kaupsverſlan voru Grikkir, Fæniſiſkir og Kartagómenn, er biuggu vid Midjardarhafid, og þecktu einúngis þau lønd, er þar láu í nánd. En þetta haf er lángur og miór hafsbotn, er geingur frá veſtri til auſturs, hugdu þeir því allir ad heimrinn væri eins lagadr og køllidu leingd hans frá veſtri til auſturs, en breidd frá nordri til ſudurs. Þadan hafa þeſſi nøfn ad líkindum ſín upptøk, og mætti þad annars ſýnaſt hlutnum óſam-bodid, ad tala um leingd og breidd á hnetti. En — med því eins og ádur er gétid, jørdin er ecki ad øllu hnøttótt, heldur einúngis hnattarlík, og ás hennar frá nordri til ſudurs, í raun og veru nockru ſtyttri enn þvermálid um mid-bikid undir línunni, þá géta þeſſi ord í þeirra veniulegu merkingu nockurnvegin ſtadiſt, þótt þau í byriun ſéu bygd á van-kunáttu fornaldarmanna.

## §. 13.

Eins og menn af tilſýndar umferd ſólar og allra himintúngla kríngum jørdina á hvørium degi, uppgøtvudu ſnúning jardar um ás ſinn

(§. 3), ſvo var þeim og árleg rás ſólar tilſýndar yfir allan himin í nordur og ſudur nóg tilefni til nýrrar grunſemis um adra hræringu jardar. Hér á nordurløndum verdum vér varir vid árlega hræringu ſólar þaraf, ad hún um hádegi ecki er ætid jafnhátt á lopti, heldur ſtundum lídur uppámóti frá jafndægrabaug ad vorum hvirfilpúnkti, en ſtundum aptur nidurávid ad jafndægralínu, og þadan æ dýpra allt ad viſſum púnkti, hvadan henni aptur ſmámſaman midar uppeptir. Sú vegaleingd á himni, ſem ſólu þokar frá jafndægrabaug bádumegin, edur millibilid milli ſólar og jafndægrabaugs kallaſt hneiging ſólar (declinatio solis). Af þeſſum atvikum orſakaſt ýmisleg dagaleingd og árstidaſkipti á ýmſum pørtum jardar; þá ſól er beinlínis uppyfir midjardarlínu (jardarmidbiki) eru dægur (dagr og nótt) jøfn á øllum hnettinum, en því meira ſem henni þokar upp edur nidurávid, því ójafnari verda dagaſkipti og því meira leingiaſt dagar eda nætur.

Oſs virdiſt því, ſem ſólin fyrir utan ſína tilſýndar umferd kríngum jørdu á 24 klukkuſtundum, árliga taki rás frá veſtri til auſturs á ſká yfir alla himinhvelfínguna. Þeſſa íminduðu rás, edur umferdarveg ſólar, hafa menn kallad

sólargángshríng (ecliptica *) edur sólmerkiahríng **), og er hann baugr á himni, sem vér í þaunkunum flytium beinlínis nidur á jörðu og sem þar skér jafndægrabaug tvíveigis á ská, svo ad skurdarhornin, hvört einmidt gegn ödru, verda 23° og hérumbil 29' edur næstum $23\frac{1}{2}$°, og sinn helsingr sólargángshríngs verdur hvörinmegin jafndægrabaugs ***). Millibilid milli jafndægrabaugs og sólmerkiahríngs, er kallast skáleiki sólmerkiahríngs (obliqvitas eclipticæ), er, þar sem hann er stærstr jafndægrabaug, 23° 29' af sólhvarfakólúr (sjá §. 8) og eins stór er sólar hærsta nordlæga edur sudlæga hneigíng. Skurdarpúnktarnir kallast jafndægra-púnktar (puncta æqvinoctialia), vegna þess þeir liggia í jafndægrabaug, og jafndægur eru á allri jördu, þá sól ber yfir hann, edur hennar tilsýndar dagleid liggur einmidt yfir hönum. Annar jafndægrapúnktr kallast vor-

---

*) Af grisku giörníngsordi: εκλιπτειν, sem þýdir ad formyrkva, vegna þess allar sólar- og túnglsformyrkvanir ské í þessum hríng.

**) Af sólmerkium frá hvörium sídarr skal herma.

***) Þessi hríngr sést á hnattkortum þeim sem fylgia munu þessari bók No. I og II.

en hinn haust-púnktr (punct. æqvinóct. vernum et autumnale), vegna þess ad á vorum nordurhluta jardar, vor og haust byria, þá sól er yfir þessum púnktum. Frá vorpúnkti sýnist sól ad þokast uppeptir móts vid nordurheimsskaut, og nær þá sióndeildahríngr hennar lángt hinumegin nordurheimsskauts, en ecki ad sudurheimsskauti; frá hauſtpúnkti sígur hún nidurávid ad sudurheimsskauti. Þeir tveir púnktar sólmerkiahríngs, sem eru fiarlægastir jafndægrabaug, kallast sólhvarfapúnktar (puncta solstitialia), af því sól þá hún kemur ad þeim, hverfur tilbaka edur snýr aptur leid sinni; þeir kallast og sólstødupúnktar, af því sól í þeim stendur vid og kémst ecki leingra, ístadin fyrir ad hún, þá hún kémur í jafndægrapúnkta, heldur áfram leid sinni sem ádur. Þad tímabil, þá sól um hádegi er í þessum tveimur púnktum og sýnist í tvo daga í senn, ecki ad breyta hádegishæd sinni, kallast sólstødur, og eru annadhvert sumar- edur vetrar-sólstødur (solstitium æstivum v. brumale).

Menn hafa, sem sídarr skal greina, skipt stiørnum himins í vissa reiti edur klasa (flocka), sem menn kalla stiørnubilæti (constellationes, asterismi) edur stiørnumerki, er nefnast eptir þeim hlutum sem hvorr klasi er áþeckastr. A

sinni tilsýndarrás ysirum himin, geingur sól undir edur ígégnum tólf af slíkum merkium, svo ad hana ætíd ber undir eitt af þeim og kallast þau því ogsvo **sólmerki** (animalia zodiaca), draga nøfn sín af vedráttufari og gróda *), og liggia í eptirfylgiandi rød frá vestri til austurs, frá vorpúnkti ad reikna: 1. **hrútsmerki** (♈), 2. **uxamerki** (♉), 3. **tvíburamerki** (♊), 4. **krabbamerki** (♋), 5. **ljóns**, edur **óargadýrsmerki** (♌), 6. **meyarmerki** (♍), 7. **metaskála**, edur **skálamerki** (♎), 8. **sporddrekamerki** (♏), 9. **bogmanns-merki** (♐), 10. **steingeitarmerki** (♑), 11. **vatnsberamerki** (♒), 12. **fiska-merki** (♓) **).

Þessi stiørnubilæti liggia í breidri rák, linda edur reim ysirum megin lopt, sem kallast **dýra-reim** edur **dýrahríngr** (zodiacus), af því

---

*) Um þýdíngu edur merkíngu nafnanna sjá Rím-beiglu bls. 98—104 §§. 66—70.

**) Látínska tvíhendíngin:

sunt aries, taurus, gemini, cancer, leo, virgo,
libraqve scorpius, arcitenens, caper, amphora,
pisces

er gótt hiálparmedal til ad muna ordu merk-ianna.

flest merkianna eru kénnd vid dýr. Í midri dýra-reim liggur sólargángshríngr, sem af þeim ogsvo er kalladr sólmerkiahríngr, eins og ádur er sagt.

Vegna þess sól, eptir vorri hugmynd á rás sinni ge'gnum nefnd 12 merki, annadhvørt stígur uppyfir eda lidur nidurfyrir jafndægra-baug, køllum vér en fyrstu 6 merki uppstígandi (ascendentia) edur nordlæg (borealia), vegna þess þau liggia fyrir nordan jafndægrabaug, hin 6 nidurlídandi (descendentia) edur sudlæg (australia), þared þau eru fyrir sunnan línuna *).

Sólmerki eru ecki jafnstór, ella væri hvørt þeirra 30 mælistig ad leingd, en sum innihalda meira, sum aptur minna enn 30°. Eingu ad sídurr skipta menn sólmerkiahríng í 12 jafna hluta, sem menn kalla merki edur teikn (signa zodiaca), er nefnast eptir tédum stiørnubílætum. En ecki ber þessum teiknum ad øllu leiti saman vid stiørnubílæti siálf **), hvørsvegna náqvæm-

*) Réttnefndara sýnist ad kalla þad 10, 11, 12, 1, 2 og 3ia merki uppstígandi, en þad 4da til 9da nidurlídandi.

**) Þannig liggur t. d. fyrsti púnktr vors hrútsmerkis í fiskabílæti, þaramóti byriar ed sanna bílæti, sem nefnist hrútr, í voru uxamerki edur 30° austarr enn vort ímindada hrútsmerki.

liga ber ad giøra grein á því eiginlega stiørnu-bilæti í dýrareim, og því merki edur parti af sólmerkiahríng, sem kennt er vid bilætid; yfirhøfud ber ad adgreina dýrareim og sólmerkiahríng, bilæti og merki. Ber þad til þessa, ad á fyrstu tímum stiørnu-frædis, fyrir meirr enn 2000 árum sídan, féllu stiørnubilæti og nefndir 12 partar sólmerkiahríngs einmidt saman; en sídan hefir þessari ordu nockud haggad, vegna þess menn svo ad segia festu stiørnumerkin vid jafndægrapúnkta, en þeir hafa þokast apturábak frá austri til vesturs gégn sólar-gángshríng.

Af þessum atburdi, sem kallast apturvik jafndægrapúnkta (regressus v. progressus æqvinoctiorum), og sem hér yrdi oflángt ad sanna med ástædum, kémur þad, ad sólmerki nú eptir svo margar aldir ecki standast á vid stiørnu-bilæti, hvørsvegna í almanøkum giøríst rád fyrir nær sólin gángi inn í nýtt stiørnubilæti, sem annars ecki þyrfti, þar hún þá hefdi sitt bilæti hvørn mánud. Þessi mismunr sólmerkia og stiørnubil-æta ferr æ meira vaxandi, uns jafndægrapúnktar hafa farid yfir allan sólmerkiahríng og allt fer á sømu leid sem fyrri.

Sá skurdarpúnktr jafndægrabaugs og sólar-gángshríngs, hvar sólin frá 21a til 23a Mart.

sýnist ad byria ad stiga nordurávid (eptir vorri hugmynd upp fyrir jafndægrabaug), er fyrsti púnktr hrútsmerkis. Eru þá en fyrstu jafndægur og **vor** byriar, er varir ámedan sól er undir hrút og tveimur næstu merkium; sýnist þá sól, á sinni tilsýndar dagleid kríngum jordu, ávallt ad gánga yfir þeim nyrdri jafnfarabaugum, æ leingra og leingra frá jafndægralínu. Um þenna tíma, sem eru 3 almanaksmánudir, leingiast dagar, en nætur styttast jafnódt á enum nyrdra jardarhelmíngi.

Byriunarpúnktr krabbamerkis er ytsti púnktr sólmerkiahríngs gégn nordi, og þá sól þann 21a—23a Jun. nær hønum, giørir hún leingstan dag en styttsta nótt á nefndum hnattarhelmíngi; byriar þá **sumar**, er varir medan sól, undir krabba og tveimur næstu merkium, aptur nálgast jafndægrabaug. Um þetta skeid, sem eru adrir 3 almanaksmánudir, styttast dagar á nordur hálfhnetti jafnódt og nætur lengiast. Á þessum 6 mánudum er nordurskaut jardar, edur hvel jardar kríngum nyrdri hiólgaddsenda, alltaf meira eda minna upplýst (mest þann 21a—23a Jun.), en sudurskaut er þá ad sama hæfi dymmt. Því nordarr sem dregur því leingri verda dagar en nætur styttri, því eins lángt og sólin, um vissan tíma, er frá jafndægrabaug, eins lángt nær

hennar sióndeildarhríngr yfirfyrir þad heimsſkaut ſem næſt er sólu, og þaraf flýtur, ad því nordarr ſem ſækir, því meiri hluti jafnfarabauga nýtur sólarbyrtu á ſumrum, og því minni hluti þeirra er dymmr. Þared sólin um ſumarsólhvørf ſkín $23\frac{1}{2}$° hinumegin nordurheimsſkauts, er vid ſiálft heimsſkautid í nefnda 6 mánudu eingi nótt; þeſſi lángi dagr ſtyttiſt æ meira og meira allt ad $23\frac{1}{2}$° frá nordurheimsſkauti á allar ſidur, hvar sól um sólſtodur einaſta í 24 klukkuſtundir er fyrir ofan siόndeildarhríngin. Þared sólin um þetta ſkeid ecki einaſta ſendir oſs ſína geiſla leingur í ſenn, heldur og, eptir vorri hugmynd, er ofarr á lopti, réttara ſagt: nærr vorum hvirfilpúnkti, og kaſtar því geiſlum ſínum hvirfilbeinna á oſs, ſvo er þá hiá oſs heitaſt í vedri, og vér køllum því þenna tíma vor og ſumar.

Sjounda merki, neſnilega ſkálamerki, byriar í jafndægralínu; fyrſti púnktr þeſſa merkis er ſeirni jafndægrapúnktr, og vort hauſt byriar þá sól nær ſkálum, ſem ſkédur frá 21a—23a Septembris.

Byrdiſt oſs þá ſem sólin á ſinni tilſýndar dagleid gángi yfir þeim jafnfarahríngum er liggia fyrir ſunnan jafndægrabaug, æ leingra og leingra ſudurávid; ſtyttaſt upp frá því dagar æ meírr og meirr hiá oſs, en nætur leingiaſt ad ſama hæſt,

ámedan sól ávallt fyrrist jafndægrabaug, uns hún, eptir ad hafa þreytt hlaup sitt gégnum 3 merki, þann 21—23 December. nær sýdsta púnkt sólmerkiahríngs frá jafndægrabaug ad telia, og er hann byriunarpúnktr ens 10da merkis, nefnilega steingeitarmerkis, og þá sól er í framanverdri steingeit, afrekar hún nyrdri jardarhelft styttstan dag og leingsta nótt; byriar þá vetr. Undir enum seinustu 3 sólmerkium nálgast sól æ meira og meira jafndægrabaug; sara dagar þá aptur vaxandi, en nætur þverra, uns sól aptur nær andverdum hrút. Hefir hún þá tilsýndar þreitt allt sitt hlaup, fullkomnad árid, og byriar nú ad nýu á sømu leid.

A þeim seinastnefndu 6 mánudum, frá 21a Septembr. til 21a Martii, er vort nordurheimsskaut ávallt dymmt. J þeim løndum, er nálægt því liggia, er því nótt í lángan tíma, og því leingur sem nordarr dregur, þared því minni hluti jafnfarabauga nýtur dagsbyrtu. Sólin kastar og um þetta tímabil geislum sínum til vor meirr á ská, þó hún (sem í §. 14 skal greina) sé vorum hnetti þá ædi miklu nálægari. Af þessum tveimur orsøkum er þetta tímabil hiá oss haust og vetr.

A sydri jardarhelft eru, sem af ádursøgdu er audrádid, dægra og árstídaskipti ad øllu

gagnstæd því sem nú er talið um nyrdra hnattarhelsing; og er sudurheimsskaut frá 21a Septembr. til 21a Mart. alltaf upplýst jafnt um daga og nætur; er þar því dagr í nefnda 6 mánudi sem varir því skémurr sem nærr dregur $23\frac{1}{2}°$ frá sudurheimsskauti. Þau vebønd heimsskauta, innan hvørra sól ecki geingur undir frá 6 mánudum til 24 tíma, takmarkast af hiólgaddshríngum, frá hvørium ádur er skýrt (§. 7) og sem allstadar eru $23\frac{1}{2}°$ frá heimsskautum, en $66\frac{1}{2}°$ frá midjardarlínu á bádar hlidar; eru þeir baugar, sem pólar sólargángshríngs skrifa, á daglegum snúníngi jardar kríngum póla jafndægrabaugs.

Athugagr. Ad enn hálærdi og skarpvitri Herra Prófessor F. Magnússon í sínum alþiódlegu fyrirlestrum yfir norræn fornfrædi hefir kunngiørt, ad hann í Grímnismálum, samanbornum vid adrar Eddu greinir, hefir uppgøtvad nægilegar líkur til, ad vorir forfedur (eldstu umbyggiendur nordurlanda) hafi í heidni haft vitneskiu um þau í Indíum og audrum austurløndum nafnkunnu 12 hús sólar, edur um sólmerkiahríng, sýnist of merkilegt og þessu efni náskildt, til þess ecki hér adeins ad drepa þará, og sýnist það því líklegra sem þeir hafa skipt ári og mánudum á sama hátt, sem eldstu innbúar Persa- India- og Egyptalands.

§. 14.

En miøg serr stærri ad þessi nú útlistada rás sólar frá vestri til austurs yfirum himin sé til í raun og veru. Hvertámóti er sólin í tilliti til vor ad álita sem í kyrrleik, edur hennar sanna hræríng er oss ómerkianlig; en tilsýndar hræríng hennar ordsakast af umferd jardar kríngum hana eptir gagnstædri stefnulínu frá austri til vesturs, edur frá vinstri til hægri handar, þegar vér um hádegi snúum oss andspænis gégn sólu, og er þessi jardarinnar umrás kríngum sólu af stiørnufródum mønnum nægilega sønnud med ástædum, sem hér yrdi of lángt ad telia *).

Álitum vér nú þessa hræríngu jardar vissa, svo er audrádid, ad ámedan jørdin þreytir sitt hlaup kríngum sólu, verdur sólin ad sýnast oss gánga yfirum allan sólmerkiahríng, því þared sólin er milli jardar og stiørnumerkia, svo er ætíd eitt af stiørnumerkium bak vid sólu **); þannig

*) Einkanlega sannast þetta af því atviki, ad nockrar fastastiørnur ástundum breyta nockud afstødu sinni frá oss, menn kalla þetta Aberration, sem eingan vegin gétur ordsakast af ødru enn liósins og jardarinnar hræríngu.

**) Þó vér á daginn ecki siáum hvørt merki er bak vid sólu, þá géta menn samt audveldlega reiknad

ber hana undir hrútsmerki, þá jørd er vid skála-merki, undir uxamerki þá jørd er vid sporddreka-merki, undir tvíbura þá jørd er vid bogmanns-merki o. s. frv. kríngum allan sólmerkiahríng, sem þessvegna er ekkért annad enn fløtr sá, í hværium jardarinnar rás kríngum sólu liggur, leingdur út ad himinfestíngunni.

En hneiging sólar og skáleiki sól-merkiahríngs, med þaraf fylgiandi árs-tídaskiptum, kémur til edur ordsakast á eptir-fylgiandi hátt:

Møndull edur ás jardar er ætíd í þeirri stellíngu ad hann skér fløt jardarrásar (hværs ytsta takmerk er sólmerkiahríngr, en sólin í midiu hans) undir horni sem er $66^\circ\ 32'$. Jardar- edur ver-aldar-póll stendur því $90^\circ \div 66^\circ\ 32' = 23^\circ\ 28'$ frá sólmerkiahríngspól, og eins lángt er sólmerkia-hríngr á tveimur stødum frá jafndægrabaug.

Pared nú ás jardar (hvar sem jørdin er) allstadar er í enni sønnu stellíngu (afstødu) í tilliti til himinhvolfsins (fastastiarnanna) edur: er ætíd jafnsara (samsída, parallel) med siálfum sér,

---

þad, þegar menn géfa gaum ad hvært merki um midnætti er í hádegisbaug, og telia þadan 6 merki (hálfan himinin); undir þessu 6ta merki var sól dagin ádur um hádegi.

svo siáum vér, þegar jardin þann 21a Martii er vid skálamerki, sólu í skurdarpúnkti jafndægra, baugs og sólmerkiahrings, og hefir sól þá einga hneigíngu til nordurs edur sudurs frá jafndægra-línu, og eru þá jafndægur. Þá jörd (þann 21a Junii) er vid steingeitarmerki, snýr nordur heims-skaut ad sólu, en jafndægrabaugr er nedanundir sólmerkiahring, en horn þad sem minnast þar sem þeir skéra hvørr annan, er $23\frac{1}{2}°$ og eins-lángt nær sióndeildarhríngr sólar ysirsyrir nordur-heimsskaut, og eru þá hiá oss sumarsólstødur, þared sól hefir nú sína stærstu nordlægu hneig-íngu. Nú snýr jörd aptur á bógin, og þá hún kémur til hrútsmerkis, geingur lína sú, sem menn í þaunkunum draga milli midpúnkts sólar og jard-ar gégnum hinn skurdarpúnktin jafndægra og sól-merkiabaugs, er þá sól aptur í jafndægrabaug; og hefir alls einga hneigíngu, þá eru haustjafn-dægur; þegar jörd loks er komin ad krabbamerki hefir sól nú aptur $23\frac{1}{2}°$ hneigíngu sudurávid; snýr þá nordurheimsskaut frá, en sudurheimsskaut ad sólu, og eru þá vetrarsólhvørf hiá oss, en sumarsólstødur á enum sydra hnattarhelmíngi.

En þó menn nú séu sannfærdir um, ad sólin í tilliti til vor er í kyrrleik, og ad jördin med sinni hræríngu kríngum sólu, ordsakar sólarinnar tilsýndar umrás í sólmerkiahríngnum, tala menn

þó enn opt í stiörnufrædisbókum um rás sólar, vegna þess menn eru þessari hugmynd vanir, og allir atburdir þaraf audveldlegarr útlistast.

Jordin lýkur gaungu sinni kríngum sólu, edur: sólin sýnist ad ferdast gégnum allan sólmerkiahríng á 365 døgum 5 tímum 48 mínútum og 48 sekúndum, og er þetta árslns sanna leingd; en til meiri haggvæmnis í tímareikníngi teliast ofannefndar 5 kluckustundir 48′ og 48″ ecki med á hvøriu ári, heldur geimast þángad til þeir, ad fiøgra ára fresti, hlaupa nærseldt eirn heilan dag sem þá aptan vid Februaríus er hleypt inní, og kallast því slíkt ár **hlaupár**.

En, fyrir **daga** skilst hér ecki einasta fullkominn snúníngr jardar um ás sinn, heldur tvø dægur full edur 24 kluckustundir (siá ad framan 3ia §). Því þared sólin vyrdist ad þokast (þad er jørdin sem í raun réttri særist frá austri til vesturs) daglega 59′ 8″ og 20‴ frá vestri til austurs í sólmerkiahríng, svo nær áqvedinn hádegisbaugr sólunni dag frá degi 3′ 56″ seirna, edur: jørdin þarf til fullkomins snarsnúnings um ás sinn 3′ 56″ minna, enn til ad komast í sama horf frá sólu sem dagin ádur, hvartil jørdin þarf 24 klukkustundir edur einn alþýdulegan dag; hefir hún því ad 365 daga fresti unnid hellan dag, edur snúist 366 sinnum um ás sinn. Af sømu ordsøk þarf hvør-

ein stiarna $\frac{1}{365}$ part af 24 kluckustundum, edur á hvørium 24 kluckustundum 3′ 56″ minna til sinnar tilsýndar dagreisu ysirum himinin, enn sólin. Pared sólin, vegna apturviks jafndægrapúnkta gégn sólargángi, nær vissum stad í sólmerkiahríng aptur nockud fyrri enn sømu afstødu milli fastastiarna á himni, svo er umrás jardar um sólu nockud leingri, enn ádur er talid.

Héraf kémur tvøfaldt ár, nefnilega þad trópiska (hvarfárid), sem er tímabilid milli tveggia vorjafndægra og er 365 d. 5 t. 48′ og 48″, og stiørnuárid (hid periódiska ár), sem takmarkast af apturkomu jardar á sama púnkt á himni, hvar hún fyrir ári sídan stód, og sem því er jardarinnar sanna umferd; þad varir 365 d. 6 tíma 9 mín. og 11 sekúndur.

Ecki ferr jørd ætíd eins hradan kríngum sólu; veldur þad því ad farvegr hennar ecki er fullkominn (reglulegr) heldur øskiulagadr (aflángr eins og sporaskia, siá 16 §.) hríngr, í hvørs ødrum enda sólin er. Paraf kémur ad jørdin er á stundum sólu nærr enn á ødrum tímum; áddrattarkraptr sólar, sem eykst því nærr sem jørd kémur sólu, herdir því á ferd hennar, þá hún er sólu nálægari. Púnktr sá hvar jørd er sólu nærst, er kallast sólarnánd (perihelium), liggur nú í 10da mælistigi (9° 24′) af steingeitarmerki, en

sá púnktr hvar jörd er leingst frá sólu, sólar-fiarski (aphelium), í 10da mælistigi (9° 24′) af krabba.

Í þeim fyrri er jördin 30a Decembris, í þeim seirna 11a Julii. Í medalfiarlægd frá sólu er jörd þann 29a Marts og 1a Octobr. Þó eru þessir púnktar ecki óbifanlegir, heldur þokast þeir med sólmerkium árlega hérum 1′ 6″. Jördin er því sólu nálægari og ferr hradara á vetrum enn sumrum, og frá vor- til haust-jafndægra eru 186 dagir og 12 klukkustundir, en þarámóti frá haust- til vor-jafndægra ecki neina hérum 178 dagar og 18 klukkutímar. Vor vetr er því 8 dögum styttri enn sumar; en þó jörd í sólarnánd sé 138,000 þingmannal. nærr sólu enn í sólarfiarska, giörir þetta samt eingan mun á hita, þar millibilid milli jardar og sólar er svo lángt. Arid 1769 fundu stiörnufródir menn medalfiarlægd jardar frá sólu ad vera 4,122,574 þingmanna-leidir (20,612,870½ almennar mílur); þessi fiar-lægd tvöfölduð, er þvermál jardar farvegs, sé hann álitinn fyrir regluligan hríng, og er hann þá ad leingd hérum 25½ milliónir þingml. edur 129½ mill. almennra mílna. Af hönum ferdast jördin á 24 tím. 346,420: og á eirni sekúndu $4\frac{1}{10}$ almennar mílur edur næstum eina þingmannaleid. Hared jördin, ef hún eins og kúla rinni á sínum

farveg, ecki kæmist leingra á 24 tímum, edur medan hún snýst um ás sinn, enn þad sem hún er umhverfis nesnilega 5400 míl., so er audsært ad hræríng hennar kríngum sólu, er øll ønnur og sráleit snúning hennar um ás sinn, og ad jørdin þvi hefur 2falda hræringu, a) um ás sinn, b) kríngum sólu.

§. 15.

Af hræríngu jardar, árstída- og dægra- og vedra-skiptum og ødrum atburdum, verdum vér varir vid, ad hún er í samverkun og sambandi vid adra himinhnetti, sem oss er árídandi ad þeckia, ef vér vilium til hlýtar útvega oss kunnáttu um jørd vora.

Fyrst og fremst er sólin, sem er uppspretta lióss og hita á jørdunni, og rúnglid, sem liómar um nætur, í enu nánasta sambandi vid jørdu. En fyrir utan þau, verdum vér þarhiá varir vid ótøluligan grúa stiarna, sem vér eptir dagsetur*) (um næturtíma) í heidríku vedri, siáum á himinfestíngunni, bædi einstakar og hópum saman (í

*) Giætu menn frá diúpri og dimmri grifiu litid upp til himins, sæu menn himinsins stiørnur eins um daga og nætur, eins og tilber í sólarformyrkvan.

kløsum edur reitum), og hvaraf vér þó líklega ecki siáum nema litin hluta, þar helmíngr af þeim sýnilegu, er undir jardarhuettinum, og all-flestar stiørnur eru ósýnilegar vegna þeirra miklu fiarlægdar. Allar þessar stiørnur eru himinhnettir, væntanlega med innbúum eins og vor jørd, og sumpart fleirum hundrud þúsundsinnum stærri enn jørdin, en vyrdast oss, vegna þeirra ossalegu fiarlægdar, eins og smápúuktar. Til þess ad fá stiørnur því audveldarr adgreindar og aptur ratad á einstakar stiørnur hafa stiørnufródir menn rad-ad þeim nidur, eptir bústødum þeirra á himni, í vissar myndir, sem ádur er sagt, er kallast stiørnu-bilæti edur stiørnumerki, og sem menn eru vanir ad mála á kunstuga hnetti, sem til eptirlíkíngar himinfestíngunni giørast af stinnum pappír og kallast himinhnettir (globi cælestes). Þau tólf af þessum merkium sem liggia í og fullgiøra dýrahríng, eru ádur upptalin (§. 13); en þar-fyrir utan høfdu enir gømlu stiørnuvitríngar Griecklands smídad sér 38 stiørnumerki, nefnilega 23 fyrir nordan sólmerkiahríng, og þarámedal ed stóra og litla biarndýr, svans- og arnarmerki, og 15 fyrir sunnan dýrareim, og þarámedal enn stóra og litla hund (í þeim fyrri er Sirius sudur-undan tvíburamerki), Orion (hvari er Jacobs-stafr), skipid og hrafnin.

Við þessi alls 50 stiørnumerki, hafa stiørnuvitríngar á seirni tímum bætt 54 merkium, nefnilega 18 fyrir nordan og 36 fyrir suunan dýrahríng *).

Af því sem nú er talið, er audráðið, að þær stiørnur, sem liggia í nefndum merkium, megi vera slíkar, sem fyrir manna siónum ætíð eru á sama stað og aldrei breita afstødu sín ámilli, því ella hefðu menn ei gétað skipt þeim i vissa reiti, og enn síður gefið þeim stærstu meðal þeirra sérlig nøfn. Þær vyrðast oss þannig tilsyndar eins og fastar á himinhvolfinu, og kallast þessvegna fastastiørnur (stellæ fixæ); byrtast þær fyrir vorum augum ýmíslega stórar, hvørsvegna þær eptir stærð og biartleik aðgreinast í 1tu, 2ar, 3iu, 4u, 5tu og 6tu stærðar stiørnur. Igégnum kíkira siást þær og sem leiptrandi púnktar, en ætíð með sama biartleik, og hafa stiørnuvitríngar, eptir stærð þeirra i kíkirum, skipt þeim í 12 flocka. Þó halda þær hvervetna enni sømu stærð, hvar sem menn eru á jørðunni og hvar sem hún er á rás sinni, hvaraf auðsært er að fiarlægð þeirra frá jørðu verður að vera svo ossa mikil, að allr

*) Siá Bugges "De første Grunde til den sphæriske og theoretiske Astronomie samt den mathematiske Geographie. Kbh. 1796." bls. 4—6.

farvegr jardar kríngum sólu, er frá henni eckért ad reikna; er þessi fiarlægd og vegaleingd milli siálfra fastastiarna innbyrdis, oss i eiginlegustu merkingu ómælanlig. Lika má af því undangángandi ráda, ad allar þessar fastastiørnur, eins og vor sól, sem er ein medal þeirra, leyptra med eigin biartleik, en þiggia eckert liós af vorri sólu, heldur eru siálfar í raun og veru lióмandi sólir (cfr. Vinagledi bls. 44).

Mergd þessara stiarna sá menn ecki talid, heldur einasta af handahófi gétskad á, og menn meina, ad yfir 12 milliónir þeirra séu siáanligar á øllu himinhvolfinu.

Med óvepnutu (vopnlausu) auga (án kýkirs) uppgøtva menn yfir 3000 fastastiørnur, og med kýkirum aqvardadi de la Caille einasta á enu synnra himinhvolfi hérum 10,000 nýar stiørnur, og þó er Herschel med sínum stóra kýkir (siónarpípu) kominn miklu leingra *).

Sá enn biarti lindi, sem liggur yfir megin himin, og sem vér køllum vetarbraut, er eckert annad enn safn af ótølulegum grúa stiarna, sem vegna mergdar og fiarska ecki verda adgreindar med berum augum. Dr. Schröter giorir tølu þeirra stiarna, sem í hans stóra kýkir

*) Siá Vinagledi bls. 45 og 46.

sáust í 15 mælisliga laungum og 20 mælisliga breidum kabla af vetrarbraut, rúmlega edur adminnsta kosti 48,900; en Herschel væniſt ad yfir 100,000 stiörnir séu í slíkum kabla. Med hans kýkir var því hérum $2\frac{1}{2}$ millión í þessari miófu rønd vetrarbrautar. Af þeim svokølludu þokustiörnum, sem hvør fyrir sig inniheldur heilan stiörnuklasa, hefur Herschel talid hérum 3000. En þared æ fleiri stiørnur verda sýnilegar, því betri sem kýkirar eru, og væntanlegt er, ad enn betri og stærri kýkirar verdi uppsundnir, svo ferr stærri ad allar stiørnur enn séu ofs sýnilegar, en líkast til, ad lángtum fleiri med betri sjónarverkfærum muni uppgøtvast.

Athugagr. Jafnvel þó mannleg augu ecki uppgøtvad fái nockra tøluverda hræringu á fastastiørnunum, eru þó margar líkur til, ad þær ecki haldi kyrru fyrir, heldur ásamt sínum plánetukérfum, (sínum sólheimum) ferdist íkríngum adrar stærri sólir, og þessar aptur med ødrum sínum líkum íkríngum adrar en þá stærri, og so framveigis, þángad til en takmarkada mannlega skynsemi verdur ad leida sér í hug eina høfud- edur Central-sól, í kríngum hvøria øll verøldin þannig er á ævarandi umrás. Hve hátignarlegr er ecki þessi þánki! hve verdugr manneskiunnar skyniandi ódaudlega anda!

og — hvørsu ómælanlegr er sá visdómr og það almætti sem tilbió, niðurraðaði og viðheldur øllu þessu!

§. 16.

En fyrir utan þenna ótølulega grúa fastastiarna, verðum vér varir við annan høfuðflock himintúngla, sem óeiginliga kallast stiørnur, þareð þau eru í siálfum sér dymm og køld, eins og vor jørð, en øðlast hita og byrtu af einhvørri sólu (fastastiørnu) er skýn á þau, og sem þarhiá eru þari ólík fastastiørnum, að þau, fyrir utan þeirra daglegu tilsýndar hræríngu, sem þeim með øllum himinsins her er sameiginleg, þaraðauki sífeldlega bærast eður breyta afstøðu sinni innbyrðis, og frá fastastiørnum. Þessi himintúngl, sem skína með miklu følari eður minna leyptrandi byrtu enn fastastiørnur, merkilega breyta stærð og blartleik, og í kýkirum siást miklu stærri og greinilegarr enn minna liómandi: skiptast í þriá minni flocka eður tegundir. 1. Halastiørnur (cometæ) sem bærast í ofurlaungum baugum kríngum vora sólu, koma henni stundum mikið nærri en fiarlægiast aptur á stundum ómælanlega lángt. Leggur úr þeim reik eður þoku af sólarhitanum, sem lítur út eins og hali, og hafa þær þaraf nafn dregið. 2. Önnur tegund

eru reikistiørnur (eginlega kalladar) edur plánetur *), sem gánga kríngum vora sólu í reglulegri hríngum, þó aflaungum; af þessum er vor jørd ein, sem sídarr mun náqvæmarr skáskýrt. 3. Þridia grein eru fylgistiørnur (mánar), sem eru minni, dimmir og kaldir hnettir, er ferdast íkríngum sumar reikistiørnurnar, og ásamt þeim um sólina. Vor jørd hefur einn þvílíkan fylgiara (nefnl. vort túngl), en nockrar reikistiørnur hafa marga mána. Mánar eru þau minnstu himintúngl sem vér þeckium, og eru ovepntu auga øldúngis ósýnileg ad fráteknu voru túngli, sem vegna nálægdar er oss sýnilegt.

Miog snemma á tímum urdu menn varir vid ad hræríng reikistiarna var sólu áhángandi, ad þær af henni ødludust byrtu sína, og ad þær ásamt fylgistiørnum væru í sameiníngu edur félagsskap med sól vorri. Menn køllludu því þenna félagsskap sólarkérfi (heimskérfi), um hvørs eiginlegu byggíngu og samskeytíngu menn þó fyrst á 16du øld og seirna, med náqvæmri eptirtekt og skarpvitrum reikníngum, hafa ødlast óbrygdula þeckíngu, meina menn nú ad sólarkérfi vort samanstandi af eirni sólu, ellefu reikistiørnum edur plánetum, sem menn enn þá tilvita

*) Af griskn giørníngsordi πλαναω eg reika.

edur hafa uppgøtvad, og (átián) 20 fylgi=
stiørnum edur mánum, fyrir utan mikin=
fiølda halastiarna.

Sólin heldur kyrru fyrir í midiu þessa sólar=
kérfis, og kríngum hana ferdast allar pláneturnar
í hríngum sem eru lagadir likt sporøskiu (ellipsi=
um *), so ad sólin ecki er einmidt í midpúnkti
heimskérfis, heldur í ødrum brennipúnkti, og plán=
etur ymist fiarlægiast edur nálægiast hana, og eru
því stundum í sólarfiarska (aphelium),
stundum í sólarnánd (perihelium); bádir
þessir púnktar liggia einmidt hvørr gégnt ødr=
um og skipta umferdárvegum pláneta í tvo jafna

*) Ellipsis er biúg samangángandi lína sem fram=
kémur þegar keyla er skorin í sundur á ská. Hún
er aflángr hríngr sem hefur tvø þvermál, eitt
lángt og eitt stutt. Brennipúnktar hennar heita
þeir púnktar, hvar lína sem ad leingd er helmíngr
ens lengsta þvermáls, lendir á enu lengsta þver=
máli, þegar hún er løgd þannig, ad annar end=
inn nái á leingsta þvermál, en hinn sé fastr vid
annan enda þess stytsta þvermáls. Verdi minna
þvermálid jafnt enu stærsta verdur Ellipsis ad
cirkli eda baug, og bádir brennipúnktar lenda í
midpúnkti hans. Bilid frá midpúnktinum hvar
þad leingsta og stytsta þvermál skéra hvørt annad,
og útad ellipsins brennipúnktum á bádar sídur,
kallast midpúnkts fiarlægd (excentricitet).

parta. Allar plánetur gánga samleidis og í sömu átt frá vestri til austurs, frá sólu ad siá, og umferdar flétir þeirra eru næstum öldúngis saman vid jardarinnar, hvörs vegna þær aldrei fiarlægiast sólmerkiahring mikid, en eru ætid í dýrareim, og siást í einum helmingi hennar umferdar, fyrir ofan, en í hinum helmingi fyrir nedan sólmerkiahring.

Ýmislegt hradfæri pláneta ordsakast af lögun umferdarhringa, og er í hlutfalli med medalfiarlægd þeirra frá sólu; því nærr sem þær eru sólu því fliótfærari og því fiærr sem þær eru henni því seinfærari eru þær.

Allar snúast þær um ás sinn, og hafa því daga- og nætur-skipti; þeirra hræring er því tvöföld, nl. um ás sinn og kríngum sólu. Fylgistiörnur hafa sömu tvöfalda hræringu, en þaradauki ena þridiu, nefnilega kríngum plánetur sínar, íkríngum hvöriar þær ferdast á sama hátt sem þessar kríngum sólu. Allt heimskérfid stiórnast af einum almennum krapti, nefnil.: þýngdarinnar.

Plánetur skiptast í tilliti til jardar í enar hærri og lægri, sarvegr himna liggur utanum, þessara innan jardarfarveg; hinar eru fiærr, þessar nærr sólu enn jördin. Þær fyrri eru 8, nefnil.: Uranus, Satúrnus, Pallas, Ceres, Júno, Vesta, Júpiter og Mars; þær seirni eru

2, nefnil. Venus og Mercúrius, er ætíd sýnast ad vera í nánd vid sólu, og gánga undir annad: hvørt rétt á undan eda strax á eptir henni. Stundum bera þær beinlínis milli sólar og jardar, og gánga þá sem myrkir hnettir fyrir sólina, paredþær snúa ad oss náttsídu sinni; kallast þetta gégnumgángr þeirra gégnum sólu (t. d. Mars 7 Mai 1799).

Af umdangángandi má siá ad sólin, sem útbreidir il og byrtu yfir allt heimskérsi vort, situr ad ríkium í midiu þess. Utanum hana ferdast í æ stærri og stærri ellipsum, fyrst Mercúrius (☿ *), þá Venus (♀), þá Jördin (♁) med einum mána (☽), þá Mars (♂), þá Vesta (⚶), þá Júno (⚵), þá Ceres (⚳), þá Pallas (⚴), þá Júpiter (♃) med fiórum mánum, þá Saturnus (♄) med siø mánum, og loksins Uranus (♅) med átta mánum.

En þó vér enn þá ecki høfum fundid fleiri enn þær nefndu plánetur, er ecki líklegt ad tølu þeirra hérmed sé lokid, þvi fyrir 38 árum sídan þecktu menn ecki nema 6 plánetur, en Uranus, Ceres, Pallas, Júno og Vesta eru sídan fundnar, og vyrdist þvi ecki ólíklegt, ad menn med óþreittri adgiætni og athygli, og fullkomnari sión-

---

*) Menn hafa géfid plánetum merki til hægleika, sem hafa tilliit til þeirra nafna er þær hafa ødlast·

arverkfærum, fái uppgøtvad bædi fleiri plánetur og fleiri mána í voru heimskérfi.

Athugagr. Nockrir stiørnufródir menn eru þeirrar meiníngar, ad Pallas, Ceres og Júno muni í øndverdu hafa verid ein einasta pláneta, og byggia þessa tilgátu sína á hlutføllum fiarlægdanna milli þeirra þektu pláneta, eptir hvørium ad einasta ein pláneta giæti stad sundid milli Mars og Júpiters, til þess ad ecki raskadist sú líkíng fiarlægdanna, sem náttúran sýnist ad hafa fylgt, í ad ákvarda þeim ødrum af oss þecktu plánetum þeirra innbyrdis fiarlægd. En gáta þessi er valla sennileg, heldur líkara, ad seirna meirr finnist nýar plánetar eins vel milli hinna af þeim þegar fundnu, eins og Vesta, Júno, Ceres og Pallas nú ámilli Mars og Júpiters.

§. 17.

Eptir stiørnufródra reikníngum er sólin 765 sinnum stærri, enn allar þær plánetur med þeirra mánum, sem henni fylgia, eru tilsamans; hún er 14 hundrud þúsund sinnum stærri enn vor jørd, og á milli vor og hennar eru 20 milliónir mílur eda 4 milliónir þíngmannaleidir; hve afarlángt má þá ecki vera frá sólu til þeirrar ytstu plánetu, sem hún vermir og lýsir! Hvadan liós hennar og hiti hafi sín søpnu upptøk, kémur stiørnufród-

um ei saman um; hafa þeir smídad sér þarum innbyrdis ólíkar gétgátur; en nú á tímum er þó sú af flestum vidtekin ad dampahvolf sólar muni, í siálfu sér rafkraptad, vid hennar geisi harda snúning um ás sinn, verda lýsandi. Ad sólin í raun og veru snúist álikta menn af þeim dymmu blettum, sem siást á hennar yfirbordi; færast þeir ætid frá sólarinnar austlægari rønd, til hinnar vestlægu, eru sýnileigir í 13 daga 18 t. hverfa sídan, og eptir ad hafa verit ósýnilegir iafn lángan tíma, koma aptur fram vid þá austlægu rønd, og byria þadan nýa umferd. Sólarinnar umhlaupstími um ás sinn yrdi, eptir þessu ad álykta, hérumbil $27\frac{1}{2}$ dagr, en náqvæmlega verdur þad ecki áqvedid.

Mercúrius, sem næst liggur sólu, er sialdsén, því hann fylgir henni ad mestu, og er þessvegna ósýnilegr á døgum vegna sólarbirtunnar, en um nætur er hann ásamt sólunni undir sióndeildarhríngnum. Hann er ecki nema $\frac{1}{16}$ partr jardar vorrar á stærd, og fer kríngum sólina í 88 daga, sem þessvegna eru ársleingdin í Mercúrius. Vidber þad endur og sinnum ad Mercúrius ber frá oss ad siá réttlínis í sólu, og formyrkvar þá lítin blett á henni, en bædi vegna þess ad hann í siálfum sér er lítill og þaradauki so miklu nærr sólunni enn oss, þá er þessi af høn-

um ordsakada formyrkvan á sólu næsta ómerkjanlig.

Venus er nær því eins stór og jördin og veltist í hríng á næstum eins laungum tíma sem hún; er Venus fyrir vorum augum fallegust og skiærust allra stiarna, vegna þess hún, að túnglinu undantekinu, er oss nærst. Optast nær sést hún bædi fyrst allra stiarna eptir sólarlag, og leingst allra fyrir sólaruppruna og kallast því qvöld- og morgun-stiarna. Komi hún milli jardar og sólar, þá giörir hún þeim mun stærri bleit dymman á sólu, enn Mercurius, sem hún bædi í siálfri sér er stærri enn hann, og liggur oss so miklu nærr.

Um Jörd vora er að undanförnu þess gétid, sem hæfa þikir, en í þess stad skal hér med fám ordum vikid á það helsta, sem vér vitum um hennar eina fylgiara túnglid. Þad fylgist ætíd med jördunni kríngum sólina, og er oss nálægast af öllum himinhnöttum, í 51,000 mílna fiarska frá oss; þad sýnist oss því stærst allra himinlíkama, þó þad í raun réttri líklega sé hid minnsta, og ecki nema $\frac{1}{75}$ partr jardarhnattarins. Þad þreitir hlaup sitt í kríngum jördina á 27 dögum 7 tímum 43′ og 11″. Túnglid er siálft myrkr hnöttr, og fær birti sína á sama hátt að láni frá sólunni sem jörd vor og hinar adrar

plánetur med þeirra mánum; helst þess er því ætíd upplýst af sólarbirtunni, en þared túnglid á ferd sinni kríngum jørdina, stundum snýr ad oss allri þeirri biørtu sídu, stundum stærri eda minni hluta hennar, þá orsakast þaraf þau ímislegu skøpuløg (Phases) sem líbs þess fyrir vorum siónum hefur; þegar vér siáum helming þess biørtu sídu til hægri hlídar, þá køllum vér þad fyrsta qvartil; siáum vér alla biørtu síduna, kallast þad fulltúngl; þegar einasta hennar vinstri hlid er sýnileg, heitir þad seinasta qvartil; en siáist eckért af túnglsins biørtu sídu, og hin dymma snúi ad øllu leiti ad oss, þá seigum vér ad sé túngls nid; hiu fyrstu dægur eptir nidid er túngl í qveikingu, og frá þeim tíma til qvartéraskipta sést einasta stærri eda minni rønd af biørtu sídunni, og ámilli qvartéraskipta og fulls túngls, sést meiri enn $\frac{1}{4}$ partr túnglsins upplýstr. Stundum ber þad vid ad túnglid — og þad ætíd í qveikingu — ber réttlínis milli jardar og sólar og hylur þad þá sólarinnar yfirbord um hríd fyrir vorum augum, annadhvørt giørsamlega eda þá nockurn hluta þess (í Nóvembr. 1816 $\frac{1}{12}$ parta sólar), og nefnist þessi atburdr sólarformyrkvan; túnglsins dymmi hlutr snýr þá ad oss, en hinn biarti ad sólu. Túnglid siálft formyrkvast og af jørd vorri

á stundum; ber það til þess, að sól, jörð og túngl standast öll á, í sömu stefnulínu, þó so að jörðin geingur milli sólar og túngls og sviptir það um stund, annaðhvört að nockru- eður giörvöllu leiti, þeirri birtu er það fær frá sólu. Stiörnu-fróðir menn géta fyrirfram ákvedið nær þessir atburðir um aldur og æfi muni aðbera, og aldrei skiátlar þeirra fyrispá um eina minútu; svo ná-qvæm og reglubundin er sú orða með hvörri stiörn-að er allrar veraldarinnar hlaupi!

Vegna þess túnglið, sem áður er sagt, er oss só nálægt, hafa stiörnufróðir menn, í góðum kíkirum gétað náqvæmlega skoðað það.— hafa þeir á því varir orðið við geisi há fiöll, jafnvel 25,000 fet að hæð; sum þessara virðast hafa sérlegt skopu-lag, blíkt allra þeirra, sem vér þeckium; sýnast þau standa í hríng, og að í miðiu þeirra sé rétt sem svelgr eða diúpr geimr, 3 mílur máské að vídd, en 3000 faðmar að dýpt, eptir mælingum stiörnu-fróðra manna. Þeir partar túnglsins, sem eru í vorum augum dymmari enn aðrir, halda menn að séu merkur og flatlendi, máské skógi vaxin, sem því ecki géti frá sér kastað geislum sólarinnar eins greiniliga sem þau plátz er hærra liggia. Við sió eður höf hafa menn þar með eingri vissu varir orðið. Að jörð vor muni innbúum túngl-sins (ef nockrir eru) vera í mánastað er af áður-

sögdu audrádid; eins og líka þaraf má siá, ad túnglsins formyrkvan hiá oss muni hiá þess innbyggendum vera sólarformyrkvan, og vor sólarformyrkvam, formyrkvan á þeirra mána edur vorri jördu. Auk þess sem túnglid sendir oss þá birti sem þad lánad hefir frá sólunni, hefir þad þaradauki adra enn markverdari verkun á vorum hnetti, þá nefnil.: ad þad orsakar flód og fioru, adfall og útfall; skal á þetta framarr minnst verda í edlis útmálun jardar.

Næst fyrir utan jörd vora er Mars, audþeckt á hans eldraudu birtu; ad stærd er hann valla meirr enn 8di partr jardarinnar. Medalfiarlægd hans frá sólu er nockud meirr enn 34 milliónir almennar mílur, og ár hans er nærfeldt svo lángt sem tvö ár, edur 686 vorir dagar.

Stærd og umhlaupstímar þeirra 4 pláneta sem fundist hafa á þeim 7 fyrstu árum þessarar aldar, og hvörium menn gefid hafa nöfnin: Vesta, Júno, Ceres og Pallas, eru enn ecki ad öllu kunnugir.

Júpiter, sem næst Venus er einhvör hin pridilegasta stiarna med skiæru nockud gulleitu skini, er 1474 sinnum stærri enn jördin; fiarlægd hans frá sólu er 108 mill. mílur, og frá jördunni 88 mill. mílna; hann veltist med offa hrada um ás sinn á 7 kluckustundum, og þreitir

hlaup sitt íkríngum sólina einusinni á 12 vorum árum. 4 mánar fylgia med hønum hvervetna.

Satúrnus er fyrir vorum siónum miøg daupur stiarna med bleikraudu skini; hann er 995 sinnum stærri enn jørdin, er frá sólu 200 milliónir mílur og frá jørdu nálægt 180 milliónir mílna. Ár hans er á bord vid 29 af vorum árum, og siø mánar eru ad vísu fundnir, sem hønum fylgia. Þessi pláneta er ad ødru leiti frenmr ødrum markverd, vegna þess biarta beltis eda lindu sem hún um sig hefur, og hvørs orsøk eda tilætlun menn ecki hafa gétad fundid; hann er breidr næsta, flatr og þunnr, og er lángt nöckud frá siálfri plánetunni; hann sést þó ecki án kíkirs; í fyrstu virdtist hann vera einúngis einbrotin, en sídan hefur Herschel uppgøtvad ad hann í raun og veru er af 5 ødrum minni giør.

Uranus er hin ytsta af þeim plánetum, sem menn enn þeckia, er hún fundin árid 1781 af einum engelska stiornuspeking Herschel; hún er 400 milliónir mílur frá sólu og 80 sinnum stærri enn jørdin; geingur í kríngum sólina á 83 árum, og hefur einasta 2 mána medferdis.

## 2ar Þáttr.

### Um edli lopts, lands og sióar og um lifandi og líflausa hluti yfirhøfud, sem á jordunni finnast.

§. 18.

Um skøpulag og hræringu jardar er þetta nóg talid, en nú er ad segia frá hennar ímsu høfudpørtum, þeirra margvíslega edli, útvortis ásýndum og ødru ásigkomulagi; nefnum vér þann hluta þeirrar almennilegu jardarfrædis, sem frá þessu skírir: jardarinnar edlis útmálun, og útlistar hún jørd vora í sínu náttúrlega ásigkomulagi eins og hún er komin frá høndum skaparans, án þess ad líta til þeirra umbreitinga, sem menn-irnir hafa til vegar komid á hennar yfirbordi; hún skírir ad eins frá hlutanna tilveru, og hvar þeir finnist á jardarhnettinum, en ítarlegri nidurrødun af þessara hluta ímislegu kynferdum og kynbreytingum, heyrir til þeirri vísindagrein er nefnist Náttúruhistoria (historia naturalis); eins og skírslan um þeirra náttúrukrapta og þessara verkanir med réttu á heima í þeirri eiginlegu náttúrufrædi (physica).

Þegar vér lítum til hvattar vors yfirhøfud, þannig sem hann ber oss fyrir augu, verdum vér

einkum þriggia hans høfudparta varir; þessir eru dampahvolfid, land og siór. Dampa-hvolf jardar (atmosphæram) nefnum vér loptid sem innan vissra vebanda hylur jørd vora hver-vetna umkring; tekur þad ámóti þeim dømpum sem frá jørdunni stiga, og er hún innani því, lík-ast sem kiarni i nit; virdist því nafn þetta ei illa tilfallid.

Siálfrar jardarinnar yfirbord þeckium vér einasta, en ecki hennar innra ásigkomulag, því i dýpstu grystum (námum) komum vér ecki mid-púnkti hennar nærr, enn hérum hálfa mílu, edur $\frac{1}{1720}$ part af hennar hálfa þvermáli (radius), iá miklu minna, ef vér sem ber, reiknum þarfrá hæd grystunnar yfir siómálid, sem er jardar vorrar sanna yfirbord, því mestr hluti hennar er vatni hulinn, og þad er einúngis á einstøkum stødum ad stærri eda minni partar hennar gnæfa yfir vatn-sins yfirbord; kallast þad sem þannig nær uppúr vatninu land, en þad annad siór.

En þad eru ecki einasta þessir 3 høfudpartar jardar, dampahvolf, land og siór, sem hennar edlis útmálun skirir frá; hún skal eirnig útlista þad sem hvørr þessara af sér gefur, þannig sem þad ber fyrir augu vor, nefnum vér þad yfir-høfud pródúct (afurdir).

; Þegar vér þannig rennum adgiætnu auga til þess sem fyrir oss ber á hnettinum, einkum á þurrlendinu, gétur en fremur ecki hiá þvi farid ad vér varir verdum eins eda annars þess, sem sýni ad hann í fornølld hafi lidid neckra umbreitíngu, og ad útvortis ásýnd hans ecki þá hafi verid hin sama, sem hin nærverandi, og sem ásamt veki oss grun um, ad likra umbreitinga, meiri eda minni, meigum vér vænta oss med framtídinni; á þetta hlidir þá eirnig ad minnast í jardarinnar edlis útmálun, sem ecki má gánga þegiandi fram hiá neinu þvi, sem eptir hnattarins nærverandi ásigkomulagi er markvérdt. Þessum þætti jardarfrædinnar ber þvi ad fráskíra: 1. dampahvolfinu, 2. þurrlendinu, 3. siónum, 4. pródúctunum (afurdunum) sem náttúran af sér géfur, og 5. þeim umbreitingum sem á jardarhnettinum eru annadhvørt skédar edur ad likindum væntanlegar. Vilium vér svo greinilega sem í fám ordum skéd gétur vikia á sérhvad af þessu.

## §. 19.

## Um dampahvolfid.

Í nærstundangángandi grein høfum vér ad nockruleiti ávikid, hvad vér vilium meint hafa med

ordinu dampahvolf; er það eins verulegr partr jardar vorrar sem vatn og land, af hvorium hennar føstu partar samanstanda, þvi það ásamt þeim hleypur somu leid og í einu lagi kríngum sólina, einsog ádur er ávikid, og meiga þau oll því álitast sem einn líkami. Dampahvolfsins hæd hvervetna frá jørdunni, edur réttara ad segia þickt, verdur ei med vissu áqvedin, þó kémur flestum náttúruvitríngum saman um, ad hún vera muni 8 eda 9 géógrafiskar mílur. Þess helstu frumpartar eru lopt og dampar med ødru þess háttar sem frá jørdunni stígur. Um loptsins tilveru gétum vér því sidurr efast, sem vér, einsog allar lifandi skèpnur, høfum af því líf og andardrátt; en þó einginn neiti ad það sé til, eru þó nockrir þess eiginlegleikar flestum, og margir þeirra máské øllum, enn ókunnir. A þá helstu sem menn nú þeckia hlidir med fám ordum ad minnast:

Ad það sé þreifanlegt sannar vor egin tilfinníng, því vér finnum greinilega til vindsins á líkama vorum, en hann er ecki annad enn lopt sem af imsum orsøkum er komid í hræríngu (sjá §. 22); það er einnig þunt, gagnsært og fliótandi edur rennandi, líkast sem vatn, og hefir það alla þessa eiginlegleika lángtum frem-

urr, enn nockurr annar oss kunnugr hlutr; ad loptid sé þunt siáum vér á því, hve litla, og ad mestu ómerkiliga, hindrun þad veitir bædi vorri og annara hluta hræringu, þó er þad ecki jafnþunnt hvervetna, því næst vid jørduna er þad þickast og því þinnra sem hærra kémur; veldur þad því ad þúngi lopts þess sem ofarr er, fergir þau loptsløg nockud saman sem undir liggia, svo ad eimíngis þad efsta loptslag í dampahvolfinu hefir sinn edlisliga þéttleik; dagleg reinsla þeirra sem af flatlendi edur úr diúpum dølum ferdast uppá há fiøll, sannar þetta, eins og þær loptsiglínga tilraunir sem á seirni timum giørdar eru. Vor egin sión ber vitni um ad loptid sé gagnsært, því ecki hindrast hún, þó þad beri milli auga vors og þess hlutar, sem vér horfum á; hvartil líka hialpar, ad þad hefir eingan sérligan lit, því hefdi þad nockurn, til dæmis: raudan, grænan, mundu allir hlutir synast oss med þeim somu litum; ad sønnu vyrdist oss í fyrsta áliti sem þad hafi bláan lit, þvíad í heidríku vedri er himininn, líka fiøll og adrir hlutir sem eru í fiarska, tilsyndar blár, en þetta orsakast ecki af því ad loptid hafi þenna lit, heldur af vissri temprun lióss og skugga, hvaraf sá blái litr hefir sinn uppruna. Vindrinn er og næg røksemd fyrir því ad loptid sé rennandi sem løgr, einsog hitt, ad þad vid

hlutanna hræríngu strax fyllir þann stad hvar þeir ádur vóru.

Loptid hefir eirnig fiadrar- edur stælíngarkrapt, má því sergia þad saman med útvortis þúnga edur krapti, svo ad viss partr þess innilykist í minna rúmi, enn þad ádur hafdi, en jafnskiótt sem þúnganum léttir eda á þýngslakraptinum linar, gésur þad sig út aptur, og nær sinn fyrra rúmi; uppá þenna loptsins eiginlegleika má daglega siá mørg merki; svosem þegar børn snúa saman líknabelgsknapp; því hardara sem snúid er, því minni verdur knapprinn, jafnvel þó eckért af því innibyrgda lopti géti útkomist, þángad til loks ad líknarbelgrinn ecki leingur gétur þolad þess útþenslukrapt, sem eykst í sama hlutfalli sem samanpressunin, og knapprinn springur med hvelli. Ad loptid vid hitan útvíkkist eda þynnist og fylli þannin stærra rúm, enn þess náttúrlega edli krefur, sést augliósliga á því hvørnin lint uppbláſin bladra, sem vel er bundid fyrir, þenur sig út ef henni er haldid yfir glødum edur ef hún er løgd á heita hellu, því jafnskiótt og hún kólnar, hiadnar hún nidur og verdur ad lyktum jafnlin og hún ádur var. Hve miøg loptid verdi samanpressad og útþanid frá sínu edlilega ásigkomulagi, er af náttúruvitríngum enn ecki ad øllu leiti uppgøtvad; híngad til giørdar tilraunir

þeirra sanna, að það verði samanpressað í 1340 sinnum minna rúm enn það eptir sínu náttúrlega eðli krefur.

Þúngt má loptið eirnig vera til að géta; ei einúngis tekið ámóti dömpum, reyk og öðru því sem frá jörðunni stígur, heldur og líka í lengri eður skémri tíma borið það, uns til jarðarinnar aptur sellur, því það er ein af náttúrunnar höfuðreglum að af fliótandi hlutum sé ætíð sá léttasti ofaná. Þessi loptsins eiginlegleika sannast líka af þeirri einfeldu tilraun, að súga likilpípu, fingurbiörg eður blóðhorn fast á hörund sér, því betur sem loptið er sogið burt, því minni mótvigt hefur það lopt sem fyrir utan er, og sýnir því betur sinn eigin náttúrlega þúnga, hvorr einúngis er orsök til hvorsu fast sá líkami situr á hörundinu úr hvorium loptið er sógið. Þýngd loptsins er ekki ætíð og hvervetna hin sama; medalþýngd eins loptstöpuls, sem til dæmis: er fet á hvorn veg af flörum, og að hæð nær frá jörð vorri út úr dampahvolfinu, er jöfn við þýngd þess stöpuls af qvikasylfri sem hefur sama ummál og hinn, en er að hæð einúngis 28 þumlúngar eður 2⅓ partr fets; þegar menn nú líta til þess, er með náttúruvísra manna tilraunum og reikníngum er nógleya fannað, að qvikasilfurs teningr, sem er fet á hvorn veg, vegur 950 ℔, eður 11 vættir og 7 fiórð-

únga, þá er audrádid ad loptsins þýngd á hvør-ium ferhyrndum fleti jardar vorrar, sem er fet á hvørn veg má vera 2216⅔ ℔ edur 27 vættir, 5 fiórdúngar og 13 merkur, og ad hún sé jöfn vid þad sem ádurnefndr 28 þúmlúnga hár qvikasilfurs stöpull vegur. Allt hørund á medalmanns líkama, væri þad útþanid í sléttan flöt, reiknast ad vera 15 þvílík ferhyrnd fet, og verdur því loptsins þúngi á hvørium medalmanni, rúmar 406 vættir; þetta mun ad vísu þykia ótrúlegt, þared vér ecki verdum þessa þúnga varir á líkama vorum, en orsökin þartil er sú, ad fiælingarkraptr lopts þess sem innani oss er, heldur nockurnvegin jafnvægi þúnga þeim sem fyrir utan er, líka heldur loptid jafnt ad á allar sídur, og vér erum frá blautu barnsbeini þessum þúnga vanir. Hid ádursagda er einúngis ad skilia um þúnga þess loptstöpulls, sem ad hæd er jafn vid dampahvolfsins þickt, en þad er öllum audskilid ad sé loptstöpullinn styttri verdur hans þúngi minni; loptsins edlisþýngd er ad sönnu hin sama, en verkun þýngdarinnar edur þryckingin á þeim hlut sem þúngan berr, hlýtur ad minka í sama hlutfalli, sem sá þúngi líkami minkar; þaraf er audrádid, ad því hærra sem einn hlutur liggur frá jardar vorrar yfirbordi, því minna hefur hann ad bera af loptinu, því þess styttri er sá loptstöpull sem á

hønum liggur. Héraf leidir en fremur, ad hærstu fiallatindar hafa svo miklu minni loptþúnga ad bera enn flatlendid, sem fiallsins hæd er yfir siófarmálid, hvørt reiknast má fyrir jardarhnattarins sanna yfirbord, eins og ádur er ávikid.

Þessir loptsins eiginlegleikar eru ad sønnu þeir markverdustu, þó hefur þad marga fleiri er á seinni tímum hafa uppgøtvadir verid og þéna til margskonar nytsemda.

Athugagr. Kénnarar í náttúrufrædinni hafa varid miklu ómaki til ad finna hentugt verkfæri, med hvøriu þeir giætu, vid sérhvørt atvik, séd þá umbreitíngu, sem verdur á þýngd loptsins. Kallast verkfæri þetta þýngdarmælir (barometrum *) og er ei af øllum eins tilbúid, því á seinni tímum hafa giørdar verid, ad vísu 11 tilraunir til þess þad yrdi sem handhægast og áreidanligast. Þýngdarmælirinn er ei einúngis í náttúrufrædinni einkar markverdr, heldur hiálpar eirnin, í mannanna daglega lífi, yfrid vel til ad siá nockru fyrirfram bædi storma og óvedur, og gétur því í búskap manna verid til stærstu nota; í jardarfrædinni er hann og brúkadr, eins og sídarr mun ávikid, til ad mæla hæd fialla og láglendis upp yfir sióarmálid (siá

*) Af grísku ordunum βαρυς þúngr og μετρον mælir.

§. 34'. Þýngdarmælirsins ítarlegri útlistun á heima í náttúrufrædinni, en verkanir hans eru grundvalladar á þeirri ádurnefndu höfudreglu, ad 28 þumlúnga hár qvikasilfursstøpull haldi jafnvægi móti jafudigrum støpli lopts *).

§. 20.

Þeir eiginlegleikar loptsins í dampahvolfinu, sem nú eru taldir, heira því til yfirhøfud, án þess litid sé til þeirra ólíku lopttegunda af hvøriu þad er samansett. Þad eru einkum 3 tegundir sem náttúrufródir menn álita fyrir frumparta loptsins í dampahvolfinu **); sú fyrsta tegund kallast lífslopt edur eldlopt (gas oxygenii). Þetta er þad hreinasta af øllu lopti, og er ecki neinum óvidkomandi tegundum blandid; þad er øldúngis naudsynligt til lífsins vidurhalds; án þess gétur eingin skepna lifad, ecki eldrinn logad, eda nockr hlutr brunnid, og einginn málmr bródnad; í því einberu verdur hinn minnsti elldsneisti strax ad stóru báli. Af dampahvolfsins lopti eru $\frac{27}{100}$ partar edur hérumbil $\frac{1}{4}$ partr af þessari lopttegund. Súønnur lopttegund kallast daudalopt (gas azoticum) og er þad eins skadlegt

---

*) Siá Ørsteds Physik §. 313 o. s. frv.

**) Klausturpóstr No. 10 m. fl. fyrir 1819.

fyrir dýrauna líf og andardrátt, sem hid fyrr-nefnda er því heilnæmt og naudsynligt, en þó er þad ómissandi til þess ad gros og adrir jardar ávextir géti vaxid og blómgast. Herumbil $\frac{71}{100}$ partr, edur meira enn helmíngr dampahvolfsins er af þessari lopttegund. Sú þridia lopttegund í dampahvolfinu er kolsýrulopt (gas acidum carbogenii); þénar þad til ad vardveita bædi vora og annara dýra líkami frá rotnun, en ein-úngis $\frac{2}{100}$ partar þess finnast í dampahvolfsins lopti. Þessi temprun á lopttegundunum er nátt-úrunni hagstædust; ef þad væri einúngis lífslopt, af hvörju dýrin hefdu sinn andardrátt, yrdu þau ad vísu brádgiörri og fiörmeiri, enn þeirra líf yrdi þá hinusvegar þeim mun skammvinnara; sama er og um urtirnar ad segia; en med því ad hinar lopttegúndirnar blandast saman vid, verdur líf beggia lángvinnara. Heilnæmi loptsins er ad mestu leiti undir því komin ad þessi lopttegunda temprun sé mátulig.

§. 21.

Adur er á þad vikid, ad ei sé loptid ein-gaungu dampahvolfsins undirstødu- (frum) efni, heldur eirnin dampar og annad þesshátt-ar, sem frá jördunni kémur (§. 19). Sumar og vetur stíga jafnan, allstadar frá jard-

arinnar yfirbordi, af landi og sió, af dýrum og urtum, ímisligir dampar í lopt upp, og færa þángad marga hluti, er ad sönnu ecki egu þar heima ad réttu lagi, en sem þó hafa hina kroptugustu verkun á loptsins heilnæmi fyrir dýranna líf, og á vedurlagid. Menn gétska á, ad frá hverium ferhyrndum reiti vatns og siórar, sem er míla á hvern veg, stígi árlega í lopt upp 600 milliónir þvílíkir dampa teníngar, sem eru fet á hvern veg; en frá hverri manneskiu daglega 35 þvílíkir, sem eru þumlúngr á alla 6 vegi. Ef vér nú rennum huganum til þess, (hvers feirna mun frekarr gétid verda §. 30) ad meirr enn þríe fiórdu partar af jardar vorrar yfirbordi eru vatni huldir, gétum vér giört ofs nockurnveigin greiniliga hugmynd um, hvílíkt ógrynni af dömpum í loptinu er hulid. Þad er hitinn einkanliga, sem ollir þessari útdömpun jardarinnar og annara hluta, sem hafa nockurn vökva í sér, en vegna þess hann er næsta ólíkr um middik jardar og vid heimsskautin, er útdömpun jardarinnar heldur ecki allstadar jöfn, heldur mest þar, sem hitinn er mestr, og þar lángtum meiri enn ádur er tiltekid; undir heimsskautum, hvar kaldara er, er hún hinsvegar þeim mun minni, svo ad einúngis jafnadar talid verdur sem fyrr er greint. Af tédri orsök er og audrádid ad meira af þessum dömpum

stigi upp frá jörbunni á sumrum enn á vetrum. Medan dampar þessir eru loptinu náqvæmlega sameinadir, berr litid edur ecki á þeim; loptid er jafngagnsært sem þad ádur var, og þeir eru siálfir öldúngis ósyniligir. Loksins verda þeir, eptir ad hafa uppfyllt loptid svo þad ei gétur móti meiru tekid, synilíigir, og nefnast þá annadhvort þoka edur ský, ad því leiti sem þeir halda sig nærr eda fiærr jardarinnar yfirbordi.

§. 22.

Allir tilburdir og loptsiónir sem fyrir oss bera í dampahvolfinu, hafa uppruna sinn annadhvort af loptinu siálfu, edur þeim dömpum og ödru sem þad ámóti tekur frá jördunni. Vindrinn med sínum tegundum orsakast af loptinu; enn regn, dögg, hrím, snjór, ský, þoka og fleira þesshátttar, af dömpum jardarinnar.

Vindrinn edur loptsins straumr og hræring (hvort hún er heldur meiri eda minni) úr einum stad í annan, orsakast af öllum þeim atvikum er hrinda loptsins jafnvigt úr skordum; skédur þetta jafnan þegar loptid verdur þynnra edur þickara í einum stad enn ödrum, hvartil auk fleiri orsaka, einkum ber ad telia hita og kulda; hin fyrrnefndi atvidkar, en hinn seirni samanþrístir öllum hlutum

eptir hværseins náttúrlegu edli. Af þessu er aud-rádid, ad þegar loptid, annadhvørt sólarhitans edur annara orsaka vegna, útvidkast eda þynnist i einum stad, en samanfergist eda þycknar á ødr-um, muni þad verda ad renna úr þeim fyrra til hins sidara, til ad ná aptur sinu náttúrliga jafn-vægi; því meira sem á þetta vantar, því hardari má loptstraumrinn verda, en þegar þessi jafnvigt er aptur feingin, seigia menn ad komi **logn**. Kraptr vindsins vex i sama hlutfalli, sem hans hradi vex, og má þennann krapt áqvarda, þegar fundid er hve lángan veg vindrinn fari á hværiu augnabliki. Eptir misjøfnu hradfæri, sínu er al-mennt ad nefna vindin med imsum nøfnum. Þann vind, sem á augnabliks edur ædarslagsbili ferr 10 feta lángan veg, kalla menn **vindblæ** edur **hægvidri**. Fari vindrinn á því tiltekna timabili 16, 24, 35, 43, 49 eda 54 fet heitir hann annadhvørt **vindgióla**, **stinnings-kaldi**, **hvassvidri**, **stormr**, **stórstormr** eda **offavedur**. Vidberr þad og ad vindrinn ferr 60 feta lángan veg á oftnefndu tímabili, og kalla menn þad **fellibil** (orkan, hurricanes); leggst hann med $5\frac{1}{2}$ punds edur 11 marka þúnga á hvert ferhyrnt fetmál, og eykst þó stundum svo miøg ad hann ferr 120 já 150 feta lángan veg á hværiu augnabliki. Hvílíkir fellibiljir eru næstum

óheyrdir í þeim kaldari löndum, en í þeim heitu bera þeir ei skialdan vid, einkum á eyunum i þeim mexikaniska hafsbotni (milli Nordur- og Suduramériku). Þeir briótast fram í einu vetfángi med ógnarligum krapti, án þess ad siá meigi fyrir fram nockur likindi til þeirra, nema kolsvart ský á fialltindi þar í greud hvadan fellibilrinn kémur; ský þetta er í fyrstu litid, en breidir sig allt í einu út og hylur fiallid; byriar þá fellibilrinn. Stundum koma þessir offavindar frá litlu eldsleitu skýi, sem í heidrikiu dregur hægt og hægt á lopt upp, en í skyndingu hylur allan himinin. Sérligar orsakir þeirra eru mönnum litt kunnar, en verkanir af þeim eru undrunarverdar og óttaligar; eckért stendst þad er fyrir þeim verdur, og þeim fylgia jafnadarliga elldíngar, skruggur, stormar og steypiregn. Ein tegund þeirra eru **hvirfilvindarnir**, vid hveria stundum vart verdur hér á nordurlöndum. Orsakast þeir af tveimur gagnstædum vindköstum, sem fleigiast nidur af háum fiöllum og höfdum, mætast í loptinu, snúast þar í hring og giöra rétt sem svelg edur ydukast á midiu. Verkanir þeirra eru ecki einsóttaligar og fellibilianna, þó géta þeir verid siófarendum næsta skadvænir.

§. 23.

Á ímsum stödum jardarinnar blása vindar jafnan af sömu átt leingurr eda skemurr, svosem: ár, mánudi, dag edur nótt, og nefnast þessvegna stadaldursvindar (venti stati). En á ödrum stödum erú þeir ei vid þessconar ordu bundnir og megu því kallast óstad- edur umhleypings-vindar (venti vagi). Árvindar (venti perennes), eins og allir stadaldursvindar, egu heima í brunabelti, edur fyrir innan krabba- og steingeitar-hvarfsbauga (tropicos §. 7); þad er hérumbil 23½° á báda vegu frá midjardarlínunni; eru þeir meirr eda minna austlægir, eptir sem nordur eda sudur fyrir línuna dregur. Ad nordanverdu vid hana eru þeir nordlægir, og ad sunnanverdu sudlægir; en undir línunni og 10° frá henni á báda vegu, annadhvørt austlægir edur eingir. Mest berr á þeim í því Atlantiska- Bláhlands- því Indíaniska- og kyrra-hafi innan nefndra takmarka, þó gánga þeir tídum, einkum vid Nordurameriku strandir, 12 eda 16 mælistig útyfir þau. Um orsakir árvinda eru meiningar náttúruspékinga miøg svo ólíkar: nockrir halda þeir orsakist af snúníngi jardar fra vestri til austurs á hvørium 24 klukkustundum, vid hvøria hræringu þeir meina ad loptid umhverfis jördina komi á ferd og flug; en ef þessa væri rétt tilgétid

er audſkilid ad þeir ætid mundi bláſa af veſtri, eda ſømu átt hvadan jardarinnar ſnúningr ſkédur. Adrir meina ad túnglſins verkun á voru dampa-hvolfi muni vera þeim ollaudi; en þá mætti bædi hveſſa og lygna eptir flódi og fiøru, hvad þó ad øllu leiti er ómerkianligt. Hinir þridiu géta til, ad tilſhudar ferd ſólarinnar um ſólargángs, eda ſólmerkiahringin (ſiá §. 13) hafi þeſſa verkun, og leida þar til þá røkſemd, ſem er næſta liklig, ad vid þeſſa ferd hennar, ſem hvørgi geingur út yfir áđurnefnd takmørk, þynniſt og útvidkiſt loptid af ſólarhitanum. Þad kaldara lopt, ſeigia þeir, ſtreymir þvi frá ſudri og nordri inni þetta heita loptſvædi; en þared ſólin ámedan heldur áfram leidar ſinnar frá veſtri til auſturs um nefndan ſólmerkiahring, ſvo bægiſt þeſſi loptſtraumr til hlidar, inni þad lopt, ſem ſólin hefur þegar bædi vermt og þynnt, og verdur þvi vindrinn ſud-auſtlægr, þegar ſólin er yfir jardar vorrar ſydri helmingi, en nordauſtlægr ella. Tídum ber þad og vid undir línunni ſiálfri og þarumkríng, ad twø gagnſtæd og jafnſterk vindkøſt mæta hvørt ødru; ſlær þá ſem optaſt i kyrrd med ſtórhrid og óvedri, einkum er eirn hluti þeſs Atlantiſka hafs á milli 4da og 10da mæliſtigs ad nordanverdu vid línuna, (eptir nordlægri afſtødubreidd, ſiá §. 11) hiá ſiófarendum næſta illa ræmdr fyrir

vindköst, brennandi hita og regnhvolfur þess ámilli; nefna þeir þenna part hafsins, sem milli 330ta og 340ta mælistigs eptir afstöduleingd er eirna hættulegastr, og sem þeir því fordast af öllu megni, regn- eda skruggu-hafid.

Mánadavindar (venti menstrui) blása í fleiri eda færri samfelda mánudi af eirni og sömu átt, og þaráeptir í jafnmarga mánudi af annari átt, sem þó ecki ætíd er þeirri fyrri gagnstæd. Vid þá verdur ei vart nema í nockrum pörtum af Indíahafi og einkanlega í Arabíu-Persíu- og Bengala-diúpi. Í þeim hlutum hafs þessa, sem liggia milli línunnar og þess 10da mælistigs eptir sudlægri afstödubreidd eru allan veturin vindar af útnordri, en allt sumarid útsynningar. Nordanverdt vid línuna í Indía hafi blása sífeldir sudvestlægir stormar med regni frá April mánadar byriun til September mánadar útgaungu, en í þeim ödrum 6 mánudum hægir nordaustan vindar. Næst vid siálfan jafndægrahringin (línuna) er náttúrligt ófstadvindi. Þegar þessir mánadavindar skiptast um, sem venjulega skédur nálægt 3 vikum eptir jafndægur, lygnir sá fyrri vindr smátt og smátt, en ossahrídir, vindköst úr ímsum áttum, hvirfilvindar og sellibiljir fylgia á eptir, þángad til sá næstkomandi mánadavindr eptir lángan tíma byriar og nær ad festa

sig. Mánadavindanna sanna orsök er enn ecki fundin *).

Dag- og náttvindar (venti diurni et nocturni) kallast lika haf- og landvindar. Blása þeir einkum á eylöndum og við sjósídu i brunareim jardar; en vart verdur vid þá annarsstadar og jafnvel hér hiá oss. Dagvindrinn hefst þegar sólarhitinn hefur vermt sióarloptid; þad útvídkast og þynnist af hitanum og streymir því ad landinu; þennann vind nefnum vér á vorin útrænu, og vidheldst hann optast frá hádeigi til midnættis. Eptir sólarlagid ferr loptid ad kólna, en miklu meirr og sliótara yfir siónum enn landinu, af því þad heldur leingur á sér þeim hita, hvörn þad um dagin af sólunni hefir medtekid. Af þessu verdur sióarloptid þéttara enn landsloptid, sem þessvegna streymir á haf út, og orsakast þaraf landvindrinn, sem vér nefnum fialla- edur land-gola; vidheldst hún optast frá midnætti til hádeigis. Í gódvidrum eru þessi umskipti

*) Ars- og mánada-vinda kalla siófarendur veniuliga passater eda leidis-vinda, af því þeir sæta þeim opt til ad ná sliótri og hægri ferd á siglingum. Enskir kalla þá og verdslunar-vinda, vegna þess þeir eru kaupmönnum á ferdum þeirra yfrid hagqvæmir.

dags- og nætur-vinda mest reglulig og þeckianlig, jafnvel þó landslag og fiallanna løgun á imsum stødum giøri þau ad ødruleiti hardla breitilig; þannig eru á annesium og útskøgum dagvindarnir hardir en náttvindar hægir; í fiørdum, hvar land heldur ad øllumegin, hinsvegar øldúngis gagnstædt. Er orsøkin þartil audskilin.

Ostad- edur umhleypíngs-vindar eru ei bundnir vid vissan stad; þó egu þeir helst heima í þeim mildu- og kulda-beltum jardar. Blása þar vindar af imsum áttum, þó hafa menn tekid eptir, ad optarr blása vestanvindar í þeim mildu- en austanvindar í kulda-beltunum, og eru þeir þar, í vissu tilliti, ríkiandi vindar. Líka eru einstøku stadir verr ræmdir fyrir storma enn adrir: þannig vænta siófarendur, um vetrarskeid, storma vid Gódrarvonarhøfda, vid sudurodda Ameriku, vid sudurstrandir Nýahollands, Nýasellands, Japans og vidarr, og sigla því þar med allri varúd. Jafndægra stormar eru og hættuligir siófarendum í Nordurálfuhøfum. Orsakirnar til þessa vindanna óstødugleika eru margvíslegar, og egu fiøllin einkum stóran þátt í þeirra uppruna, hrada, stefnu og hindrunum.

Athugagr. 1. Vindarnir ná hvørki yfir allt dampahvolfid né hafa allstadar í því sømu stefnu, því opt má siá í skýarudningi, þó

hvast sé, ad þau hærri ský annadhvørt eru kyrr, eda stefna þvert ámóti þeim lægri. Ad øllum líkindum er efsti hluti dampa-hvolfsins ætíd í kyrrd. Af því rás vind-anna er sem optast lárétt (horizontalis), eda næstum því, hafa þeir feingid nøfn sín af stóndeildarhríngsins sundur-deilíngu (sjá §. 9); þó eru þeir lopt-straumar til, sem annadhvørt stefna lód-beint nidurávid, eda halla út til allra hlida.

Athugagr. 2. Á vissum stødum hnattarins hafa vindarnir nockra sérliga eiginlegleika, sem eru eins breitiligir og landslag þad, yfir hvørt þeir blása; þannig eru þeir heitir, þegar þeir koma frá þeim heitari jardarsvædum; kaldir, þegar þeir standa af jøklum, ísum eda fjalla óbygdum; og þurrir eda suddafullir eptir sem ástendur. Í Arabía og Persía landi blæs endur og sinnum vindr sjá er þar nefnist Samum, og er lífi manna næsta banvænn; líkr hønum er vindrinn Chamsin á Egypta-landi; bádir þeir færa med sér saltpéturs dampa og annad óheilnæmi frá eydimørk-um þeim hvadan þeir koma. Vindrinn Harmattan í Gvinea er fyrir heilbrigdi manna hinn heilnæmasti, en lífi og þroska urtanna er hann skadvænn. Vidarr á hnettinum géta vindarnir haft líkar verk-anir, þegar þeir hrífa med sér óholla dampa, sem jafndarliga stíga upp af fen-

um, forædum, elldgióſandi fiöllum, hver‑ um og ſaltpéturs: eda brennuſteins‑námum.

Athugagr. 3. Þó vindarnir ſtundum ſéu hardla ſkadligir, er þó nytſemi ſú þeir med ſér færa miklu ſtærri. Til ad ſann‑ færaſt um þetta, þurfum vér einúngis ad líta til þeſs margfalda góda ſem þeir til leidar koma; þeir hreinſa loptid fyrir vorn andardrátt; útſkipta hita og kulda, þurk og votvidri millum landa og hérada; auka vöxt og frióſſemi eika og alls aldinis á iördunni; varna vatni og ſió frá ad fúlna af lángvinnu hræríngarleyſi, og ſtirkia þannig vöxt og vidurhald lifendra og líf‑ lauſra hluta bædi á ſió og landi; hérad‑ auki er allr ſá erfidis‑léttir og annar hagn‑ adr, ſem þeir veita mönnum vid ſiglíngar og ímisleg milnuverk, vid þurkun á im‑ ſum naudſynia hlutum, og margt annad fleira *).

§. 24.

Þeim hlutum, ſem dampahvolfid medtekur frá iördunni, ſvoſem dömpum og ödru þeſshúttar, ſkilar þad henni aptur í dögg, regni, hagli, ſnió og í ödrum vatnskynjudum lopttilburdum. Allt þeſskonar nefniſt med einu ordi ofanfall. Um ſký og þoku er ádur nockud talad (§. 21) og eru þau

*) Siá Qvöldvakanna 1 part bls. 260—262.

ecki annad enn samansafnadir dampar, sem frá jørdunni koma, hvorjir vid siálft loptid ecki géta sameinast; en ámedan loptid gétur borid þessa dampa, falla þeir ecki á jørd nidur, heldur sveima í loptinu hærra eda lægra, eptir sem þýngd þeirra er stór til, ad jøfnudi vid loptsins eigin þýngd. Skýin eru hærra upp í loptinu þad sem þokan er nidur vid jørdina; sannar þad reinsla þeirra sem ferdast hafa uppá há fiøll, því tídum siá þeir heidríkan himin, þó hann hiá láglendis búum sé skýum hulinn; þoka sem sést af fiøllunum í bygdinni er fyrir augum byggdar manna náttúrlig ský. Um midbik jardar er þoka miøg skialdgiæf; ollir þad því ad sólarhitinn giørir þar loptid þynnra og léttara og því midurr lagad til ad fleyta dømpunum; falla þeir því strax til jardarinnar aptur sem døgg.

Døggin er annadhvørt qvølld-, eda morgun-døgg; þá sídarnefndu má einúngis telia til ofanfalls tegundanna, vegna þess ad qvølld- eda náttdøggin er í raun og veru ecki annad enn sviti jardar, sem vid næturkuldan stigur upp af henni og safnast um leid í smádropa á urtir og aldini. Morgundaggar verdur einkum vart vid sólaruppkomu; loptid þynnist þá og léttist vid sólarhitan, og falla því dampar þeir, sem þad, eptir sínu náttúrligu þýngdaredli, ecki gétur

borid, í smá dropum til jardarinnar. Opt berr þad vid ad dögg þessi, eptir brennheita sumardaga, er sæt sem hunáng, og þegar hún þornar, verdur tídum eptir á grasinu einhverslags hvítleit móda, er nefnist hunángs- eda mel-dögg; hún orsakast af vökva þeim sem sólarhitinn pressar af grösum og ødrn aldini, líka af fríódupti urtanna og ødru þesshattar. Dögg er venjuligri í heitum löndum enn köldum; þó verda menn hennar um sumartíma jafnadarliga varir hiá oss; á haustum og vetrum, þegar frost er, verdur allskonar dögg ad hélu og hrími í þeim köldu löndum; en ad hún líka þá ad miklu leiti sé tegund ofanfalls, má glöggvast þar af ráda ad á laufblödum og ødrum þvílíkum hlutum er sú hlidin sem uppveit, hélud, en ecki verdur þess vart á þeirri sem nidur snýr. Þegar skýin eru ordin mettud af vatnsdömpum, og þeirra mörgu smáu vatnskynjudu blødrur sameinast, getur loptid ecki lengur fleytt þeirra þúnga. Héraf orsakast vatnsdroparnir og er þeir falla til jardar nidur í mergd og sífellu, skédur þad vér venjuliga köllum regn. Því fleiri smápartar dampanna sem ná ad sameinast, því stærri verda regndroparnir, og nefna menn þá regnid steipiregn; en séu droparnir smágerdir heitir þad údi eda suddi; en hvort heldur sem er, fá þó ætíd droparnir hnött-

ótta løgun vid þad þeir falla gégnum loptid. Í þeim heitu jardarsvædum er úti og suddi skialdgiæfr, vegna þess hinu megni sólarhiti særir þar mergd dampa í lopt upp frá jardarinnar yfirbordi; þeir hlaupa því hæglegar saman í dropa og þad því heldurr, sem loptid, vegna hitans, er midurr lagad til ad bera dampanna þúnga. Regndropanna stærd er og miøg svo undir því komin, hvørsu hátt í lopti skýid er hvadan regnid kémur, því þeim mun leingra sem droparnir falla, þess meiri vidbót géta þeir feingid á leidinni, af þeim dømpum sem sveima nedarr í loptinu. Um midbik jardar falla endur og sinnum regndropar, sem eru þumlúngr ad þvermáli. Á vissum tímum ársins eru þar líka sífeldar rigníngar, en á ødrum einlægir þurkar. Þannin er í nyrdra helsíngi brunareimarinnar idugligt regn um sumartíman, en í þeirri sydri sífeldir þurkar um sama leiti.

Vid vissa kuldagrádu frióſa regndroparnir í loptinu, og falla þannig nidur í hnøttóttum iskornum, sem nefnast hagl; á stundum verda þau, einkum í þeim heitari løndum, ótrúlega stór, og giøra þar tídum mikin skada á lifandi sképnum, ávøxtum og aldini; eru og þeim mun óttaligri, sem struggur og eldíngar optast nær eru þeim samfara. Haglid gétur orsakast af snió

sem í loptinu hrekst fyrir vindi og hnodast þar saman í smá mola, hvørjir i fallinu verda hnøttóttir. Þetta má gløggvast siá á því, ad haglkornin opt og tídum eru innani ecki annad enn miúkr sniór, þó þau utanverdt séu hørd ordin, bædi af fallinu og líka þaraf ad þau ímist frióſa eda ſlakna á leidinni, eptir því sem loptdrøgin, gégnum hvør leid þeirra liggur, eru heit eda køld.

Stundum frióſa damparnir í ſkýum uppi ádur þeir ná ad ſafnaſt ſaman í regndropa, en þannig áſigkomnir géta þeir ecki leingur samlagast loptinu, eda haldist vid í því, falla því á jørd nidur, og nefnast snjór. Þegar lygnt er, sundraſt þessir froſnu dampar ei miøg vid fallid, koma því nidur í ſtórſlikſum, og heitir þesskonar ofanfall logn- lappa- eda ſkiæda-drífa. Snióskornin eru ad réttu lagi løgud sem 6 blada rós, edur hafa 6 odda útúr sér á allar sídur; þó breitist þetta miøg, af því bædi teingiast opt fleiri sniókorn saman þegar lygnt er, og líka eltast þau opt í sundur í vindi og frosti; verdur þá snjórinn miklu smágérdari enn ella. Opt berr þad og vid ad sniórinn annadhvørt er hálfbrádnadr þegar nidur kémur, og rétt sem ordinn ad hlaupi, eda hann þidnar strax á eptir, og heitir þad slidda. Sniórvatn er ecki blandad med neinum stórgérdum

jardar tegundum og er þessvegna þad tærasta af ǫllu vatni; segia menn þad meigi í mǫrg ár geima, án þess þad fúlni.

§. 25.

Auk ádurtédra vatnskyniudu lopt-tilburda (meteora aqvea), eru enn nockrir, sumir elldligir eda brennandi (meteora ignea), en adrir einúngis tindrandi eda lýsandi (meteora lucentia). Medal hinna fyrrnefndu má einkum telia elldíng og skruggu (fulgetrum et tonitru), er í einu ordi nefnast reidarslag (fulmen). Skruggan er einhvǫrr hinn óttaligasti, en jafnframt hátignarfyllsti og nytsamasti vidburdr i náttúrunni. Rafkraptr-inn (electricitas), er reidarslagsins helsta orsǫk. Ver þad svo til, ad þegar megnir og rafurkyn-iadir dampar, er uppstíga frá jǫrdunni, fergiast saman í svart og þick ský, af hvǫrium tvǫ eda fleiri annadhvǫrt rekast eda núast saman fyrir vindi, þá hitna þau, og eykst rafkraptr þeirra ad sama hlutfalli; loptid í skýunum fær vid hitan margfaldan stælingar- eda fiadrar-krapt; þó sam-leidir þetta enn ecki siálft reidarslagid, heldur þénar því einúngis til undirbúnings. En komi ad svo búnu annad ský, sem ei er rafurkraptad, vid skrugguskýin, þá flýgur, eptir rafkraptarins

náttúru, í einu augnabliki út af þeim rétt sem elldknöttr gégnum loptid, og springur loks med óttaligum hvelli, svo ad undirtekur í øllu því sem í náund er, fiøllum, skýum og jafnvel siálfu loptinu. Orsakast þannig undireins bædi eldíngin og skruggan siálf eda þruman. Bádar ské í sama vetfángi, en vegna þess ótrúliga hrada med hvørium liósid fleygist fram í loptinu, berr elldíngin miklu fyrri fyrir augu vor, enn þruman heyrist. Af þessu er eirnin audsært hvørsvegna elldíngar og skruggur optast koma eptir heita vedur-daga, optarr á sumrum enn vetrum, og heldurr í þeim heitu løndum enn køldu, því hitinn er þad sem mest eykur dampamegnid og rafkraptin í skýunum, eins og ádur er ávikid. Fyrir utan hiólgaddshríngana, verdur næstum aldrei vart vid reidarsløg; í nockrum af þeim heitu løndum eru þau lika mikid skialdgiæf. Nytsemi þeirra er ysrid stór: þau kiæla loptid og hreinsa þad frá óhollum dømpum, friófga jørdina og rétt sem endurnæra bædi dýr, urtir og alldini. Líkan uppruna hafa margir adrir lýsandi, og ad nockru leiti elldligir loptvidburdir, svosem: **keiptr, hræfarelldr, vígahnettir, vígabrandar, flugdrekar, hrælog** og **stiørnuhrap**, því allir þessir vidburdir orsakast af rafurkyniudum og óliukéndum døempum í loptinu, hvørjir upp-

stíga af fenum og forædum, rotnum dýrahræum og ødru þessonar.

**Athugagr.** Nøfn þessara seinastnefndu loptvidburda eru flest øll upprunin af hiátrú fólks á fyrri tímum; þá var meining sú almenn, ad sáséðir fyrirburdir í náttúrunni, boda mundu einhvør óordin stórtídindi, einkum strid eda ønnur ólucku tilfelli. Sum af þessum nøfnum eru dreigin af líking siálfra loptvidburdanna med ødrum hlutum t. d. hnøttum, spiótum, flingandi drekum eda ødru þesshættar.

### §. 26.

Af hinum lýsandi loptvidburdum eru norðurliósin (aurora borealis) einkar prydilig og merkilig. Í heidskíru og hreinu vetrar-vedri braga þau hiá oss til og frá um norðurpart himinsins sem biartr, stundum nockud raudleitr logi. Þeirra sønnu orsøk hafa náttúruspeckingar enn ecki til vissu fundid; en sennilegust er gáta þeirra, sem meina ad þau komi af líku tilefni sem reidarslagid, edur af rafurkyniudum og skímuſærandi (phosphorescentibus) brennusteins- og olíu-dømpum, sem um næturskeid slái uppá himininn frá heimsskautunum. Um midbik jardar siást þau ecki, og hiá oss nordurbúum er þad skialdgiæft, ad þau nái yfir allan vorn sión-

deildarhríng. Vid sudurheimsskautid verdur einnin vart vid þau, en eru þar þó ecki eins veniulig sem vid nordurheimsskautid, hvaraf þau eirnin hafa nafn sitt ødlast. Nytsemi þeirra fyrir heimsskautabúa í þeim laungu og leidinligu vetrarnóttum, er øllum audrádin.

Á regnbogan (iris) hlýdir hér einnig ad minnast, því hann má ad nockru leiti telia med þeim loptvidburdum, sem hafa uppruna sinn af dømpunum í loptinu. Er hann, sem øllum er kunnigt, marglitr hálfhríngr, hvørr gagnvart sólu mindast í vatnsdropunum í loptinu; þeir brióta þá geisla er sólin á þá sendir, og þaraf koma þeir morgu og prídiligu litir, er vér siáum í regnboganum; ytst í hønum er raudr, þá raudgulr, svo gulr, grænn, himinblár, døckblár og innst lifraudr eda raudblár litr; verda litir þessir því fegri og skírari, sem regndroparnir, í hvørium þeir mindast, eru stærri og þéttari, og því biartara sem sólin skín. Skédur þad og tídum ad geislarnir tvíbrotna, eda þeim slær til hlidar frá þeim fyrsta regnboga á annad þickt ský, þar í nánd, brotna þeir þar og minda annan regnboga utanum þann fyrsta med øllum hinum sømu litum, þó í gagnstædri rød, því í þeim ytri regnboga er sá raudi litr innstr og svo hvørr ad ødrum, eins og ádur er talid, en sá lifraudi ytstr.

Mikid skialdgiæft er þad ad sá þridji regnbogi siáist utanum þessa tvo, þó berr þad endur og sinnum vid og eru þá litirnir í honum í somu rød sem í þeim innsta; hann er eirnin óstírastr allra, því geislarnir dapraſt því meirr sem þeir optarr brotna og endurkastast. Í raun réttri er regnboginn heilhringr, en sá annar helfingr hans séſt ecki af því ávali jardar skyggir á. Hæd hans er undir því komin hvorsu hátt sólin er á lopti, því um hádeigisbilid er hann annadhvort óſýniligr ad ollu eda nemur næstum vid sióndeildarhríngin. Sá innsti edur adalregnboginn séſt ecki, þegar sólin er hærra á lopti enn 42° 2′ yfir siónðeildarhríngin.

Loptsión sú er vér nefnum hafgall þegar hún er í sudri, en nordurgall þá hún séſt í nordri, kémur af somu rokum sem regnboginn, hefur og alla hina somu liti, en er einúngis litill geisli sem regnbogafótr. Af somu orsøk koma líka loptsiónir þær er vér nefnum sólhríngа og rosabauga (coronæ et halones), sem ýmist siást kríngum sólu og túngl eda annarsstadar á loptinu, eptir því sem dampаrnir eru þéttari á einum stad enn ødrum, og geislar sólar og túngls brotna í þeim margvísliga. Þegar hríngar þessir eru margir í senn, og hafa þó ecki allir sama midpúnkt, synast allstadar, hvar þeir gánga hvorr

gégnum annan, sem biartir-liómandi geislar; kall-ast þessir á sólhríngunum aukasólir (parhelii), en á rosabaugunum aukatúngl (paraselene) vegna líkingar þeirrar, sem geislar þessir hafa med sólu og túngli. Siáist þeir bádummegin sólar, segia menn ad bædi fari undan og eptir henni, og nefnist þá sá geisli sem á undan-geingur gýll, en sá sem eptir ferr úlfr, en siáist þeir eirnin ofanyfir og undir henni, er hún í úlfakreppu.

Tídum berr þad vid í vætu vedri, þegar loptid er fullt af dømpum, og þick ský rosa svo til ad sólin nær ad senda geisla sína ámillum þeirra, ad svo er til ad siá sem biartar hríslur skefni frá sólunni gegnum op þad, sem verdur ámilli skýanna, nidur til jardar; nefnum vér hríslur þessar sóldrøg (virgas solares), edur segium ad þad stafi undir sól. Loptvid-burdr þessi er ecki annad enn siálfir sólargeislarnir, sem verda oss sýniligir, af því birtan á þessum stad er meiri enn þar íkríng hvar skýin skyggia á; og damparnir sem sveima í loptinu á leid þeirra uppliómast því meirr enn annarsstadar.

## §. 27.

Lýsing eda birting og røckur (diluculum, crepusculum) eru ad réttu lagi ecki

loptvidburdir, og eru þessvegna edlis útmálun jardarinnar óvidkomandi; en vegna þess dampahvolfid á eirnin þátt nockurn í þeirra tilveru, skal hér med fám ordum á þau vikid.

Tímabil þad, á hvöriu birtan á morgna ferr vaxandi til sólaruppkomu, köllum vér birtíng, en þad, á hvöriu hún á qvölldum allt frá sólsetri minkar, nefnist röckur. Orsök beggia er sú, ad þegar sólin er ei miög lángt undir sióndeildarhríngnum, sendir hún geisla sína upp í þann hlut dampahvolfs, sem oss er synilígr; en þessir geislar, er koma úr þynnra lopti, brotna í enn þéttara, umhverfis jördina, og beigiast svo nidurávid til hennar. Medan sólin er 18° fyrir nedan sióndeildarhríngin er birtíng enn ecki birinn eda röckrid á enda, af því ad geislar sólarinnar eru ei komnir inní þann hluta dampahvolfsins sem oss er synilígr. Af þessu er audrádid, ad á vortíma, þegar dagr hiá oss ecki setst, muni sólin ecki komast svo lángt undir sióndeildarhríngin sem nú var greint, eins og ad hún á haustum, úr því dagsett verdur, geingur leingra undir, enn fyrr var tiltekid.

§. 28.

Hitinn í loptinu orsakast ad mestu leiti af geislum sólarinnar; en af því hún er stundum

nærr en stundum fiærr enum sama stad á jardar-hnettinum, er loptslagid eda temprun hita og kulda á ímsum timum næsta ólík. Af þessari náttúr-ligu og ordulign breitíng á hita og kulda, med ødru því hún af sér leidir, framkoma þær svo-nefndu náttúrligu árstídir.

Í bádum brúnareimum jardar (siá §. 10) eru tvær árstídir, hin þurra og hin vota; sú fyrri er þar sumar og hin sídari vetr. Líkligt mætti virdast ad í sydri brunareiminni væri þá sumar er sólin geingur þar yfir, en vetr um sama leiti í þeirri nyrdri; en þad er ecki, því þessar náttúr-ligu árstídir eru stiørnufrædinnar árstídum ad ølluleiti gagnstædar; sú vota árstíd, eda vetrinn, fylgir med sólunni, svo ad þegar hún geingur nordur yfir midjardarlínuna, byriar þar vetr, en sumar um samaleiti í hinni sydri brunareim; þegar sólin kémur aptur sudur fyrir línuna byriar þar vetr sem hann endar hjá þeim, sem búa ad nordanverdu; þó er øllum audskilid, ad þessa verdi ei svo snøgg umskipti, heldur merkist breit-íngin smátt og smátt, eins og líka ímsar kríngum-stædur, til dæmis: há fiøll og annad landslag, géta giørt þad ad verkum ad sú þurra eda vota árstíd byrji eda endi á vissum stødum seirna enn annars bæri, svo ad þar jafnvel eru því tvø sumur og tveir vetur. Hvad hitanum vidvíkur, þá er

hann næstum hinn sami vetur og sumar til 20 breiddar grádu á báda vegu frá midjardarlinunni; en úr því komid er ad sólarhvarfsbaugum, frá hvorium sólin getur fiarlægst um 47°, eda beggia brunareimanna breidd, verdur mismuninn allvel þeckianligr.

Þeir partar blídvidrisreimanna, (siá §. 10) sem nærst liggia brunareimunum, hafa jafnadarliga sama vedráttufar, sem veniuligt er fyrir innan sólarhvarfsbaugana; en því leingra sem frá þeim kémur, því audþecktari er greinarmunr milli fiögra náttúrligra árstída, nefnilega: vors, sumars, hausts og vetrar. Valla berr þad vid ad sniór stáist á láglendi fyrr enn komid er 40° (120 þingmannaleidir) til nordurs eda sudurs frá midjardarlinunni, edur hérumbil 16½° (50 þml.) inni blídvidrisreimarnar. En þadan ífrá og ad 60ta breiddar mælistigi (180 þml. í nordur eda sudur frá linunni) verda þessar 4 árstídir hægast greindar hvør frá annari, jafnvel þó imisligt landslag giøri hér og þar í þessu nockra breitingu.

Ur því komid er útfyrir þá 60tu breiddargrádu styttist vor og haust meirr og meirr, og loks utanverdt vid hiólgaddshringana eru einúngis tvær árstídir, nefnil. sumar og vetr þeck-

ianligar, en þad syrra styttist og hinn sídari leingist, því nærr sem dregur ad heimsskautunum.

Þetta sem nú er talid er einúngis þær adalreglur, eptir hverium árstídirnar breitast, ad svo miklu leiti sem damparhvolfsins, frá sólunni lánadr hiti ollir því; en hinsvegar má ecki gleima þeirri sérligu, og med siófarenda reinslu sønnudu athugasemd, ad hinn sydri partr dampahvolfsins, er ad jafnri tiltølu (jafnlángt frá línunni) miklu kaldari enn sá nyrdri. Ad líkindum er orsøkin hértil ad nockrulciti sú, ad fyrir utan þá 60tu sudlægrar breiddar grádu er eckért land, svo menn tilviti, heldur eintómt haf, svolángt sem komist verdur vegna ísa; en af því siórinn er, eptir náttúru sinni, midurr enn þad þura land, lagadr til ad halda á sér sólarhitanum, þá gétur hann ecki, sem þad, meddeilt dampahvolfinu neirn il þegar vetrar ad. Hinsvegar eru á nordurparti hnattarins byggd og ad nockruleiti yrkt lønd vid þá 66 breiddar grádu, og máské Ameriku fastaland nái allt ad nordurskauti heims. Sumarid er líka á nordurhelfíng hnattarins 8 døgum leingra enn vetrinn (siá §. 14) hvad ad náttúrufródra reikníngi gétur ollad, ad hitinn í loptinu verdi næstum 23 sinnum meiri yfir nordur- enn sudur-parti jardarinnar.

Eins og þær náttúrligu árstídir eru fráleitar þeim astrónomisku edur stiörnufrædinnar, so er loptslag og vedráttufar líka á ímsum stødum hnattarins næsta ólíkt því, sem þad eptir þess mathematiska klímats edli ætti ad vera. Þannig hafa landsplátz, sem liggia á 60ta nordlægrar breiddar mælistigi (t. d. Biørgvín í Norvegi) miklu mildara loptslag og vedráttufar enn ønnur sem liggia 10u mælistigum sunnarr (t. d. midpartar Þidsklands). Eru þartil margar orsakir: eitt landsplátz liggur stundum vel vid sólu, fiøll skýla máské eirnin ad á þá hlid hvadan kaldra vinda helst væri von, og er þá náttúrligt, ad þad nióti meiri vedursællda, enn ønnur, sem bædi eru sløt og halla undan sól, en móti þeirri helstu kulda átt. Þad er og sannreint, ad því hærra sem uppí loptid dregur, þess kaldara er; þessvegna eru þau lønd, sem hærra liggia, ætíd kaldari enn ønnur lægri, jafnvel þó bædi liggi undir sømu breiddargrádu. Þaraf er audskilid hvørsvegna optast er heitara vid siósíduna enn til sveita, nefniliga af því, ad landid hækkar og rís uppávid eptir því sem frá siónum dregur. Margar adrar orsakir, svo sem ímisligr jardvegr, meiri eda minni yrking jardar, fiøll, hálsar og skógar géta líka studlad til ad breita landsplátzanna náttúrliga loptslagi.

Athugagr. Þad sem ádur er ávikid, áhrærandi vøxt kuldans þegar upp í loptid dregur, má líka siá á sniófiøllum og iøklum, hvørjir ár út og ár inn eru ofantil huldir med ís og snió, þó rætur þeirra séu berar. Þegar komid er ad vissri hæd í lopt upp, gétur sniórinn ecki þidnad vegna kulda. Takmark þad, hvar þessa fyrst verdur vart, heitir snióllína (siómark); um midbik jardar er hún hærst, en því lægri sem nærr dregur heimsskautunum undir hvørium hún nemur vid jordu. Hæd hennar á Íslandi má siá á iøklunum, hvørjir ad nedanverdu eru snióausir, en úr því upp fyrir sniólínuna kémur, alhvítir.

§. 29.

Svo er kraptr sá, hvørs vér varir verdum hiá segulsteininum, markverdr, ad óvidurqvæmiligt er ad gánga fram hiá hønum þeigiandi í edlis útmálun jardarinnar. Þad er náttúra segulsteinsins, ad draga ad sér járn og øll járni blønd-ud námukyn (mineralia), er koma í nánd vid hann. Frekari útlistun á þessum hans eiginlig-leika á heima í náttúrufrædinni. En hér berr þess sérilagi ad géta, ad segulsteirninn, þegar eckért hindrar hann, snýr sínum veltupúnctum (pólum) jafnan í sama horf sem hiólgaddar himinsins. Þessi hans eiginligleiki hefir géfid tilefni til ad kumpásinn var giørdr (siá §. 9) og ad svo

miklu leiti studlad til, ad siófercdir og siglíngar yfir jardar vorrar ómæliligu høf, bædi til landaleitar og kaupverdslunar, hafa á seinni tímum ordid margfaldt hættuminni enn þær ádur voru.

A kumpásin er ádur minnst í §. 9, annari athugagrein, og er þar greiniliga á þad vikid hvørnin hann sé giørdr. Siálfa segul- edur leidar-steins nálina giøra menn af finasta og besta stáli, og er hún sidan dreigin þángadtil um segulstein frá einum hans pól til annars *), ad hún feingid hefir alla segulsteinsins náttúru. Hví vandligarr sem þetta er giort, því betri verdur nálin. Nálar þessar brúkast med tvøføldu móti: adrar einúngis til ad finna med þeim norduráttina, og eru þær sem í kumpásum brúkast til þess einkum lagadar. Þær liggia lárétt (horizontaliter) í kumpásnum og benda samqvæmt edli sínu med endunum til nordurs og sudurs, þó ecki ad ølluleiti beint á þessar áttir, heldur ímist meirr eda minna austur eda vestur ábógin. Bilid, sem verdur ámilli leidarsteins nálarinnar nordurpóls og þess sama nordurs, edur sérhvørs stadar hádeigislinu, nefnist nálarinnar misbending (declination), og hún siálf misbendingar

---

*) Sá endi segulsteinsins sem veit til nordurs heitir nordurpóll hans, en hinn annar sudurpóll.

nál. Vil þetta er ecki allstadar eda ætíd jafn-stórt, heldur ímist vex eda minkar jafnvel á sama deigi; haldid er ad nordurliósin, medal annara hluta, séu þessari breitíngu miøg svo ollandi. Allrar segulsteinsnálar eru eins giørdar og þær umgéknu, en umbúnadr þeirra er øðruvísi; þær géta snúist bædi hvirfilrétt (verticaliter) og líka lárétt (horizontaliter); benda því meirr eda minna bædi til nordurs eda sudurs, eins og ádur er gétid, þángadtil þær fundid hafa segulsteinspólanna réttu stefnu; þaradauki fellur nála þessara nordurpóll meirr eda minna nidur fyrir sióndeildarfløtin. Vil þad, sem er frá honum nidurávid ad nálarinnar nordurpól, kallast **nidurbendíng** (inclination) og nálin siálf **nidurbendíngarnál**. Þetta bil er eins og þad fyrr nefnda edur siálf misbendíngin, mørgum breitíngum undirorpid, án þess ad orsakir þartil séu enn þá kunnar. Segulsteinsins sanna edli er og ad mestu hulid.

§. 30.

## Um landid.

Nú er ad minnast á **landid** eda þá þurru jørd, sem er hinn annar høfudpartr hnattar vors. Til vissu vita menn ecki, hve stórt landid er ad jøfnudu vid hafid, af því takmørk beggia eru enn ecki allstadar med fullkominni vissu uppgøtvud, þó

geíska menn á ad einúngis $\frac{1}{4}$ partr af jardarinnar yfirbordi sé þurr. Løndin liggia ecki í einu lagi edur eru samanhángandi, heldur eru adgreind í sundurlausa parta, af hvørium þeir stærstu nefnast **meiginland** (continens o: terra), þeir minni eylønd, og hinir minnstu **eyar** edur **hólmar**. Í raun réttri eru þó bædi hin stærri og smærri lønd hvervetna umflotin af siónum, og meigu ad svo miklu leiti heita eylønd eda eyar.

Hvídast er landid fullkomliga flatt eda slétt, heldur hallar því meirr eda minna á einhvøria hlid; og jafnvel þó vér álitum landspláts nockurt ad vera slétt, er yfirbord þess eingu ad sídur optast hulid med smáum ójøfnum. Þær hædir sem einúngis giørdar eru af lausri jørd, sem regnid gétur bleytt upp, køllum vér **hóla**, en **hollt** og **kletta**, ef þær samanstanda ad mestu edur øllu leiti af steinum. Séu hollt þessi afarhá, nefnast þau **fiøll**, hvøred eru einhvørr hinn merkiligasti partr landsins. **Fiallagardar** eru radir af fiøllum, hvørra rætur eru samfastar; hæd þeirra er næsta ólík. Þau hærstu fiøll kallast **háfiøll** (tindafiøll) og eru optast í sambandi hvørt vid annad, jafnvel yfir lángar leidir, og í ímsum skapnadi. Stundum líkiast þau margra blada rás; stundum stofni þeim, sem á bádar hlidar skýtur út greinum og

qvistum; opt berr þad og vid ad tveir háfiallagardar, sem gánga jafnsidis hvørr ødrum, sameinast med þeim þridia, sem liggur þversum ámilli þeirra. Allir þvilíkir fiallagardar á meiginlandinu meigu álitast sem beinagrind landsins, sem heldur þess líkama saman. Vid hlid þeirra eru optast nær ønnur lægri fiøll, hvør þessvegna nefnast undirfiøll (hlidarfiøll); þau lægri af þeim eru múlar edur hálsar, en hin sem ad hæd eru midt ámilli þessara og háfiallanna, heidar. Undirfiøll eru veniuliga vídast hvar grasi vaxin, þó eru eirnin hér og þar á þeim klettar og klúngur. Hærst upp af heidunum kémur háfiallid siálft; er þad hvervetna med diúpum og þraungum skordum, háum klettabeltum og støllum, sem næstum ómøguligt er ad ad komast, og med þvergnýptum heingiflugum, graslausum gnýpum og tindum, sem virdast ad ógna skýunum og opt skaga upp úr þeim.

Athugagr. Þessi sundurgreining fiallanna í múla edur hálsa, heidar og háfiøll er giørd sérilagi í tilliti til hædar þeirra, og þeirrar ordu er náttúran jafnadarligast hefur fylgt í skapnadi þeirra. En stundum bregdur þó útaf henni, þvi heidar eru ei skialdan til án háfialla, líka háfiøll þau, sem annadhvørt ad øllu vanta undirfiøll, eda þó eru án þeirra á eina hlid edur fleiri.

§. 31.

Þegar litid er til fiallanna ímisliga aldurs og þess margbreitta efnis, hvaraf þau giord eru, adgreinast þau í frumfiöll (montes primævi), leir- og kalkfiöll (montes intermedii sev transitorii) og flatlagafiöll (montes stratiformes secundarii). Frumfiöllin eru soo gömul sem siálfr jardarhnöttrinn, og elldri enn bædi urtir og lifandi skepnur, hvad nógsamliga sannast af því, ad í þeim aldrei finnast minstu merki til steingiörvínga *). Þeirra helsta

*) Allstadar á jardarhnettinum, einkum í kalk- og flatlaga-fiöllunum hafa fundist mindir af hálfum og heilum líkömum stó- og landdýra, líka gras, urtir og ímislig trékyn, sem ad steini er ordid; nefnum vér þetta steingiörvínga (petrefacta), og eru þeir öldúngis ecki, sem nockrir meina, eintómt leikverk náttúrunnar, heldur sannar eptirstödvar þess dýra- og urta-ríkis, sem til hefir verid, laungu ádur enn eldstu sögur tilná, því margar þvílíkar dýra- og grasa-mindir finnast ad steini vordnar, hverra kyn og tegund menn nú hvergi vita tilvera á hnettinum. Vidberr þad og ad menn finna steina innaní hverium þessar mindir eru, og hvad undarligast er, ad skélfiska, kúfúnga og sióigrasa steingiörvíngar finnast opt á hærstu fiöllum, stundum diúpt nidri

efni er grásteirn eda granít *), sem er þad nedsta lag og rétt sem undirstada allra annara steina-tegunda. Imisligir málmar, einkum tin og járn og hinir pridiligustu kristhallar finnast i þessum fiøllum; þau eru hin hærstu og hátignarligustu á hnetti vorum, og taka ad leingd og vidáttu øllum ødrum fram. Þessi fiøll eigu einkum heima í Austurálfunni.

Leir- og kalkfiøllin eru veniuliga nockud lægri og flatari enn frumfiøllin, en hinsvegar hærri enn flatlagafiøllin; þau hafa nockud af beggia þeirra edli. Í leirfiøllunum eru undra mørg og þunn løg, hvørt yfir ødru, og hefir hvørt þessara laga sérliga námutegund inni ad halda, svosem: alls-konar leirtegundir og þarámedal: bleikia, smidiu-leir, þófara- eda þvottjørd, trippelsiøjørd (terra tripolitana), steinmergr, spiksteirn, líka leir-

í þeim, eins og líka á láglendi. Hvørnig þetta muni, ad líkindum hafa tilgéngid, verdur sídarr ávikid í þeirri 5tu høfudgrein af þessum þætti.

*) Steinakyn þetta er þad eldsta sem til er, og er ecki einfaldt (simplex), heldur samanblandid af 3ur ødrum, sem heita Qvartz, Feldspath og Glimmur (silex qvarzum, silex feldspathum et argilla mica).

skifusteirn *), hvørt opt er einkar málmríkr, enn framarr margskonar málmtegundir, líka má ímis- lig af frumfiøllanna steinakynum í þessum fiøllum finna. Í skorum og holum þeirra verdur vart vid marghattada steingiørvinga, en ecki í siálfum leirløgunum, hvaraf fiøllin giørd eru. Kalkfiall- anna adalefni er sá almenni kalksteirn, allskonar marmarategundir og kalkskifusteirn. Nockur þess- ara fialla líkiast ad miklu leiti leirfiøllunum, og hafa mørg hin sømu steina-kyn sem þau; stein- giørvingar finnast og jafnskialdan í þeim sem hin- um; en nockur þeirra eru af kalktegundum ein- gaungu giørd, og í þeim eru steingiørvingar bædi af urta- og dýra-ríkinu hvervetna ad finna.

Flatlagafiøllin þeckiast frá frumfiøllunum, bædi á þeirra útvortis og innvortis løgun. Frum- fiøllin eru bædi há og brøtt, en flatlagafiøllin flestøll lág og fløt; í þeim eru líka þick, regluli'g løg eda umferdir af ímsum námutegundum, hvar øll liggia lárétt hvørt yfir ødru, hvaraf þau einnig hafa nafn sitt ødlast. Þau bera audsær merki þess, ad þau ecki séu øll jafngømul; hin eldstu þeirra þeckiast ecki svo hægliga frá frum- fiøllunum; helsta efni þeirra er gips, fløgu-

*) Þegar steinakyn þetta er allra hreinast, giørast af því skriftøblur, bríni og annad þesshattar.

kalk, svínasteirn, mikid af sandsteini, jardmergiarflogur med steingiørvíngum af ímsu fiskakyni, líka adrar fleiri kalktegundir, í regluligum løgum hvør yfir annari. Í øllum flatlagafiøllum finnast jafnadarliga løg af koparblendíngi, álúni, vitrióli, gálmeiarjørdu, bergolíu, steinsalti, steinkolum og steingiørvíngum; þar finnast og einkum saltuppsprettur, hverir og laugar.

§. 32.

Bædi í frum- og flat-lagafiøllum má merki siá til jardellda, og úr flatlendi, já jafnvel úr sió upp hafa þeir stundum gosid. Þeim elldgiósandi fiøllum er því eingin viss stadr markadr á hnettinum, heldur eru þau dreifd um hann hvervetna; flest þeirra eru þegar útbrunnin, en sáein brenna þó enn. Margir halda ad jardelldsins edli sé fráleitt hins náttúrliga ellds, vegna þess jardelldrinn skialdan giørir þad ad gleri sem hann brennir; en um þad verdur litid med vissu áqvedid. Jardelldsins heimkynni eru svo diúpt í jørdu nidri ad þau jafnvel eru nedan undir því grásteins lagi, sem er hid nedsta af øllum steinategundum er menn tilvita, og hvørt því má álitast sem undirstada allra fialla. Jardar- eda steinakyn þau sem jardelldrinn brennir og brædir nidri í jørdunni, koma oss ecki fyrir siónir, í þeirra náttúrliga ásig-

komulagi, og eru þau máské alls annars edlis enn þau vér þeckium; þau gióſa upp úr ſylſnum jardarinnar, ſem nockurskonar ledia, ſem í mørg ár eptir er rennandi og logandi, og er þaraf audrádid, ad þau í ſiálſum ſér hafa meigi verkandi hitaeſni. Jardelldſins helſtu framleidingar eru: þétta-hraun, til hvørs telia má ſtudlaberg (saxum basaltes), ſem bædi liggur hvirſilrétt og marflatt, og klýſt veniuliga í 5, 6 og 7 ſtrenda ſtudla; holahraun edur þad eiginliga hraungriót; glerhraun, ſem er miøg ſvo ſkialdgiæſt, hvartil telia má hraſntinnuna; vikur eda vikurkol, ſem bædi ſinnſt gulleitt, ſilſurhvítt og gráſvart; aſka, og ad ſidurſtu ſandr og griótſtycki af ímſu kyni, ſem heil og brotin utſleigiaſt med þeim ádurneſndu. Opid, gégnum hvørt jardelldrinn gýs út, kalla menn giá (crater); innanverdt í barma hennar ſafnaſt brennuſteirn og ímſar ſalttegundir. Tídum berr þad vid, ad í ſtadin ſyrir elld og hraunledíu, gióſa út ſyrn mikil af logheitu vatni, ſem þá, álíkt og hraunledian, rennur yſir nærriliggiandi hérud.

§. 33.

Hinn ſtærſti og lauſaſti hluti jardarbarkarins er ſlatlendid, ſem í ſyrſtu er tilordid, og verdur næſtum dagliga til, af ſióar og vatnsſalla ſlódi.

Sérhvør sandeyri, sem berst saman í vatnsføllum eda vid sió, hefir þessháttar uppruna. Flatlendid hefir í samanburdi vid fiøllin siálf einga teluverda hæd, heldur fyllir einúngis flatlágafiallanna lágar, og liggur ad mestu leiti kríngum stødnvøtn, og med sió og fliótum fram. Steinategundir þess eru túffteinn og adrar þær, sem med hønum eru skurnadar, einkum sandsteirn og sløgukalk, surtarbrandr og steinkol, jardarlím, bædi kalk- og kisilkyniadr sandr, og adrar ótal fleiri. Í flatlendinu vex torfjørd edur reidíngr, líka finnst þarí seit og svart mold, sem opt og tídum verdur af tré því, sem hefur í sér mikla jardsitu og fúnar í jørdunni.

Athugagr. 1. Flatlendid kallast í daglegu tali undir- edur láglendi, hvad og er réttnefni, þegar þad er borid saman vid fiøllin, undir hvørium flatlendid liggur. En í náttúrufrædinni nefnist þad uppskolud fiøll; og ef vér ímindum oss þá afarhæd, sem er frá dýpsta siáfargrunni upp ad rótum þeirra fialla er vér í dagligu tali svo nefnum, þá virdist þad ecki ofnefnt ad nefna siálft undirlendid því sama nafni.

Athugagr. 2. Adurnefnd sundurgreining fiallanna er af mørgum ecki gild metin; seigia þeir ad øll fiøll séu jafngømul, og megi því adaldeiling þeirra ecki vera í frumfiøll

og en ÿngri fiöll; þeim þykir betur til-fallid ad skipta fiöllunum í 5 höfudflocka, þannig: 1) þau einsöldu eda einlægu fiöll, sem eru án laga og hvervetna af sama efni. 2) Þau sem ad sönnu eru af sama efni eda steinakyni giör, en hafa þó í sér greinilig lög eda umferdir. 3) Þau í hverium lög þessi ecki öll eru sömu tegundar. 4) Þau hvorra efni er imisligt og óreglu-liga samanhrúgad, og 5) þau elldgiósandi fiöll.

Athugagr. 3. Á flatlendi, jafnvel í flóum og kringum fen og forædi, finnast opt einstök stór og smá grásteins eda granitstícki, hvar þó eingin þesshattar fiöll eda steinar eru í nánd. Þannin fundu menn á flóanum vid Kyrialabotn, lángt frá öllum fiöllum, eitt þesshattar grásteinsstícki, sem vog 62,500 vættir, og er þad nú brúkad fyrir undir-stödu þeirrar bílætisstytu, er sett hefur verid Gardaríkis keisara Pétri hinum stóra. Imsar gétgátur eru um hvornin steinar þessir hafi á þvílika stadi komist, og yrdi oflángt ad upptelia þær allar saman.

§. 34.

Eins og ádur er áminnst hallar veniuliga sérhveriu landi til sióar; þad hækkar því þeim mun meirr sem frá hönum dregur, og endar halli þessi optast med fiallgardi eda flataheidi, sem liggur eptir landinu endilaungu. Náttúrlig

hæd fiallsins eda hvørs annars stadar á landinu er leingd einnar hvirfillínu frá fiallsins eda stadarins hærsta toppi beint nidur á móts vid siávarmálid, sem álitst ad vera jardar vorrar sanna yfirbord (siá §. 18). Leingd þessarar hvirfillínu eda hædina má vissast og fyrirhafnarminnst mæla med loptsins þýngdarmælir *) (siá §. 19), í hvørium qvikasilfrid stigur edur lækar eptir saunnprófadri reynslu, ad jøfnudi vid landsins

*) Þýngdarmælirinn er giørdr af einlægri miórri glerpípu, sem er hol innaní og beygd saman hér-umbil í midiunni, svoleidis ad bádir endar vita uppad; annar endi pípunnar er lokadr og loptlaus, en hinn opinn. Í pípunni siálfri er qvikasylfur þeim megin, sem endinn er opinn, en vínspiritus hinnmegin. Qvikasilfrid og spiritus mæta hvørt ødru í pípunni eptir tilteknum jøfnudi. Þegar nú loptid þýngist, pressar þad qvikasylfrid nidur eptir pípunni á adra blidina en dreifur vínspiritus uppeptir á hina. Ef þad hinsvegar léttist er þrickíng þess minni á qvikasylfrid, og spiritus sigur nidur eptir í sama jøfnudi, sem qvikasylfrid lækar þar sem þad mætir spiritus. Þessar loptsins verkanir eru samqvæmar því sem ádur er sagt um þess þýngdar eiginligleika (§. 19); vid hlid glerpípunnar er jafnan settur grádumælir, og telia menn þareptir loptsins þýngd eda léttleika.

vaxandi edur minkandi hæd upp frá sióarmálinu; en bædi adgiætslu og kunnáttu þarf vid ad hafa ef mæling þessi á ad verda øldúngis áreidanlig, því loptsins ímislig hita temprun breytir miøg svo bædi loptsins þýngd og lika qvikasilfursins útvídkun eda samanfergíngu *). Pad hærsta fiall sem menn þeckia, Chimbóraffó í vesturálfunni, er med þessu verkfæri af Bouguer mælt ad vera 3217 franska fadma hátt yfir sió upp. En jafnvel þó fiall þetta sé yfrid hátt, má þó iørd vor eingu ad sídur kallast hnøttótt, því þess hæd er ecki þúsundasti partr af hennar hálfa þvermáli, og þess giætir eins lítid í samanburdi vid allan jardarhnøttinn, sem lítid sandkorn væri fast vid hálfrar fiórdu álnar þicka kúlu, hver eins eptir sem ádur mætti hnøttótt heita.

---

*) Þessvegna fylgist hitamælirinn (thermometrum, af grískum ordunum θερμη hiti og μετρον mælir) optast med þýngdarmælirnum. Hitamælirinn er giørdr af heirnri lopttómri glerpípu, sem er lokud í báda enda, og afmæld í smá parta sem nefnast grádur; vex tala þeirra uppeptir frá einum tilteknum púnkti; en qvikasylfrid eda sá vínspíritus, sem er í pípunni, stigur vegna hitans því hærra upp eptir pípunni, sem heitara er, og má þá á grádutalinu, sem stendur til hlidar vid pípuna, siá hve margar grádur hitin er, á sérhverri tíd.

§. 35.

Í øllum fiøllum, en þó einkum í leir- og kalkfiøllum, eru grófir og holur af imsri løgun; nockrar þeirra gánga lódrétt nidurávid, og eru þad giár, en adrar liggia annadhvørt lárétt eda á ská inní fiøllin; nefnast þær hellrar og skútar. Hvørutveggiu eru líkliga tilordnar af jardskiálftum, jardelldum, vatnsflódum edur og jardføllum; hinir lausari partar jardarbarkarins hafa vid þessa tilburdi annadhvørt rifnad, edur þiappast saman inná milli þeirra hardari, edur og flotid burt. Margar giár eru 1000 fóta ad dýpt, þraungar ad ofan, og ímist hálffullar af vatni eda þurar ad øllu. Til eru þeir hellrar, sem eru nockrar mílur ad leingd, liggia og í ótal bugdum og krókum ímist upp- eda nidurávid; tiarnir, lækir og uppsprettulindir eru vída í þeim; úr sumum gýs út reikr, úr ødrum vindr og frá sumum rennur vatn; nockrir eru fullir af ís og klaka. Þeir hellrar eru þó merkiligastir allra, í hvørium margbreittar líkanir af ímsum hlutum mindast af vatni því, sem í dropum fellur frá hvelfíngunni og veggiunum og verdur jafnódum ad steini*).

---

*) Þetta skédur einnin í hellirum á Íslandi; nefniliga: í Bárdarhellir í Tryniudal á Sudurlandi og Surtshellir á Arnarvatnsheidi og máské vídarr.

Steintegund þessi nefnist dropasteinn (stalactites). Styttur þær, sem af hønum mindast, verda utan glansandi sem gler, og opt og tídum miklu stærri enn á medalmanns hæd. Í hellirum finnast stundum tennur, bein og køgglar, bædi úr þeim dýrum, sem nú þeckiast, og líka þeim, sem menn nú eingin kénnsli á bera.

Dalirnir skilia fiollin hvørt frá ødru, og eru þeir ímist þraungir eda vídir. Ef þeir eru miøg þraungir, nefna menn þá þreyngsli eda gil, en gliúfur eda kleysar, ef hlídar þeirra eru einnin þvergnýptar. Skørd, einstigi eda klif gánga þvert yfir fiollin frá einni hlíd til annarar. Opt liggia dalirnir í krókа og bugi, en optarr svara þó víkin á þá einu sídu til oddanna hinumegin í dalnum, svo ætíd er jafnlángt milli hlídarfiallanna; þetta virdist ad benda til ad þar sem svo ástendur, hafi fiollin til beggia hlída ádur verid áføst hvørt vid annad, en einhvørra orsaka vegna adskilist; máské hefur vatnid, sem optast rennur eptir dalnum endilaungum, smátt og smátt grafid hann dýpra nidur, og er ei ólikligt, ad med þessu móti séu flestir dalir í fyrstunni framkomnir.

§. 36.

Siórinn adskilur eyarnar frá jardarinnar stærri pørtum eda meginlandinu. Þær liggia

optast saman i kløsum eda hnøppum, stundum svo ad hundrudum já þúsundum skiptir; þó eru þær ogsvo stundum einstakar og lángt frá meginlandinu; sumar liggia miøg nærri því og sýna auðsær merki þess, ad þær i fyrstu hafi verid áfastar vid þad, en skilist frá því annadhvørt i siófarflódi edur af ødrum stórkostlignm vidburdi. Margar eyar eru lágar og flatar, sumar líka fiøllum settar, hvør stundum eru krumfiøll, en optarr þó uppkomin af jardellda umbrotum. Þetta á einkum heima hiá øllum einstøkum eylønðum og eyum, er veniuliga bera sýnilig merki þess ad þau séu þannin upprunnin *). Jardarvegsins efni og edli er ad ødru leiti á eylønðum og eyum eingan veigin fráleitt því sem finnst á meginlandinu og ádur er talid.

Athugagr. Markverd er sú athugasemd, sem nockrir giørt hafa, ad allir partar landsins sem skaga leingst til sudurs, enda med háum griótthøfda, vid hvørn ad vestanverdu veniuligu er bugt eda vík, en ad austanverdu ey ein eda fleiri. Austurálfunnar sydsti oddi er Kómorins høfdi, ad vestanverdu vid hann er rauda hafid, en ad austanverdu eyan Ceylon. Gódrar

*) Ísland, sem er medal þeirra fiøllum settu eylanda, er ad vísu þannig í fyrstu uppkomid.

vonar höfdi, sydsti oddi af sudurálfunni hefir ad vestanverdu Gvíneufiörd, en ad austanverdu eylandid Madagaskar. Sama er um vestur- og jafnvel nordurálfuna ad segia, sem best séſt af hnattkortunum.

§. 37.

A landinu eru margvíslig vatnasöfn, sem annadhvert eru rennandi, svosem: fliót, ár, lækir og lindir, ellegar standa kyrr, sem: stödusiòir, stöduvötn og tiarnir; hin fyrrnefndu qvíslast út um landid líkast sem ædar á manns líkama. Öll hafa þau sín upptök frá uppsprettum, sem liggia í halla edur rótum fiallanna, eins og líka margar tiarnir og stöduvötn af ímsri stærd, eru þadan komin. Þau háu fiöll, einkum snióföll og jöklar, eru vatnsins ótæmanligu nægtabúr; þó finnast líka annarsstadar stærri og minni vatnsædar eda lindur, hvad best má siá í diúpum málmnámum, hvar vatnsföll og lækir opt giöra stórskada, líka í hellirum og grefnum brunnum. Vid jardskialfta og elldgos gióſa opt upp fyrni mikil af vatni, og máské ní vantsföll framkomi þá, hvar aldrei hafa ádur séſt. Hvadan jördin fái vatn þetta og hvörnin þad í henni færist frá einum stad til annars, er enn ókunnugt, og ad líkindum ómöguligt ad uppgötva. Í sínu náttúrliga edli er vatnid tært, kaldt og gagn-

sært, lyktar, og smecklaust, en af því það tídum siast gégnum málmkyniud jardarlög, líka ímsar salt- og adrar námu-tegundir, og hrífur ætíd med sér nockrar smágérdar duptagnir, sem við það blandast, svo fær það þaraf margvísligan lit, lykt og smeck. Sé þettad svo lítid ad þess valla giæti, er vatnid sætt, eda réttara sagt hreint, ad ødruleiti kallast það námutegunda- edur málmláar-vatn, og er það annadhvert heitt, volgt eda kaldt. Heitt eda siódandi málmláarvatn finnst í hverum, jafnvel þeim sem eru lángt frá elldgiósandi fiøllum, því ellegar er jardelldrinn optast orsøk í þeirra hita. Volgt og kaldt málmláarvatn er brúkad bædi sem laugar- eda heilsubrunnar, líka sem ølkéldur til ad drecka af til lækníngar í ímsum siúkdóma tilfellum. Hafi vatnid, ádur það vellur upp af jørdunni, siast gégnum saltløg í jørdunni, má af því salt siódа, og heita uppsprettur þær saltlindur.

Í hreinum uppsprettum frýs vatn skialdan eda aldrei; þær eru því jafnvel um hávetur audar og rennandi, þó flest annad vatn sé botnfrosid. Uppspretturnar hafa og marga sérliga eiginlígleika; í sumum verdur tré, og hvad annad sem í þær er látid, ad steini; adrar setia eingis harda skurn á það sem í þeim liggur; í

nockrum mindast marglitir steinar af siálfu sér; á ødrum gétur logad vegna bergfitu þeirrar sem ofaná þeim flýtur; sumar spýta vatninu hátt í lopt upp, og enn eru nockrar því kaldari sem heitara er í vedrinu og því heitari sem kaldara er.

Þared vatnsins smápartar ecki eru fastir hvørr vid annan, er þad sliótandi og vegna sinnar eigin náttúrligu þýngdar leitar þad þángad hvar lægra er. Héraf leidir þad, ad lindir, lækir og ár renna frá upptøkum sínum, hvør optast liggia lángt uppi í landi, nidur til strandar og þadan í siô út. Frá uppsprettunum renna lindir; af mørgum lindum verdur lækr, af lækiunum á, af ánum fliót eda móda. Farvegr allra þessara er tidum miøg bogin og krókóttr, eptir því sem landslaginu hallar ímisliga, og føst eda laus jardløg verda fyrir í rás þeirra. Øll meigu þau ad réttu lagi vatnsføll heita, en í dagligu tali nefna menn einúngis ár og fliót med þessu nafni. Fliótid má í samanburdi vid ár þær, sem í þad renna, heita adalfliót, en árnar þverár, því optast falla þær til hlidar í fliótid siálft. Greinir þær af adalfliótinu milli hvorra eyar eda hólmar liggia, nefnast qvíslir, en allar þær uppsprettur, lindir, lækir, ár og qvíslir, sem veita ad einu adalflióti, eru tilsamans þess umdæmi.

Vatnsföll þau sem taka sig upp nærri sió, og hafa stuttan farveg um ad renna, heita strandarfliót, og eru þau einkum á eylönd-um ad finna.

Vatnsföllin renna ecki öll med sáma hradaſ; þetta orsakaſt bædi af farvegsins stærri eda minni halla, og lika misiöfnu vatnsmegni; þvi stærra sem vatnsmegnid er, þess hradara flýtur vatnld fram. Af þessum rökum kémur þad, hvörs flestir munu varir verda, ad stórra vatnsfalla straumr er miklu þýngri á, enn smá-ánna, þóad beggia farveigi halli jafnmikid. Þá hluta af vatnsföllunum hvar straumrinn er sérliga stríángr, kalla menn streing, og straumin siálfan stund-um ydn *); falli vatnid fram af háum kletta-stöllum, verdur þaraf foss. Ydukast eda hvirfilstraumr orsakaſt bædi af klettasnösum sem skaga fram i bæckum vatnsfallanna, og lika af stórbiorgum i botni þeirra, þvi á þeim brotnar straumrinn, endurkaſtaſt og ferr þareptir i hring.

*) 8 Plógmannaleidir fyrir ofan mynnid (svo nefni-ist hinn nedsti hluti eins fliótś, hvar þad fellur i sióin) á fliótinu Connecticut i Nordurameríku fellur þad i þraungum gliúfrum, og er stráumr-inn þar svo strángr, ad hann berr bædi blý og járn sem korkur væri.

Til eru þau vàtnsfoll, sem hverfa í jörðu niður og annaðhvört aldrei koma aptur í liós, eða þá lángt frá þeim stað hvar þau hurfu. Líka er þess gétandi, að flest þau stærstu fliót á jörðunni bera gullkorn með sér.

Stöðufiöir og stöðuvötn eru umgirdt af landi á allar siður og eru ecki sýniliga ásöst við hafið. Vatnið í stöðuftónum er sallt, en í stöðuvötnunum sætt. Stór fiölldi af hvörum-tveggiu er hvervetna í öllum álfum jardarinnar. Þeim má skipta í 4a höfuðflocka, þannin: í fyrsta flocki eru þeir stöðufiöir og stöðuvötn, í hvört ecként sést renna, en sem þó hafa afrennsli nockurt. Þessi vatnaföfn eru komin af uppsprettum, sem liggia svo lágt að vatn þeirra hefir leingi safnast fyrir, ádur það nær að renna burt. Sá annar flockr innibindur þau vatnaföfn, sem bædi hafa sýnilig tilrennsli og afrás; þessi eru svo tilkomin að vatnsfollin hafa á leid sinni fundid fyrir sér stærri eda minni dal eda hvylft, fyllt hana fyrst og haldið svo áfram leidar sinnar. Eru þessir tveir flockar þeir veniuligustu. Í þridia flocki eru þau vatnaföfn sem taka móti miklu vatnsmegni frá fliótum, ám og lækium, sem í þau renna, en hafa þó ecként sýniligt afrennsli. Þessi eru næsta undarlig, því bágt er með vissu að seigia hvað af því vatni verdur, sem í þau flýtur;

þó er gáta sú sennilíguſt, ad þau med leynigaung- um ſtandi í ſambandi nockru vid ønnur høf, eda þá ad vatn þeirra leidiſt um ſtórar vantsædar úti þad kríngumliggiandi land. Í hinum ſídaſta flocki eru þau, í hvør og frá hvørium eckért renn- ur; má þau álita ſem ſtór dýki og vaxa þau og þorna eptir ſem vedrinu hagar. Síki, fen og forædi eru þeim einkar nærſkyld. Allra ſtødu- ſióa og vatna dýpt er undir landslaginu komin og vatnsmegni því ſem í þá rennur, eins og líka edli þeirra vatns breitiſt, eptir þeim jardar- ſallta- og málma-tegundum, ſem finnaſt í botni þeirra og bøckum.

## §. 38.

## Um ſiðin.

Hafid eda særinn hylur ad fleſtra mein- íngu ¾ parta af jardarinnar yfirbordi*); eru þad ad flatmáli 6,961,500 ferhyrndar mílur edur 278,460 ferhyrndar þíngmannaleidir (því 25 fer- hyrndar mílur eru í hvørri ferhyrndri þíngml.) Særinn nær ad øllum líkindum í ſifellu frá einu heimsſkauti til annars, og innilykur í ſér bædi

*) Adrir ſeigia ⅔ parta, og er þá hafid ad vidáttu tvøfaldt vid þad þura land.

megiulöndin og eyar allar. Frá hinu stóra eydihafi edur útsænum (oceanus) gánga innad löndunum og ámilli þeirra höf stór og hafsbotnar, sem eru partar af útsænum, og frá þeim gánga fyrdir, víkur og sund inní löndin siálf, og ámilli þeirra þar sem skamt er.

Siórbotninn er ad öllu ásigkomulagi því þura landi einkar líkr, hann er og í raun réttri ecki annad en vatni hulid land; á hönum finnast því þær sömu ójöfnur sem á landinu, nefniliga: fiöll, hálsar og dalir; þau sömu jardar- og steinakyn, hvör ad líkindum allteins liggia þar í reglulegum lögum sem á landinu. Eyarnar eru þessara siórfialla efstu toppar, og siórins misjafna, vídahvar óbotnandi *) diúp, dregur allan efa burt um þá hálsa og dali sem eru á hafsbotninum.

Uti á rúmsiá er siórvatnid veniuliga dockblátt ad lit, en liósleitara þegar nærr landi dregur; grænleitt sýnist þad þegar biart er, en gráleitt í þicku vedri. Sumir hlutir siórar eru ad lit eda ödru svo einkénniligir, ad reindir siófarendur opt

---

*) Sá engelski skipherra Phipps (sídan nefndur Lord Mulgrave) rendi, á ferd sinni til Ishafsins seinast á 18du öld, 780 fadma laungu færi á einum stad í Nordursiónum, og fann þó ecki botn.

géta þaraf með nockurnveigin vissu vitað hvar þeir eru staddir *).

Að smeck er siórvatnið sallt, biturt og væmið; það verdur því ei hentugliga notað til dryckiar, eda til að siódá í; til að slöckva elld halda margir það lika midurr lagað enn annað sallti óminngað vatn. Selltan er likligast í öndverdu siórhafsins medsköpud, en salltlögin á botni siórarins nota til að vidhalda henni, vegna vatnsins sífelldu hræringar. Af siórvatni er það matarsallt tilbúið, sem að margra dómi er betra til sölltunar, enn það, sem sodið er af salltlindum. Biturleik og væmi halda margir að siórvatnið fái af þeim mörgu rotnuðu fiska, orma og siórurta líkömum, hvörra uppleistu smápartar fliota helst ofaná, og færa þau likindi til, að því dýpra í siónum sem vatnið er tekið, því salltara er það að vísu, en því minna biturt og óvæmnara að finna. Sá teningr af siórvatni, sem er fet á hvörn veg, er jafnadarliga að vigt rúm 66 ℔, en þyngð þessi breitist imisliga, eptir sem það er sallt og þétt til.

---

*) Þannig er partr einn af vestindia hafi svo gagnsær, að siá mætti allt hvað fyrirberr á botninum, ef þari og siórarávextir, sem þar jafnan fliota ofaná, ecki hindrudu siónina.

Siövatnsins hita og kulda temprun er ætíd ad mestu leiti eins, og svo litilli sem eingri hastarligri breitíngu undirorpin. Sólarinnar hiti hefir lángtminni verkun á siöin enn á dampahvolfid, og ná jafnvel geislar hennar ecki leingra í siö nidur enn 45 (ad nockurra meiningu 113) fadma.

§. 39.

Pared jördin, sem ádur er sannad (§. 1), er hnöttvaxin kúla, þá hlýtur vatnid í hafsbotnum, hösum og útsæ, sem fliótandi líkami, eptir þyngdarinnar lögum, ad hafa sömu lögun, eda vera kúpuvaxid. Ef þessvegna vatnid, einhvorra orsaka vegna, í einu hafi ordid lægra, enn því, eptir réttum jöfnudi, vera berr, hlýtur þad frá nálægum hösum þángad ad renna, svo allt nái því fyrra jafnvægi. Héraf leidir einnig, ad jafnlángt frá middiki jardar er siövatnid allstadar jafnhátt. Af því siövatnid í störum fiördum er veniuliga salltminna, þynnra og því léttara enn í útsænum, er náttúrligt ad þad á þeim fyrrgreinda stad sé nockrum mun hærra enn eptir réttri tiltölu, til þess ad géta haldid jafnvægi móti því þýngra vatni sem fyrir utan er.

Í kirrd og logni nær siövatnid fliótt þessu jafnvægi, og yfirbord hafsins er þá slétt sem speigilgler væri; en þetta berr skialdan vid, varir

og ecki leingi, því vindrinn kémur því fliótt í hræríngu, og hefur upp stærri eda minni bjøfnur á þess yfirbordi er veniuliga nefnast vindqvikur, bárur eda bylgiur. Stærd þeirra ferr ecki ad øllu eptir því hvad hvaßt er, heldur eptir því vatnsmegni, sem kémur i hræríngu, diúpi hafsins, straumuum og þessháttar. Ecki hverfa bylgiurnar strax sem lygnir, heldur vara enn um hrid; skédur þad því tidum, þegar strax hveßir upp á annari átt, ad þær eldri og ýngri vindqvikur eru hvør annari gagnstædar, hvad ed giørir sióin smáskipum miøg svo hætteligan yfirferdar. Verdi vindqvikurnar afar háar, falla þær af siálfum sér og heita þá fallsiór. Þegar stormr blæs i úthøfum, rísa þar, sem ádur er sagt, þickar og háar qvikur, sem færast ad landi og heita þar hafsldur edur undirsiór. Bárurnar brotna á skérium, grynníngum og vid landid siálft, kastast þó ætid nockurr hluti þeirra tilbaka, og mæta þannig þeim sem á eptir fara, hvøriar af því rísa gódum mun hærra, og falla tvøfaldt ótaligri enn þær fyrri; af þessu verdur brim, en bylgiur sem olla því heita brimsiór eda holskéblur, eptir sem þær eru lagadar.

Vid 40ta breiddar mælistig í blídvidrisreimum jardar verdur fyrst vart vid siáar- edur

hafis af hverium einstöku jakar reka þángat; en því leingra sem þadan dregur ad heimsskautunum, því meira er af hönum, þángadtil loksins ei verdur leingra komist, og ei sést annad fyrir enn einlægr ísflotr, sem fiöllum sett meginland væri. Töluverdr hafís hefir ætíd næman og ónáttúrligan kulda í för med sér, fylgir hönum og skíma sú er grænlandsfarar nefna ísglampa*).

Einhverjir hinir pridiligustu vidburdir í hafinu eru liósglampar þeir sem um næturskeid siást á siónum; ad fródra manna sögn eru þeir af þrennum rökum. Stundum, þá skip sigla skinnings kalda, sýnist sem mió liósleit elldsrák liggi eptir kiölfari skipsins, og efsti toppr af vindqvikum þeim sem í hnitar í nánd vid skipid, virdist sem biartr logi; kénna menn þetta rafkraptinum. Liósglampar þessir ná tídum, einkum eptir logn og hita-vedur, vídarr út um sæin; siást þó ei annarstadar enn þar hvar vatnid giálpar til og frá; og er haldid þeir komi af maurildi því (phosphorus), sem þeir í undangángandi grein umgétnu rotnudu líkamir af sér gefa. Ein-

---

*) Sést hafa þeir hafísjakar sem reiknudust ad vera 500 álna þickir, og eptir leingd sinni og breidd ad meta, höfdu 7000 milliónir fótmálsteninga inni ad halda.

stokum sínum berr þad og vid, ad allr siórinn, svo lángt sem siá má, synist ad vera í loga; svo virdist og sem lýsandi stiärnur skyndi fram og aptur þar innanum. Med nákvæmri eptirtekt hafa menn varir ordid, ad liósglampi þessi komi af óteliandligum lýsandi smáyrmlíngum, valla svo störum sem priónshnappr, hvörier med ótrúligum hrada hræra sig fram og aptur. Líkami þeirra er smágiörr, gagnsær og líkastr slepin eda hlaupi. Hvad tölulaus grúi þeirra megi vera á plátsi, sem eigi sér út yfir, má nærri géta.

Athugagr. Þess hafa nockrir tilgétid ad ei mundi hafís í fyrstu af siósvatni verda, heldur koma fram úr fliótamynnum á löndum þeim, sem undir heimsskautum liggia; færa þeir til síns máls, ad brædt hafís géfur sætt vatn en ecki sallt. En þess berr ad giæta, ad sama má og um þann ís seigia, sem menn til vissu vita ad ordinn er til af sió. Er því líkligra ad hafís sé ad mestuleiti af siósvatni kominn, og ad þad med þeim hætti, sem oss er ecki ad öllu kunnr, missi bædi selltu og biturleik vid þad ad frióса.

§. 40.

Hin undarligasta og fyrir búnad manna markverdasta hræring sióar er flód og fiara (æstus maris, fluxus et refluxus). Svo syn=

ist, sem siórinn vaxi eda hæcki i 6 stundir, og heitir þad adfall; þar eptir stendur hann í stad i 12 minútur, þad tímabil nefnist flód eda flædi siöar; ad því búnu læckar hann aptur eda hverfur i 6 stundir, er þá útfall; stendur þarnæst aptur i stad i 12 minútur, hvørt tímabil er fiara. Þessi umferd byriar aptur ad níu, svoad á sérhvørium 2 dægrum eda 24 stundum hefir tvísvar fallid ad og tvísvar út, verid 2 flód og 2 fiørur, hvør þó koma i hvørt sinn 24 minútum seirna enn næst ádur, og þessvegna 48 eda 50 minútum seirna þann eptirkomandi dag enn daginn fyrir. Nefnd hræring siöar fylgir ad øllu túnglsins hræringu kríngum jørdina. 2r eda 3r stundum seirna enn þad geingid hefur gégnum hádeigisbaug eins stadar (siá §. 8), er þar flód; á sama stad kémur þad aptur nærsta dag, þeim mun seirna sem túnglid geingur þá seirna gégnum hádeigisbaugin. Hvørutveggiu seinkar dagliga, en eptir 30 daga eru flód og fiara aptur komin í sama mund, sem næst ádur byriudu þau. Túnglid hefir allstadar á hnettinum, hvar þad berr yfir i hádeigisstad, siöarins flædi í før med sér. Svo mætti virdast, sem flód og fiari ecki ættu ad vera optarr enn einu sinni á hvørium tveimur dægrum, af því þad ecki geingur optarr enn einusinni gégnum sérhvørs stadar hádeigisbaug á nefndu tíma-

billi. En — þá somu verkun, sem túnglid hefir á þeim hluta hnattarins, sem ad því snýr, hefir þad líka á þeim sem frá því veit, svo ad flód er á tveimur gagnstædum stødum hnattarins undir eins, og fiara lika, og færast bædi fram um hnøttin eptir sem túnglinu midar, svo ad þad med einni umferd sinni verkar 2 flód og 2 fiørur. Vegna ímisligrar afstødu og annars ásigkomu-lags er þessi hræríng siáar ecki hvervetna jafn audsær. J Eystrafallti og Svartasiónum siást eingin merki hennar og i Midjardarsiónum valla. J útsænum hækkar siórinn um flódid í mesta lagi um 3 fet, en í þraungum hafsbotnum og fiørd-um frá 3 til 7 álna. Hin stóru vatnsføll og ár-ósar taka einnin þátt í þessari siáarins hræríngu, en i þeim varir útfall og fiara miklu leingur enn adfall og flód; ollir því vantsins sífellda útrennsli. J laungum fiørdum og vogum eru siáarfallatídir einnig lángtum óregluligri enn úti á rúmsió. Med níu og fullu túngli er flód og fiara stærst og heitir þá stórstraumr, en med qvartilaskipt-um eru þau minnst; seigia menn þá sé smá-streymt.

Náqvæm útlistan yfir orsakir til flóds og fioru, á ad sønnu heima í náttúrufrædinni; en tilburdir þessir eru svo markverdir, ad allvel þykir

til hlida, ad hér sé med fám ordum vikid á hvornin þau framkoma.

Sérhvørr líkami, hvørt sem hann er stórr eda lítill, hefir meiri eda minni krapt í sér til ad draga ad sér adra líkami, sem eru líkrar tegundar. Kraptr þessi er því stærri sem hlutarins líkamamegn er meira, og nefnum vér hann hér **addráttarkrapt** (vim attractivam). Ad sønnu er túnglid ecki sá stærsti himinlíkami, sem er í sambandi vid jørdina, en þad er þó sá sem er næstr henni, og hvørs náttúrligi addráttarkraptr þessvegna gétur því audþeckianligarr enn annara, látid sig í liósi á henni. Túnglsins addráttarkraptr er audsýnligastr á jardarinnar flióttandi pørtum lopti og sió, en þess giætir ad mestu ecki á loptinu, af því vér ecki siáum dampahvolfsins ytri takmørk, hvør ad vísu, eins vel og siófarins yfirbord, megu vid túnglsins gáng ad nockru umbreitast. Augliósliga siáum vér ad sióinn af þessari orsøk safnast ad þeim stad jardarinnar, sem næstr liggur túnglinu, hvørt vidlíkt og sogar vatnid á hønum upp ad sér. Til allra hlida á hnettinum hlýtur því sióinn í sama hlutfalli ad grynnast, sem hann dýpkar þar, hvar túnglid berr yfir. Á þeim helmíngi hnattarins, sem frá túnglinu snýr, safnast sióinn einnin ad þeim stad, sem er gagnvart hinum ádurnefnda, bædi vegna þess,

ad þad eina vatnsmegn hlýtur, eptir þýngdar-innar lögum, ad leitast vid ad vega á móti því ödru, svo ad hnöttrinn sé í iafnvægi, og lika vegna hinns ad túnglid alls einga addráttar verkun hefir, á þeim helsíngi hnattarins, sem frá því snýr. Af túnglsins lidandi ferd kríngum hnöttin, breitast þessir stadir á hvörri stundu, og med þeim síbarföllin.

En — þad er ecki túnglid eingaungu sem kémur þessu til leidar; sólin á einnig nockurn þátt þarí, þó miklu minni enn túnglid, vegna hennar stóru fiarlægdar frá jördunni. Um qveikíngu og fyllingu túngls er afstada sólar og túngls þannig lögud, ad beggia þeirra addráttarkraptar verka sameiginliga á sama stad hnattarins; frá túnglsins qveikingu til þess 1ta qvartils, og frá fyllíngu þess til sídasta qvartils ferr þeirra samverkun dagliga minkandi, en frá 1ta qvartili til fyllingar og frá sídasta qvartili til næstu túngl-qveikingar, ætíd vaxandi; um siálf qvartilaskiptin eru, vegna sólar og túngls gagnstædu afstødu, verkanir þeirra lika ad øllu leiti gagnstædar; túnglsins verkun á siónum minkar því ad svo miklu leiti sem sólar-innar nemur *). Hvörnin stórstreymi, vaxandi-

---

*) Þegar tveir gagnstædir en misstórir kraptar mætast, hlýtur sá sterkari ad vísu ad hafa yfir-

minkandi- og smá-straumr af þessari stærri eda minni samverkun sólar og túngls orsakast géti, er audrádid.

§. 41.

Auk þessarar almenniligu hræríngar sióarins sem nú var talin, hefir hann adrar sérligri, hvorra orsakir og tildrøg ecki eru svo augliós. Uti í rúmsió, milli hvarfbauga jardar og 30tu breidd-argrádu, hafa siófarendur varir ordid vid sifellt fall, eda hræríngu sióar frá austri til vesturs, og hafa þeir einkum markad þad á því, ad þeim hefir siglst lángtum fliótarr eptir nesndri stefnu enn þeirri gagnstædu. Þeir í brunabeltinu ven-iuligu austanvindar, hvarum ádur er talad (§. 23) eru, ad nockurra meiníngu þessum vidburdi oll-andi. Vart hefir einnig ordid vid ad likr fall-bugr liggi frá heimsskautunum til midjardarlín-unnar; þetta orsakast ad vísu badi af jardarinnar dagligu hradsæru biltíngu, og líka af því, ad miklu meira uppleysist af siónum og verdur ad dampa í þeim heitu jardarreimum enn þeim køldu, hvorsvegna sióinn, til þess ad vatnid allstadar

hondina, en mínkar þó svo, ad ecki verdur eptir af honum, nema þad, sem hann er þeim ødrum stærri.

haldi sínu jafnvægi, flýtur jafnadarliga innávid ad línunni, og bætir þar upp þverran vatnsins af hitanum.

Mørg ønnur føll í siónum eru til auk ádur tédra adalfalla; þau liggia eptir ýmsum stefnum, fara med stærri eda minni hrada, og eru ýmislig ad leingd og breidd hér og þar í siónum. Nockur þeirra halda ávallt sømu stefnu; ønnur eru breitilig næsta og liggia ýmist áfram eda apturábak, eptir sem vindinum hagar og sióarstrandirnar eru lagadar; þessi føll eiga einkum heima í brunareimum jardar.

Medal þeirra er Golffallid hid markverdasta. Þad kémur frá þeim mexíkanisk a hafsbotni, liggur ámilli Flórída og Bahama-eyauna, þadan til lands-nordurs med Nordurameríku strøndum á leid til Norvegs, en breidkar bædi og linast á leidinni. Vid Norvegs strandir bægir þad vid til útnordurs og stefnir til Grænlands. Farvegr þess þeckist á þeim fallega bláa lit sem siórinn þar hefir. Þetta fall er Nordurlandabúum ómetanligr velgiørníngr, af því þad færir med sér til hinna nordlægu hafa mergd af triám, sem fliótin í Flórída, Lovisiana, Vestindium og ødrum løndum kríngum þann mexíkaniska hafsbotn, hrífa med sér á sió út. Nockur þesshéttar tré

koma máské ogsvo frá flótunum í Norduramerîku. Þessi rekavidr berst upp á ni-Zemblu, Spitsbergen og Grænlandi; Íslandi, Færeyar, jafnvel Sudureyar, Orkneyar, Hetlandseyar og Norvegr fá einnig sinn hlut þaraf stundum rífliga útilátin. Trékyn þau sem reka eru greni og fura, lindi- og birki-tré, fernambuk, brasilíutré og önnur ættud frá Vestindium. A hnattarins sydra hluta sést aldrei rekavidr.

A einstökum stödum, til dæmis í Mjorvasundi, Eyrarsundi og Stólpasundi, hafa menn þókst verda varir vid 2 gagnstæd föll í siónum, af hverium þad eina flýtur med botninum, en annad ofaná; jafnvel þó þetta géti vel skéd hvar vatnslög eru af ímisligri þýngd, er þad þó ecki enn ad fullu sannad. Meiri vissa er fyrir því, ad tvö föll liggi stundum hvört vid hlidina á ödru eptir gagnstædri stefnu. Í Jótlandshafi, til dæmis, hleypur þad eina fall med Jótlands sídu á leid til Eystra salltis, en hitt med þeim svensku og norsku strøndum út þadan.

Þegar tvö eda fleiri föll mætast eda skackskéra hvört annad inni ámilli eya, eda í ödrum þvílíkum þrengslum, hvar klettar eda lönd halda ad, kémur siórinn af því í kríngsólandi, hvirflandi og svelgmindada hræringu; nefnist þetta

hafhvirfill eda svelgr, og eru þeir siófarendum miøg hættuligir *).

Athugagr. Af því ad siórinn sumstadar þverrar, svo ad þar kémur upp þurt land hvar ádur var siór, hafa nockrir meint ad hann, yfirhøfud ad tala, særi minkandi; en þad er ecki svo, því jafnmikid sem hann leggst sumstadar frá, brýtur hann á land upp annarstadar, venjuligast á þeirri gagnstædu siáarsídu. Fyrir þurd hans þarf því einganvegin ad óttast.

§. 42.

Um pródúctin (afurdirnar).

Allir náttúrligir líkamir **) (corpora naturalia) í lopti og vatni, í jørdu og á, hvørt sem þeir hafa líf og andardrátt, tilfinníngu og friálsa

---

*) Þeir helstu menn þeckia eru: sá, kalsdiski í sundinu Eorípus vid Negróponí; Charybdis hiá Messína í Sikiley og Mosk-øar- eda Malstraumrinn vid Norvegs nordurstrandir, sem er hinn stærsti allra.

**) Líkamirnir nefnast náttúrligir, ad svo miklu leiti sem þeir eru af náttúrunni og án mannligrar hiálpar tilordnir; þeir meigu adgreinast frá þeim, sem manneskian med kunnáttu sinni gefid hefir útvortis skøpulag, og sem réttiliga nefnost handaverk eda smídisgripir (corpora artificialia).

hræringu edur ei, nefnast hér yfirhøfud pródúct edur afurdir, og er manneskian siálf þá ecki undanskilin. Nefndar afurdir innibindast í svokølludu náttúrunnar ríki, hvørted sundurgreinist í 3 høfudflocka, nefniliga: námu- edur mineral- grasa- og dýra-ríkid; hvad í sérhvøriu þessara sé innifalid kénnir náttúrusagan (historia naturalis, siá §. 18). En edlisútmálun jardar skírir einúngis frá þeim almenniligustu hlutanna eginligleikum og þeim sem í búnadi manna eru ødrum fremur nytsamligir. Í ødrum parti bókarinnar edur landaskipuninni, mun og margra þeirra ávaxta gétid verda, er frammleidast í einu landi, fremur ødru; og hvørium náttúran hefir þar, svo ad segia, valid heimilisfesti.

Jafnvel þó námurikid, í tilliti til vissra stada, ei sé takmarkad á jørdunni, eru allar námutegundir þó ei jafnt almennar hvervetna. Med fullri vissu verdur heldur ecki sagt, ad viss sérlig steinakyn eigi heima á einum stad fremur ødrum, því ver þeckium svo litid til hvad jørdin á hvørium stad hefir inni ad halda, ad valla er meirr enn hennar ysti børkr á fáum stødum oss kunnr. Námurikid skiptist í fióra høfudflocka: jardar- og steina-tegundir, sølt, jardarqvodur og málma. Járn, silfur og gull eru þær málmtegundir, sem

med nockurri vissu er tilgétid ad allstadar sé'u til á jørdunni. Víst er þad, ad námur þeirra finn- ast bædi í þeim heitu og køldu jardarreimum, til dæmis; í Indíum, Afríka, Ungaralandi, Þýdskalandi, Norvegi og Svíaríki. Líka hefir Þýdskaland eins vel og Indíin allskonar edal- steina; þó verdur því ecki neitad, ad edlir málmar og steinar bædi finnast vídarr og líka meira af þeim í heitum løndum enn køldum.

Um flestar urta- eda grasa-tegundir má med meiri sannindum segia, ad þær hafi valid sér bústadi undir einu loptlagi fremur enn ødru; ad sønnu finnast urtir frá þeim køldu jardarreimum opt í þeim heitari løndum, en einúngis uppi á háfiøllum, hvar loptid er kaldt og sambodid edli þeirra. Líka vaxa enna heitu landa urtir í þeim kaldari, med því móti ad þær fái hentugan il, med gódum umbúnadi. Eingu ad sídur eru margar urtir, sem allstadar á jardarhnettinum og undir hverskyns loptlagi géta vaxid og þróast. Náttúran hefir hagad því svo vísdómsliga, ad siófarendur allstadar, hvar annars nockur lífsmerki siást, géta fundid hentugar urtir til ad styrkia heilsu þeirra og til ad varna þeim skirbiúgi sem tídum ásækir þá. Þessar urtir eru súrt og sætt skarfakál, murungras, pétursilia og imisligar súr- ur. Margskonar mosar- og beria-kyn tímgast líka

hvar sem vera skal. Flestar urtir, jafnvel þær, sem hafa víss heimkynni hvar þær best þrífast, géta, með góðri rækt, í hentugri jörð náð full-komnum þroska undir öðru loptslagi, en þeirra fyrsta fósturlands, og verða þar þessu smám-saman svo vanar, að þær þrífast þar eins vel sem innfæddar væru. Margar af þessum urtum eru nauðsynlegar til manneskiunnar lífs viður-halds, til dæmis: ímsar korntegundir, maturtir og aldinitré. Þó skédur það optast við þessa útlegð þeirra frá sinni aðalfósturjörðu, að þær fá að nockruleiti aðra útvortis lögun, og að kraptr þeirra og saftir breitast stundum til hins betra, þegar þær flytiast frá kaldara loptslagi í annað heitara, en stundum til hins lakara; jarð-vegsins ásigkomulag hefir kröptuga verkun í þessu tilliti. Í þessu falli er sá munr hinna heitu og köldu jarðarbelta að þau síðarnefndu hafa, að réttu lagi, eingar urtir útaf fyrir sig, sem ecki géti einnig þrifist á hentugum stöðum í þeim heitari. Blíðviðrisreimanna urtir má að sönnu með varkárni flytia undir þau nærliggiandi kal-dari loptslög; líka brunareimanna hraustustu (óviðqvæmustu) urtir, í þá hluta blíðviðrisreim-anna, sem heitastir eru, og tímgast þær á hvöru-tveggia staðnum nockurnvegin vel. Brunareimin hefur flestar þessskonar urtir, sem ecki géta ann-

arsstadar varid, (til dæmis: þær mörgu fínu kriddurtir) og þaradauki adrar, sem finnast í hinnum jardarhnattarins reimum, hún er því af ávöxtum, urtum og aldini, hin ríkasta. A þeim háu og köldu fiöllum framleidir hún flestar kuldareimanna urtir; á flatlendinu þær, sem ad réttulagi eiga heima í blídvidrisreimunum, og auk þessa sínar eigin urtir. Fríóssöm pláts í brunareiminni eru svosem líking uppá allra jardarbeltanna ávaxtarsemi.

Dýraríkid má einkum sundurgreina eptir vissum lopts- og jardarreimum; því flest dýr uppalast á vissum takmörkudum reitum hnattarins, og eru öldúngis ecki á ödrum ad finna; þó eru nockur hvörium bústadrinn er allstadar jafnkiær. Í þessu tilliti má sundurgreina dýrin eins og urtirnar í þau sem allstadar géta vidhaldist og hin sem á sérligum jardarsvædum hafa bústad (fiöllend og einlend). Um nockur dýr, svosem: fiska og fugla, verdur ei med fullri vissu sagt, hvar þau eigi heimili, af því mannesskiunnar eptirtekt gétur ecki svo greiniliga rakid feril þeirra til og frá um sió og lopt, ad vita megi hvörsu lángt þau útbreidist. Sama er og um orma og skorqvikindi ad seigia, hvörra mestr fiöldi er í fylgsnum jardar hulinn fyrir augum manneskiunnar. Til vissu vita menn ad

hvala- og hákalla-kyn lifa jafngódu lífi undir heimsskautanna ísbreidum, sem í hösunum milli sólhvarfsbauganna. Af fuglunum má sem fisl-lenda nefna hrafnin, giæsina, hænuna, dúfuna og lóuna med þeirra tegundum. Af ferfætling-unum eru þau dýr hin fiøllendustu, sem manneskjan hefir tamid og giørt ad húsdýrum, svosem: hundrinn, (sem vídast af øllum dýrum, auk mann-eskiunnar, er útbreiddr,) kýrin, saudféd, geitin, hestrinn, asninn, svínid og køttrinn. Af land-dýrunum má þaradauki nefna: refin, biørnin, héran, kanínur, hiørtin, rádýrid, eykhornin, rottuna, músina og hermelindýrid; og af siódýr-unum: selin. Sum þessi dýr finnast þó ecki lángt inni kuldabeltunum. Ønnur ferfætt dýr vidhaldast annadhvørt í vídlendum edur smærri plátzum jardarinnar, og eru þau svo mørg ad oflángt yrdi þau upp ad telia.

§. 43.

Þó þad sé næsta margt og mikid er manneskian færir sér til nota af øllum ríkium náttúrunnar, eru þó margir hlutir enn þá gagns-lausir vegna vanþeckingar á þeirra sanna edli. Af námuríkinu eru málmarnir til mestu nytsemis; þeir sundurgreinast eptir þeirri seigiu sem í þeim er í almálma og hálfmálma. Af hinum díru edur edlu almálmum er raudt og hvítt

gull, líka silfur; af hværntveggiu þessum eru pen-
íngar mintadir hiá ollum sidudum þióðum.
Oðýrir edur óedlir almálmar eru einkum qvika-
silfr, eyr, járn, tin og blý. Medal hálfmálma
teliast: sink, vismúta, spisglas, kobold, arsenik
edur músarsallt, nikkel, brúnsteirn og vatnblý.
Til sallta þeirra, sem mest eru brúkuð, heira:
matreidsluſallt, vitriólſýra, (af hværri blandadri
med oðrum námutegundum giørist glaubersallt,
beiſkiusallt, álún og vitriól), natrum edur námu-
kénnt lútarsallt, sallpétr, steinsallt, salmíak og
buris; med þeim nytſomustu elldsimu námuteg-
undum edur jardarqvodum má telia: steinoliu,
bergbráð, jardarbik, steinkol, brennustein, brún-
kol og brennu- edur grafartorf (mó), líka: bern-
stein eda rafur og ambra. Jardar- og steina-
tegundirnar adgreinast eptir þéttleika og hørku;
hinir dýrustu og nytſomustu steinar eru edal- og
hálſedalsteinarnir, svosem: demantinn, rúbín,
saphír, hyacinth, olivin, granat, ópal o. fl., líka af
þeim ótignari steinategundum qvadersteirnin og
onnur þau steinakyn, sem brúkast til byggínga,
brýnis- hverfu- og milnu-steina. Af jardarleg-
undunum eru nytſamaligastar urtagardsmold og
akrajørd. Af þeim leirkynindu: postulíns jørd
edur bleikia, pípu- skérdiska- og potta-leir, þvott-
edur þósara-jørd, innsiglunar (lack) jørd, rauda-

jørð, trippel og flęguleir o. fl. Af þeim sápu-kyniuðu: sandsteirn, ormasteirn, asbeſt og mer-ſkúm. Af kalktegundunum: krít, marmari, al-mennr kalksteirn, mergill, alabaſtr og gips.

Þá hagsmuni, sem manneſkian hefur af urtaríkinu, má aðgreina í: ſkógar- eingi-akuryrkin- og urtagarðs-nytiar. Til ſkógnytianna heyra tré þau øll, sem brúkuð eru til ímisligra nauðþurfta með øllum þeirra ágóða. Þau helſtu á norðurløndum eru: fura, greni og lerkutré; þeſſi øll nefnaſt barviðir eður nála-tré, af því þau hafa bar eður knappa í lauſa ſtað; eik, beiki, birki, valbiørk og eſki, sem nefn-aſt laufviðir, af því þau hafa lauf eða bløð, og fella þau á hauſtum. Af þeſſum og øðrum ſkógtriam fæſt brenniviðr, húſa- ſkipa- og amboða-viðr, efni til ímisligs búsgagns, kol, potaſka, harpix eða qvoða, bik, kinrok, bráð eður tiara, terpentín og børkr til litunar og ſkinnaverkunar. Allt þetta er ómiſſandi til búſkapar, kaupverðſl-unar, bygginga, málmabræðſlu og lækniſdóma. Einginytiar géfa allar villiurtir, sem vaxa ſiálf-krafa og hværiar þéna mønnum til fæðu og sén-aði til fóðurs, ſvoſem: allskonar ber, ætiſveppa-fiallagraſa- og rota-kyn, lika imsar ſióarurtir og margskonar graſtegundir. Lika brúkaſt margar villiurtir til litunar, lækninga, elldividar, vefn-

adar og enn fleiri nytsemis. Akuryrkian og gardyrkian eru náskildar; bádar eru og í fleiru tilliti einkar líkar. Þær helstu akuryrkiu-nytiar eru kornsins mørgu og til mannkynsins fædu bmissandi tegundir: hveiti, rúgr, bygg, havrar, spelt, bökhveiti, líka í þeim heitari løndum: hrísgrión, tyrkiakorn og hirsi; med þessum nytium má einnig telia: hør og hamp, tóbak, baunir og ertur, jardepli, kál og róur, med fleiri ávøxtum, sem ecki svo greiniliga verda adskilldir frá þeim, sem urtagardsræktin af sér gésur. Øll gardyrkia færist minna í fáng enn akuryrkian; hennar adalaugnamid er, med haggvæmri rækt, bædi ad fá innlendum urtum meiri vøxt og vidgáng, enn þær annars geta fengid úti á vídavángi, og líka ad giøra framandi urtum, sem komnar eru frá heitara loptslagi, bústadin þolanligan í því kaldara. Til urtagardsnytia má telia flestallar káltegundir og urtir, sem brúkadar eru til matarkryddunar eda þá eingaungu til sælgiætis med ødrum mat; líka ímisligar belgurta- lauka- og róta-tegundir, rósir og liliur, hvøriar mest eru urtagørdunum til prídis; ímsar velluktandi urtir, sem brúkast á líkuarbúdum og til lækninga. Hér vid má einnig bæta nytium allrar vínirkiu, (sem ad mestu er ávøxtr gardyrkiunnar) og þeim mørgu ávaxtatríam, sem bædi gésa hinn besta

efnivid til búsgagns og annars smídis, og líka margskonar ávexti, svosem: epli, perur, kirsiber, nytur, blóm og fleiri, sem eiga heima í enum kaldari löndum blídvidrisreimanna; og sítrónur, pommerantsur, fíkiur og þesshattar, sem komnir eru frá sudurlöndum.

Af dýraríkinu hefur manneskian ad sínu leiti ei minni gagnsemi enn af námu- og urtaríkinu. Dýrin adgreinast veniuliga í tamin og villudýr; hin fyrrnefndu eru: hundrinn, hestrinn, asninn, naut- og saudfé, geitur, svín og kanínur, líka imsir alifuglar sem hæns, endur og giæsir; í vissum löndum má og hérvid bæta hreindýrinu, kameldýrinu, silkiorminum og hunángsflugunni; öll þessi dýr nefnast med einu nafni qvikfénadr, og er ræktt þeirra einhver hin nytsamasta sýslan manna, og á mörgum stödum stofn annara biargarátvega. Sem qvikfiárnytiar má telia: ferskt, saltad og reikt kiöt, skinn, hár, ull, fiadrir, ost, miólk, smiör, tólg, horn og bein, líka silki, vax og hunáng. Villudýrin lifa í náttúrligu friálsrædi, og fordast sem mest verdur manneskiuna; hún gétur því flestra þeirra eingin not haft nema hún veidi þau, annadhvørt á landi eda sió, ad því leiti sem villudýrin eru land- eda siódýr. Landdýraveidin á helst heima í löndum þeim, sem eru midur yrkt eda eru fiöllum sett,

af þvi villudýrin, bædi þau ferfættu og fuglarnir, géta þar hvergi filsni fundid. Nytiar þessarar veidar eru einkum kiötid af þeim ætu villudýrum, skinnavara, horn og feiti, líka fuglanna fidur og egg. Siódýraveidin dregur nafn sitt af siófarins fioldamestu innbúum siskunum, og kallast fiski-veidi í fersku vatni og solltu. Hin fyrrnefnda skédur í ám, fliótum, stöduvötnum og fiskidönnum; veidist þar lax, auridi, silúngr og fleiri þvílikar fiskategundir. J solltu vatni eda sió er fiskiveidi framin annadhvört fiærri landi í sérligum hlutum útsiófarins, edur nærri því í fiördum og hafsbotnum; í hafinu veidast hvalir og síld, og til hvalveidinnar telst líka veidi á ýmisligum selategundum; þadan fæst spik og lýsi, hvalambur, hvaltennur, skídi og selskinn. J fiördum og hafsbotnum veidast yfirhöfud allar tegundir ætra fiska; má og til þessarar greinar heimfæra skélfiskiatekiu, perlu- og korhalla-veidar.

Athugagr. Náttúruvitringar þeckia adeins 500 námutegundir, en géta til ad jafnmargar séu enn ókunnar. J úrtaríkinu taldi sá náttúrufródi Linnæus rúm 8000 urtategundir, sem menn þá tilþecktu, en fáum árum sídarr höfdu 20,000ir vidbætst sem ádur voru ókénndar, og var þá þó tilgétid ad 4um eda 5 sinnum meira, enn þær fundnu 28000, kynni til ad vera.

Í dýraríkinu þeckia menn frá 18 til 20000 tegundir, en haldid er ad í lopti, sió og á landi kunni ad finnast 7 milliónir ímisligra dýra kynferda.

§. 45.

Madrinn er án efa þad tignasta af øllum náttúrunnar handaverkum; hans líkama skapnadur og sálar edli berr lángt af øllum þeim dýrum, er vér þeckium; hans upprétti gángr, málfæri, høndur, sem géta tilbúid svo margbreitt og addáanlig meistaraverk: hans ímindunar- og þánkakraptr, greind, skilníngr og fyrirhyggia, giøra hann bædi hæfiligan og verdugan til ad vera jardarinnar og allra sképna herra.

En jafnvel þó þessir manneskiunnar yfirburdir séu stórir og margir, er hún eingu ad sídur, í líkamligu tilliti, af dýranna kynferdi og innbúi jardarinnar sem þau; hér skal því med fám ordum vikid á hennar útbreidslu á jørdunni, breitíngar í útliti og fiølda, m. m.

Bústadir mannsins ná yfir alla jørdina; hans líkamabyggingu er þannig háttad, ad hann smátt og smátt gétur vanid sig vid sérhvørt loptslag og hvøria fædu sem vera skal; hans skinsemi vísar hønum á hentug medøl, til ad giøra sér jardarinnar mesta hita og kulda vel bæriligan. Ef ísbreidur heimsskautanna ecki hindrudu mundi

hann med lífi og heilsu géta ferdast um jardar-innar hverfupúnkta (póla), eins og um miðbik hennar. Manneskiunnar búftadir ná svo lángt út ad heimskautunum, sem jardar ávøxt er ad finna, og þegar hún ecki á þuru landi finnur nóg til forsorgunar sér, leitar hún hennar í hafsins diúpi. Á Grænlandi byria búftadir Eskimóanna hinum-megin þess 80ta breiddarmælistigs. Hudsons-fiørdrinn er byggdr umhverfis; þadan frá mót sudri verdar landid fiølbyggdara, og sá hluti þess, sem midjardarlínan liggur yfirum, er hinn fiølbyggdasti; leingra til sudurs verdur striál-byggdara, en þó er Ameriku sydsti, kaldasti og ófriófamasti oddi, Elldlandid, einnig byggdr. Frá hinum nordasta odda á Finmørku undir 72 breiddar grádu, og til gódrar vonar høfda, er byggd hvervetna, og einúngis fáar eydimerkur og fiøll, hvar einga lífsbiørg er ad sá, eru óbyggdar. Innan þessara takmarka er bædi þann næmasta kulda og hinn mest brennandi hita ad finna. Vid fliótid Senega í midparti Afríku kémur sólar-hitinn eingaungu sudunni upp á áfeingasta víni, og vid Hudsonsfiørd í Norduramerku og í þeim nordlægari pørtum Austurálfunnar verdur bædi þad og qvikasilfur ad klaka, hvørttveggia þetta óhóf hita og kulda þolir manneskian, og af øllum þeim løndum, sem menn tilvita, eru þad einúngis

Spitsbergen og Nizembla í nordri, en Falka-landseyarnar og Sandvíkurland í sudri, sem ecki eru ad nockruleiti byggdar. Kuldareimarnar eru yfirhøfud strjálbyggdastar, blidvidrisreimarnar jafnast, en brunareimarnar á einstøku stødum þéttast byggdar.

Manneskiunnar ímisligi v ø x t u r, ú t l i t og l i t a r h á t t u r orsakadir af ímisligu lopts-lagi, sædn, lífernisháttum og ødru fleiru, eru ecki annad enn lítilfiørlig tilbreiting náttúrunnar; tegundin er ein og hin sama. Breitingar þessar nefnast yfirhøfud m a n n b r e i t i n g a r.

Hin hávaxnasta þiód sem menn þeckia eru Patagónarnir í sudurparti Ameriku, milli Silfur-fliótsins og þess Magellandska sunds; þeir eru ad hæd fullar 3 álnir, og þareptir þrekvaxnir og fallmannligir útlits *). Hinsvegar erú lágvaxn-astir, Lappar, Samoiedar, Ostiackar og Grænlend-ingar, eigi meirr enn 2 álnir ad hæd. Í øllum ødrum þiódløndum er vøxtur manneskiunnar midt á milli ádurnefndra þióda og hennar medalhæd rúm 5 fet.

Ímisligt andlitsfall og høfudsins ólíkt skøp-ulag giøra útlit manneskiunnar einkar margbreitt;

*) Líkir þeim voru þiódveriar á fyrri tídum, medan þeirra lífernishættir og lopslag var hinna líkt.

sérhvor þióð hefir í þessu tilliti sín einkénni, sem giöra hana frá ödrum þióðum nockurnvegin auðþeckta, og benda til hvaðan hún er upprunnin. Að upptelia hér sérhvorrar þióðar einkénni væri bædi oflángt og óþarfligt, þó skal strax litið á þetta drepið verða.

Litarháttr manneskiunnar er allra breitiligastr, á honum sést ádalmannbreitingin, því öll þau mörgu litaskipti ámilli þess hrafnsvarta og miallhvíta litar finnast hiá manneskiunum. Hofudlitarhættir hennar teliast þó að vera sá hvíti, gulmóraudi, hrafnsvarti, koparraudi og mósvarti *).

Eptir þessum aðalbreitingum á manneskiannar útliti, hafa nockrir sundurgreint mannkynið í sérligar ættqvíslir, hvoriar, jafnvel þó þær séu nú ólíkar, géta í fyrstu verið af einum ættstofni upprunnar. Af þessum ættqvíslum telia sumir 4ar, sumir 5 og nockrir 6; skal hér medalveiginum fylgt, og teliast þá norðurálfubúar til hinnar fyrstu, líka þeir sem byggia þann vestlægari hluta austurálfunnar. Þessir eru hvítir að litarhætti,

---

*) Að sá hvíti litr sé upprunalitr manneskiunnar, sannast með þeirri reinslu, að aldrei fædast hvít börn af svörtum foreldrum, en hvítar manneskiar géta orðið svartar með tídinni.

og eptir voru áliti yfirhøfud fridir og vel vaxnir. Sú ønnur ættqvísl byggir austurhluta Asíu og nordurpart Ameriku; þessara landa innbúar eru ad mestu gulmóraudir ad lit, þúnnt hærdir, flat- og breidleitir, smáeygdir med diúpum augnatóptum. Hin þridia byggir sudurálfuna; eru þar menn svartir, høkulángir, varaþickir, nefstuttir, med hrockid hár. Sú fiórda býr í sydri hlutum vesturálfunnar; þeirra landa innbúar eru ad litarhætti koparraudir, slétt- og stridhærdir og laga þeir høfud sín ýmisliga. Sú fimta og sídasta inniheldur alla Sudurhaffins eyabúa, sem flestir eru mósvartir, flatnefiadir, stórmynntir og þétthærdir *).

Allar manneskiur, sem í því sama augnabliki lifa á jørdunni, er tilgétid ad séu tals 1000 milliónir; en þessi tala er líkliga næsta óviss og ei áreidanligri enn svo, ad hún eins vel géti verid ad fimta eda tiúnda parti stærri eda minni. Mannsins náttúrliga lífs takmark er frá 80 til

*) Þad er ecki aldúngis óhult af þiódanna líkíngu í vexti, útliti og litarhætti, ad dæma um þeirra ætterni og innbyrdis frændsemi, því einkénni þessi eru mest undir útvortis og hvers-ulum kríngumstædum komin. Þiódanna søgur og túngumál ber ad léggia til grundvallar vid þesshátar álycktun.

90 ára, aldurin yfirhøfud er sex sinnum svo lángur sem úngdómsaldrinn; en fæstir ná þessum aldri, heldur deya annadhvørt úngir eda full-ordnir af siúkdómi og ímsum tilfellum. Jafnadarliga fædast fleiri manneskiur enn deya, og í þessu tilliti verdur med sanni sagt, ad mankynid heldur siølgi enn fæcki, þó skédur þad ecki allstadar jafnmikid og ecki eptir sama jøfnudu. Þad ber og optsinnis vid, ad næmir siúkdómar og margskonar háskalig tilfelli høgga skard í fiøldan þegar fólksmergdin í einu landi er í bestu blomgun. Í nordurálfunni og ødrum løndum í blídvidris- og kuldareimum jardarinnar fædast veniuliga fleiri piltbørn enn stúlkur. Eingu ad sidurr verdur þar jafnadarliga vart vid ad qvennfólk sé fleira enn karlmenn, hvad bædi orsakast þaraf, ad fleira deyr af pilt- enn stúlkubørnum á únga aldri, og líka af því, ad svo margt af karlmønnum, annadhvørt burtrykkist voveifliga í stridi, sióferdum, og málmgrøfum, ellegar flytur til framandi landa. Þessar orsakir til fæckunar karlmanna egu einnin stad í þeim heitari løndum, hvar þó veniuliga fleiri stúlkur fædast enn piltar. Sú sidvenia í þessum løndum, ad einn madur hafi fleiri konur, sýnist því fullkomliga afsakanlig og ad vera byggd á náttúrligum røksemdum.

## §. 46.

## Um breitingar á jardarinnar útvortis ásigkomulagi.

Jardarinnar eigid ásigkomulag og náttúran siálf géfa oss áreidanlig medøl i høndur til ad géta nád fullri vissu um ad jørdin hafi lidid nockrar høfudbreitingar eptir ad hún var skøpud edur i ønduerdu tilordin. Vér þurfum i þessu tilliti einúngis ad renna augunum til ímisligra fyrirburda (phænomena) á jørdunni, og ad bera þá saman vid albeckiar orsakir, og þau løg, hverra náttúran giætir i sínum margbreittu verkunum. Nockrar þessar verkanir, er markverdar synast, skal hér náqvæmar yfirvega.

## §. 47.

Allar námutegundir, sem hid þurra land hefir inni ad halda, liggia i jørdunni i ótal løgum; þau eru hvørt undir ødru, misþick og af margbreittu edli og efni, en fylgia ávalt þeirri adalreglu, ad þad sem er líkama þýngst veit nidur í hvøriu lagi. Þetta virdist ad benda til ad løgin séu fyrst i sió edur vatni framkomin, en þó ecki øll á sømu tid. Líkur fyrirburdr mundi í smáu láta sig i liósi, ef madr blandadi vatn med ímsum sand- leir- og molda-tegundum, og léti ávalt lida nockut ámilli, svo ad øll óklárindin

gætu setst á botninn; eptirá mundu finnast lík løg, sem í jørdunni, og eptir sømu reglum løgd. Ef løg jardarinnar eru þannig í sió, edur vatni, edur ødrum fliótandi legi í fyrstu framkomin, þá ættu þau øll ad vera einlæg, og annadhvørt láréett, eda hvørt hallast eptir ødru; þau efri ættu ætíd ad hafa allar þær sømu mishædir, sem þau er undir liggia, en þessar mishædir þaradauki ecki vera adrar enn þær, sem þess lags botn, á hvørium þau mindudust hast hefdi: Eingu ad sídur er þessu ecki ætíd svo varid, þvi opt eru stórar eydur í þeim løgum sem nedarr eru, þó hin sem ofaná liggia á sømu stødum séu heil og óbrostin. Þetta bendir til ad lángt hafi lidid ámilli þess ad hid nedra brostna lag, og þad næsta þar ofaná liggiandi, mindadist, og ad þad fyrra hafi ámedan raskast vid einhvørsslags umturnanir í jørdunni, risnad sumstadar, hæckad sumstadar, og aptur á ødrum stødum sockid nidur. Af ádurføgdu draga menn líkindi til, ad jørd vor muni hafa vid margar umbilíngar og umminndanir, orsakadar af vatni og máské innvortis elldi, feingid sína núverandi løgun.

Þessi álycktun fær enn frekari vissu þegar litid er til þess (hvørs ádur er minst), ad ímisligir dýra og urta líkamir, heilir og hálfir, finnast í jørdunni, sumir ad steini ordnir, en sumir ecki.

Nockvir þessir líkamir eru af sióar- og landdýrum, hver nú eru hvergi á jardarhnettinum ad finna, og sem því, ad øllum líkindum eru eptirstødvar þess dýraríkis, sem verid hefir á jørdunni ádur enn þau núverandi dýr urdu til *). Adrir dýra-líkamir finnast lángt frá þeim stødum, hvar þess-konar dýr nú eru til. Þannig eru, til dæmis: bein af dýrum, sem nú lifa einúngis í þeim heitu løndum, vída í þeim køldu úr jørdu grafin **). Í þridia lagi finnast í jørdunni líkamir af því dýra kyni, sem hefir heimkynni sín í þeim plát-sum eda þar í nánd, hvar líkamirnir finnast, og væri þad ei svo undarligt, ef ecki í þessu tilfelli, eins og hinum tveimur ádurnefndu, siódýra líkam-irnir findust á háfiøllum uppi eda þá nidri á lág-lendi lángt frá sió, hvaraf ráda má, ad siórinn hafi þar einhverntíma yfirflotid. Siódýr þessi

*) Fíllinn er þad stærsta landdýr, sem menn nú þeckia, en líkami af ødru tøluverdt stærra dýri er í jørdu fundin vid Ohio í Nordurameríku.

**) Fílabein er grafid úr jørdu Þýdskalandi og Síberíu á nockrum stødum, en ad fíllinn nú ecki finnist nema í þeim heitu løndum, er alkúnnugt. Likka finnast heilar beinagrindur af Nashyrníng-um, hvalfiskum og ødrum þesshàttar dýrum, þar sem þau nú hvørki eru, né geta verid.

eru einkum skélfiskar af imsum tegundum, og eru vída af þeim eingaungu heil løg i jørdu sem ná víds vegar, auk þess ógrynnis sem blandad er saman vid ønnur jardarløg þar i grend, einkum vid fløgukalkid. Til eru þeir skéliabackar, sem eru margar þíngmannaleidir ad leingd, og er þar vid skélialøgin opt blandid hvalabeinum og tennum*), lika beinum og tønnum stórum og smáum úr ímsum landdýrum. Ad ødruleiti erþad markverdt, ad aldrei finnst i þessu samblandi neitt þad sem líkist beinum manneskiunnar, af hvøriu ráda má ad hennar tilvera sé yngri enn sú jardar umturnun, sem eydilagt hefur þau dýr, af hvørium leyfar nú finnast.

Urtarikid frambýdur lika margar røksemdir því ádursagda til sønnunar. Þannig finnast vída diúpt í jørdu heilir skógar med rótum, laufum og brumi, hvar trén øll liggia fallin til sømu hlidar. Mórinn í jørdunni er heldur ecki annad enn fúin

*) A efsta toppi af Pilatusfiallinu í Sveitz finst heilt lag af krøklíngum, og jafnvel á Islandi eru skéliabackar lángt frá sió, til dæmis: hiá Leirá í Borgarfyrdi, Saudlauksdal í Bardastrandar Sýsslu, Sælíngsdal í Dala Sýsslu og vidarr. Kroppur af heilum hvalfiski fannst 1687 vid Fridrikshald í Norveigi svo lángt uppi landi ad þad var 40 fadmar yfir siávarmálid.

grasrót og urtalíf frá jardarinnar fyrri tídum; í honum finnst og, sem alkúnnugt er, í Islandi mikid af birkivid med rótum og brumi.

Loksins má þess géta, ad í þeim nedstu løgum, sem menn tilþeckia í jørdu, verdur ecki neinna þessfonar hluta vart, sem séu af dýra- og urta-ríkinu; sýnist þad ad benda til ad løg þessi hafi tilverid ádur enn þau eydiløgdu dýra- og urta-ríki voru skøpud.

§. 48.

Af þessum kénnimerkium og líkindum, sem nú voru talin, verdur med nockurnveigin vissu álíktad, ad á jørdinni hafi skéd í øudverdu ad vísu ein, ef ecki fleiri, adalbreiting, sem líkast til hefir nád yfir hana alla edur verid **almennilig**. Auk hennar skéá vorum døgum, og svo ad segia dagsdagliga adrar minni og **sérdeilisligar** breitíngar á jardarinnar útvortis ásýnd. Jardskialftar, elldgiósandi fiøll og siórinn giøra hér mest ad verkum. Hin tvo fyrrnefndu standa venjuliga í sambandi nockru hvørt vid annad, því skialdan eru elldgos án jardskiálfta, en opt eru þó jardskiálftar án þess ad elldur gióst þar í nánd. Vallendskir, sem eru jardskiálftum vanari enn flestar adrar þiódar, seigia þeir séu af þrennu tagi: þeir látttu, í þeim kippist jørdin fram og

aptur, likt og bylgiur gánga á siö; þeir hvirfil-réttu, í hverium jardvegrinn ímist hækkar eda lækkar *); og þeir hvirflandi edur hríngsólandi. Allar þessar hræríngar géta og verid sameinadar í einum jardskiálfta. Þeirra verkanir eru óttal-igri enn flestra annara tilburda í náttúrunni; jördin rifnar í þeim og giár og griflur opnast, af hverium elldr, reikr eda vatn gýs upp; fiöllin sökkva nidur í afgrunnid, og flatlendid hækkar upp og verdur ad fiöllum; bæir, borgir og heilar landsbygdir hverfa svo þeirra siást eingin merki framar; uppsprettur og feriutæk vatnsföll þorna upp, og annadhvört siást aldrei meirr eda önnur ný framkoma annarstadar. Allt þetta skédur med ótrúligum hrada; en þad skadvænasta er, ad þad kémur óforvarandis ad; veniuliga siást eingin önnur merki þess, ad jardskiálfti sé fyrir hendi, enn ad qvikasilfrid í loptþýngdarmælirnum fellur óveniuliga mikid, og ad hestar, hundar, kéttir og hæns láta fyrirfram í ljósi nockurskonar

*) Í jardskiálftanum, sem eydilagdi Lissabon 1755, kipptist jördin 14 feta lángt fram og aptur á bak. Vid líkar verkanir vard vart í Íslandi á sama ári; Sólheima jökull kipptist þá upp og nidur hvad eptir annad, og vard ad lyktum miklu hærri enn hann hafdi ádur verid.

qvídafulla bróſenni. Jardſkiálſtar byria optaſt med dýnkium og óttaligu druni nidri í jørdunni, en þad heiriſt þó ecki fyrr enn jørdin er þegar farin ad ſkiálfa. Siórinn er heldur ecki óldúngis frí fyrir þeſſum hræringum, og eru ſkipin þá á hønum opt í likri hættu, ſem húſin á landi *).

Optarr enn hitt eru jardſkiálſtarnir í grend vid þau elldgióſandi fioll, og elldgoſid ſiálft fylgir optaſt á eptir þeim. Þad byriar med dimmum dunum, ſkéllum og ſkruduíngi í jørdunni, og rétt ſem þrumum í loptinu, fiallſins efſti toppr opnaſt og ſpýr í lopt upp reik, ſvælu og elldglæríngum; øſku og ſteinum, já ſtórum biørgum rignir úr lopti yfir nærliggiandi hérud; ſólin miſſir alla birtu, og dýnkir og hvellir heyraſt bædi í lopti og jørdu. Ad lyktum brítſt fram úr giánni glóandi ledia annadhvørt af bræddu grióti og ødrum námutegundum, ellegar af ſióđandi vatni, ſem rennur víds vegar yfir allt hvad fyrir verdur, en hefir dauda og eydilegging í før med ſér; byggdir og bæir leggiaſt í audn, dalir fyllaſt upp og inn-

*) Í jardſkiálſtanum 1755 ſtie vatnid í ſliótinu Taio í Portugal 15 álnum hærra enn vant var, og þad á einu augnabliki, hvarf ſidan allt í einu, og ſté á ný eptir 4 mínútur. Þetta ſkédí allt þríſvarſinnum.

dælustu landspláts verda ad óttaligustu eydimörk. Allir þessir vidburdir ské þó ecki vid sérhvert elldgos, og fiall þad, sem eitt sinn hefir gosid, liggur opt nidri í mörg ár, medan í því safnast efni til nyrra jardellda. Hvor ad séu upptök og tilefni bædi jardskiálftanna og jardelldanna er, en sem komid er, eins óvíst, sem meiníngar náttúrufródra þarum eru margvísligar.

Ecki eru þær breitíngar færri eda ómerkari sem siór og vatn koma til leidar á hnettinum enn elldrinn. Siófarins óttaligustu verkanir eru þau offaflód sem stundum eydilegga stórar lands-bygdir *). Til þess má þeckianlig spor finna, ad sum lönd, sem nú eru umflotin eylönd, (til dæmis: Stórbretland, Sikiley) ádur hafi verid áföst vid meginlandid, og víst muni flest af þeim miórri hafsundum, (t. d. Niörvasund, Stólpa-sund, Eyrarsund, Cooksfund milli Asíu og Ameríku, sundid milli Fránkaríkis og Englands, sundin milli Danmerkur eya) vera svo tilkomin í fyrstu ad siórinn hafa brotist þar ígégnum.

---

*) Sudursiórinn í Hollandi var fordum lítid flódvatn uppi í landi, en á 13u öld braust hafid ad utanverdu inní hann, og giördi hann ad hafsbotni; um leid eydilagdi þad stór hérud.

Héradaufi géngur siörinn sumstadar á landid, en leggst frá annarsstadar, hvad eirnig ad likindum giörir mikla breitingu á laudanna sterd og legun. Hina somu verkun hafa líka vatnsfollin, og jafnvel regnid hiálpar til ad breita landsins ytri ásýnd, med því ad fleita burt mold og sandi frá einum stad í annan.

Loptid er heldur ecki í þessu tilliti ydiulaust; þad giörir kletta ad lausum steinum, steina ad sandi og sandin ad moldu; þad jafnvel eydileggur, þó med vatnsins hiálp, heil fioll, og vindurinn færir flugsandin, sem er imsra landa plága, frá einum stad til annars.

Loksins er manneskian siálf án afláts onnum kafin, med ad breita jardarinnar yfirbords ásýnd og útliti, til ad giora sér bústad sinn heilnæman og þægiligan, og til ad leita sér atvinnu. Hún upprætir skóga; lætur þurkast upp sen og forædi; veitir burt stoduvotnum; setur hafsins bylgium og ædigángi takmork med stiflum og flædigordum; grefur fram vatnsósa, byggir díki og damma hvar ecki ádur voru; yrkir eydilond og rétt sem þvíngar þau til ávaxtarsemi; í einu ordi: hún ummindar óræktadar, óheilnæmar, óttaligar eydimerkur, svo ad þær verda ávaxtarsamar heilnæmar og inndælar.

Ad þessar hér töldu sérligu breitíngar á jardarinnar yfirbordi muni á komandi tímum vidvara er víst; en hvort eda þá hvenær vor jardarhnöttr lída muni nockra almenniliga umturnun í sameidinni; og ef hún verdur nockur, hvernin henni muni verda varid, er oss manneskium hulid.

## 3ji Þáttr.

### Um ímisligt manneskiunni sem skinsamri veru vidvikiandi, og um mannligar stiptanir í löndum og ríkium.

§. 49.

Nú er nockud skírt frá edli og ásigkomulagi jardarinnar og þeirra hluta sem á henni finnast, ad því leiti sem þeir eru verk náttúrunnar. Í þessum þætti skal fátt eitt talid um manneskiuna sem skinsama veru, ad svo miklu leiti sem hún í innbyrdis félagskap, med ímisligum stiptunum leitar ædri fullkomunar,

Hin fyrsta orsök til mannligs félagsskapar er túngumálid; Ef manneskiurnar i ondverdu ecki hefdu gétad látid hvor annari i liósi sina pánka og hugrenníngar hefdu þær aldrei ad stadaldri samanbúid, og allrasíst stiftad náqvæman félagskap; en þared náttúran veitti þeim þá stóru yfirburdi yfir adrar skèpnur, ad hafa greiniligt málfæri, gátu þær tilkynt hvor annari sínar þarfir, óskir og eptirlángauir, sinn ótta og sina von. Svoleidis samteingdist þeirra félagskapr, og vard hann þeim mun fastari, sem þær betur lærdu ad þeckia þá stóru nytsemi, sem þánkanna innbyrdis meddeiling hafdi fyrir hveria manneskiu sérilagi. Hid fyrsta túngumál hefir eingu ad sídur verid næsta ófullkomid, af þvi i byriuninni voru manneskiunnar þarfir og þánkar fáir, og fátt af hlutunum i náttúrunni hafdi ennþá bórid hermi fyrir siónir, svo þeim yrdi nafn géfid. Enn eptir þvi sem mannkynid fiölgadi, og fluttist vidarr út um jördina, báru óþeckktir hlutir og vidburdir fyrir augu; þarfirnar uxu og ásamt med þeim þánkarnir um ad afletta þeim; allt þetta hlaut ein manneskia ad gefa annari til kynna, og þannig fullkomnadist túngumálid og vidlíka sem umnilindadist fra hinni fyrstu túngu, hvorrar ord ad nockru leiti gleimdust enn ad ödru umbreittust vid samanskeytingu þeirra hugminda mennt giördu

sér um hlutina. Að ímislig túngumál hafi, með þessu móti, við mannkynsins dreifíngu um hnöttin uppkomið er auðskilið; þaraf má líka sjá, hvorsvegna mörg túngumál eru orðin innbyrðis ólík, þó þau í fyrstunni væri af hinum sama stofni; og hvað til þess kémur að nákominna þióða túngur, álíkt og qvistir á sömu grein, optast hafa töluverða líkíngu hvor með annari. Eptir að mannesskiurnar síðarmeirr komust uppá að géfa tilkynna viss hljóð með tilgjörðu skrifuðu merki, samansettu af mörgum þvílíkum merkium eitt orð, og af fleiri orðum einn þánka; með einu orði: eptir að þær skópuðu letur gjörðina, framkom ný orsök til túngumálanna sundurgreiníngar, því þær þióðir sem færðu mál sitt í letur, ei einúngis gleimdu því síðurr, heldur fullkomnuðu það meirr og meirr, meðan önnur þióð, sem ecki kunni þessa ment, en var þó hinni í fyrstunni máské náskild, gleimdi sínu fyrra túngumáli dag frá deigi. Á seinni tímum hefir kauphöndlun milli fiarskildra þióða, og annað sambland þeirra á milli, svosem við herfarir, þióða umflutníng og annað þvílíkt, komið til leiðar ímisligum breitíngum túngumálanna.

Athugagr: það væri óþarfi og í siálfu sér þarhiá ómöguligt að upptelia öll þau helztu túngumál, sem nú eru töluð í heiminum, og að

áqveda hvar þau séu töluð. Á þeim túngumálum sem tídkast í nordurálfunni, hafa menn besta þecking og er svo talid, ad þar séu 14 adaltúngur, af hvörium sérhvör innibindur í sér fleiri eda færri túngumál sem eru náskild og einnar ættar, en þó ad nockru ólík ordin. Þannig til dæmis: er hin danska, norska og svenska túnga dætur þeirrar gömlu norrænu, sem ennþá talast, ad mestu óbriáluð, einúngis á Íslandi.

§. 50.

Trúarbrögdin eru án efa þad annad kroptugasta medal, til ad stirkia og vidhalda mannanna innbyrdis félagskap, þeirra verkanir eru ei sídur velgiörandi fyrir *heil ríki og lönd*, enn fyrir hin smærri félög og sérhvöria manneskiu. Uppruni þeirra er ad vísu áþeckr túngumálanna, þó hafa þau, eptir gódum líkindum, fyrri nád fullkomnun enn túngumálin. Þær firstu manneskiur litu med undrun og lotníngu himinsins dásamliga og hátignarfulla stiörnuher lída áfram yfir höfdi sér; þær sáu sólar og túngls kroptugu verkanir bædi á þeim siálfum og ödrum hlutum; þær fundu hvörnin sólin vid sína uppkomu vermdi og lífgadi alla náttúruna umhverfis, og ad þad óttaliga mirkur kom þegar hún géck undir. Þad var þessvegna náttúrligt ad þær, med þacklæt-

tösfuálri tilbeiðslu viðurkéndu hennar velgiörnínga, og að þær í sakleysi einfeldni seldu sig hennar vernd og beiddu um hennar hiálp, ef eitthvað gékk þeim á móti; með einu orði: að þær dýrkudu hana sem Guð. Sömu dýrkun hafa þær fyrstu manneskiur af líkum rökum veitt sérhverium hlut í náttúrunni, sem var þeim yfirsterkari, og sem hafði annaðhvört þægiliga eda óþægiliga verkun á þeirra tilfinning og ásigkomulagi. En eptir því sem stundir lidu fram, leiddi skinsemin manneskiuna til að géfa gaum að þeirri undrunarverðu niðurröðun og reglu, sem í sambandi náttúrligra hluta og þeirra verkana, birtist fyrir augum þeirra á himni og jörðu; þetta vakti þeim grun um, að ein einasta ædri vera mundi tilvera; að hún stiórnadi öllu þessu, og héldi því innan reglubundinna takmarka. Þessa veru tilbádu þær, án þess að þeckia hana, nema að svo miklu leiti sem þær héldu að hennar eiginligleikar, edur kraptr sá er framleiddi verkanirnar, yrði að vera áþeckr siálfum verkununum. Þær ályktudu þannin: sú vera sem framleidt hefir og rædur yfir þeim stóru, hátignarfullu og góðu verkunum í nátturunni ma siálf vera góð, hátignarfull og stór. Með þessu móti urdu trúarbrögdin tvennslags, að svo mikluleiti sem grundvöllr þeirra er annaðhvört að trúa á einn einasta Guð (monotheismus) edur

ad dýrdka marga Gudi (Polytheismus). Til þessara sem hofud tegunda má enn á vorum dögum oll trúarbrögd heimfæra. Af hinum fyrrnefndu eru nú einkum þrír flockar: Gydinganna, sem eru en eldstu menn tilvita; þau kristnu, sem af hinum eru upprunnin og mahómets trúarbrögd, sem samansett eru af hinum bádum. Kristindómrinn innibindur 5 önnur trúarbrögd nefniliga: þau rómversk-katólsku, grísku, evangelisku, reformertu og evangelisk-engelsku. Mahómets og Gydinga trúarbrögd hafa lika sundurqvíslast i fleiri flocka.

Þau trúarbrögd, hverra einkénni er átrúnadr margra guda, og sem fá tilagi nefnast heidin*) skiptast i tvo höfudflocka; i ödrum heirra eru haudir menn, til dæmis: ættar- og for- fedur, velgiördamenn, og kappar, enn i hinum skinlausir hlutir dýrkadir.**)

§. 51.

Þiód nefnast þær manneskiur er lifa undir sömu stiórn og lögum; Lika opt og tidum þær

*) Svo er tilgétid ad tveir þridiu partar mannkynsins hafi heidin trúarbrögd.

**) Hinn sidarnefndi átrúnadr nefnist venjuliga Fetisme, af Þof portugísiska ordi fetisso, er þydir helgadan eda tøfradan hlut.

manneskiur sem annadhvørt eru af sømu kynslód og tala hina sømu túngu edur og dyrdka hin sømu trúarbrøgd. Þiódirnar eru í tilliti til mentunar og lífernisháttа annadhvørt **sidadar** eda **villi-þiódir**, *) Allar villiþiódir lifa þvílíkast sem dýrin, svo ad segia eptir munni og maga; hafa eingar þesskonar stiptanir hvaraf þær til sálar eda líkama géti tekid framførum; þad er augnabliksins þørf sem áqvardar þeirra fyrirtæki. Jardyrkia er þeim ad øllu leiti ókunnug, og flestar lifa þær eingaungu á þeim ávøxtum, sem jørdin siálfkrafa af sér gefur, ellegar þá á villudýra veidum, til hvørra þær eru vanar frá barndómi. Heimkynni þeirra eru annadhvørt jardhús, holur og skútar, eda lélegir kofar og hreysi, sem þær

*) Margir skipta ad sønnu þiódunum í 3 høfudflocka nefniliga: í **villiþiódir**, **barbariskar** og **sidadar** þiódir. En þær barbarisku má allvel telia med þeim sídustu, því þær hafa **fasta bústadi**, **jardyrkiu** og **regluligt stiórnarform**, hvad ed virdist ad vera þau rettu einkénni eptir hvørium má sundurgreina þiódirnar. Í þessu tilliti ad líta einúngis til þeirra meiri eda minni upplýsingar, er bædi háreidanligt og vandhæfid.

hrósa upp einungis til ad veria sig vondu vedri; Þó eru ecki allar villiþiódir í iafnaumu ástandi, nockrar þeirra láta í lióst meiri kunnáttu enn adrar, eptir því sem tillfellin hafa verkad til þeirra menntunar meirr enn hinna; sumar lifa í tiölldum og flytia úr einum stad í annan med qvikfénad sinn, eptir sem árstídum og landslagi hagar. Þær af villiþiódunum sem lært hafa þannig ad nota sér dýrin til ímissrar brúkunar, hafa giört góda byriun til ad komast í hinna sídudu tölu; Eingu sídur eiga þær í þessu tilliti lángt í land, því eckert er líkligra og náttúrligra enn þad, sem þiódasagan lika vottar, ad þær fyrstu þiódir hafi lifad mest á dýraveidum, lært sídan smátt og smátt ad hafa lángvinnari not þeirra veiddu dýra, med því ad temia þau, ferdast þareptir med hiardir sínar frá einu landsplátsi til annars, og ad lyktum numid þar bólfestu, hvar þær fundu ad bestir vóru landskostir, yrkt þar iördina, byggt stadi og lagad meirr og meirr háttsemi sína til hins betra. Qvikfiárræktin er þannig jardyrkiunnar byriun; med jardyrkiunni fylgia stödugir bústadir; og stödugir bústadir grundvalla naqvæmari sambúd og borgaraligan félagskap manna ámilli. Þessi eru þau tröppustig hver mannkynid hefir geingid,

til ad ná þeirri mentun, sem þær sidudu þiódir á vorum dögum hafa. *)

§. 52.

Eitt hid helsta einkénni hinna sidudu þióda er, ad þær hafa inngengid stödugan félagskap til verndar móti innvortis ofriki og útvortis ófridi, og yfirhöfud: til ad geta ödlast svomikla heill og farsæld sem mannekkiuligt ástand leyfir; Hid annad einkenni er: ad þær, hvör í sinu lagi, stiórnast af sjeinni ædstu makt, sem þessvegna nefnist þiód-stiórn. Undir sömu stiórnar valdi standa opt margar, og iafnvel í mörgu ólíkar þiódir, og kallast þær, hvört sem þær eru fleiri eda færri, eins og löndin sem þær biggia, í einu ordi ríki. Þau takmörk sem sundurgreina eitt ríki frá ödru eru annadhvört af mönnum giörd, svo sem merki-gardar og steinar, múrar, kastalar og þessháttar, eda þau eru náttúrlig, til dæmis: fiöll og skógar, vatnsföll, sióir og stöduvötn.

---

*) Í Nórdur-álfunni eru nú allar þiódir sidadar; líka margar þiódir í hinum ödrum heimsálfum, en þar má og finna mikin fiölda af villiþiódum, svo sem á nyrdri og vestri hluta Ameríku, í ymsum landspörtum Afríku, á eyunum í sudurhafinu, og vídarr annarstadar.

Stiórnarinnar útvortis og innvortis løgum, edur stiórnarformid, er næsta márgbreitt og í sérhvørriu ríki øldúngis undir því komid hvad þarumer áqvardad í ríkisins grundvallarløgum. Ef stiórnin er einum einasta manni á hendur falin heitir hún einvaldsstiórn, (monarchia) og ríki þad hvar hún brúkast er einvaldsríki. Þann sem þvílíka stiórn hefir á hendi í þeim stærri ríkium nefna menn Keisara, *) Kong, Sultan (hiá Tyrkium), Chan (hiá Tatørum) og svo framvigis, en í smáríkiunum, hvør líka stundum standa undir einvaldsstiórn, heitir hann Kiørfursti, Erkihertogi, Stórhertogi, Stórfursti, Hertogi, mark- eda borgar-greifi, Baron, Dey, Bey, Hospodar og s. fr. Þad berr tídum vid, ad mørg þessi smáríki hverfa undir einn einasta yfirstiórnara, hvørr ed optast hefir helsta hluta ríkisins til.

*) Keisara nafnid er komid frá þeim nafnfræga rómverska hershøfdingia Caius Július Cæsar, hvørs ættleiddi sonr Octavianus, sídan nefndr Augustus, fyrstr tók þetta heidurs nafn; Þeir grisku einvaldsherrar héldu því og Karlamagnús, sem braut undir sig mikin hluta af því rómverska einvaldsdæmi brúkadi þad fyrstr hér á nordurløndum.

eigin umráda, en þó ásamt yfirumsjón allra hinna. *).

Þegar einúngis nockrir menn, sem annadhvert sakir aldurs, ættgöfgis, ríkidæmis eda metorda, eru álitnir sem hinir helstu og bestu menn í ríkinu, hafa hid hærsta stiórnarvald í höndum, heitir stiórnarformid Valdsmannastiórn (aristocratia); En Fólkstiórn (democratia), ef fleirstir ríkisins borgarar, iafnvel almúgamenn hafa þad undir umráđum. Adurnefnd þriú stiórnarform géta, eptir edli og uppruna sínum, verid óblondud hvört vid annad, og er stiórnin, í þeim löndum hvar svo stendur á, ótakmörkud. Enn optastnær eru þau ímisliga samanblandud þvíleidis ad hvört takmarkar annad, til þess ad sá sem hefir þad eginliga stiórnarvald á hendi, ei géti rádid ollu eptir egin þótta og svipt fólkid sinu friálsrædi. Sumstadar, svo sem í Englandi og Fránkaríki, eru einvaldsstiórn, valdsmanna stiórn og folksstiórn, samqvæmt þessara ríkia grundvallarlögum, sameinadar. Stiórnarformid er þar svo blandad sem mest ordid getur. Annarstadar eru hinsvegar, til dæmis í Noregi, fólkstiórn og Kóngstiórn einúngis sameinadar.

*) Þetta stiórnarform var ad nockrulleiti í Þýdskalandi og vídar annarsstadar.

Sú nefnd manna sem takmarkar einvaldsstiórnina kallast ímsum nøfnum, til dæmis: í Sviaríki, **ríkisstønd**, í Norvegi **stórþíng**, í Englandi og Frackaríki **parlament**, á Spáni **Cortes** og sv. fr.

Einvaldsstiórnarinn kemur til ríkis med tvennu móti, annadhvørt ad erfdum eptir þeirri reglu og í þeirri rød, sem ríkisins grundvallarløg ákveda; þesskáttar ríki nefnast **erfdaríki**; ellegar hann er kiørinn annadhvørt af þeim hæstu valdsmønnum edur siálfu fólkinu, og heitir þá ríki hanns **kiørríki**. Hid sídarnefnda stiórnarform má nú heita undir lok lidid, vegna þess ó öa sem nýtt Konúngsval opt hefir af sér leidt. Í mørgum nordur-álfunnar løndum er Kóngsstiórnin, eins og ádur er ávikid, takmørkud. Þó er hun líka sumstadar, svo sem í Danmørku og Preussalandi ølldúngis ótakmørkud og einvaldsherrann þar øllu rádandi.

---

*) Þeir kristnu einvaldsdrottnar, ad þeim spanska fráteknum, eru vanir í lagasetningum og stiórnarritum ad nefna sig **vér** og yfirhøfud ad tala um sig sem fleiri væru; hvad og vel má til sanns færast, ad svo mikluleiti þeir, sem stiórnendur, hafa þegid vald sitt af fólkinu og standa í margra stad; Í titlum sínum eru þeir líka

Valdsmanna stiórnin getur, vidlika og einvaldsstiórnin, annadhvert gengid ad erfdum á þeim ættum sem í fyrstu hafa stiórnina á hendur tekist, edur og þeir menn eru til hennar valdir sem til stiórnar eru álitnir hentugastir.

---

vanir ad nefna sig Kónga og Keisara af Guds nád, í tilliti til þess, ad þeir hafi valdid af Gudi þegid. Sumir þeirra bæta og vid nafn sitt einum edur ødrum heidurstitli, sem Páfar hafa veitt þeim á fyrri øldum; svoleidis nefnir Englands Kóngr sig trúarinnar verndarmann og Frackland's Kóngar kølludust hinir allra kristiligustu. Kóngar, Keisarar og Drotningar þeirra nefnast nú, þegar til þeirra er talad: ydar hátign (majestæt). Á eldri tídum var veniuligt ad nefna þessar persónur: ydar nád. Kóngasynir sem ad erfdum eru til ríkis bornir kallast: Krónprinzar og dæturnar Prinzessur; enn yngri Kóngasynir, og yfirhøfud allir sem eru løgliga bornir af Kóngaættum, er veniuligt ad gefa sérlig heidursnøfn, svosem: Prinzar, Hertogar, o. s. fr. Kóngstignarinnar einkénni eru króna, veldissprota og ríkisepli. Flestir einvaldsdrotnar láta krýna sig og smyria annadhvort strax edur nockru seirna enn þeir takast stiórnar-rádin á hendur.

Jallri fólkstiórn, hvort sem hun er blöndud eda óblöndud vid hin önnur stiórnarform, velur fólkid sina fulltrua, og selur þeim stiórnar umrádin edur umsión þeirra á hendur. Grundvallarlögin ákvarda hversu marga menn velia skuli af hverju héradi, hverri sókn og hverium stad, eptir þeirra folksfiölda og ödru ásigkomulagi; líka eginlegleika og borgaraligt ástand þeirra sem velia og veliast megu; Veniuligt er, ei ad leyfa ödrum ad velia og veliast enn þeim, sem eru rikisins innfæddir þegnar, eru alþecktir dánumenn, hafa nád lögáldri, nióta fulls borgaraligs friálsrædis, og annadhvort ega toluverda fasteign edur gialda árliga tiltekna summu í skatt og þegngildi. Med þessu móti er leitast vid ad setia skordur vid, ad ei illrædismenn, ummhleypingar og skrælingar fái þátt í stiórninni, til skada fyrir alla, nema siálfa þá.

Valdsmannastiórnir og fólksstiórnir eru nú miög svo siáldgiæfar nema sameinadar med Kóngsstiórn; þær eru ogsvo eingaungu, eptir því sem reynslan hefir sýnt, færstum löndum hentugar vegna þeirra óspekta og ófriálsrædis sem þær vidast hvar hafa ollad; af þessum rökum hafa þær siáldan lengi vidhaldist. Einvaldsstiórn, vid önnur stiórnarform blöndud eda óblöndud, er án efa þad eldsta og í siálfu sér náttúrligasta stiórnarform; hún

hefur lika leingst og vidast, svo menn tilviti, vid-geingist.

Ef allir vilia ráda og taka þátt i stiórninni verdur hún almúgastiórn (oclocratia) en má þó heldur nefnast óstiórn (anarchia) og er þa rikid á fallanda fæti. Persónar óstiórn er von ad smeigia sér inn, þegar rikisstiórnin, ann-adhvert vegna misbrúkunar hinnar hærstu maktar eda af ødrum tilfallandi orsøkum, hefir tapad krapti sinum og áliti til ad géta stiórnad fólkinu. Hún er optastnær fyrirbodi stærri eda minni umbreitingar í stiórnarforminu, hvaruppá ótal dæmi hafast í enni eldri og nýari veraldarsøgu. Hardrædis eda ofrikis-stiórn (tyrannis) er reglulaus misbrúkun þeirrar hærstu maktar; hún gétur stad fundid iafnvel í øllum stiórnarformum, þó hættast sé vid henni í ótakmarkadri einvaldsstiórn.

Í þeim rikjum hvar gódir og upplýstir einvalds-herrar ráda, þarf ei fyrir þessu ad óttast, því þeir láta sér annt um vera, ad brúka stiórnar maktina rikí sinu til gagns og heilla, enn ecki til ad hindra þiódarinnar frialsrædi. Þeirra heidur og velfarn-an er øldúngis undir því komin ad þiódinni sé stiórnad med skynsemi og hygginndum; ad þegnarn-ir géti haldid og hægliga nád rétti sinum, og ad þeim sé leyst ad leita sinnar atvinnu sem best þykir henta og ecki er skadligt fyrir almennings sïdgiædi.

Medan einvaldsherran giætir þessa, blómgast þiód sú er hann stiórnar; en af útaf því er brugdid, mun hennar velgengni á lengri eda skémri tíma rírna, hennar sídgiædi spillast og stiórnarformid siálst lída hættuliga umbreiting.

Athugagr. Margar og ólíkar meiníngar hafa verid, bædi á eldri og seinni tímum, um giædi og fullkomligleika stiórnarformanna. Sumir mæla mest fram med fólkstiórninni, og halda ad hún ein verndi best friálsrædi þiódarinnar, grundvalli og útbreidi hreina fødurlands elsku og allar þessconar dygdir, sem mida til almennrar velgengnis; Adrir draga taum valdsmannastiórnarinnar og færa til síns máls, ad aldrei muni betur stiórnad enn þegar ríkisvaldid er í høndum hinna bestu og ríkustu manna af fólkinu; Og loksins eru nockrir, og þeir eru fleirstir, sem álíta einvaldsstiórnina, sérilagi ef hun er hentugliga temprud med fólkstiórn og valdsmannastiórn, heilladriúgasta og í flestu tilliti affara besta. Þegar dæmt er um þetta málefni yfir høfud, og án þess ad líta til einstøku ríkia og annars sérligs ásigkomulags, virdist hin sídarstnefnda meining ad vera bygd á gódum skynsemdar røksemdum, eins og hún af reynslunni er margfaldliga sannprófud. Því í valdsmannastiórn og fólkstiórn er, auk þess ad vit og dugnadr stiórnendanna kann ad vera hardla misjafn, stiórnarvaldinu opt-

ast nær skipt, annadhvort ójafnadarliga edur í ofmarga parta, svoad þaraf orsakast, eins og ad ofanverdu er áminnst, sífeldir flock-adrættir og órói sem hindrar framqvæmd stiórnarinnar; Jeinvaldsstiórn eru hinsvegar allir taumar stiórnarvaldsins lagdir í eins manns hønd, hvorsvegna stiórnin getur fram-gengid med naudsynligum krapti og stiótræði. Ad ødruleiti er þad nærsta mjøg undir hvørrar þiódar sérligu ásigkomulagi, svosem: þeink-íngarhætti og sinnis-edli, upplýsingu, nær-íngarvegum, og sv. fr., komid, hvørt stiórn-arform sé henni hentast; eins og þad er optastnær minna áríðandi fyrir þióðirnar, hvørnig stiórnarformid er, enn ad stiórnend-urnir siálfir séu giæddir viti og dugnadi til ad uppfylla skyldur sínar.

§. 53.

Med hvøriu móti sem ríkisstiórnin er løg-ud, á þó hennar adalaugnamid ætíd ad vera ríkisins heill og velfarnan (salus publica suprema lex), og ad þvi eiga allar hennar at-hafnir ad lúta. Þær má adgreina í þriá flocka, nefniliga: þær sem vidvikia lagasetníngum, dómara úrskurdum í þrætum manna, og framqvæmd þeirra rádstafana er mida til hlýdnis vid løg og dóma. Í þessu tilliti er veniuligt ad adgreina ena hærstu stiórnar makt í þá

løggéfandi, (potestas legislatoria) dæmandi, (potestas iudiciaria) og framqvæmandi (potestas exsecutiva). Þessar greinir stiórnarmaktarinnar eru, eptir stiórnarforminu í sérhverju ríki, ímisliga samanskeittar, og hvør af annari takmarkadar; eingu ad sídur eru þær hvervetna naudsinligar, og má allvel greina, iafnvel í einvaldsstiórn, nær einvaldsherrann er løggiafari, hærsti dómari eda framqvæmandi stiórnari.

Ríkisins hærsta stiórn, sérílagi ef hún er í eins manns høndur løgd, er ecki siálf einfær um ad siá yfir allt sem fyrirfellur í ríkinu, svosem: ad løgunum veitist skyldug hlýdni, ad dómarar skéri úr málum manna og ad góð sidsemi vidhaldist. Í fleirstum ríkium eru því af einvaldsherranum tilsett stiórnarrád (Collegia) til ad hafa sérliga umsión med, og ad bera umhyggiu fyrir, ríkisins mest árídandi málefnum, hvørium milli þeirra er skipt eptir því, sem í hvøriu landi þykir best henta. Kóngar eru líka vanir ad velia nockra menn til egin rádaneytis, og nefnast þeir Leindárrád (ministri a consiliis intimis). Serhvørium þeirra eru á hendur faldar sérligar málefna greinir, þannig ad einn, til dæmis, vakir yfir lands løgum og rétti; annar yfir ríkisins fiárhag og penínga hirdslum;

þridii yfir framandi þióda athøfnum ad svo mikluleiti sem þær vidkoma ríkinu; fiórdi yfir herlidinu og ollum stridsbúnadi; fimti yfir høndlun og siglingum, og sv. fr. Auk þessa setur ríkisins hærsta stiórn lægri yfirvøld, bædi andligrar og veraldligrar stéttar, sem annadhvørt eru einstakir menn eda nefndir manna; þessi yfirvøld, eins og embættin sem eru þeim á hendur falin, nefnast ýmisliga. Skyldur og réttindi þeirra áqvardast af siálfri ríkisstiórninni; yfirhøfud eru skyldurnar þarí innifaldar, ad yfirvøldin hafa umsión med ad løgum og stiórnarinnar bodordum sé hlýdt af almenníngi, og ad þeir sem móti þeim brióta, sæti hegningu sem løgin áqvarda. Í þessu tilliti ber þess ad minnast: ad undireins og løgin eru samin og útgefin, bera stiórnarrádin umhyggiu fyrir ad þau kunngiørist. Þetta skédur þannig, ad løgin siálf sendast hinum lægri embættismønnum til auglýsingar, ef þau áhræra almenníng, á ýmsum mannfundum, svosem þíngum vid kirkiur og sv. fr.; en ef þau vidkoma einúngis einum edur fáum, eru þau ei ødrum enn þessum bytt. Þegar løgin eru tilhlýdiliga auglýst, skuldbinda þau alla; og eins og þad þá er skylda sumra yfirvalda ad hafa náqvæma tilsión med ad ei sé móti þeim breitt, svoleidis er þad og svo skyldugt dómaranna embætti, þegar útaf þessu

berr, ad dæma vidkomendur, samqvæmt laganna bod-ordum. Svo er vidast hvar tilhagad, ad adgiørdir hinna fyrstu dómara í málum manna géti komid undir álit ædri dómstóla, eins eda tveggia; enn þegar málid er prófad og dæmt af hinum hærsta retti, verdur sá úrskurdr ecki vefengdr. Þó berr þad tídum vid, ad einvaldsstiórnarinn í saka málum og ødrum þesskáttar, annadhvørt minkar eda oldúngis eptirgéfur þad straff er hinn ákiærdi var idæmdr. Þesskonar umbreiting skedur ecki í þvi tilliti, ad dómrinn sé ranglátr, heldur vegna þess, ad margt kann ad finnast hinum ákiærdu til málsbóta sem dómarar, er fylgia egu laganna stránga réttlæti, ecki megu vid straffsins áqvørdun láta vera hinum sekudu til linkinda.

## §. 54.

Sérhvør gód og vitur ríkisstiórn lætur sér vera annt um, ad innbúar ríkisins géti nád tilhlýdiligri uppfrædingu í trúarbrøgdum og sidgiædi, ásamt upplýsingu í visindum og nytsømum konstum. Þetta er hid kroptugasta medal til almenníngs heilla, þvi flestar stiptanir í ríkiunum til útvortis velgengnis mundu verda ad litlu eda engu haldi, ef ríkisins þegna vantadi trúarbrøgd, sidgiædi, sóma tilfinníngu og upplýsíng; þvi

betur sem undirsátarnir eru siðaðir og upplýstir, þess nytsamari medlimir eru þeir af félaginu.

Í fleirstum ríkium er giørdr greinarmunr milli drottnandi og lidinna trúarbragda. Hin standa undir laganna sérligri vernd, og stiórnin hefir umsión med þeirra útvortis æfingu, uppá þann í løgunum tilskipada máta, líka ad þeirra medkénning vidhaldist hvervetna medal ríkisins þegna; En þessara æfing er einúngis lidin, á tilteknum stødum, og án þess ad þau megi útbreidast. Einvaldsherrann eda ríkisstiórnin tilsetur klerka og kénnimenn, sem predika fyrir fólkinu, og uppfræda þad í þeirra drottnandi trúarbragda lærdómum, líka sió fyrir úngdómsins uppfrædingu, og í einu ordi stydia ad øllu því, sem þénar þeirra sóknar innbúum í andligum efnum. Vidasthvar setur stiórnin ogsvo kénnifedur í hinum lidnu trúarbrøgdum, og lætur hafa gát á, ad þeir í kénníngum og framferdi ei misbrúki þad frjálsrædi, sem þeim í andligum efnum er veitt í ríkinu. Hin andliga stiórn geingur þannig, í fleirstum ríkium, samsída þeirri veraldligu, en bádar sameinast þær í høndum einvaldsstiórnarans, sem í hvørutveggiu efni hefir nú optastnær hin ædstu rád.

Fyrir lærdómsmentum og ødrum vísindum berr einvaldsstiórnandinn umsorgun med stiptun ædri og lægri skóla til uppfrædingar úngdóminum.

Af enum lægri skólum eru almennastir almúgaskólar og borgaraskólar, hvoriir sérílagi eru ætladir til barna kénslu og almúgans uppfrædingar, samt svokalladir látínu- edur lærdirskólar, sem stiptadir eru og vidhaldast til frama ædri vísindum. Vid háskólana (universitetin), fær úngdómurinn, sem ádur ad nockruleiti er undirbúinn í þeim lægri skólum, diúpsærari og náqvæmari þeckíngu á lærdómsmentum og vísindum, og eru þeir þar uppfræddir, sem med tídinni ásetia sér ad þióna ríkinu sem embættismenn. Þau helstu vísindi sem kénd eru vid háskólana eru: gudfrædi, løgvísi, læknisfrædi og heimsspeki, en þarhiá mørg onnur vísindi, sem ad nockru edur mikluleiti heira til þeirra, sem hér eru greind, eda stydia ad þeim á einhvørn veg. Auk ádurnefndra skóla eru líka vída hvar stiptadir st idemannaskólar, handlunarmannaskólar og adrir fleiri.

Konstirnar er veniuligt ad sundurgreina í þær svokalladu talandi og mindandi; medal hinna fyrrnefndu eru: skáldskapar, og mælsku-ment taldar, og lærir þær einginn til hlýtar, nema sá hvørs náttúru gáfur giøra hann hæfan þartil; en til hinna sídarnefndu reiknast bílæta- og málverkasmídi, málarakonst, og fleiri; hvørutveggi þessar konstir eru einnin

kéndar í skólum og háskólum, þeim sem hafa náin og lyst til ad nema þær.—

Auk þessa eru í fleirstum ríkium margar adrar stiptanir, lærdómi, vísindum og konstum til frama, til dæmis: opinber bókasøfn, vísinda félög; søfn af gømlum minium og bílætum, af imsum ýngri smídisgripum sem giørdir eru med hagleik, af ímisligu sáfédu efni frá náttúru ríkiunum, og margt fleira sem lýtur ad sama augnamidi. Sameiniſt fleiri þesskonar søfn í eitt, nefniſt þad múſeum edur menta búr.

Ef áqvarda skyldi á hvørri upplýsingar trøppu ein þiód standi, nægir ekki ad líta til þess einúngis, hvad margar lærdóms og vísinda stiptanir eru í ríkinu, heldur a iafnframt ad adgiætaſt, hvørt nytsom þecking sé almenn hiá þiódinni, og hvørt sérhvørt stand hafi af henni svomikid, sem þess ástand og sýslanir heimta. Þetta, ásamt þeckíanligri, af hiátrú ag fordómum friálsri skinsemi, er sá sanni mæliqvardi fyrir þiódanna upplýsing.

§. 55.

Bædi til ad vidhalda rósemd innvortis í ríkiunum, en einkum til verndar móti annara þióda áráſum, þarf ríkisstiórnin vopnad herlid. Hiá villiþiódum er þad ad sønnu veniuligt, ad

allir vopnsærir búast til varnar, þegar á þarf ad halda; en þessi verndar-máti getur ordid ríkianna tilveru hættuligr, af því allir edr máské margir vopnsærir karlmenn géra þannig í einum bardaga sarist; Lika er þessconar almenniligt herbod nú á timum, eptir fleirstra rikia ásigkomulagi, ad öllnleiti ómoguligt, stridin vara nesniliga opt i mörg ár, og á medan yrdi hverr vopnfærr karlmadr ad leggia nidur sýslan sína, svosem akuryrkiu, kaupverdslun, imsar handydnir, med fl., hvaraf orsakast mundi sliót og bumsþanlig eydileggíng ríkianna. Ad sönnu má þad virdast, sem ríkin ecki hasi svo öbluga vörn mót fiandmönnum sínum, þegar einúngis nockrir þeirra innbúar eru undir vopnum, senr þau annars mundi hafa, ef allir i einu tæku til mótvarnar; en allt kémur í sama stad nidur, því stridsmenn þeir, sem eingaungu géfa sig vid hersaraeýslan, verda ad vonum æfdari og dugligri partil enn landyrkiumenn og adrir, sem ádur maske aldrei hafa vopn séd; Lika er naudsýnligt, ad töluverdr fiöldi fólksins fé vid fridsamligar sýslanir, svo ad rikisstiórnin géti þadan fengid naudsynlig efni, til ad standa kostnad af fædi og útbúnadi herlidsins. Í mörgum, einkum einvaldsríkium, hafa stiórnendurnir þessvegna, (sumpart lika tilknúdir af eigin ysirlæti og mißþánka til nábúa sinna) innfært svonefnt

standandi edur reidubuid herlid, sem ætíd er til taks, nær sem á þarf ad halda, hvört heldur vera skal til áhláups eda varnar.

Stridin þióðanna ámilli, til hvorra herlidin einkum eru ætlud og brúkud, eru annadhvört lands- eda sió-strid og skiptast herlidin því, ad svo miklu leiti sem þau eru brúkud á sió edur landi, í land- eda sió-lid. Landlidinu er skipt í marga smá hópa, yfir hvorja einstakir menn eru bodnir, en allir hlýda þeir einum einasta herstiórnara. Landlidin adgreinast í fótgaungulid, riddaralid og fallstikkialid, og sérhvört þessara hefir margar adrar adgreiningar sem hér er óþarfi ad telia. Landlidid er yfrid kostnadarsamt, því í fleirstum ríkium er varid helmingi eda iafnvel ⅔ portum innteektanna til þess viðurhalds, og á stridstímum þó þrefaldt meira enn annars.

Siólidin kresta þó en stærri tilkostnad, því auk þess mikla kostnadar til ad byggia stridsskip, med reida, fallstickium og ollu ødru, sem til þeirra heirir, heimta þau líka rambyggiliga ummgirdtar hafnir, hvar skipin géti óhult legid, dokkur hvar þau verdi badi byggd og bætt, skipreidabúr, siómannaskóla og fleira þesshattar. Her-skipin eru veniuligast línuskip, fregátur og minnur smærri skip med imsum nofnum. Á einu línuskipi eru optast frá 50 til 120 fallstickk-

innanbords, og fra 400 til 1000 manns; þau sem hafa fleiri enn 90 fallstickí, hafa ætíd 3 þilför hvört yfir ødru og iafnmargar radir fallstickia. Fregáturnar hafa einungis eitt þilfar og fra 20 til 40 fallsticki, og eru þær, ásamt þeim smærri skipum, helst brúkud til víkingskapar, og til ad niósnast um hagi og athafnir standmannanna, lika til ad elta einstøk skip þeirra og fleira þess háttar.

§. 56.

Af því sem ádur er sagt um embættismenn, trúarbrøgd, naudsynligar stiptanir og herlid í ríkiunum, flýtur, ad allt þetta muni útheimta stór útgiølld af ríkisstiórnarinnar hendi, vid hvørium hún ecki gétur stadist, án þess ad hafa stórar inntektir til umráda. En þared kostnadrinn er giørdr til almennings nytsemdar, er sanngiarnligt ad almenningrinn beri þá byrdi sem hann med sér færir. Ríkianna inngiølld eru innifalin í skøttum og ødrum tekium, sem tilætlad er ad falla skuli í ríkisins opinberu fiárhirdslur. Skattarnir eru vídast hvar lagdir á jardarinnar afgróda, þó med því tilliti, ad þeir sem skattinum egu ad svara, géti borgad hann af sínum árligu inntektum af iørdunni eptir ad kostnadrinn er frádreg-

inn, því annars mundu þeir verda ár frá ári fátæk- ari, og ad sídurstu komast á vonar vol. Þær adrar markverdustu tekiur sem ríkisins sióð til- falla eru: tollr af varnadi sem flutt er inn eda út af ríkisins takmorkum; skattr af stimpludum pappír og af imsum næringarútvegum; sumstad- ar er og uppábodin høfudskattr, hvorn sér- hvør persóna, er nád hefir tilteknum aldri, má borga; líka eru skattar vídast hvar lagdir á fénad, titla, klædnad og marga fleiri hluti, sem yrdi ofángt upp ad telia. Í morgum løndum dregur ríkisstiórnin stór giølld af þeirri fasteign, sem ríkid á, og sem optast nær er burtleigd til undirsátanna. Þessi inngiallda grein, ásamt margskonar sakeyri, var á fyrri tímum einhvør hin helsta. Í øllum ríkium áskilur stiórnin sér ein og ønnur einrétti (regalia), sumpart sakir inntektanna sem þau af sér gêfa, sumpart líka vegna þess, ad hættara væri vid misbrúkun vissra réttinda, ef þau væru í annara en stiórnarinnar høndum. Þau markverdustu stiórnar-einrétti eru: réttr til margskonar námutegunda, svosem, gulls og silfurs, hvar þær finnast; réttr til alls þess ardar sem skógar, heidar og eydimerkur, fliót og høf, er ríkisins þegnar ecki eiga, gêta af sér gêfid; réttr til bréf- burdar bædi innan ríkis og ámilli þess og nábúaríki- anna, samt þaraf fliótandi inngiallda; réttr

til ad mynta peninga eptir þeim í lögunum áqvarðada myntarstofni. Á marga adra hluti eru og stiórnir vanar ad kasta eign sinni, svosem: vogrek, og erfdargóts, þegar eigandinn eda erfinginn eptir tiltekin tima, ecki veitir því móttöku, med fl.

Eins og rikianna inngiölld eru margbreitt, svo eru líka þeir siódir, í hvoria þeim er safnad og hvaraf útgiölldin eru greidd, imisligir, og hiá imsum embættismönnum geimdir. Í takmörkudum einvaldsríkium er vant ad sundurgreina ríkisins höfud- edur adalkassa (ærarium) frá einvaldsherrans fiárhyrdslu (fiscus). Af hinum eru goldnar ríkisins orduligu og ystrorduligu útgiftir, bædi á strids og fridar tímum, ad svo mikluleiti sem þær ecki vidvíkia siálfum einvaldsherranum; en af þessum þær summur sem áqvardadar eru til hans egin, ættíngia hans og hirdarinnar uppheldis og framfærslu. Í ótakmörkudum einvaldsríkium rædur einvaldsherrann yfir öllum ríkisins féhirdslum eptir gédþecki, og þar er ei einn sésiódr ríkisins frá ödrum adgreindr, í ödru tilliti enn til þess, ad umsiónin sé hægari med ríkisins fiárhag.

Athugagr. Lángvaranlig strid, og stortt á naudsynligri framsýni og fyrirhyggiu, hafa á seirni tímum jeckt fleirstum ríkium í nordurálfunni í botnlausar skulldir. Stiórn-

endurnir hafa tekid til láns bædi utan- og innanríkis, og bæsslega skuldbundid sig til á tilteknum tímum ad borga þád aptur smámsaman, eins og ad svara vissum árligum rentum af láninn, sett iafnvel einstaka parta af ríkium sínum, edur nockurn part af tekiunum í pant. Vída hrockva ríkianna hálfu inngiölld valla til ad svara þessum rentum, og er þess einginn von, medan svo ástendur, ad nockud verdi borgad af siálfum hosudstólnum. Sumstadar hafa stiórnendurnir, ríkium sínum til litils góda, látid tilbúa stórar summur bréfpeninga, til þess ad géta komist frá rentunum, og borgadsunnur naudsynlig útgiölld ríkianna. Ríkisstiórnarinnar skulldabréf gánga í kaupum og sölum manna ámilli; en verdhæd þeirra er þá sérílagi undir því komin, í hve gódum metum ríki þad er, hvörs stiórn hefir þau útgéfid, bædi í tilliti til velmegunar og stiórnaudans dugnadar og dánumensku.

§. 57.

I undangángandi greinum er nockud talad um ríkisstiórnina og hennar athafnir; ad því loknu er tilhlýdiligt ad yfirvega ástand þeirra, sem stiórnad er og maktinni hlýda; í samanburdi vid siálfa ríkisstiórnina nefnast þeir, hvört sem þeir eru ædri eda lægri, stéttar, þegnar eda

undirsátar. Ef þeir eru fæddir innan rík- isins takmarka, edur og iafnvel í ødrum løndum, enn af ríkisins þegnum, nefnast þeir innfæddir; en framandi edur útlendir, ef þeir einúngis um stuttan tíma, svosvem reysendur, egu døl í landinu. Innfæddir eru hvervetna í mørgu teknir fram yfir hina útlendu, bædi til ad nióta embætta og annars hagnadar, nema svo sé, ad þeir framandi hafi, sem góds verdir af því ríki hvar þeir búa, verid af stiórninni bréfliga teknir til iafns vid hina. Þetta heitir ad þeim sé veittr innfæddra réttr.

Annar merkiligr greinarmunur undirsát- anna er sá, ad þeir ecki standa allir á sømu metorda og virdínga trøppu. Í þessu tilliti sundurgreinast þeir vídast hvar í hin ædri og lægri stønd. Embættismenn og adall eru kiarni hinna ædri, en almúginn hinna lægri standa. Adalstandid er hid ypparsta, og innibindur embættis- og fædingar-adal. Réttindi hins fyrrnefnda eru sérílagi innifalin í virdíngum og metordum, sem tillogd eru þeim, er þióna hinum ædstu og mest áridandi embættum í ríkinu. Stundum eru líka þesskonar réttindi veitt þeim lægri embættismønnum, og iafnvel þeim er eingin embætti hafa á hendi. Skedur þetta veniuligast med því móti, ad þeim sem svoleidis er upphafin, veitist annadhvørt titill, orduteikn edur

annad þesshåttar merki uppá útvortis virdingu. Heidurs titlar og virdingar merki egu ad álitast sem laun frá stiórnarinnar hendi, fyrir hrósverda breitni vid födurland og medborgara; þau eru líka brúkud sem hentug medöl ödrum til upphvatningar. Þad er sérligt einkénni hins fædda adals, ad födursins ysirburdir gánga svosem í arf til hans ættar og eptirkomara, þó veninligast ecki til annara en þeirra sem eru ekta bornir. Hin stránga réttvísi vill ad sönnu ecki vita af þessum adli ad segia, og eingum ödrum enn þeim, sem hvörr einn ávinnur sér med dygdum og dugnadi; en þad kann þó opt ad vera sanngiarnligt, ad stiórnin virdi og launi födursins forþénustur vid hans afkomendur. Adalinn sundurgreinist í mörgum löndum í þann gamla og nýa adal, ad því leiti sem hann hefir gengid í marga lidu edur sá nidur eptir; líka í þann hærri og lægri adal, ad því leiti sem hann er einvaldsstiórnandanum og ætt hans nærr eda fiærr ad virdingum. Til ens hærra adals teliast: hertogar, greifar, fríherrar, med fl., en til ens lægra, allir adrir án sérligs adalnafns. Adalsmenn brúka, til adgreiníngar frá þeim, sem ecki eru af adli bornir, skiöld og hiálm í innsiglum sínum, og er þetta svokallada skialdmerki, fyrir hvöria ætt sérilagi, stadfest af einvaldsherranum. Þeir sem eru adlinum

iafnir ad virdingum og réttindum, brúka líka skiald-merki í innsiglum sínum, enn það er eingin ætt-arfylgia, af því titlar og adrar þesskonar virdíngar ecki gánga ad erfdum.

Í flestum löndum hefir á fyrri tídum verid, og er ad nockruleiti en þá, stórr mismunr á því frials-rædi sem lögin veita þegnunum. Þeir nefnast í þessu tilliti frí á lsir ef þeir, eptir ad hafa náð lögligum aldri og vitsmunum, megu eptir eigin þótta ráda eignum sínum og athöfnum; En ófriálsir, ef ástand þeirra er þessu gagnstædt. Þetta kann ad vera med tvennu móti, svoleidis nefniliga, ad þeir annadhvort eru skuldbundnir til ad búa og þióna á þeirri lód, hvar þeir eru fæddir, og megu ei, án húsbóndans leyfis, þadan flytia, en eru þó ad ödru leiti ad mestu siálfrádir eigna sinna og athafna; ellegar þeir eru ad öllu leiti ánaudigir eda þrælar, og medhöndlast af eigendum sínum heldur sem skinlaus dír eda dáudir hlutir væru, enn sem manneskiur. Af því ófrelsi og þrældómr eru manneskiunni hinn þýngsti kross, og þesskonar ástand hennar náttúrliga ásigkomulagi ad öllu leiti gagnstædt, er ófriáls-rædi á seinni tímum í fleirstum ríkium, annad-hvort ad öllu leiti aftekid, eda med lagabodum svo takmarkad, ad drottnar hinna ófriálsu, og eig-endur þrælanna, ecki géta strafflaust afkomist, ef

þeir fara illa eda ómannliga med þá. Í nordurálfu löndum er þrældómr næstum aldúngis afmádr, nema sá sem þénar stórbrotamönnum til hegningar; en í hinum ödrum álfunum, og sérilagi medal ósidadra þióda, er hann ennþá med stærra eda minna hardrædi drottnandi.

§. 58.

Jafnvel þó náringar- og biargrædis-útvegir þegnanna séu, eptir ríkianna ímisliga ásigkomulagi, margbreittir, eru þeir þó, hiá sidudum þiódum, sundurgreindir í vissa höfudflocka; skyldur og réttindi hvers eins sérilagi eru þar med lögum náqvæmliga takmarkad. Í hinum fyrsta flocki næringar-útveganna eru þeir, sem framleida og samansafna í ríkium náttúrunnar þeim hlutum, sem manneskian naudsynliga medþarf og sem hún gétur haft hagsmuni af, svo sem eru allskonar akuryrkiu-menn; þeir sem stunda urtagardsrækt edur skógyrkiu; líka þeir sem gefa sig vid qvikfiárrækt, fiski- og dýraveidum; og þeir sem grafa málma og adrar námutegundir úr iordunni. Þessir allir eru þad svokallada bændastand, sem og nefnist þad framleidandi stand, bædi vegna þess sem nú er sagt um sýslanir þess, og líka af því

þad er sem stofn og stytta allra annara biarg-rædis-útvega. Bænda-standsins dagligu sýssl anir eru þessháttar, ad þeir sem í þvi lifa verda ad búa vídsvegar á landsbygdinni, sumpart í einstökum bónda-bæum, og sumpart þorp-um, hvørra innbyggendur eru hvervetna bænda-fólk og þeir handverksmenn sem til jardyrkiunn-ar eru ómissandi.

Annarr flockrinn innibindur þá sem leita næringar sinnar med því ad smída og tilbúa þá hluti, sem bændastandid hefir feingid, rétt sem af hendi náttúrunnar, og ad giøra þá heutuga manneskiunum til lífsviðurhalds og hagsælda. Allskonar handverksmenn; líka þeir sem tilbúa smídisgripi í verksmidium; og þeir sem ydka hagleiks-konstir eru í þessum flocki; þessi næringar-vegr nefnist hinn verksmídandi, í tilliti til þess ad hlutanna nytsamligi tilbúningr og kunnáttusøm løgun er hanns adal-augnamid. Eins og bænda-standid, ad svo mikluleiti sem þad útvegar verkefni fyrir handverk og verksmidiur, er þeirra undirstada, svo stirkir líka og framar hvørt þeirra annad innbyrdis, svo eitt ei gétur annars án verid, þannig, til dæmis; býr skinnaverkarinn skósmidn-um í høndurnar, milnumadrinn bakaranum, þeir sem vefa, þæfa og lita klædin skraddaranum, og

svo framveigis. Handverka- og verksmidis-menn eru búsettir í kaupstødunum, af því naudsynlig verkefni eru þar hægri til adfánga, og kaupverdslun af handydninni stióraɾi enn á lands-bygdinni. Í stórum kaupstødum er venjuligt, ad allir þeir sem idka eitt handverk eru svosem í føstum innbyrdis félagskap, og megu útiloka adra, sem ei hafa þetta félag inngengid, frá hlutdeild í handverki þeirra. Hinsvegar eru þær íþróttir, til hvørra sérilagi útheimtist meiri sálar-mentun enn líkamakraptar, ecki þannig takmarkadar, heldur má hvørr einn æfa þær sem vill, og nefnast þær þessvegna frjálsar listir til dæmis: bílæta- og málverka-smídi, bygg-íngarkonst, hliódfærasláttr og adrar fleiri.

Sá þridji adal biargrædis útvegr í ríkinnum er kaupverdslun; þeir sem hana stunda láta flytia vørur og varning frá einu landi til annars, kaupa og selia hvervetna eptir því sem naudsyn krefur og þeirra egid gagn tilrædur. Í tilliti til þess ádurnefnda framleidandi og þess verksmidandi næríngar-útvegs má þessi nefnast hinn umflytiandi, af því hans høfudydn er, ad færa varning frá eins hendi til annars. Í þessum flocki biargrædis útveganna eru líka þeir, sem flytia vørur og varning milli landa og hérada, svosem: skip-

arar og vagnmenn; líka þeir sem í stödunum eru milligaungumenn milli kaupanda og selianda (mediatores) og adrir fleiri. Veniuligt er ad sundurgreina kaupmenn í hina stærri er kallast gróssérar og þá smærri er nefnast kramarar eda mángarar. Svo er vídast hvar áqvedid ad hinir fyrrnefndu skuli hafa töluverdar eignir í skipum og ödrum fémunum, eins og ad þeir skuli selia af varníngi sinum í hvört skipti svo miklu nemi; En hinir sídarnefndu megu selia svo mikid og litid í hvört sinni, sem siálfum þeim og ödrum líkar, þeim er leyst ad hafa opnar verdslunarbúdir í stödunum og ad kaupslaga, samqvæmt lögum, eptir gédþeckni. Þessi greinarnunur milli stærri kaupmanna og kramara, hefir án efa frá byriun sinni midad til, ad hinir fyrrnefndu skyldu sérílagi æfa rikianna útlendu, enn hinir sídarnefndu þeirra innlendu kaupvöndlun. Ad svo miklulciti sem kaupverdslun er sérligr biargrædis-vegr, er hún, eins og ádur er sagt um handverk, verksmídi og hagleiks-konstir, framin einúngis í stödunum; stundum ogsvo um tiltekin tíma árliga á almennum kauptorgum, veniuligast nálægt stödunum. Allr innlendr og útlendr varníngr særist þessvegna til kaupstadanna; og eru framandi landa og ríkisins egin ávertir þar stundum tilbúnir, uns

þeir eru løglig høndlunarvara. Fiøldi kaup-manna, sem búsettir eru í stødunum, og mergð varníngsins sem þángað er fluttr, giøra að lík-indum vøruprísana nockuð lægri, enn þeir annars mundu vera, ef øllum væri leyft að kaupa og selia høndlunar-vørur hvar þeim best líkar; með þessu móti, og af því í kaupstødunum eru sér-lig ysirvøld sem egu að hafa gát á æfíngu nær-íngarveganna, er hægra fyrir stiórnina að hindra óráðvendni í kaupum og sølum, eins og að straffa þá sem þarí verða uppvísir; líka að takmarka ríkisins høndlun við framandi þióðir, uppá þann máta er serhvør stiórn álítur hentugastan.

Aðurnefndir aðal-biargræðis-útvegir ríkianna eru til þeirra blómgunar og farsældar, iafnvel hvað vísindi og andlig efni snertir, øldúngis naudsynligir. Ríkisstiórnirnar láta sér þessvegna annt um vera, að giøra þá svo hæga og ábat-asama fyrir þegnana, sem orðið getur. Þetta augnamið framqvæmist, sumpart með almennum løgum, er náqvæmliga áqveða skyldur og réttindi þeirra innbyrdis, og sumpart með margvísligum stiptunum og einkaleyfum, sem egu að styrkia hvørn þeirra sérilagi. Þannig eru í fleirstum ríkium margskonar stiptanir, hvarí ødlast má uppfræðíng, og að nockruleiti æfíng, í góðri iarðyrkiu, dýralækníngum, handverkum, verksmiðum,

siglíngarkonst og fleiru; Líka ímis'ig félög til ad frama búsliórn, kauphöndlun og handydnir. Opinber verdlaun veitast optliga þeim, er taka ødrum fram í dugnadi og framqvæmd, svo þessir eginligleikar séu ødrum til uppohvatníngar og eptirbreitnis. Ad ødruleiti er næsta mieg áridandi, ad sérhvør ríkis stiórn géfi vel gaum ad, þegar biargrædis: út vegirnir takmarkast innbyrdis, hvørt þeirra, eptir landsins náttúrliga og borgaraliga ásigkomulagi, sé því hentugast og ardsamast, af því þad er sialdgiæft, ad eitt land sé fyrir þá alla iafnvel lagad, og yfirstiónir í þessu tilliti opt hafa ollad bædi óreglu og vanmætti í þegnanna biargrædis athøfnum.



Þær helstu prentvillur sem fundist hafa í bók þess, ari eru eptirfylgiandi:

| | | |
|---|---|---|
| blss: 9 | nedst: | $\frac{1}{1000}$ les $\frac{1}{800}$ |
| • 11 | línu | 25 afbodslega l. ofbodsliga. |
| • 17 | • | 22 hvilftpúnktr l. hvirfilpúnktr. |
| • 35 | • | 13 lidugst l. lidugt. |
| • 40 | • | 16 himinum l. himninum. |
| • 52 | • | 7 mánudu l. mánudi. |
| • 56 | • | 14 takmerk l. takmark. |
| • 57 | eftst: | 75 l. 57. |
| • ‚ | línu | 4 hneingíngu l. hneigíngu. |
| • 53 | • | 10 þeir l. þær. |
| • 77 | • | 11 lindu l. linda. |
| • 79 | • | 15 reiknnm l. reiknum. |
| • 98 | • | 21 siá l. sá. |
| • ‚ | nedst: | iafndarliga l. iafnadarliga. |
| • 145 | línu | 15 siðárins l siáarins. |
| • 162 | • | 4 kynnferda l. kynferda. |
| • 173 | • | 6 náttúrunni l. náttúrunni. |
| • 184 | • | 7 árstdum l. árstidum. |
| • 192 | • | 2 af l. ef. |
| • 205 | • | 3 þád l. þad. |

séu þær fleiri, vonar félagid ad skinsamr og gódfús lesari siálfr leidrétti og lesi í málid, eptir sem hann á hverium stad sér efninu haga.

---

Almenn

# Landaskipunarfrædi.

Fyrra parts önnur deild:

Nordurlönd.

# Innihald.



## Prentvillur:

Blſ. 288, línu 7: 9 les 10.
— — 14: með Valþjófsſtað og, les 7. Valþjófsſtaðr með
— — 15: 7 les 8.
— — 16: 8 les 9.
— 17: 9 les 10.

# Formáli.

At vísu hafdi hérlands-deild ens íslendska bókmenta félags í fyrra vor áſett ſér, at láta, á yfirſtandandi vori, giørvalla ena ſvokølludu Landaſkipunarfrædi á prent útgánga í einni bók; en med því at þeim, er hana ritat hefir, þótti betr hlýda, at ſkíra ſérílagi nøkkurn vegin greiniliga frá þeim 3 Nordurlanda-ríkium og Íslandi, giørdiſt lýſing þeſſara landa ſvo lángord, at ei þótti annad rád vænna, enn at nema þar, ſem komit er, ſtadar at ſinni og at ſkipta enni eiginligu landaſkipunarfrædi í tvo parta, af hvørium Félagit nú frammber fyrri partinn fyrir augſýn almenníngs út á Íslandi, vonandi, at honum verdi gódar vidtøkur veittar, þó eigi ſkíri hann frá meiri hluta heimskríngl-unnar, enn hér ſegir. At ſá, ſem ritat hefir bók þeſſa, hefir lángordr verit um téd lønd, vonar hann at landsmenn ei áſelli hann fyrir; því bædi þóttu honum þau lønd Íslandi í ýmſu tilliti ſérílagi nákominn og búum þeſs einka umvardandi, og hann viſſi giørla, at þeir ámedal Íslendínga, er ſtunda mentir og fród-leik, lítt unna ſtuttum ágripum um þat, er þá

fýsir at frædast um. Sömuleidis vard lýsíng Íslands lengri, enn hann vardi; en med því at fósturjörd ber sérhverium landsmanni at vera landa kunnugust, leitadist hann vid, med lýsíng þessari, at géfa þeim nokkurn leidarvísir, sem ei eru vídförul'ir í landinu. Til þessarar ritgiördar hefir hann notat prentadar bækr*) og skírslur hérverandi landa vorra, er fúsliga styrktu hann í þessu efni. Hann bidr lesarana ei at missskilia sum ordatiltæki, sem máské alleina eiga heima á Nordurlandi, t. d. «í út og sudr» fyrir: í nordr og sudr og kannské fl. þvíl. — Hvörnveg rithöfundinum hefir heppnast at leysa verkefni þetta af hendi, er sanngiörnum og greindum lesurum á hendr falit um at dæma; en víst er þat, at hann, tilknúdr af hreinni födurlands-rækt, hefir varit sínu fáu frítímum og ærnu ómaki, til at gagna med starfi þessu löndum sínum, hvoria hann bidr at taka viliann fyrir verkit og færa sér svo í nyt, sem hann óskar; verdi þat, telr hann sig næg laun hlotit hafa.

Deild hins íslendska bókmenta-félags í Kaupmannahöfn, þann 16da Aprilis 1822.

---

*) Vice-Lavmand E. Olavsens og Landphysicus B. Poulsens Reise igjennem Island, Kammersecretair O. Olavii Oeconomiske Reise igjennem de nordvestlige, nordlige og nordöstlige Kanter af Island, o. fl.

# Sidari parturinn

sem inniheldur landaskipunar frædi, er skírir frá heimsálfu hverri og landi sérilagi, lýsir þiódum þeim er löndinn byggia og háttum þeirra, ásamt ödru er þar at lýtur.

## A. Evrópa eda Nordur-álfa heims.

stutt frumvarp um hana yfirhöfud.

§. 1.

Fornmenn greindu þann hluta veraldar, er mannfólkit bygdi, og þeir kannat höfdu, í 3 heimsálfur; kölludu þeir þann þridiúng heims Evrópu edur Enea, er lá fyrir vestan Svarta-Sióinn og fiallgard þann mikla, er géck í nordur fyrir austan Svíþiód ena miklu; enn fyrir nordan Midjardarhafit.

Evrópa liggur á hveli jardar í millum 35ta og 75ta mælistigs nordlægrar breiddar,

og millum 6ta og 80ta mælistigs austur lengdar. Mestur hluti þessa heims fimtúngs liggur undir þeim nordlæga temprada himinvegi, og sá hlutinn, er lengst skagar í nordur, undir kuldabeltinu. Hvad takmörk hennar öllumegin snertir, þá er hún á tvo vegu umflotin af útsióum miklum; ad nordanverdu af Ishafinu, og hit vestra af hinum atlantiska útsæ; í austri skilur fiallgardur mikill (er kallast hin verkoturisku edur úralsku fiöll) Evrópu og Asíu, samt Vanaqvísl, hinn asóvski siór og Svarta hafit og Grícklandshaf, ásamt þeim siósundum er samtengia höf þessi og hafsbotna; en fyrir sunnan Evrópu er Midjardarhafit.

Stærd Evrópu er hérumbil 172,000 ferhyrningsmílur. Þar sem hún er breidust í út og sudur, nefnil. frá Nordurhöfda (Nord Cap) til Matapanshöfda á Gricklandi, er hún 550 mílur á breidd; og í austur og vestur, nefnil. frá Vincentsnesi í Portugal til Vanaqvíslar mynnis í Rússa veldi, 700 mílur á lengd. *)

*) Þann samjöfnud hafa menn giört á stærd enna könnudu heims fimtúnga at Evrópa sé svo miklu minni, enn Asía, sem 1 er minna enn $3\frac{1}{2}$; þeim mun minni enn Afrika, sem 1 er minna enn 3; þeim mun ósódlendari, enn

Evrópa er miklum mun minni enn hvør hinna heims hálfanna, er kunnar eru, enn þó þeirra merkust í mörgu tilliti, med því hún er betur dyrkud og yrkt enn hvør þeirra, er þeim voldugri at makt og manndómi; þar innbúar hennar hafa med hardfengi og hernadi brotid undir sig vídlend ríki i þeim, útbreidt þar listir vísindi og veldi, med sióferdum og kaupmannsskap líka sem samtengt og sameinat eyar og meginløndin á giørvøllu hveli jardar, og med bodun sannrar trúar og uppfvatníng til menta og námfýsis greidt heidíngium gøtu til kunnáttu og farsældar, og sáfródum veg til hagsælda og heilla.

## §. 2.

Evrópaer allvída fiellótt og þat svo, at áttundi hluti hennar er fiallgardr einn og hnúkar. Þau nafnkéndustu fioll eru:

1) Kiølurinn (Kiölen) er sumir kalla þau skandínaviskuAlpesfioll (Sevebiergene); er þat

---

Ameríka, sem 1 er minna en $4\frac{1}{2}$; og at Australia sé hérumbil einum fiórdúngi stærri enn hún.

mikill og feikna lángur fiallgardr, er gengr i nordur á Norvegs og Svíarikis landamæri.

2) Þau Uralsku edur Verchoturisku (jugoriske) fjöll, er adskilia heimsálfurnar, Asíu og Evrópu; eru þau án efa fjöll þau er Snorri segir séu fyrir utan bygd alla.

3) Pyrenæa fiöll ɔ: eldfiöll; (Pyrenæerne) er adskilia Spán og Frackland.

4) Mundia-fjöll (Helvetiske Alper) eru þau hæstu i Evrópu; þau gánga í austur á takmörkum Fracklands og Sveitsalands (er liggur fyrir nordan þau) og Vallands, (sem er fyrir sunnan þau) frá þeim liggja allmargir fjallgardar um nærliggjandi lönd t. d. a) Appennina fjöll er liggja í sudur lángsetis eptir Vallandi midiu; b) liggja fiöll í austur um Austurrikis-lönd, er hafa ýmisleg nöfn, beygja þau sudur á vid strandlengis med Feneya botni sudur í Tyrkland, hvar þau kallast Balkanfiöll. c) Júrafiöllinn, er liggia í landnordur á Helvetiulands og Fránkarikis landamæri og fyrir nordan fyrrnefndt land sameinast Myrkvidsfiollum (Schwarzwaldbierge) í sudvestur hluta Þýdskalands, þadan liggia aptur fiallgardar til Fichtelfialla, frá hvörium flest fiöll i Þýdskalandi liggia i ýmsar áttir t. d. þau turingsku, bohéimsku og Sudetafiöll, Erts og Kémpu eda Risa-

fiøll); þau mæhriſku ſameina þau'ſidſtneſndu med ·Þeim.

5) Karpatiſku fiøllum, er adſkilia Ungaraland og Gallizia. Hit hærſta fiall i nordurálſu heims er Montblanc (hvitafiall) er þat 14,676 fóta hár jøkull frá ſióarhæd at reikna. Hvørgi i Evrópa er ſvo hálendt ſem i Auvergne i Frakklandi, ſem er 2160 fótum hærra enn ſióarhæd, og i Caſtiliu kóngsríkjum. (nl. 1740 fótum) ſamt i Sveitſalandi, hvar hálendit er 12 a 1800 fótum hærra enn ſióarhæd. Fiøll er gióſa eldi eru fleiri i ſydri hluta Evrópu enn i enum nyrdri, olla þau þar optſinnis landſkiálfta og ſkada. Þau nafnkénduſtu eldfiøll eru: Heklufiall á Islandi, Veſúvius á Vallandi og Ætna i Sikiley.

Nes þau edur høfdar er lengſt ſkaga úti hofinn eru ſem hér ſegir: 1) Nordurhøfdi fyrr: Knøſkanes (Nord Cap) i Norvegi (71° 12'. N. B. og 45° A. L.) ſkagar hvøriu neſt lengra i nordur i Evrópa. 2) Landsendahøfdi (Cap Finisterre) á Spáni (43° N. B. og 8° A. L.) er hinn veſtaſti tángi Evropu. 3) Roccahøfdi (Cap Rocca, 38° N. B. 8° A. L.) á Portugals veſturſtrønd. 4) Vincentshøfdi (Cap St. Vincent, 37° N. B. 8° A. L.) er hinn ſudveſtaſti tángi á Portu-

galslandi. 5) Tarífahøfdi (Cap Tarifa) hinn sydst í høfdi á Spán (36° N. B. 12° A. L.) 6) Passarhøfdi (Cap Passaro) er þat horn Sikileyar er í sudur veit (36° N. B. 33° A. L.) 7) Matapanshøfdi (Cap Matapan 36° N. B. 40° A. L.) er sudurendi Grícklands og undireins hinn sydsti muli í nordur álfu. 8) Aniahøfdi (Cap Ania edur Cap Karadze 44° N. B. 51 A. L.) er nes þat er í sudur veit á Krím.

## §. 3.

Evrópa er miøg vogskorin og víkótt, gánga allvída høf stór úr útsiónum inn í hana, og mørg eru þar sund, er skilia eyar og lønd, og samtengia høfin. Má hér nefna þessa útsæi, høf og hafsbotna:

1) Ishafit (Oceanus septentrionalis) vid nordur heimskaut; er mønnum ókunn stærd þess, med því þat er, þá nordur eptir dregur einlæg fiallafella af hafís; þat køllndu nordmenn daudahaf, og sumstadar Dumbshaf. Fra því geingur hafsbotn mikill í sudur inn í Rusland, er nú heitir Hvítahaf, enn fyrr Gandvík. *)

*) Ei hafa farmenn komist lengra nordur eptir fyrir sakir hafþaka, enn til 81° 30 er þadan

2) Nordurhafit fyrir nordvestan Evrópu; skipta menn því í minni hof er kallast svo:

a) Hit norska haf, fyrir vestan Norveg; kølludu nordmenn þat á fyrri tíd Eþlundarhaf edur Vestra Salt; sunnar er:

b) Hit Þydska haf (mare germanicum) edur Vestnrhafit, er almennast kallast Nordur siór, fyrir vestan Jótland; fyrrum kølludu nordmenn þat, og enn þá enskir, Englandshaf.

c) Jótlandshaf edur Kattegatit (Sinus Codanus) er gengur inn frá Nordur-siónum imillum Danmerkur Norregs og Sviaríkis.

d) Eystra Salt edur Austur-siórinn (mare balticum) er allmikit haf ímillum Danmerkur, Sviaríkis, Rúslands, Prussalands og Þýdskalands; kalladist þat sunnan til Vindlandshaf. Frá því gengur hafsbotn mikill í nordur frá Allandseyum, er nú kallast hin botniska bugt (Sinus botnicus), enn fyrr: hét

ei skémri vegur til nordur-hiara heims, enn hérumbil 125 míl., en þeim mun er meira abl kuldans umhverfis sudur-hiara og sinn meiri, at frá hønum og þángat, hvar þeir, er kønnudu høfinn, máttu stadar nema og hverfa aptur, er nærhæfis helmíngi lengri vegur.

þat Helsingiabotn. Í austur gengur og allmikill hafsbotn inn í Rússland, er finnska bugt heitir (Sinus finnicus), en í fyrri tíd kalladist Kyrjálabotn; Sunnar gengur breid hafsvík lángt inni Rússaveldis lönd, er ymist tekur nafn af Liflandi edur kaupstadnum Riga.

3. Hit Atlantiska Haf edur hinn vestlægi Útsiór, fyrir vestan sudur- og nordur- álfu heims og hefir þat fengit nafn af fiallgardi miklum í Afrika, er Atlas heitir; Eystra hluta þessa hafs skipta menn svoleidis.

a) Hit írska edur Írlandshaf (mare hybernicum) millum Englands og Írlands, er kallast Georgs Kanall fyrir vestan Bretland.

b) Hinn brittiski Kanall er allment kallast Kanalen fyrir sunnan England; Frænkismenn kalla hafsvík þessa: la manche ɔ: ermin, af lögun hennar.

c) Hit Aqvitaniska haf (mare aqvitanicum) fyrir vestan Frakkland.

d) Hit biskajiska haf (mare cantabricum) fyrir nordan Spán; kölludu nordmenn þat haf Fetlafiord.

e) Hinn Spanski-siór fyrir vestan Spán, er nordmenn svo nefndu.

f) Midjardarhafit (Middelhavet, mare mediterraneum v. internum) er þat afar

mikill fiœrdr, er gengur af Niœrvasundum og alt út til Jórsalalands (hérumbil 40,000 F. M.) kallast þat svo, því þat adskilur þá þridiúnga heims er fornmenn høfdu kannat og meintu þeir, at þar mundi nærhæfis midbik jardar; gáfu nordmenn því ýmisleg nøfn af løndum þeim er næst láu t. d. hit eýstra kølludu þeir Jórsalahaf. Af Midjardarhafi midiu gengur hafsbotn í nordur milli Grikklands og Vallands er Nordmenn kølludu Feneyabotn, en Rómverjar mare superum, nú heitir hann hit Adríatiska haf (golfo di Venezia). Austar gengur Fiœrdr mikill fullur eýa er heitir Archipelagus edur hit ægæiska haf (mare ægæum) er fyrrum nefndist Gricklandshaf; nordur af því gengur hafsbotn lángur til landnordurs er heitir Svartahaf (pontus euxinus v. mare nigrum); sund 2 samtengia sidstnefnd høf og siór nokkur ímillum þeirra er kallast Marmarasiór (mar di marmora, Propontis). Í landnordur gengur hafsbotn af Svartahafi, er nú heitir hit asovska haf (Asovs-móda) (palus mæotis, mar de Zabaqve) og tekur þat nafn af borg nokkurri vid módu þessa er Asov edur Asoff heitir, er þad meining manna, ad Nordmenn hafi kallad þar Ellipalta; þessi høf

er sîðst eru talin, ásamt sundunum er seinna skal géta, skilia austur- og norður-álfu heims.

Þessi eru þau merkustu Siósund í Evrópa:

1) Eyrarsund, ásamt báðum beltissundunum, er aðskilia Svíóríki og Danmerkur lönd og eyar og samtengia Jótlandshaf og Eystra-Salt.

2) Sundit við Calais edur Dofrasund (Fretum Gallicum v. Calitanum, á frönsku Pas de Calais, úttalast: pa dö Kalé) imillum Englands og Frakkaveldis, og sem samtengir norðursióinn og hinn atlantiska útsæ.

3) Sundit við Gibraltar (Fretum herculeum v. Gaditanum, á spönsku: Estrecho de Gibraltar) er Norðmenn kölludu Niörvasund, þat aðskilur heimsálfurnar, Afríka og Evrópa, edur lönd þeirra, Marokkoríki og Spán, og samtengir atlantiska hafit edur Spanska sióinn og Miðjarðarhafit, hvörs mynni sund þetta í raun réttri er.

4) Bonifaciisund (Stretto v. Bocca di Bónifacio) imillum Sardíníar-hár og Corsíkur.

5) Sikileyarsund (Faro di Messina) í millum Vallands og Sikileyar.

6) Sundit vid Dardanellerne (Hellespontus) er samteugir Gricklandshaf og Marmara siöinn.

7) Constantinopels edur Miklagardssund (Bosphorus thracicus) er Nordmenn kølludu Stólpasund, gengur þat í nordur frá Marmarasiá til Svartahafs.

8) Sundit vid Feodosia (Bosphorus Cimmerius) er sameinar Svartahafit og Asóffsmódu.

Ei eru støduvøtn svo mørg og stór í Evrópa, sem i hinum heimsálfunum, þau mestu eru á Nordurløndum (Norvegi og Svíaríki) og í nánd vid Kyriálabotn samt bádumegin Mundiasialla. Þau stærstu eru: Miørs og Fæmundssiór í Norvegi; Vænir, Veitur og Løgurinn í Svíaríki; Ladóga, Onega, Peipus, Seima og Ennara í Rússlandi; Bodensiór og og Genfervatnit í Sweitzalandi; Miklavatn (Lago di Maggiore) í Vallandi, og Neusiedlerog Plattensiórinn í Ungaralandi.

Mørg fliót, stór-ár og elfur eru í Evrópa, enn eingar verda þær svo stórar eda vatnsmiklar sem í ødrum álfum heims, þar sarvegir þeirra ei eru svo lángir, edur meginlandit svo vídáttumikit sem í enum stærri heimsálfum, hvar vøtn géta lengur addregit og runnit sám-

an; skal þeirra, er mest þykir umvarda, sídarmeir gétit verda.

§. 4.

Þá menn leida at huga vídáttu Evrópu, og landsleg hennar á heimskrínglunni, verdur þat sérhverium audsært at margbreytt muni loptslag og vedrahættir. Eptir siölskyldri verkun sólar hafa menn greint Evrópu í 3 hluti edur svædi; telia menn 1 hinu varma frá 36° til 43° hvar snjór er sialdgiæfr og liggur skamma stund, og hvar villicitrónur vaxa; vetur er þar skammur enn sumur laung og blíd og vorkoman í Januari mánudi; liggia þar til Portugal, Spán, Sudur-Frackland, Valland og mestur hluti Tyrklands. Í 2ru svædi frá 43° til 63° er loptslagit meir temprat og kaldara, optar hregg og snjór og sumur skémri, þó vex þar korn og vínvidur elnast, trjáaldini þróast, og akurlönd blómgast. 3. Þat kalda fra 63° til 71°, þar eru sumur stutt, vetrar lángir og hardir, litill gródr og skammvinn fegurd.

§. 5.

Ei hefir Evrópa svo marga landskosti og giædi af eigin rammleik, edur svo marga heim-

alda ávexti, sem hinar heimsálfurnar; enn eingu at sídur hafa innbúar hennar svo vaudlega yrkt jardvegin, at allvel vaxa nú og þrífast bædi vextir og qvikar skepnur, er á fyrri öld vóru þeim med öllu úkunnar. Því nær hvervetna vex korn og aldini; á sudurløndum leggia menn mest stund á hveitisabla, á nordurløndum á rug og allvídast á bygg og hafra. Kartöflur edur jardepli eru flutt hingad vestan úr heimi og þróast þau nærstum allstadar, er tilraun hefir giörd verit. Í sydri hluta Evrópu vex mikil gnægd vínvidar, olíuvidar og aldina þeirra, er Danir kalla Sydfrugter *) (t. d. pómerantsur, Citrónur, Appelsinur, Möndlur, Rúsínur, Fikiur, Kastaniur o. s. fr.) og vínyrkiuna idka menn til hlýtar hérumbil til 50sta mælistigs. Tóbak og bómull vex ei svo nóg sé; Hör og hampur elnast best í eystri hluta Evrópu, og frá þeim afarmiklu marklöndum og skógum á nordurløndum flytst allskonar timbur, svo mikill ábati er at. Ei eru heldur svo margar dyra-tegundir á þessari heimsálfu sem hinum, og

*) Svo kalla menn ysirhöfud þá ávexti og aldini er í sydri hluta Evrópu vaxa undir opnum himni.

ótaminn, villi- og óarga-dýr, af hvörium mikil mergd er í Afríku, Asíu og Ameríku, ógna mønnum edur olla skada ei hér sem þar. Í fiøllum uppi halda birnir sig, refar, ulfar og bøflar; enn því meir sem jardyrkiunni fór framm, og mannkynit fiølgadi, og veriur urdu skiædari; þess meir hefir tala þessara dýra minkat. Í skógunum í Pólinalandi eru Uruxar ennþá; í Ungaralandi bøffell inn, og á ýmsum stødum í Rússlandi er elgsdyrit Í þeim allra nordustu løndum verda menn varir vid ísbiørninn, og gammar og steingeitur halda sig í Mundiafiøllum. Sydst í Evrópu lifir pintsvínit, og apa edur apiniur eru hvørgi ad finna, utan í klettunum vid Gibraltar á Spáni; bædi nautpeningur (vænstur í Pólina- og Ungaralandi) hestar, (enir bestu í Englandi, Neapel og Ukrain) saudfé (best á Spáni, Portugal og Englandi) og svin eru þvínær hvervetna; asnar og múlasnar eru til á sudurløndum, og sumstadar Ulfaldar (kamelar). Hreindýrit á heima í þeim nordlægustu løndum, ásamt ýmsum þeim dýrum, hvørra skinn er dýrfeldr varningr og grávara t. d. safali.

Af allskonar fuglategundum er hvervetna mikill fiøldi. Fiskiafla idka menn þreknóg og

med kappi, bædi i sæ og sætum vøtnum, og ræfia sildar og þorskafáng svo miklu nemur, med mørgum faungum og miklum mannafla og í Þýdskalands og Rússlands elfum fiskast Støren (Styrian.)

A sudurløndum hvar hlýindi og blidvidri leyfa þat, tímgast silkiormurinn allvel, er Evrópumenn fluttu frá Asíu á 6tu øld og tóku at draga ard af hønum. Býflugnarækt er sérilagi med athygli ydkut af Rússum, Pólskum og i Sudur-Tyrklandi. Lika sem Músvitar ónáda nordurbúa, svo plága ei engisprettur sídur sudurlandabúa, hvørir ogso mega hafa varúd vid eytrudum Høggormum og Yglum, er finnast þar, þó ei séu þeir svo margir og skiædir sem í ødrum álfum heims.

Þótt Evrópa sé allvida audug af ýmsum dýrfeldum steintegundum og edlamálmum, gétur hún á einga lund komist í samjøfnud vid hinar heimsálfurnar at ríkdómi, en næga hefir hún þá málma er óedla kallast og øllum eru ómissandi; sérilagi finnst mikit gull í Ungaralandi, silfur í Þýdskalandi og Svíaríki. Í Englandi eru tin- og í Skotlandi bly- námur og frá Austurríki kémur mikit Qvikasilfr.

Hinn ágiætasti marmari finnst bædi í Vallandi og í Tyrkiaveldi, steinkola- námur

eru miklar á Englandi. Salt finnst allvída bædi í námum, uppsprettum, og einnin tilreida menn þat af saltvatni; á Rússlands sjáfarströndum og vid Balagardssídu finnst rafur, og á ýmsum stødum hitta menn gimsteina þó ei metist þeir jafngódir þeim, er finnast á Indíalandi og í Sudur-Ameríku. Ølkéldur eru og allvída at finna.

§. 6.

Þá menn samanjafna heimsálfunum at stærd og vídáttu, er Evrópa, at tiltølu, þeirra fiølbygdust og margmennust, þó væri fólkstala hennar stærri, hefdu ei fiølmennir skarar af kørlum sem konum flutt til hinna heimsálfa, sérilagi til Ameríku og Vestindía og valit sér og afsprengi sínu þar bústadi. Tala mannkynsins í Evrópu segia menn, eptir seinasta manntali, sé hérumbil 180 milliónir (nærhæfis 1040 á hverri ferhyrningsmílu) er rekia ættir sínar frá 2 ættstofnum, er menn kalla hinn celtisk-germaniska og hinn slaviska, og má svo at miklu leiti greina lønd þau, er ættleggir þessir í øndverdu numit og byggt hafa, at þá ferdamadur nokkur tekur sér reisu á hendur frá Sandvík til Kyrjálabotns og svo í sudur of land

alt til Feneyabotns, liggja ríki ens fyrrnefnda ættbálks á hægri hønd hønum, en lønd ens sídari, á vinstri hønd.

Þjódir þær er Európu byggja tala 11 høfud túngumál fyrir utan afar margar málískur og málbrøgd, er skiptast á ymsan hátt: 1) Hin forna Gautska túnga edur Norræna, er ástundum kalladist Dønsk túnga, er frummál þeirra túngumála, er nú tala Íslendingar, Svíar, Norskir, Danir; í ætt vid þessar túngur er Þýdska, Engelska, Hollendska og Frísiska. 2) Tungur þær, er komnar eru af Látínu edur Rómversćri túngu, eru: Italienska (vallendska edur volsk tunga) Franska, Spanska og Portugisiska. 3) Hit Slavóniska edur Slaviska túngumál tala Rússar, Pólskir, og Bóheims-búar og Mæhrar. 4) Hin finnska túnga talast á Finnlandi, Lapplandi, sumstadar á Ungaralandi og af nokkrum rússiskum þjódum. 5) Hit lettiska mál tala Celtar á Liflandi Cúrlendingar og Lithauiskir. 6) Hit celtisk-galliska túngumál tala fjallbúar á Skotlandi og Sudureyingar. 7) Hit kymrisk-brittiska tala Bretlendingar og Bretagnes innbúar. 8) á vastiska túngu mæla þeir, er bua bádumegin Pyreneafjalla. 9) Nýgriska tala afkomendur

Grikkja bædi á Tyrklandi og Ungaralandi. 10) Tyrkneſku mæla Tyrkjar og Tartarar á Krim. 11) Hit Arnautiſka mál tala Arnautar i Albanialandi og fleiri ſmáþjódir. Nákvæmari ſkirſla um nefnd túngumál ſkal ſeinna géfinn verda, þá rædt verdur um hvørt land ſyrir ſig*)

§ 7.

Ei breſtur Evrópumenn hagſýni, hagleik og ſnild til at ſæra ſér til nota, vinna at og tilbúa af verkeſnum þeim, er øll náttúrunriki leggja þeim i hendur, allskonar naudſyniar, handargiørſt, varning og vøruſmidi, og ſvo miklu atgjørſt hafa þeir nád i handydrdum, ſmidum, iþróttum og uppáſinningum, at ei er þeira jafningja at finna á gjørvøllum hnetti jardar, hvørki andſætinga edur ſkuggalenſingja, ber þat hellſt til þeſſ, at viſindi og kunnátta, liſtir og atgiørſt hafa i ſvo lángar hridir ſtundadar

*) Nýliga heſir málvitríngur mikill Adelung at nafni ritat bók nokkura um allar tungur nu lifanda mannkyns, og heitir at leida røk til, at ei ſéu færri túngumál og máliſkur i heimi, enn 2914 at tølu nl. i Aſia 987, i Evrópa 387, i Afrika 276 og i Amerika 1264.

verit á velflestum löndum Evrópu, i hverri ör-læti náttúruunar og ofurgnægtir eigi vondu innbúa hennar á umhyggjulaust líf og ómenn-sku; miklu heldr hafa hóglegar gáfur hennar hvatt til atburda, mannvits idkanna og ymsra hjálprædis tilrauna, er midudu til, at ei skyldu þeir, er hana byggja, þarfnast, edur at fjölg-andi fólksstali, lida atvinnuskort edur adrar óhægdir, er vantækt bjargrædisvega og mann-dómsleysi med sér færa. Ad vísu eru ymsar austurlanda þjódir þeim fremri í at tilbúa einstakar varningstegundir; en þá yfir alt er litit, hefir þat þó, sem þeir vinna og smída, bædi af heima seingnum og frá öllum heims-álfum himfluttum verkefnum, mikla og mark-vísliga yfirburdi. Vaxandi framfarir i grunn-maskinufrædi og teikningalistarinnar almennari idkun hafa ei allitit hjálpat til, at varningr og vörusmídi Evrópumanna er trútt og hald-gott og þarhjá forkunnar vel lagat og fagurt.

Hit ágjætasta járnsmídi og járntól flytjast frá Englandi, Fránkariki og Svíariki. Harla falleg Porcellinskér gjøra bædi Fran-skir og Vallendskir; ullar- og bómullar-vinna, tó og vefnadur er svo fullkominn ordinn i Eng-landi og Fracklandi, at ei má svo gódann

finna; líu Þýðskra og Hollendínga er í miklu afhaldi. Með silkivefnað skara sérílagi Franskir og Vallendskir frammúr; hvorgi verkast skinn og húðir svo vel sem á Rússlandi, Englandi og í Fránkaríki, og ei þykir pappír svo góður, sem sá er flytst frá Englandi, Hollandi og Helvetíulandi.

§. 8.

Ei eru Evrópumenn síður starfsamir og atorkusamir í at færa varníng sinn og kaupeyrir um alla veröld á kaupförum svo mörgum, at varla má telja, og eru þeir í sambondum og verslunar samlögum við kaupmenn í öllum heimsálfum. Mikit létta skipfær fljót, greiðfærir þjóðvegir og grafin sýki tilfærslu og flutnínga allvíða innanríkis og allskonar höndlunar-störf og atburðir slínga af í samanburði við seinfæra kaupverslun Asíu- og Afríku- manna og sigling þeirra með löndum framm.

Sérílagi er sjóhöndlun eður kaupferðir, bæði landa á milli í Evrópu sjálfri og til annara heimsálfa, arðsamar, með því fáir eru þeir kaupstaðir á kringlu heims, er þeir ei heimsækja. Í löndunum umhverfis Eystra Salt og Miðjarðarhaf er mjög mannkvæmt frá ymsum stöðum og kaupskapur mikill, og þat ei

alleina vid krislnar þjódir, heldur og vid Tyrk⸗ ja og kallast sá kaupendlan hin levantiska hönd⸗ lun. Allflestir þjódkonúngar Evrópu hafa ei⸗ gnir og nýlendur í ödrum heimsálfum, og leyfa undirdánum sinum at versla þar og ekkur þat fjármagn Evrópu; kallast verdslun sú Colonie⸗ handel edur nýlenda⸗verdslun og vörurnar, er þadan flytjast Colonial⸗vörur. Abatasömust er kaupmönnum kaupverslun í Afríka og Ame⸗ ríka, hvar þeir géfa vid þessara landa dýrselda kaupeyri varníng sinn og vöruśmídi; enn í Asía (Indíalandi og China) má silfur koma fyrir vörur þessara landa.

Til hægdar og gagnsmuna, eru i allmörg⸗ um kaupstödum settir Consúlar, Vice⸗Consúlar og Agentar til at greida málefni kaupferdamanna; sömuleidis er og sú skipun gjör, at ymsar hafn ir eru fríar og kallast Fríhafnir, hvílíkar eru t. d. í Livorno, Genua, Marsellie, Emden, Marstrond og vídar, kallast þær svo fyrir sak⸗ ir þess, at menn lúka litlum edur eingum tollt af varníngi þeim er þángat flytst, og öllum Þjódum er heimil innsiglíngin hvört stríd er edur ei.

§. 9.

Hvínær um alla nordurálfuna er:

1) Kristindómur útbreiddur og lögtek-inn, at undanskildu Tyrkjaveldi; þó eru mein-ingar og tídareglur edur kyrkjusidir kristinna manna ei hvervetna samhljóda edur med sama hætti; greinast þvi þjódirnar og nudireins þau kristiligu trúárbrøgd á þennan hátt:

a) hin rómverska-kathólska Trú, hvørrar játendar álita páfann at vera høfdingja Kristninnar og oddvita alls kénnidóms; sú trú er løgtekin i Portugal, á Spáni, í Fránkariki, á Vallandi, í miklum hluta Þydskalands, á Polinalandi og Ungaralandi.

b) hin Griska, hvørrar játendur nefnliga Rússar, Sibenburgarar og Grikkjar hafna páfa og hirda ei um bod hans edur bann. Griskir, er virda og sýna páfanum lotningu, kallast Unitar.

c) hin evangeliska (protestantiska) er aptur skiptist i 3 greinir: a) hin evangeliska-lútherska, er tekur nafn af Marteini Luther læriføður í Wittenberg, er hóf sidaskipti og Kristindómsbót á øndverdri 16 øld. *b*) hin reformerta (endurbætta) er prestur Zvingli og Calvinus stiptudu um somu mundir; kallast hennar áhángendur Zvinglianar edur Calvinistar. *c*) hin engelska, anglicanska, edur biskupaliga, (episcopalis), hefir hún hit sidsta nafn af gøfug

teik þeim, áliti og ymsum einkarétti, er Bi-
skupar hafa haldit alt til þessa dags, fremur
enn embættisbrædur þeirra í ødrum løndum,
hvar hin endurbættu trúarbrøgd eru þjódtrú.
Til ennar evangelisku kyrkju heyra enn fremur
Presbyterianar, Mennónitar, Qvækarar og
Hernhúttar o. s. frv.

II. Júdadómur edur Gydingatrú, hvørr-
ar áhángendur med meira edur minna tak-
mørkudu frelsi meiga rækia trú sína í flestum
Evrópu-løndum.

III. hin Múhametanska, som er i løg
leidd á Tyrklandi og í sydri hluta Rússaveldis.

IV. Heidindómur, nordast í Evrópa
á Lapplandi og Samojedalandi.

§. 10.

Ekkasem Evrópa, þá yfir alt er litit, er
ødrum heimsálfum miklum mun fremri at
kunnáttu, speki og vísindum, svoleidis skara
ogsvo nokkur lønd hennar framm úr at snild,
íþróttum, og bókvísi, og má þartil nefna Pyd-
skaland, England, Fránkaríki og Valland; má
þat um hid sídstnefnda land segja, at þar er
helgistadur og hásæti hugvits; íþrótta, og fag-
urra menta. Frænkismenn eru nafntogadir

náttúruspekingar, og harla vel að sér í mælingarfræðinni; Enskir taka öðrum framm í stjörnufræði og grunnmaskinufræði; Svíar iðka öðrum fremur náttúrusögunna og þaraðlútandi vísindi; Hollendskir og Danir afla sér orðstýrs fyrir læknisknnst o. s. fr.

Evrópumenn hafa lagt stund á, at greiða þeim veg er vísir, fróðir og snilldarmenn vilja verða með ymsum tilfaungum og fulltýngjandi meðölum; má þarámeðal telja Háskólana (Universiteter, Gymnasier, Lycæer, Academier, Musæer), sem á vorum dögum ei eru færri í Evrópu enn 100 og afar margar bóka-hirðslur. Í prentara-listinni taka menn æ dagliga framförum og frá Englandi, Fránkariki, Þýðskalandi og Vallandi koma bækur og bókmálar, er gnógliga votta um þann fullkomligleik, er ment þessi náð hefir.

## §. 11.

Hér skal segja frá hvörsu Norðurálfa heims skiptist í lönd og ríki og hvörnin mannkynit greinist í þjóðir, er byggja löndin, um stærð þeirra og fólkstal, sjölbygð, innbyrðis samjöfnuð, frá Höfðingjum þeim er at ríkjum

sitja, og veldi þeirra. Er þá Evropa greind í þessi ríki, er svo heita:

1. Danmörk
2. Norvegur
3. Svíaríki
4. Rússland
5. Pólinaland
6. Prussaland
7. Þýdskaland
8. Holland
9 Bretland hit mikla, og Írland
10 Portugal
11. Spanialand
12. Fránkaríki
13. Sveitzaland
14. Valland
15. Ungaraland
16. Tyrkland.

Þjódlönd þessi sem hér eru talin, skiptast aptur í allmörg lönd, landsálfur og smá-ríki, er taka nöfn af nafnabótum þeim, er drottnar þeir edur höfdingjar hafa, er fyrir þeim ráda, og kallast svo: Stórfurstadæmi, Stórhertugadæmi, Jarlsdæmi, Erkihertugadæmi, Hertugadæmi, Furstadæmi, Greifadæmi, Barónsdæmi, Herradæmi o. s. fr.

3 eru Keysaradæmi í Evrópu: 1. hit rússiska, 2. hit austurríkiska og 3. tyrkneska edur hit ottomanniska Port.

Lönd er kallast Konúngsríki eru:

1. Danmörk
2. Norvegur
3. Svíaríki
4. Pólínaland
5. Prussaland
6. Holland
7. England
8. Skotland
9. Irland
10. Fránkaríki
11. Spanialand, er skiptist í 14 landsálfur, er kallast Kóngsríki
12. Portugal med ríkinu Algarve
13. Sardiníuríki
14. hit Longobardiska edur Feneyjaríki
15. Bádar Sikileyar
16. Bajaraland
17. Burtenborgar-ríki
18. Saxland
19. Hanofraríki
20. Ungaraland
21. Gallizíu- og Lodomeríu-ríki
22. Bóheimsríki

23. Croatia
24. Slavonia
25. Servia.

Stórfurstadæminn eru 2 nl. 1. Finnland og 2. Sibenburgen.

Stórhertugadæminn eru 9, sem kallast svo:

1. Pósen
2. Nedri-Rín
3. Wurzberg
4. Baden
5. Hessen
6. Oldenborg
7. Meklenborg
8. Saxen-Weimar
9. Toskana.

Kyrkjustat kalla menn midpart Wallands er liggur undir páfann, sem hánn ræður fyrir bædi sem andligr og veraldligr hofdingi.

Ecki eru veldishættir edur stjórnarformit eins í londum þessum, heldur er þat breytiligt, eptir sem lídurinn í landi hverju hefir annadtveggja naudugr edur viljugr géfit drottnum sínum meiri edur minni makt edur sjálfrædi til at stýra ríkinu; er þat í Evropa med þrennu móti nl.

2. útakmarkat veldi; þat er logtekit í Danmork, Rússlandi, Tyrklandi og Portugal.

2. Takmarkat veldi er í løg leidt i Austurríki, Fránkaríki, Stóra Bretlandi og Irlandi, Svíaríki, Sikileyaríki, Hollandi, í flestum Þýdskalands ríkjum og á Spáni.

3. Alþýdu stiórn t. d. í Sveitzalandi, St. Marino, Krakau, Frakkafurdu vid ána Mayn, í Hamborg, Lubeck, og í Brimum.

Hvad vidvíkur fiármegni og þjódþreki og makt skipta menn øllum Evrópu løndum í 3 flokka, er þá fyrst at telia þau ríki og voldugustu þjódlønd t. d. Russland, Prussaland, Austurríki, Frakkland, Stórbretaland og Irland. Til 2ars flockfins heyra: Spán, Holland og Svíaríki. En hinn 3ji flokkur er lønd þau og ríki, sem ei eru talinn.

Í tilliti til fjølbygdar og fólkstalsins á hvørri ferhyrningsmílu niðurrada menn løndunum á þennan hátt:

1. Í Hollandi edur Niðurløndunum lifa á hvørri ferhyrningsmílu 4,090 manna.
2. Í Vallandi . . 3,103 „
3. Í Bretlandi enu mikla og Irlandi . . . 3,038 „
4. Í Fránkaríki . . 3,005 „
5. Í Þýdskalandi . . 2,678 „
6. Í Portugal . . 2,243 „
7. Í Sweitzalandi . 1,944 „

| | | |
|---|---|---|
| 8. | Í Ungaralandi . . | 1,892 manna. |
| 9. | Í Danmørku . . | 1,640 , |
| 10. | Í Prussalandi . . | 1,476 , |
| 11. | Í Spanialandi . . | 1,346 , |
| 12. | Í Pólínalandi . . | 1,271 , |
| 13. | Í Tyrklandi . . | 784 , |
| 14. | Í Rússlandi , , | 486 , |
| 15. | Í Svíaríki . . . | 320 , |
| 16. | Í Norvegí . . | 159 , |

Má þá héraf sjá at Holland er allra landa fjølbygdast og fólkflest í Evrópu; þó má finna einstaka stadi og landsálfur sem fjølmennari eru; telja menn þartil Hertugadæmit Genúa med 5,600 manna, Eyuna Malta med 14,250; Eyuna Tine í Grikklandshafi med 7,666; Æreyí í Danmerkurríki med 5,048, á ferhyrningsmílu hverri.

Þess lengra sem nordur eptir dregur at enum kalda meginn-vegi, því strjálbygdari eru løndin, og mannfólkit færra; ollir því afl kuldans, gjædalítill jardvegr og únóg atvinna; þó má og þess gæta at nokkur lønd eru þau í sudurhluta Evrópu, sem bædi eru vedrasæl og gjædarík, en svo ílla yrkt og notud, at einganu vegin svarar fólkstalan til stærdarinnar; má þartil nefna Spanialand og sérílagi Tyrkland.

---

# Konúngsríkit Danmörk.

(Dannemark, Danmark, Dania.)

Partil liggja Danmörk, 3 Hertugadæmi nefniliga Slesvik, Holsetuland og Láenborg, Ísland, Færeyar, Grænland, Nýlendur i sudur- og austurálfu heims og Eylöndin vestur i heimi.

§. 1.

Danmörk kölludu menn i forntíd lönd þau og eyar er Dan hinn mikilláti vard einvaldi yfir á 3iu öld midri, nefnilega sydri hluta Svía-ríkis, eylöndum ímillum Eystrasalts og Jót-landshafs, og Jótlandi; hafa sumir sagnaskrif-arar þat fyrir satt, at ríki þetta dragi nafn af nefndum kóngi; en sumir meina at nafnit komi af ordinu daun er þýdi sléttur, flatur, med því at öll þessi lönd eru slétt og fjalla-laus.

Hof og sund gánga öllumegin at ríki þessu, nl. Jótlandshaf at nordan, Eystrasalt og Eyrarsund at austan og sunnan og Nord-ursjórin, er Danir kalla Vesturhafit, at vest-

annverdu, enn á suðursíðuna er þat áfast við Þýðskaland, Meklenborgar, Lybekks og Hamborgar landareign; þat liggur í nyrðri hluta hins temprada himinvegs ímillum 54°10′ og 57°10′ mæliftigs nordlægrar breiddar samt ímillum 25°10′ og 30°10′ austlægrar lengdar, og er nærhæfis vidlíka nordarliga á Jardarhnettinum sem Nordymbraland, og syðri hluti Skotlands, Gautaríkis í Svíaveldi og midbik Rússlands.

Danmørk er yfir 1000 ferh. mílur á stærd og 75 mílur edur 15 þíngmannaleidir, þar sem leingst er yfir at fara í út og sudur, og hérumbil 40 mílur edur 8 þíngmannaleidir, þar sem hún er breidust í austur og vestur; Fólkstalan í Danmørku er hérumbil 1 millión og 100,000.

§. 2.

Eingin eru fjøll edur dalir í Danmørku, enn alleina hædir og ásar, dældir og dalverpi ímilli þeirra; þau hærstu leyti og Høfdar þar eru: 1. Manglebjarg skamt frá Hirtshólmi, er þat hit hærsta á Sjálandi; 2. Stevens-klint edur Stevenshøfdi á austurstrønd Sjálands (120 fóta á hæd); 3. Manarhøfdi,

(Möens Klint) Krítarbríngír á Møn austanverdri (220 fóta á hæd); 4. Himmabjargit (Himmelbierget) í Arósstipti, á Jótlandi, er þat 1800 fóta á hæd frá lássléttu at reikna. Eptir endilaungu Jótlandi midju í út og sudur liggur ás nokkur ei allhár, er Alheidi er nefndur.

Stórfljót eru heldur eingin í Danmørku, þó má telja þessar smá ár: 1. Gúdená á Jótlandi, er kémur úr vestri frá Rípastiptis takmorkum, hún er 19 mílur á lengd; í henni er laxveidi mikil og rennur hun út i Jótlandshaf. Sunnar í sama landi er 2. Skotborgar- edur Skjaldborgará (Skodborgaae, Kongeaaen), er rennur út í Nordursjóinn og adskilur Sudur- og Nordur-Jótland. 3. Skiernå er rennur í Ringkaupángursfjord. 4. Eyderfljót fyrr: Ægisdyr, (Eideren edur Eiderströmmen), þat kémur frá Holsetulandi, og er farvegur þess 24 mílur, þat adskildi fordum Þydskaland og Jótland, en nú skilur þat Hertugadæminn Slesvík og Holsetuland.

Fyrrum adskildi Danavirki lönd þessi; millum fljóts þess er rennur út í Vestra-Salt, og Slesmynnis austanmegin gjordu Danir fordum borgarvegg háann og sterkann af grjóti torfi og vidum og kölludu Danavirki og gróu dyki fyrir

utann til varnar móti þjódverskum, ér brendu þat, at rádi og med fylgi Olafs konúngs Tryggvasonar. Eyderfljót er þeim mun vatnsmeira enn þær ár sem ádur eru nefndar, at upp eptir því géta lagt kaupskip, enn þar sem þat verdur ofgrunt, hafa Danir á seinni tídum med miklum kostnadi og atorku grafit Canal eda sýki mikit austur í vík nokkura er gengur inn frá Eystra Salti, er kallut er Kílfjördur, svo sýkit samtengir Eystra Salt og Vesturhafit; þat er yfir 5 mílur á lengd, 100 fóta á breidd og 10 f. djúpt; til ferda flýtirs eru skipin dregin af hestum, þau stærri af tveimur og smákuggar af einum; yfir Canalin liggja bryggjur fyrir þá er fir land ferdast; sýki þetta kémur farmønnum mjóg at gagni, med því, at bædi er vegurinn skémri og óhultari, enn þá sigla skal fyrir Vendilskaga og Jótlands sídu.

5. Trave kémur úr vestri og rennur hiá Lubeck í Eystra Salt. 6. Stør fellur vid Lukkustad í Hamborgarelfu, sem rennur á takmørkum Pýdskalands og Danaveldis fyrir súnnan og vestan Holsetuland. 7. Bille adskilur Holsetuland og Láenborg og rennur ogsvo í Hamborgar elfu. 8. Steckenitz er samtengir Trave-á og Hamborgar-elfu, er gjørd skipfær.

Þeir merkiligustu firdir eru: 1. Ísafjørdr er gengur úr nordri frá Jótlandshafi inní Sjáland, skiptist hann í 3 minni firdi, og ber vogur sá er austast gengur alt upp til Hróarskeldu, nafn af stad þessum, enn sá er gengur rétt í sudur, Holbecksfjørdr, en sá sem beygist í vestur kallast Lamme- edur Lambafjørdur. 2. Kiøgebugt er gengur úr austri, frá Eystra Salti inní Sjáland, er sá fjørdur mjøg breidur, enn skammur. 3. Ódinseyarfjørdur er gengur frá Jótlandshafi inní Fjón kallast hann af sumum Stegestrønd; frá fjardarbotninum hafa menn gráfit sýki hálfa mílu uppí landit til Nesbýhøfdavatns; svo vel má ná kaupførum leggja upp til Ódinseyar kaupstadar. 4. Limafjørdur edur Eylimafjørdur (Liimfjorden) er hann þessara stærstur og mjøg limadur, er nafn hans sýnir, han gengur inní nyrdra Jótland til vesturs frá Jótlandshafi, og skiptir þvínær landinu í 2 hluti; er 800 skrefa breitt eid inullum Vestra Salts og fjardarbotnsins er fyrrum kalladist Liisbreid edur Haraldseid; í firdinum eru allmargar eyar og allvída grunnsævi; vid hann standa 6 kaupstadir. 5. Ringkaupángurs edur Stavnings fjørdur (Agnarsjór) gengur inní Jótland frá Vestrasalti; skamt fyrir innann fjardarmynnit

er kallast Nýminnisgap (Nyminnegab) beýg-
ist hann vid, og gengur strandlengis margar
mílur í nordur, svo lángur og mjór tángi ligg-
ur ímillum hans og Vestra Salts. 6. Riss-
um-fjordur gengur nordar inni landit og kallast
mynni hans Þórsmynni. 7. Albogafjördr geng-
ur 3 mílur inni Lágaland úr vestri frá Láng-
alandsbelti, eru í hönum smáeyar og sandrif;
hann tekur nafn af annesi nokkru fyrir sunn-
ann hann, er kallast Albogi.

Géta má og 3 sunda, er adskilja eyarn-
ar og samtengja Jótlandshaf og Eystra Salt,
og er þá fyrst ad telja. a. Eyrarsund, skilur
þat Sjáland og Skáneý og er þad 9 mílur
á lengd, og þar sem þat er mjóst 7611 álnir
edur herumbil 3 fjórdúngar úr mílu á breidd.
Vestar er hit. b. Stóra Belti eda Beltissund,
it er skilur Sjáland og Fjón, er þat 3 til 4
víkur sjáfar á breidd, at sunnanverdu kall-
ast þat Lángalandsbelti; enn vestar er hit Litla
Belti, Alfasund edur Medalfararsund sem er 2
mílur þar sem þat er breidast og fjórdúng úr
mílu, þar sem þat er mjóst; þat skilur Fjón
og Jótland. Auk þessara má telja. d. Gull-
borgarsund er skilur Lágaland og Falstur; e.
Græningjasund ímillum Falsturs og Manar.

f. Ulfssund ímillum Sjálands og Manar. g. Alsund, er skilur eyu þá er Als heitir og Slesvík og h. Femernsund ímillum eyunnar Femern og Holsetulands.

§. 3.

Meginlandi og eylondum ollum í Danaveldi hafa menn skipt í 11 Stipti og er einn Stiptamtmadur og einn biskup settur yfir hvert þeirra.

## I. Sjálands Stipti.

Undir þat liggia eyar þessar: Sjáland, Mon, Borgundarhólmi og Sámsey. Þat skiptist í 5 omt, sem kénnd eru vid Kaupmannahøfn, Fridrichsborg, Holbeck, Sórey og Prestey.

### 1. Sjáland

er 17 mílur á lengd í nordur og sudur, og 14 mílur á breidd nl. frá Kaupmannahøfn til Refsnefs. Þat er vídast harla frióssamt; þó er í nyrdri hluta þess sendinn jardvegr og særri landskostir, enn hit sydra; enn þá er landit allvída skógi vaxit t. d. í Helsingiaeyrar og Vodringborgar bygdarlagi; samt í midiu þess

umhverfis Sórey og vídar; þeir ardsømustu bjargrædisvegir Sjállendínga eru: fjárrækt, akuryrkia, kál- og aldíngarda rækt; kyrsiberja- og epla-voxtur er bestur í grend vid Vordíngborg. Allvída lifa strandamenn mest af fiskisaungum, er sjaldan skorta.

A) Kaupmannahafnar-Amt; í því eru 2 kaupstadir fyrir utan høfudborgina

1. A austanverdri eyunni vid Eystra Salt og bádumegin vid sund þat, er skilur eyuna Amager og Sjáland, stendur høfudborg Danaveldis er Kaupmannahøfn (Kiöbenhavn, Havnia, á frønsku Copenhague. 55°,41', 4" n. br. og 30°15'15" a. l.) er kollud, er þar heimili konúngsins, Stjórnarrádanna, stipt-amtmannsins og biskupsins yfir Siálands stipti og hérumbil 100,000 innbúa medal hvorra tekiast 2600 Gydinga. Í borginni eru hér, umbil 4000 hus og byggíngar (auk Nýbúda) 230 stræti, 9 kyrkiur, 13 torg, 7 spítala- og fángahusa kyrkiur, 1 katholsk kapella, allmargar gydinga samkundur, 13 fúklínga-hús og 3 klaustur; borg þessi er mikil og forkunnar føgr og flestum høfudborgum í heimi skipuligra bygd; ei er hún minni ummáls enn 12,600 álnir; borgarvegg hafa Danir gjørt því nær umhverfis hana bædi háan og rambyggiligan af

grjóti og torfi, sem því nær er ein míla á lengd, og eru á honum vígi gott, og ágjætar varnir, enn fyrir utan er grafit dýki breidt og diúpt. Á veggnum eru 4 hlid sem bera nøfn af høfudáttunum, þó þau ei fullkomliga samsvari þeim, utan þat er veit í sudur, er kénnt vid Amager; menn skipta borginni almennt í 5 hluti sem kallast: hin gamla og nýa Kaupmannahøfn, Kristjánshøfn, Amaliúborg og Kastaliun, er Fridrikshøfn heitir. Þar er samankomit ógrynni fiár, fjøldi merkiligra fliptana, mergd fáfédra gripa og skraútligra og háreistra bygggingja og hofgarda, má þarámedal telia:

a. Amaliuborg, kalla menn svo 4 slot er standa í hríng i austur-hluta bæjarins, eru í 3 af þeim hýbili Konúngs og Drottníngar, Prinsa og Prinsessa og hirdarinnar; en í því 4da er konúngligr skóli, í hvørn þau úngmenni setjast til menta, er gjørast skulu herskipa foríngiar, (Söecadet Academie); á plátsinu midiu ímillum þessara hofgarda stendur á undirstofni úr marmara líkneski Fridriks hins 5ta Dana konúngs á hesti, er þat steypt ur dýrmætum málmi og vegur $562\frac{1}{2}$ vætt; má þar af ráda at þat er afar mikit og stærra enn mennskur madur; þetta nafnkénda snildar smídi, let hit asiatiska kaupmanna félag gjøra nefndum kóngi til heid-

urs og er þat søgn manna at ei hafi minna kostat enn 4 milliónir ríkisdala*). b) Rósenborgarslot ímillum austur og norður borgarhlíðs; þat lét Kristián 4ði byggja 1604 fyrir utan borgarvegg og skyldi þat vera kónungs heimili á sumrum; en seinna vóru borgarveggir færðir út, svo nú stendur hofgarðr þessi fyrir innan þá; þat er byggt á gautska vísu með stöplum og turnum og er fagurt og háreist og er dyki umhverfis þat grafit. Þar geymast konúngs tignarmerki og mikit safn kjörgripa og fornaldar gérsema; við slot þetta liggur forkunnar fagr lystigarðr, hvar borgarlíðurin leitar sér skémtunar og lystisemda. c. Sjarlottuborg (Charlottenborg) á torgi því er kallast Konúngs Nýatorg, en fyrrum hét Hallands-(Hallendinga) ós; á þessu sloti er skólt (Kunst-Academie) fyrir þá er iðka bilætasmíði eður steinskurðar- og málara lyst, og er þar hvervetna á vori hvörju géfit færi á at skoða konstverk þeirra. Framm undan sloti þessu og á nefndu torgi stendur líkneski Kristjáns konúngs hins 5ta af blýi. d. Christjánsborg, er Christján 6ti lét byggja og gjörði þá skipan, at ávalt skyldi konúngr búa þar með hirð sinni; þessi konúngsgarðr, er var allra hofgarða mestr og skraut-

---

*) Forsmiðr þess var hinn nafnfrægi þjóðhagi Sally, franskur at ætt.

ligaștri, brann 1794; nú er verit at byggia hann aptur. e. Hin sívali stjörnu-turn (Rundetaarn) er Kristján 4 lét gjöra, vid v:stur gafl heilagrar þrenningar kyrkju; hann er 111 f:ta á hæd og 48 fóta á breidd, er gángurinn uppeptir hönum at innanverdu álíkt og í kudung, og svo breidr og vel steinlagdr at Pétur hinn mikli Rússlands Keysari ók upp og nidur í vagni med hestum fyrir; er þat at sönnu eindæmi. f) Börsen edur verslunar-samkundan er lángt hús, giört á fornan hátt, en ei allhátt, er Kristján 4di lét byggja úr sandsteini frá Borgundarhólmi, þar er samkomustadur kaupmanna á degi hverjum, og mikill kaupskapur. Skamt þadan eru stjórnarráda byggingarnar og Bánkinn, í hverjum geymist fjárșjódr þjódarinnar. Á Gamla Hólmi standa byggíngar siólids-stjórnarráds konungs, þar og á Nýa Hólmi geymast einnin herskipareidi hans og tilfærur til skipa-smída og báta. Í vestri hluta bæjarins er Rádstofan, og er hun fagurt hús og mikit og bygt ei fyrir laungu á nýaldar byggíngar hátt; á ofan verdum inngánginum standur med greiptum gullstøfum: med Lov skal Land bygge (med løgum skal land byggja).

Hit stærsta og fegursta pláts í borginni og nærhæfis í henni midri, er Kongens Nýatorg og standa háreistar byggíngar umhverfis, medal hverra (fyrir utan Sjárlottuborgar-slot, sém fyrr er ádrepit) hér má géta

hins konúngl. danska Lystispilahúss er Fridrikr kóngur 5ti lét byggja 1748; þai spila leikarar, karlmenn sem konur bædr lysti- og rauna-spil á 4 ákvednum dögum vikunnar nl. á mánu- þridju- fimtu- og sestúdögum, og þaradauki hina dagana, bædi til ómaks launa þeim, er lengi og vel hafa leikit, og til innektar fyrir ýmsar stiptanir og sjársjódi; vid hús þetta stendur Gjethusit (Steypuhúsit) þar er skóli þeim til handa, er foríngjar gjörast skulu þess hluta herlidsins, er brúkar en stóru skotfæri í orrustum (Artillerie-cadet Academie); á torgi þessu er og hösud vördur haldinn nætur og daga, er kallast Hovedvagt.

Torg edur pláts þau, hvar ýmislig kaupverslan og sala adhefst í borginni eru þessi: a. Gamlatorg vestarliga i borginni, nú er þat allstort sídan hit Nýa Torg lagdist til; á torgi þessu er konstuglig vatns-spreyta upp af konu líkneski er heldur á barni; á afmælisdögum konúngs og drottníngar láta menn gullepli dansa á bununum; á torginu hafa bændur kaupstefnur tvisvar í viku og halda sölum kaupeyri sínum t. d. korni, fuglí, smjöri, osti, eggjum, aldinum o. s. fr. Amagaratorg (ásamt Hábrúarpláts) hefir tekit nafn af Amagurs mönnum er þar seldu jardar ágóda sinn bæjar mönnum; en nú hafa þeir flutt kaupverslan sína á annan stad. c. Kol-

atorgit skamt frá nordurhlidi, þar selja bændur kol og mó. d. Hálmtorgit, þar hafa bændur á bodstólum hálm og hei o. s. fr. og á midvikudags- og sunnudags-qvøldum eru þar hestakaup. e. Fiskitorgit vid Hábrú edur Gamalstrønd, þar sitja qvennsistir nokkrar øllum døgum, sem illa eru rœmdar fyrir hjal sitt og ljótann munnshøfnud.

Allmargar hjálparstiptanir eru í borginni er votta um, at Danir eru hjálparsúsir og líknsamir; en þótt þar séu mørg og allvel haganliga løgud hús, hvar fátæklingar og ørvasa njóta uppeldis og ærit sé leggist þeim; er þar þó ofvargir betlarar og umgángsmenn. Medal 13 sjúklinga húsa má hér géta, ens ypparlegasta spitals er ber nafn Fridriks konúngs 5ta, er lét byggja þat handa 309 sjúklingum og var smídinu lokit 1757; þar er til grædslu tekit á móti øllum þeim sjúklingum er menn meina, at giørdri ransókn um sóttarferli hvørseins, at megi bata vænta, en adrir ei. Fyrir hreinlæti og þrísnad, adhjúkrun og grædslu vidburdum er þar borin hin náqvæmasta umhyggja.

2. Hinn almenniligi spítali þvínær gagnvart Fridriksspítala, er stiptadr var 1768, þar þyggja 1000 fátæklingar hússkjól og vidurværi, bædi konur og karlar, og allmargir þeirra fá þaradauki ølmusu nokkra á viku hvørri.

3. St. Hans Hospital (fyrrum Ladegaard) fyrir utan borgina, nærhæfis midt í millum vestur- og nordur-ports, þar setjast þeir til grædslu og heilsubótar, sem illa eru haldnir af fransósum, vitleysu edur ødrum ólæknanligum sjúkleikum.

4. Vartov edr. heil. Anda Spítali, stiptat af Kristjáni 1ta 1474, þar fá uppeldi 358 gamlar og ørvasa manneskjur, ásamt peninga styrk á viku hvørri.

Paradanki eru 4 klaustur i borginni er kallast svo: 1. hit Harboiska Frúaklaustur, stiptat handa 12 embættis- og gøfugmanna ekkjum og einni príórinnu. 2. Jómfrúa klaustur, stiptat af Petersen nokkrum til handa 35 ára gømlum presta og kaupmanna adætrum, er ei hafa þángad til mann fengit og ørvænta hans. 3. Búdolphs klaustur fyrir 8 fátækar ekkjur, og 4. Techtels klaustur fyrir 14 øreiga Eckjur; at nockruleiti má og telja Assistents edur Lánshúsit, med þvi þar géta naudstaddir feingit peninga til láns og lagt gjaldmæta hluti at vedi, til þess borgat géta.

Í borginni eru 7 sóknarkyrkjur, medal hvørra 1. Dómkyrkjan er kallast Vorfrúr kyrkja, var hin stærsta og vegligasta, ádurenn skoteldr enskra brendu hana; nú er verit at byggja hana á ný, med miklum kostnadi og er smídin miøg vøndud.

2. Trinitatis (Prenníngar) kyrkja, er ástundum kallast Rundekirke af turninum

er stendur vid vestri gafl hennar; hún er vegligt musteri og dyrdligt; mjøg jókst fegurd hennar 1817, þá hún var endurbætt og prýdd at konúngsbodi, þar í henni skyldi haldast minníngarhátid um endurbót trúar bragdanna.

3. Heilags Anda kyrkja hún er allmikit musteri med altari af norskum marmora.

4. Holmens edur Hólms kyrkja; hana lét Kristián kóngur 4di gjøra handa sjófólki 1619 og er hún bygd í kross; vid hann stendur legstadar-kapella, hvar 2gja nafnfrægustu sjóhetja nl. Tordenskjolds og Niels Juuls lík hvíla.

5. Garnisóns edur Zebaoths kyrkja, bygd 1704 fyrir landlidit.

6. St. Peturs kyrkja med 72 fóta háum turni, er áqvørdud og bygd var handa enum þýdska søfnudi, sem í Fridriks 2ars og Kristjáns 4da tíd tóku sér bólfestu í Kaupmannahøfn, hún er allsnotur og bjørt; þar syngja þýdskir klerkar messu.

7. Hin Reformerada kyrkja, bygd 1688, hún er allføgur, þó vidhafnarlítil og ei stór; þar er predikat á franska og þýdska túngu.

Fyrir utan kyrkjur þessar, er nú eru nefndar, hafa catholskir þar eina kyrkju edur kapellu; somuleidis ogsvo hinn hernhútiski søfnudur, edur brædra sambandit eina Kapellu og Gydíngar hafa sídan 1795, þá samkunduhús þeirra brann, haldit tídir sínar í ýmsum smáum samkunduhúsum.

Í Kaupmannahøfn er Háskóli (Universitet) stiptaður af Kristiáni 1ta 1475, hátídliga innvigðr 1479 og sídar endurbætte af Kristiáni 3 árit 1739; við hann er hérumbil hálfur 4ði tugur lærifedra edur Prófessóra og frá 600 til 800 vísindadýrkenda. 3 Hjálpar-Stiptanir (Collegja) liggja til, er kallast: Regens (domus regia) er Kristián kongur 4ði lét byggja 1623, Walkendorfs Collegium stiptat 1595, og Elersens Collegium stiptat 1691; hvar efnalitlir Stúdentar, auk nockurs peningastyrks, búa og lúka ei húsaleigu; hin 4ða var Borchs Collegium er brann 1807 ásamt flestum Háskóla byggingum, sem enn þá standa í auðn; þarað auki fá þeir, hvørra fjárhagur er þraungur, hjálp af fornum fjárgjøfum, er þeim eru ákvedín til lidsinnis og upphvatningar, er ótaldir idka bókligar mentir. Háskólanum tilheyrir ogsvo Stjørnuturninn og fágjæt bókhirdsla med 80,000 bókum á Turni edur á loptinu í heil. þrenningar kyrkju. Í borginni er og skóli fyrir Sára-læknara (Chirurgisk Academie) og allmørg lærd féløg t. d. Vísinda félagit og Búst-jórnar félagit. Auk hins nefnda bókasafns, er hinn mikli kóngligi bókastóll er samanstendur af hérumbil 280,000 bókum og bókmálum, samt hit Classenska bókasafn, hvørs bækur mest innihalda náttúru, mælingar- og bústjórnar frædi.

Ut af vestur, nordur, og austur-hlidum borgarinnar liggja steinlagdir þjódvegir yfir brýr, sem gjørdar eru yfir dýkit, og upp má vinda þá vill; 3 stadir edur þorp (Forstæder) standa vid vegi þessa ollumegin og taka þeir nafn af brúnum og kallast Vestur brú, Nordurbrú og Austurbrú, er Vesturbrú þeirrá stærst og fjølmennust, med því þar liggur vegur beinn til Fridriksbergs Slots; í miđlum stadarins og þorps þessa stendur midt á veginum stytta mikil og føgur af sandsteini med 4 líkneskjum umhverfis af marmora, er jarteikna trú, jardyrkju-ydn, hreysti og føđurlandselsku; þenna heidursvarda létu bændur og búhøldar Danmerkur reysa 1792 til minníngar um feingit frelsi og friun álaga og undirokunar landsdrottna. Á Vesturbrú eru allmargar snotrar byggingar og margskonar lystisemdir og gledileikar á sumrum, má þar ámedal telja Sumar-lysti-leika húsit, hvar ýmsir íþrótta menn skémta fólki med margskonar látgædis, fimleiks og léttleiks æfingum t. d. línudansi, at gánga á járnvirsstagi o. s. fr.; þar er og hit danska skotmanna-félag og brædralag, hvørs medlimir einusinni á sumri skjóta til máls, sem er ramnliga gjørdur og járnsleginn fugl á hátri staung, og fá þeir er frækiligast skjóta ýmisligt kostuligt silfursmídi at launum. Í félagi þessu eru ýms gøfugmenni og stórhøfdingjar; frá þorpi þessu

gengur einlægur lystigángur millum blomligra trjárada til konúngsgards þess, er Fridrichsberg edur Fridriksbiarg heitir hérumbil hálfa mílu i vestur frá bænum; þar situr konúngur, drottning og hirdin á sumri hvørju; slot þetta stendur hátt og er forkunnar fagurt, med þvi þar er vídsýni mikit yfir landit, borgina og Eyrarsund, á slotshladinu er hljódfæraslåttur á hvørjum sunnudegi, og um hverfis þat er bædi lystiskógur og aldíngardur med harla føgrum lystigaungum; þar er einhvørr hin inndælasti og fjølsóktasti stadur i nánd vid borgina, er þar þvi ávalt, þá vedur er blídt, mug og marg menni og mikit skraut at líta. Nordurbrú er ei svo mikit þorp edur svo skémtiligt; nordanverdt vid þat er kyrkjugardur edur légstadur, er kallast Assistents kyrkjugardur, hann er forkunnar fagr, þar han er gródursettur med blómligum og kostuligum smávidi og búskum, medal hvørra standa afarmargir minnisvardar ýmsra gøfugra og ríkra manna.

Kristiánshøfn stendur á eyunni Amager og er einn hluti Kaupinnhafnar, gengur mjótt sund (Kallebroe) imillum þeirra, yfir hvørt liggja 2 brýr edur bryggjur, heitir hin nyrdri Knippelsbrú, og er yfirferdin þar mest og hin sydri Lángabrú; eru þær bádar ásamt øllum þeim brúm, er yfir hvílik sund edur sýki liggja, svoleidis gjørdar at upp má vinda, þa vill, at kaupskip géti med fullum reida og farmi lagt igégnum sundit

framm og tilbaka til léttirs, þá hladast skulu edur affermast. Nafnit tekur bór þessi af Kristiáni enum 4da, er fyrstur lagdi grundvoll hans 1617, og hefir hann sídan aukist mjög at húsa sjálda og innbúum. Þær merkustu byggíngar og stiptanir þar eru: Vors Frelsara kyrkja er einhvor hin fegursta og gofugligasta kyrkja í Kaupmannahøfn bygd 1684, á henni stendur konstugligur turn, uppeptir hvorjum liggur at utanverdu snigilgángur, og er pílaraverk edur spelur af járni á adra hlid til studnings, svo óhætt má gánga upp á topp turnsins, sem er 144 álnir á hæd. Fridriks Þýdska Kyrkja, hún er nýliga og snilliliga bygt, og hvorri kyrkju í Danmørku betur lagud til hljódfærasláttar og saungs. Barnahúsit, er mikit fángelsi fyrir 600 misgjørdamann, er brendu þess stærstu bygging 1817. Limlestrahúsit (Söe-Qvæsthuset); sú stiptan er mikil og audug; þat er þeim ágvedit, er á skipa flotanum kránkir verda edur lída tjón á limum; samt konum þeirra og børnum; þat hefir tekjur sínar frá Assistentshúsinu. Hesta, edur Dýralækuisskólin (Veterinair Skolen). Hin konúngliga Dokk (Dokken) gagnvart Gamla Hólmi, hvar Danir bætu herskip sín; hafa þeir hinum nafnfræga hugvitsmanni og herskipaforíngja Gerner at þakka fyrir hennar núverandi løgun og hit addáanliga vatns-

pumpuverk edur vatnsaustrurs verkfæri er hann uppfann; auk þessara eru þar háreistar byggíngar er tilheyra því asiatiska, grænlendska og fleyrum höndlunarfélögum.

Þá vér rennum augum vorum yfir borg þessa og athugum alt grandgæfilega, gétur þat ei dulist, at þótt hún sé ei svo stór ummáls sem adrar höfudborgir í Evrópu, er hún þó þeim flestu fegri og vandadri at smíd; en þat skérdir prýdi hennar, at hún liggur lágt á flagasömum grundvelli, þar hún stendur vid sæ og ei færri enn 7 kanalar gánga inní hana frá sjónum. Neytsluvatnit er hvervetna slæmt, þar því má veita lángar leidir í bunustokkum frá stöduvötnum og tjörnum, er allángt liggja frá borginni; þessir annmarkar olla því, at qvillasamara er þar og fleiri deya þar eptir tiltölu enn í ödrum stödum í Danaveldi; þat er almenn sögn, at hreinara og heilnæmara sé loptslagit á Kristjánshöfn enn í höfudborginni. Sidferdisstjórnar rádit (Politiet) hefir æ vakandi auga á, at sérhvörr njóti fridar og frelsis heima og á strætum. Frá 20 Augusti til 20 Maii brennur ljós á lömpum í föstum skridbyttum af gleri í hvörju stræti, svo menn géti beint gángi sínum; einnin eru allmargir vökumenn tilsettir, er hrópa skulu vid hvörja klukkustund og syngja sálmvers, samt géfa gjætur at voda eldi og at ei sé skarkali og órói á strætum um nætur; einnin halda þeir vörd á

turnum og í forstødunum; at kóngsbodi er og lid nokkurt, er kallast Brandcorps (húsbrunalid) tilskipat, ætíd at vera vidbúit med vatnsspreutum og ødrum verkfærum at støkkva eld, bjarga mønnum og fjármunum þá hús brenna, er ei sjaldan ber vid í borg þessari; vogun og atorku þessara manna er miøg hrósat, og kallast yfirbodari þeirra Brandmajór.

Vid Kaupmannahøfn er og forkunnar gód og ørugg høfn og skipalega bædi fyrir herskip og kaupfør, og eru henni til varnar byggdir sterkir skansar og virki (Batterier) á hólmum fyrir utan hana er kallast Þriárkrónur (Trekroner) og Próffsteinn (Prövesteen), Sextus og Qvintus, samt kastalinn Fridrikshøfn fyrir nordaustan borgina, um hann liggja varnargardar med díkjum fyrir utan med tveimur brum yfir og einsmørgum portum á kastala veggnum; þar er ein lítil kyrkja. Nordast í borginni stendur Tollbúdin, þar á sjáfarbakkanum, er menn gánga fyrst í land; þadan gengur brú yfir hafnarmynnit.

Athugagr. Kaupmannahøfn er svo gamall stadur, at hennar finst gétit í fornum frædibókum 1043, var þar þá alleina litit fiskiþorp, med því þar var útrædi og gott til fiskiar; en þá erkibiskup Absalon lét þar á 12tu øld reisa skrautligan gard er hann kalladi Axelhús 1168; jók kaupskapr og fjárabli uppfrá því æ meir og meir stærd hans og

fiølmenni; en ſtadarétt fèck Kaupmannahøfn þó ei fyrri enn 1254 af erkibiſkupi Jacob Erlendsſyni, var hún þá eign erkibiſkupanna í Lundi; eptir lánga ſtyrjøld og hardar deilur vard Valdemar konúngr Atturdagr eignarmadr hennar og á 15 øld midri (1443) flutti Kriſtophórus (Chriſtopher) hinn 1ſti konúngaſetrit þángat frá Hróarskeldu og hefir þar æ ſídan verit heimili Danmerkur konúnga; fyrir þá drengilegu vørn og hreyſti, er bæjarmenn ſýndu mót Svíum 1660, ſæmdi Fridrik hinn 3 þá heidrandi og hagnýtum einkarétti og giørdi þá ſkipan, at borgin ſkyldi vera Stapelſtadr. Ei hefir ſjaldan eldgángr geyſat í borg þeſſari og giørt allmikit tjón á aud og allmørgum byggíngum t. d. 1728, þá Fridrik 4di ſat at ríkjum, brann allr helmíngr borgarinnar; 1794, þá hit fagra Kriſtjánsborgarſlot brann; einnin eydilagdi eldr mikinn hluta ſtadarins árit eptir; og 1807 þá enſkir ſátu um borgina og med eldkúlum og logbrøndum ſengu ſvo mikit atgiørt, at allmørg hús brunnu til kaldra kola og ei fá ſengu ſkémdir; hafa bæjarmenn at víſu ſídan bygt mikit at nýu, en þó er en í dag eydítóptir ofmargar í ſvo fagurri borg. Peſsar óhamíngjur hafa ollat þvi, at fleſt eru nú húſin nýlig og føgur, en fá fornſálig, ſtrætin bein og vel ſteinløgd; hefir á þann hátt árliga aukiſt prýdi borgarinnar.

2. Hróarskélda (Roeskilde; Roeskildia, Roefontes) 4 mílur í suðvestur frá Kaupmannahøfn, skamt frá Hróarskéldu-fjarðar botni; borg þessi var í forntíð miklu meiri og fegurri enn nú á døgum; var þar heimili danakonúnga frá døgum Haralds Hilditannar, uns Kristophórus af Bajaralandi, er kom til ríkis í Danmørku, valdi sér bústað í Kaupmannahøfn; nádi hún þá til fjarðar þess, sem nú er kéndr við hana, og hefir henni æ síðan farit hnignandi; er þat nú dómkyrkian alleina, mikit og vegligt musteri með þremur turnum, er vottar um borgarinnar fyrri tíða fegurð og ágiæti. Í kyrkiu þessari er legstaðr Danmerkur-konúnga og kóngborinna stórmenna. Í borginni eru 1800 innbúar, skóls-skóli, og klaustur handa aðalbornum meyum. Þar er einnin haldit stiptsmót eður prestastefna í Sjálandsstipti.

Hérumbil 1 mílu frá Hróarskéldu liggur greifagarðrinn Letraborg; allskamt þaðan finna menn aurmál og eptirstøðvar af stórkostligum húsakynnum frá forntíð, og er þat meining lærðra manna at þar hafi Hleiðra eðr Leira (Leire) staðit, sem var hit elðsta kóngasetr í Danmørku, byggt af Skyldi syni Odins. (þaðan er sú ætt komin er Skiøldúngar heita, þat eru Dana-konúngar.)

Í nánd vid Hróarskéldu er Bidstrup (Roeskilde-Ladegaard) þat er vel umbúit spital handa vitfirringum.

3. Kiøge (Coagia) fyrir austan Hróars-kéldu, vid hafvik nokkra breida er gengr inn í landit frá Eystra Salti, er kallast Kiøgebugt (sinus coagiensis) þat er lítill kaupstadr med 1360 innbúum. Á døgum Kristiáns hinns 4da Dana-konungs kom þadan refill edr fágiætr vefnadr, er brúkadr var til at tialda med kóngs-sali og hallir á þeirri tíd. Þessi stadr er og harla nafnkéndr af þeim mikla sigri, er hin vídfræga danska siódetia Niels Juul vann á Svíum þann 1sta Juli 1677. Á sama stad kom eldr upp í herskipinu Dannebrog þriátigiu og þremur árum seinna (1710) og flaug þat í lopt upp ásamt enum hugprúda Hvidfeldt, er fyri því rédi.

Í Kaupmannahafnar-amti er ódals stórbýlit Bernstorff 1 mílu frá høfudborginni. Þess má hér géta at eignarmadr þess, hinn nafn-frægi greifi Johann Ernst Bernstorff 1767 gaf bændum sínum ábýlisjardir þeirra, og var á þann hátt og med ýmsum ødrum búsliórn og landyrkiu bætandi setningum og manndóms at-burdum fagurt dæmi og fleiri til sama leidandi munstr, til at bæta kiør bænda í danaveldi, er

lengi höfdu stunit undir þrældóms oki lands-drottna sinna.

Lýngbýr, þorp nokkurt, ásamt sókninni er þartil liggur i forkunnar fögru landsplátsi. Þar eru allmörg lystibýli, hvar stadarmenn búa á sumrum, og ýmisligir verkstadir. Vid Lýngbý er slotit Sorgenfri med fögrum lystigardi.

Eyan Amager, er seinna munn gétit verda, liggur undir þetta amt.

II. Fridriksborgaramt, er hinn nord-austasti hluti Sjálands og er þat allvída miög fagurt. Í þvi eru þessir stadir:

1. Helsíngiaeyri (Helsingöer; Helsingora) 5 mílur fyrir nordan Kaupmannahöfn, vid Eyrar-sund, þar sem þat er miόst, gagnvart Helsíngiaborg i Skáney; kaupstadr þessi er gamall, og er, at höfudborginni undanskildri, allra bæja stærstr og fiölmennastr á Sjálandi; Þar eru tvær kyrkiur tvø spítøl, rádhús, látínu-skóli og allmargar fagrar byggíngar, hit kóngliga Eyrarsunds-toll-hús, á hvoriu øll þau skip, er leggia ígégn-um sundit, lúka toll. Kaupstadarmenn, sem eru herumbil 6000 ad lølu idka allmikla kaup-verslun, og hafa ærinn ard af skipum þeim, er nema stadar á høfninni til at fá naudsyniar sínar. Þar er og ferinstadr yfir fyrrnefnt sund.

Vid bÿinn er Kr'nborg, mikill og sterkr kastali, byggdr af Fridriki konúngi 2 (1574) til at veria sundit; en raunin hefir ástundum sÿnt, at hann til þess er ónógr. A einum af turnum kastalans brennur viti (lampaviti) þá þörf krefur.

Skamt fra Helsingiaeyri liggur lystislotit Mariulyst med fögrum aldingardi; þar er vidsÿni og fagurt yfir sundit at horfa.

Hálfa mílu frá bÿnum er Hamarsmylla (Hammermöllen) edr hin svokallada schimmelmanska byssusmidia.

Gillileie kallast hinn nordasti oddi á Sjálandi.

Í fögru landsplátsi ímillum stöduvatns þess, er Arresiór (Arresöe) er kalladr og Hróarskélduflördś, er Fridriksverk, þar er markverdt fallstykkia steypuverk og púdurmyllur; þessari stórkostligu verksmidiu koma vatsleidingar frá tédu vatni í gáng.

Í vestur frá Helsingaeyri er Esserums-klaustr ved Esserums vatn; þar lætr konúngr giæta hiarda sinna og leggia alúd á at bæta kyn saudfiárins og kallast þat Skæferi.

Sunnar vid nefnt vatn er hofgardrinn Fredensborg, í inndælu héradi, 2 mílur í sudvestur frá Helsingiaeyri er Fridrikr 4di lét

giöra 1720; þar var sama ár fridarsamningr millum Dana og Svía undirskrifadr.

2. Hilleröd er lítill kaupstadr hálfa fimtu mílu fyrir nordan Kaupmannahöfn; þar er látinu-sköli, er tekur nafn af Fridriksborg, sem er harla háreistr og skrautligr hofgardr á hólma i vatni nokkru; þar er forkunnar fögur og velbúin kongshöll og veglig kyrkia, í hværri Danir hafa krynt allmarga af kóngum sínum; byggingu slots þessa, er Fredrikr 2ar byriadi, lét Kristián 4di lúka. Í greud vid Hilleröd-er hit kóngliga stódhrossa-eldi.

Í sudaustur þadan, allskamt frá sæ og 3 mílur fyrir nordan Kaupmannahöfn liggur lítill býr er kallast Hirskhólmr (Hiartarhólmr) þar var fagurt lystislot, er Kristián 6ti lét byggja, en sem nú er rifit; kyrkia þess stendr enn þá.

Vid Hróarskéldufiörd liggur Fridriks-sund, lítill kaupstadr þar er feria yfir fiördinn, er kallast Sundbý-feria, skamt þadan er býrinn Slangerup, hvar Eyrikr hinn Ægódi, Danakonúngr, er fæddur; samt hinn nafnfrægi Thomás Kingo 1634.

Á aunest því, er gengr í nordur millum Isafiardar og Hróarskélduvogs, er kónglig fasteign og hofgardr, er Jægerspris heitir; í fögru riódri í lystiskógnum vid slot þetta,

standa minnisvardar edr heidursminni allmargra nafnfrægra danskra afbragdsmanna, fødurlands elskara og merkisqvenna, medal hvørra telja má biskup Absalon, Snorra Sturluson, Tycho Brahe og fl.

III. Holbeks-amt, er hinn nordvestasti partr Sjálands; í því eru 3 kaupstadir:

1. Holbek, í friósfsømu landsplátsi vid vog nokkurn, er gengr inn frá Isafirdi, og kéndr er vid kaupstad þenna. Þar er gód høfn og sigling og flytjast þadan afar miklar kornvørur. Bæjarlídurinn er 1200 at tølu.

2. Nordar liggur Nýkaupángr (Nyköbing; Neocopia Sællandiæ, fyrr: Hagekjøbing) vid Isafiørd vestanverdan; þat er litill og óálitligr kaupstadr í Oddshéradi edr á skaganum fyrir vestan néfndan fiørd; þar eru 600 innbúar, er idka akuryrkju og nokkura verslun og brennivíns brugg.

3. Kallundborg (Callundia) vid fiørd nokkurn er gengr inn frá beltissundi inn ímillum nesja tveggja, er skjaga lengst í vestur á Sjálandi, kallast hit nyrdra Refsnes og er þat lengra, en hit sydra Asnes. Þat er litill kaupstadr, byggdr ofarliga á 12 øld af Esbern Snare (Asbirni hinum Snara) bródur Absalons erkibiskups; þar er ágiæt skipalega, gód

kaupverslun, hellst med malt, og 1400 innbúar. Þar sjást aurmál slots þess, er Svíar brutu 1658, í hvørju Kristián 2 sat fánginn í 10 ár (1549 1559) og lét hann þar líf sitt. Frá bý þessum gánga tvisvar í viku flutníngssnekkiur til Arósa á Jótlandi og er sá sjóvegr hérumbil 12 mílur.

Í þessu amti er greifadæmlt Lerchenborg og barónsdæmit Løvenborg stiptat 1773.

Reirvik (Rörvig) er lítill tollstadr vid Ísafiardarmynni vestanverdt.

Hvad veraldliga valdstjórn snertir, liggur Samsey undir þetta amt, frá hvørri sídar skal skírt verda.

IV. Soreyar-amt, er sudvestur hluti Sjálands; í því eru 5 kaupstadir.

1. Sórey (Soröe; Sora) 6 mílur í sudvestur frá Hróarskéldu, umkringd af 3 fiskivøtnum, í inndælu skóglandi; þat er lítill kaupstadr med 500 innbúum. Þar var fyrrum riddaraligr háskól (Søröe-Academie) er Kristján 4di stipadi 1632, en sem 1665 var lagdr nidur. Fridrikr 5ti setti skólan at nýu á stofn 1747. Hinn nafnfrægi Holberg gaf hønum barónsdæmi sitt er stiptat var 1747. Fyrir fáum árum brann skólabygginginn og kyrkjan elleina stendur eptir, sem er allveglig. Í henni

er legstadr Kristophers annars, Valdimars 3ja Absalons erkibiskups, Asbiarnar ens Snara, Holbergs, auk annara kóng- og adalborinna merkismanna. Nú skal skólin á ný uppreisast.

2. Hringstadr (Ringsted; Ringstadium) 2 mílur í nordaustr frá Sórey, nærhæsis í midju landinu, er einhvor hin elzti býr í Danaveldi, med því þat er sögn manna at Sigurdr Hringr hasi hann gjöra latit á 7 öld; stadurinn er nú litill og ósnotr og hefir 800 innbúa; þó er þar allmikil og merk kyrkja, er kénd er vid St. Bent i henni liggja lík Knúts Lavards, beggja Valdimaranna, 1ta og 2s, Eiriks Menvids og Eyriks Plógpenings og annara stórmenna. Þar er haldit landsþingit í Sjálandi.

3. Slagelse (Slaglosia) 2 mílur fyrir sudvestan Sórey; þat er fallegr býr, er menn segja bygdr sé ofarliga á 10 öld af lángafa födur Absalons erkibiskups, Slag at nafni, af hvörjum hann taki nafn. Þar eru 2 kyrkjur, látinn skóli, audugr spítali stiptadr af Fridriki 2, prentverk, lystispilahús og 2000 innbúar, er lifa mest á akuryrkju og nokkurri kaupverslun.

4. Krossaeyri, (Korsöer; Crucisora) 2 mílur í sudvestur frá Slagelse og 14 mílur í sömu átt frá höfudborginni; þat er litill og

ósnotr kaupstadr vid vík nokkura, er gengr inn frá Beltis, sundinu. Þadan til Nýborgar á Fióni er yfirferdin sídægris á þartil giørfum létti-skútum, er Danir kalla Smakker, med því þjódvegrinn um Danmørk liggur þá leid; þar er ein kyrkja, lystispilahús og varnarvirki á hólma nokkrum í víkinni, í hverri er gód skipalega; Innbyggiarnir eru 1200 at tølu.

4. Skélfiskaeyri (Skielskiör) lítill og afar gamall kaupstadr í føgru héradi vid vog nokkurn, hvørs mynni er svo grunt, at ei mega utan smáskip inn komast; tálmar þat miøg kaupverslun kauptúns þessa, er annars liggr vel vid høndlun; þar er ein kyrkja og 500 innbúar. Þar í grend [vid fiskast áll mikill.

Frá Skélfiskaeyri fara menn yfir til eya tveggja, er liggja skamt undann landi, og heita Akursey (Agersöe) og Omey.

Fyrir austan nefndan kaupstad liggr greifadæmi þat er Holsteinsborg heitir og stórbær háreistr og fagr skamt frá sæ, ásamt stórbýlum þeim og fasteignum er þartil liggja. Greifadæmi þetta er stiptat 1708 og er hit eldsta í Sjálandsstipti.

V. Presteyar-amt, er hinn sudaustlægi hluti Sjálands; í því eru 4 kaupstadir og er engin þeirra mikill.

1. Nestved, 11 mílur í suðvestur frá höfuðborginni við Súsá, er einnin kallast Nesbý á, er rennur ígégnum býinn, og er hit mesta vatnsfall á Sjálandi; kaupstaðr þessi er gamall miøg og liggur hann í friðssömu landsplátsi.

Allskamt þaðan er stórból, er heitir á Hérlufshólmi í innðælu skóglandi; þar er látinn skóli, er Herluf Trolle og kona hans Birgét Giøe stiptuðu, og mæltu svo fyrir, at aðalbornir og tíginna manna synir skyldu þar at bóknámi vera at sínum kostnaði.

Ei lángt frá Nestved, er Karbæksmynni; þat er toll- og hleðslu-staðr nefnds staðar.

2. Bordingborg (Orthunga) syðsti býr á Sjálandi, 14 mílur í suðvestur frá höfuðstaðnum; þat er lítill kaupstaðr í søgru héraði við Grœningjasund, sem er 1 míla á breidd og yfir hvørt gánga løgferiur og flutníngsskútur þaðan til Falsturs. Þar er látínuskóli (miðlúngsskóli) og 1000 innbúar. Í Bordingborg var forðum heimili ýmsra Danakonúnga, meðal hvørra má telja Valdemar Atturdag, er ann miøg stað þessum og lét þar giøra hofgarð og fángaturn, og siást tóftirnar enn í dag. Á fiolmennu alþingi árit 1240 var hin jútska løgbók birt þar øllum þíngheimi. Valdemar 2ti útgaf þar

einnin hin sjálendsku løg 1171 og andadist þar 1182.

3. Presten (Præstöe; Præsbyteronesus) við Eystra Salt, 9 mílur fyri sunnan høfuðborgina; það er lítill kaupstaðr með 400 innbúum. Þar er høfn.

4. Stóra Heddinge eðr mikli Haddingabýr, lítill staðr millum síðstnefnds staðar og Kiøge.

Skamt þaðan er Stevnsklint eðr Stevnshøfði, hvørs fyrr er getit. 1818 settu Danir þat vita til leiðarvísirs sjáfarendum; vitinn er í skriðbyttu sem snýst íkring í 6 mínútum og kastar skíærum geislum eðr glømpum frá sér í téðu tímabili.

Í þessu bygðarlagi eru klaustur tvø með fasteignum, er liggja þar til, þau heita:

Valley, 1 mílu fyrir sunnan Kjøge, stiptat 1738 af drottningu Sophiu Magdalenu; og Vemmeltóftir $2\frac{1}{2}$ mílu frá Prestey, stiptat af Kristjáni 6ta 1735. Bæði eru þau áqvørðut til handa aðalbornum meyum og stórættuð um qvennskørungum.

Vestar liggur Gisselfeld, sem einnin er stórból áqveðit til handa 16 aðalbornum meyum, stiptat 1702. Hinn nafnkunni Petur Oxe lét reisa bæ þenna 1540.

Í þessu amti er greifadæmit Bregentved, stiptat 1750; hinn sídsti eignarmadr þess, var Joachim Gødske Moltke, er andadist 1818 mikill hofdíngi og gædingr kóngs, eptirlét sér fagran ordstýr med rausn sinni og stórgiøfum.

Barónsdæmin Gauney og Stampenborg liggja í þessu amti.

## 2. Amager.

Liggur undir Kaupinhafnar-amt, er eyland fladt og lágt $1\frac{1}{2}$ míla á lengd og 3 fiórdúngar úr mílu á breidd; Kristján konúngr 2ar lét hollendska byggja þar 1516, (at rádum drottníngar sinnar Elisabetar,) og leida aldingardarækt í tídsku, er ádur hafdi miøg forsómut verit í Danmørku, og hefir sú kynslód ávallt búit þar sidan og haldit vid sína fornu hætti og klædasnid, sem er miøg fráleitt innfæddra; helsti bjargrædisvegr þeirra er at selja Kaupinnhafnar innbúum, hvørra matarhús Amager er kallut, mjólk og alskonar káltegundir; eru þeir og flestir audugir og gódir búhøldar. Á eyu þessari standur:

1. Kristjánshøfn sem fyrr er skírt.

2. Kastrup, þorp litit, þar er kalkverk; at austanverdu er;

3. Dragey einnin litit þorp, hvors innbúar lifa á fiskiabla, sjóferdum og af at vísa skipum rétta leid inn í hafnina.

Austur undan Amager liggur litill hólmi í sundinu er Salthólmur heitar; þar hafa Amagarar í seli á sumrum; þar eru og kalksteinsnámur.

3. Møn (Möen; Mona, virginia danica).

Þessi frióssama ey, er liggur fyrir sudaustan Sjáland, er 4 mílur á lengd og 2 mílur á breidd; þar sem menn fara yfir Ulfssund ímillum eya þessara kallast Kallehave og ferjan Kallehaveferja. A vesturstrøndinni liggur: Stege, litill kaupstadr og sá einasti á eyunni med 900 innbúum, þar er og tugthús. A austanverdri eyunni gánga krítarfjøll strandlengis med sjónum, sem eru 110 álnir á hæd, hefir einn hnúkurinn stólslögun og kallast því Kóngastóll; austast kallast krítarberg þetta Manar-múli eda Manarhøfdi (Möensklint), má eygja hann í allmikinni fjarlægd.

4. Borgundarhólmur (Bornholm; Borringia.)

Liggur í Eystra-Salti 16 mílur fyrir austan Sjáland og er 7 mílur á lengd í út og sudur og 3 mílur á breidd. Eyland þetta er hátt og sæbratt; øllumegin eru klettar og hamrar

og óvíða góðar lendingar edur øruggar skipalegur; þar eru og á ýmsum stødum allmiklar hædir, hrióstur og giædalitill jardvegr, enn þó eru vidast fagrar eingar og frióssøm akuri lønd. Þar finnast og allmargar steinategundir t. d. sandsteinn, er menn høggva til legsteina, qvarnarsteinar, marmari, steinkol samt sú jardartegund, er menn giøra porcellanskér af o. s. fr. Þessir eru stadir á eyunni:

1. Rønne á vesturstrøndinni, hefir skóla, verslun allgóda, høfn og 2000 inbúa. Bædi þar og annarsstadar vid siáfarsiduna er mikil laxveidi; nordar liggur kauptunit:

2. Hasle med 440 inbúum, skamt þadan eru steinkolanámur. A austanverdri eyunner aupstadurinn:

3. Svanike med 600 innbúum og høfn; nálægt býnum eru sandsteinsberg. Sunnar á sømu strønd er:

4. Nexey (Nexöe) nokkut sólkfærri kaupstadr med litt ytri høfn; har eru og í nánd vid sandsteinsklappir. Sunnar enn á midri eyunni er:

5. Akyrkjubýr (Aakirkeby) litill kaupstadr; þar var fyrrum haldit landsþing og prestastesna. Auk þessara 5 kaupstada, er hér eru

nefndir, eru á eyunni allmörg fiskiver, hvörra innbúar lifa af fiskiskap. Engin eru bændaþorp á Borgundarhólmi sem annarsstaðar í Danmörku, heldr er bændabygdinni svo hátt at, sem út á Íslandi, at bæirnir standa einstakir og á stráli. Til atvinnu sér ræfia eyarmenn mest akuryrkiu, qvikfiárrækt, laxveiðar, fiskifáng og nokkura verslun; þeir eru hugadir og hardfengir og einrádir, hafa þeir ávallt sýnt hollustu Danmerkur konúngum og notit þessvegna ödrum fremur ýmisligs einkaréttar.

Hérumbil 2 mílur fyrir nordaustan Borgundarhólm liggur Kristiánsey; þat eru eiginliga tveir hólmar, ámillum hvörra liggur brú; þar er örugg höfn og hæli sióferdamönnum, er sara í austurveg og varnarvirki er Kristián 5ti lét giöra; þar er sett herlid til varnar undir hersögn eins höfdingia er Commandant kallast. Skamt þadan eru hólmar er fyrrum vóru áfamt hinum Ertuhólmar nefndir og er Grashólmi þeirra stærstr, eru þeir allir óbygdir; enn í þeim er ædarfugls varp.

## 5. Sámsey

liggur í Jótlands hafi fyrir nordan Fión, hún er hólótt og friófsöm og hefir þann skort á rennandi vatni, at valla finnst einn lækr á

henni allri; eyan er eitt greifadæmi og tilheyrir greifanum Danneskiold Samsøe.

## II Fiónar Stipti.

Liggia hér til auk Fiónar, Lángaland og Thorslundr og þvínær 50 smáeyar; því er skipt í 2 amt nl. Odinseyar, og Svendborgar-amt.

### A. Fión (Fyen; Fionia.)

Þat er frióssøm og harla vel yrkt ey og nokkut ósléttari og hæðóttari, enn Siáland, og miklum mun fagrari og meir skógi vaxinn og breytiligari at landslægi; hún er 11 mílur á lengd og 9 á breidd í út og sudur og 56 ferh: mílur á stærd og hefir 112,000 innbúa; landságóðin er korn, humall, hør og triá-ávextir og á bíslugnarækt leggia eyarmenn mikla alúd.

1. Odinseyar Amt, er þat nyrdri hluti eyunnar; í því eru 5 kaupstadir.

1. Høfudstadur þar er Odinsey (Odense; Othinia) nokkut nordar enn í midiu landinu á føgrum flötum vid á nokkura, sem er hin mésta á Fióni; 22 míl: í sudvestur frá Kaupmannahøfn; fornsøgur segia, at Odin hafi fyrstr manna hana bygt, þá hann kom á nordurlønd.

Hún er fiórdúngr úr mílu á lengd og sumstadar fornfálig; utanverdt í bænum er hofgardr bygdr af Fridriki 4da, í hværium býr Jarlin (Gouverneuren) yfir Fióni, kóngsefnit Kristián Fridriksson; auk tveggia kyrkna er þar dómkyrkia mikil og veglig, er helgut var og nefnd er eptir Knúti hinum helga Danakonúngi er uppreistarmenn vógu í St. Albani kyrkiu 1086. Þar er og stólsskóli stiptadr af drottníngu Margrétu á 14du øld, 1 rádhús, 1 spítali og 1 klaustur handa 8 adalsmanna dætrum, er stiptat var 1716, 2 prentsmidiur, eitt lystispilahús og 6800 innbúar, hvorra kaupeyrir, auk allskonar annars varnings og handydna, er afar mikil skinnavara og húdir, er þeir siálfir garfa, og skinnglófar.

2. Kiærteminde o: Kiærtingeminde (Cartamunda) 3 mílur í nordaustur frá Odinsey, vid Beltissundit; þat er lítill kaupstadr vid fiørd nokkurn, í hværium er allgód høfn; bæarmenn eru 700 at tølu, er idka jardyrkiu og kaupverslun.

3. Bogense, er lítill kaupstadr þvínær 4 mílur í nordvestur frá Odinsey, á nordurstrønd eyunnar, vid vík nokkura, vidlíka stølmenn og Kiærteminde; þar eru 760 innbúar, kornver-

ſlun og fiſkiabli góðr. Fiónshöfði (Fynshoved) heitir hinn norðaſti oddi Fiónar.

4. Medalfør eðr Middelfart; þat er litill kaupſtaðr 6 mílur fyrir veſtan Odinsey með 1000 innbúum. Þar er feriuſtaðrin at auſtanverðu, yfir hit veſtara Beltisſund eðr hit litla Belti, er þat þar rumr fiórðúngr úrmilu yfir til Snoghøi eðr Snókahæðar, ſem er feriuſtaðr fyrir handan ſundit. Fyrir ſunnan Medalfarar kaupſtað og við fyrrnefnd Beltisſund, 5 mílur í ſudveſtur frá Odinsey ſtendur:

5. Aſſens ſyrr: Aſsons, litill kaupſtaðr með 1400 innbúum, er liſa meſt á jarðyrkiu. Þar er feriuſtaðr yfir Beltit til Arreyarſunds, feriu í Slesvík, eru þar 2 mílur ſiáfar yfir ſundit. Stutta leið frá ſtaðnum liggur Yxnafiallit (Öxnebierget) hvar Danir unnu árit 1535 mikin ſigur á liði Lubekka, er heriuðu á Danmørk og giørðu mikinn ſkaða; fyrir liði Dana var kappinn Johannes Ranzau, er með ráðum og fylgi klerkſins Hanneſar Madsſonar frelſaði ríkit og giørði enda á enum nafnkéndu greifaſtyrioldum.

Athugagrein. Preſt þenna hoſðu Lubekkar til fánga tekit og kaſtat í ſángelſi; um nótt ſá hann ſér færi at ſleppa hálfnakinn og berſættr og létti hann ei fyrr enn hann náði

sundi ens danska herstióra og kynnti honum ætlan og athafnir siandmanna, og baud honum hösut sitt at vedi, ef ei reyndist sönn saga.

II. Svendborgaramt er sydri hluti landsins ásamt Lángalandi; í því eru 3 kaupstadir:

1. Svendborg (Suindborg ɔ: Sundborg) í inndælu skóglandi sydst á Fióni vid sund þat, er skilur hana og Thorslund. Þar er gód höfn, og allmikill kaupskapr; flytst þadan allskonar matvörur og ógrynni ávaxta t. d. epla o. s. fr. Nordar á vestur-strondinni í frióssemu landsplátsi er kaupstadurinn:

2. Fáborg (Faaborg) med 1100 innbúum, hvorra kaupeyrir er korn og feitmeti, þar er og nokkur sigling enn slæm höfn. Ei allángt þadan er ferja yfir sundit til Alseyar. Framundan Fáborg liggur ey nokkur í sundinu er kallast Lýey, þar var Valdemar 2ar (hin Sigursæli) sofandi til fánga tekinn.

3. Nýborg (Neoburgum) liggur 4 mílur fyrir vestan Odinsey vid fiord nokkurn, er gengur úr austri inní landit fra Beltissund inn; borg þessa lét Knutr 6ti Danakóngr giora á ofanverdri 12tu öld; umhverfis hana er borgarveggr giorr med varnarvirkium og hlid

um á og díki fyrir utan, sem um Kaupmannahöfn; í henni eru breid stræti og háreistar byggíngar, látínuskóli, rádhús, ein kyrkia og 1900 innbúar, hverra atvinna er akuryrkia og verslun; þeir hafa og hagnad af ferdamönnum er fara yfir Beltissundit; har er höfn svo góð, at hvergi, utan í Kaupmannahöfn, er önnur betri í Danaveldi. Ei alleina þau skip er leggja út úr henni og inní hana, heldur og þau er siglá framhiá, lúka toll í Nýborg. Árit 1659 bar hinn svenski hersforíngi Steinbock lægra hluta fyrir Dönum í Nýborgarfirdi.

Á Fión eru 5 greifadæmi nl. 1 Vedelsborg, stiptat 1672 og er þat hit eldsta í Danaveldi, 2. Gyldensteinn, stiptat 1720. 3. Muckadel, stiptat 1784. 4. Brahesminde stiptat 1798 og 5. Røpstorff, stiptat 1810. Barónsdæmin eru: 1. Holkenborg, stiptat 1671. 2. Brahetrolleborg, stiptat 1672. 3. Schelenborg, stiptat 1681. 4. Holsteinhus, stiptat 1779 og 5. Lehn, stiptat 1787.

B. Lángaland (ford. Lafvind.)

Fyrir sudvestan Fión þat er 7 mílur á lengd og litit yfir mílu á breidd, þar sem þat er breidast og 5 ferh. mílur á stærd, med 11,200 innbúum. Eyland þetta er forkunnar fagurt og

kriófsamt, helst at sunnanverdu og hit nyrdra er skóglendi gott. Þar vex afarmikit korn og baunir. Þær mestu hædir þar eru Blokshiarg og Fakkebiarg, sem er hæsti á syðri enda eyunnar og er þar viti. Hérumbil á midri strönd heirri, er í vestur veit, stendur kaupstadrinn: Rudkaupángur (Rudkiöbing, fordum Lafvindskiöbing) med 1200 innbúum. Því nær helmingr eyarinnar heyrir því greifadæmi til, er kallast Lángaland, stiptat af Kristiáni kongi 4da 1672 og er þat einhvor hin mesta fasteign í Danmörku. A hæd nokkurri á austurströndinni stendur eitt gamalt, fyrrum med virkium umgirt slot, er Tranekier nefnist.

C. Thorslund, Þórslundr (Taasinge; Thorsinge, Thorsenge; Taaslandia.)

er ey litil fyrir sunnan Fión og fiórdúngr úr mílu á lengd og 1 míla á breidd med 3000 innbúum; hun er harla fögr, og friófsöm, vel yrkt og fiölmenn. Þar er Valdemars-slot er Kristián 4 lét giöra handa syni sínum Valdemari 1629. Ey þessi var fyrrum Odinseyar stóls eign, enn féll undir kóng þá sidaskiptinn vóru í lög leidd. Sídan kom hun í eign fyrrnefnds Valdemars kóngssonar, og at hönum lidnum, vard Korfitz Ulfeldr þar landsdrottin,

enn var dæmd konúngi, þá hann var sekr giørr fyrir landráð. 1678 keypti herskipaforíngin Niels Juul hana að Kristiáni 5ta og hefir hun síðan verit óðalseign niðja hans.

Hér má og géta þessara smáeya við Fión: 1. Dreiey fyrir vestan Thorslund. 2. Lýey nokkut vestar og norðar. 3. Bogey og 4. Fanøy í því litla Belti. 5. Sprogey í enu eystra Beltissunde, sem er fiórðunge úr milu ummáls, þar er eitt bóndabýli, hvors ábúandi er skattfrí. Þar hafa ásfundum á vetrum ferdamenn hæli, er fara yfir sundit í ísbátum. Þar mønnum hefir þótt eya þessi leið og allill til ábúðar fyrir sakir giædaleysis hennar og napra vinda, hafa Danir þat orðtæki: Gid du sad paa Sprogöe, þá þeir vilja einhværjum ills óska.

## III. Lágalands Stipti.

Liggja þar til Lágaland, Falstur og 25 smá eyar; þat er 1 Amt, sem er kénnt við Mariubú, 6 hérud edur syslur, 108 kyrkjusóknir.

### A. Lágaland eda Láland (Laaland; Lalandia.)

liggur fyrir austan Lángaland, og skilur Lángalandsbelti eyar þessar. Þat er 7 mílur á

lengd, hálf fiórda míla á breidd, og 21 ferh. mílur á stærd; Eyarlýdurinn er 40,000 at tolu. Láland er allra landa lægst og sléttast i Danmorku, enn afar frióssamt og vída skógi vaxit, enn hefir skort á gódu neytslu vatni. Plæging akra er þar ordug miog, med þvi at leirinn er seigr af jardarfeiti, hvoraf einnin flýtur at í votvidrum og á vetrum eru vegir þar littfærir. Þoka og svækja er þar ei sialdgiæf og loptslagit er útlendingum óheilnæmt, er þeim hætt vid at sýkjast þar af kolldu er kallast den laalandske Feber. Þær korntegúndir er vaxa þar best eru: hveiti og baunir og mannagrión.

Merkustu stadir eru:

1, Mariubú (Mariboe; Habitaculum Mariæ, Mariæboa) 21 mílu fyrir sunnan Kaupmannahøfn, vid fiskivatn nokkurt; er biskupsins og stiptamtmannsins adsetrs stadr; þar er haldit landsþing og kénnimannafundr. Þar eru 680 innbúar. Eina mílu vegar þadan er hledsluftadr og tollhús bæarmanna er Banhólmr heitir. Bærinn tekur nafn af St. Byrgiettu-klaustri er Eiríkur af Pommern lét giøra þar 1417. Í kyrkju klausturs þessa liggur Eleonora Kristín dóttir Kristiáns 4da. jordud, er gipt var Korfitz Ulfeldi.

2. Naskov edur Nakskov (Nakskógr; Nascovia) er höfudstadr í stiptinu (25 milur fyrir sunnan Kaupmannahöfn) vid Albogafiord, sem er ofgrunnur fyrir stór kaupskip, er þess vegna afferma i gódri höfn vid Albogames. I Naskov er skóli og audugt svital og 1700 innbúar. Fyrrum var stadr þessi umgirdtr, og var í styrjöldum milli Svía og Dana 1658—60 tvisvar med herskildi inntekinn af Svenskum, er sátu i seinna sinni um hann i 13 vikur, uns bœarmenn, þá þeir hvorki höfdu verjur edur matvœli, eptir dreingilega vörn, gásust upp.

3. Nýstadr (Nysted; Neostadium) at sunnanverdu á eynni; þar er hin besta höfn i Lágalandi og 700 innbúar.

4. Raudibýr (Rödbye) vid hafvik nokkura; þar er höfn, sigling, verslun, og 800 innbúar.

5. Saxkiöbing eda Saxakaupángur, (Saxcopia) á nordurströndinni vid fiord nokkurn er tekur nafn af býnum; þar eru 850 innbúar.

Greifadœmi i Lágalandi eru 3 nefnilega:
1. Knuthenborg; stiptat 1714.
2. Kristiánssœti, stiptat 1729.
3. Kristiánshólmr, stiptat 1734.

Enn fríherradæmin eru 4:

1. Vintersborg, stiptat 1673, er hit elsta barónsdæmi í Danmörku.
2. Jullinge, stiptat 1721.
3. Kristiánsdalr, stiptat 1743.
4. Guldborgland, stiptat 1754.

B. Falstur (Falster; Falstria.)

er eyland nokkurt fyrir austan Lángaland 6 mílur á lengd, og þar sem þat er breidast, $2\frac{1}{4}$ á breidd, $8\frac{1}{2}$ og ferhyrn: mílur á stærd; fólkit 16500 at telu.

Á eyu þessari, sem er harla fegr, og lystilig til ábúdar, eru landskostir gódir, vída skógar, jardvegr miog frióssamr og vel yrktur; þar vex mikil gnægd korns og bauna, samt mannagrión. Hit sydsta nes á eyunni kallast Giedseroddi, og er sióleidin þadan til Meklenborgar á Þydskalandi, yfir Eystra-Salt, 7 mílur.

Hinn merkasti býr þar er kaupstadurinn:

1. Nýkaupángr, (Nykiöbing; Neocopia Falstriæ v. Neapolis danica) nærstum 18 mílur í útsudur frá Kaupmannahöfn) stendur vid Gullborgarsund, og er á landssíduna umgirdt med varnarveggjum og díkjum. Þar er látínu-skóli, eitt spítal og 1100 innbúar,

hvørra biargrædis-vegir eru: akuryrkja, fiófferdir og verdslun med kornvørur og feitmeti. Frá Hesseley í nefndu sundi fær bæarlýdurinn miólk og kál. Utantil vid bý þenna, sem er miøg gamall, stód hinn nafnkéndi hofgardr, hvar Kristophórus 2ar deidi 1333 og hvar 3 konúnga-ekkjur hafa búit; 1767 var hann rifinn og nú siást þar at eins tóptir og aurmál.

2. Stubbekaupángr (Stubbekiöbing) vid Grœníngasund, er lítill kaupstadr med 480 innbúum. Hér má og géta þessara smá-eya: Baagøe fyrir nordan Falstur; Fægey og Fæmey fyrir nordan Lágaland.

Alt til ársins 1766 var Falstur talin ámedal konúngligra fasteigna, og um lángar hrídir Fridriks hins annars, Fridriks hins þridja og Kristiáns fimta drottníngum til uppheldis áqvardat stórbýli. A nefndu ári skiptu menn eyunni í 10 høfudgarda edur adalból og seldu hana á almennum uppbodsfundi.

Jótland (Reidgotaland, Iylland; Iutia, Iutlandia) er Rómveriar kølludu Chersonesus Cimbrica)

($55^{\circ}$—20′ til $27^{\circ}$—45′ n. b.) er allmikit land á þriá vegu umflotit nl. at nordan- og vestanverdu af nordursiónum, og at austanverdu af

Jótlandshafi og Medalfararsundi, enn hit sydra skilur Skotborgará þat og Slesvik.

Frá Ripum til Veidilskága er Jótland 38 mílur á lengd, enn breidd þess, þar sem þat er breidast 24, og hvar þat er mióst, 15 mílur; en 442 ferhyrnings mílur á stærd. Enn tala landslýdsins er hérumbil 410,000.

Vid austurströndina, er sörumenn kölludu Jótlands-Sidu, eru allvida grunnsævi og grynningar, sem farmönnum eru fárligar; má þarámedal telja:

1. Jótlandsrif hit stóra, er liggur lángt til hafs vestur undan Limafiardar botni.

2. Hit litla Jótlandsrif edur Rifshorn sunnar, framundan Varde.

3. Bulbergs, framundan Vendilsýslu vestur i haf og:

4. Skagarif edur Skagerak, er liggur 1 milu út í hafit í nordaustur frá Jótlands-skaga.

Margir firdir gánga úr austri inní Jótland, er létta landsbúum flutning og verslun; Í þeim mörgu smá-ám og vötnum er god veidi.

Hvad landslagit af Jótlandi snertir, er þat ei só flatt og slétt sem Sjáland edr Fión; þó eru hædir og ásar þar ei svo brattir, at eigi megi hvervetna yfir aka; allvidast er þar gódt

gróðr, ágiætir hagar fyrir qvikfénað, og korn-afli; þó er iorðin sumstaðar ei svo ræktuð sem vera bæri, er þat og á ýmsum støðum torveldt t. d. um miðbik landsins hvar hálendi og lýngi-vaxinn heiði (Alheden) gengur lángsetis í út og suður frá Ripum til Vebiarga; er þar ei vel fallit til akuryrkju, enn allgott hagqvisti fyrir sauðfé; sömuleiðis er vesturströndin all-víða úbyggilig fyrir sakir ægisands eður eyði-sanda, sem eru á sífeldu ýði og reiki þá gola er. Á austurströndinni eru kornlönd best og skógar flestir.

Iarðargóði og arðsamasti kaupeyrir lands-manna er: allskonar kornvörur, hestar og uxar og eru hvörutveggju í afhaldi miklu sakir stærð-ar og vænleiks, margskonar fiskisaung, kalk, skinnvetlingar, leirkér; (Iydepotter) og (á vest-urströndinni) rafár.

Nyrðra-Iótland er greint í 4 stipti, 9 ömt 89 hérud eður sýslur og 934 sóknir.

## IV Alaborgar Stipti.

Liggur norðast á Iótlandi og er mestr hluti; þess fyrir norðan Limafiorð, þar er fyrrum var Vendil- eður Hiaranda-sýsla; þat er 147 f.m. á stærð og hefir 121,000 innbúa. Stip-tinu er skipt í 3 ömt (er taka nöfn af Alaborg,

Hiørring og Thyſtad) og þeim í 24 ſyslur og 338 kyrkjuſóknir. Alaborgar-Stipt liggur vel vid hyndlun og útfærſlu, med því haf og firdir takmarka þat á 3 vegu. Í því eru þeſſir kaupſtadir.

1. Alaborg (Aalborg; Alburgum) hin meſti og merkaſti kaupſtadr þar; ſtendur hann at ſunnanverdu vid Limafiørd (30 mílur frá Kaupmannahøfn) 4 mílur frá fiardarmynninu, hann er hálf míla ummáls og ſkiptiſt í 4 parta edr býſkil, þar eru 2 kyrkjur, látinuſkóli, þar er og heimili Biſkupsſins og í hofgardi, er Kriſtián kouungr 3 lét giøra og kallaſt Alaborgarhús, býr ſtiptamtmadurinn; bæjarmanna, ſem eru 6000 ad tølu, ardſamaſti útvegir er állmikill kaupſtapr med korn, ſíld og ſeitmeti. Gagnvart Alaborg fyrir handan fiørdin er þorp nokkurt allmikit er Sundbýr heitir, hvørs innbúar, ſem eru 700 at tølu, ei eru annara kaupſtadarmanna eptirbátar, hvad handverk, verſlun og audlegd áhrærir. Vid nordanverdt Limafiardarmynni er þorp gamalt er Háls kallaſt, þar er varnarvirki og 600 innbúar. At Hálſi børduſt þeir Gull-Haraldr og Haraldr Gráfeldr og féll hinn ſídſtnefndi þar. Nordar vid Jótlandshaf ſtendur:

2. Sæbýr, (Sæbye; Sæboium; fyrr.

Mariustadr) lítit kauptún, 6 mílur fyrir nordan Alaborg, þar eru 400 innbúar. A sömu strönd 2 mílum nordar er býrinn:

3. Fridrikshöfn er fyrrum kalladist Flatströnd (Fladstrand), þar er góð höfn umgirdt med 3 skönsum, konúngligt tollhús og 500 innbúar. Padan er skamt til míds nockurs, hvar menn fánga osturs skéljar, er mörgum þykir fágiæti; frá þessum bý til Norvegs er 12 mílur skémstu leid og frammundan hönum liggia 3 smáeyar, er kallast Hirschhólmar og eru þeir allir ein kyrkiusókn.

4. Skaginn (Skagen) er 3 mílur fyrir nordan kaupstad þann, er sídst var gétit og nordast á Jótlands, edr Vendilskaga; þat er lítill kaupstadr í miög hrióstugu og giædalitlu landsplátsi, hvar ægisandr hamlar hvervetna rækt og gródri. J býnum eru 830 inbúar, er mest lifa á siófaungum og nockurri verslun; ei er þeim heldur alllitill snúdr edr ardr í ósörum farmanna, er brióta optsinnis skip sín á rifi því, er gengr framm af Vendilskaga í nordaustur, og er svo skipskiædt, af Danir hafa at bodi Fridriks konúngs 5ta 1747 byggt þar turn, sem er 64 fóta á hæd, og er á hönum siqveldis einni stundu eptir sólsetr qveiktr og öllum nótt-

um kyndtr vita/eldr til varúdar fyrir þá, er leggia fyrir skagan á næturtíma.

5. Hiørring, (fyrr. Jórúng, Hiöringum), upp í landinu, í vestur frá Fridrikshøfn, 7 milur fyrir nordan Alaborg; þad er gamall býr med 470 innbúum; Jórúng var fyrrum biskupsstóll í Vendilsyslu.

6. Thýstadr (Thisted) lítill kaupstadr, í sudvestur frá sídstnefndum bý, vid vik nokkura frá Limafirdi og í vestr hluta biskupsdæmis þessa, er kallast Thýland, en í forntíd Þióda; í býnum er ein kyrkia, spítali og 1000 innbúar. Kaupeyrir Thýlendínga er: vænir hestar og stórir, nidurlagsgódir uxar, þrifligar kýr; oftar þeirra eru í afhaldi erlendis.

7. Nýkiøbing edr Nýkaupángr stendur á eystri strønd Mársøyar, vid kalk klett, bádum megin vid litla á; þar er 1 kyrkia, 1 rádhús og 650 innbyggiarar, er lifa á fiskiabla, nokkurri verslun og akuryrkiu.

Mors edr Mársey er allra eya stærst í Limafirdi (nl. $6\frac{1}{2}$ ferh. míla med 5900 innbúum) þar sættust þeir Otti keysari og Haraldr Gormsson, Danakóngr, er lét þar skírast med allan Dana her.

8. Ribe er litit kauptún, hálfa þridiu milu fyrir vestan Alaborg, vid fiørd nokkurn, er

gengur í sudur frá Limafirdi; lýdrinn þar er 1000 at tølu.

9. Løgstør er vestar vid sama fiørd, 6 mílur í vestur frá Alaborg; þat er hledslustadr; því torveld er leidin þar fyrir hladinn kaupfør fyrir sakir grynnínga í firdinum og ollir þat kaupmønnum mikillar fyrirhafnar og hindrunar í tilsiglíngunni. Í nánd vid Løgstør eru kritarnámur. Auk Mársøyar má hér géta eýa tveggia í Limafirdi, heita þær Eyland (Öland) og Fúrland, í þeim hafa menn fundit margskonar grafhluti (Fossilier) edr ýmisligt fólgit fé í jørdu.

Undir Alaborgar stipti liggur ey sú í Jótlands hafi, er Hléség (Lessöe) heitir, 3 mílur í landsudr frá Sæbý, hún er 2 f. m. á stærd, bústadr hérum 1600 manns og miøg giædalítil, þar mikill hluti hennar er ægisandr einn og lyngivarinn hóll, enn hinn hlutinn illa ræktadr. Umhverfis eyuna eru grynníngar og sandrif og tínast þar skip allopt. Vid hana er humraveidi. At verdsligum málefnum liggur Hlésey undir Hiørrings amt, enn hvad kénnivald, snertir; hefir biskupinn í Vebiørgum þar málum at gégna.

I þessu stipti er greifadæmit Lindenberg, stiptat 1781 í landsudur frá Alaborg, og nokkut sunnar barúnsdæmit Villestrup, stiptat 1757.

## V. Vebiarga Stipti

er midiu Jótlandi, nær þat hvergi til siórar, utann hit nyrdra til Limafiardar. Stærd þess er 32 f. m. og tala innbúanna hérumbil 45 500. Þat er eitt amt, er skiptist í 11 syslur og 147 kyrkiusóknir. Þar er þessa biskupsdæmis og heila Jótlands høfudstadr, er:

1. Vebiørg (Viborg) heitir, vid fiskivatn er kallast Asmildssiór, 10 milur frá Alaborg (29 milur frá Kaupmannahøfn) og er hann einhvør hinn eldsti býr í Danaveldi og plagudu Danir þar fyrrum at hylla kónga sina; hann er nú þvínær hálf mila ummáls, enn ei svo fiølmennr sem hann er stór til, því ei eru þar fleiri enn 2400 innbúar. I stadnum erú 3 kyrkiur, medal hvørra er dómkyrkian, er bygd var á 11 øld, látinuskóli, spítal, tugthús med klædaverkstad, adsetr biskups og stiptamtmanns og yfirréttar þingstadr giørvalls Jótlands; fiølmenn kaupstepna er þar ogsvo á ári hvøriu, er byriar þann 4da Juni og varir hálfan mánud, kémur þá saman múgur og margmenni í ýmsum eyrindum; þó mest þeir

er giald skulu greida og skuldir lúka. Sam-komu þessa kalla Jótar Snapsting *). I Ve-biørgum predikadi lærisadirinn Tausen fyrstr í Danaveldi Luthers lærdóm 1528.

I nordvestur þadan stendur litill kaup-stadur, er heitir:

2. Skive vid ós Skiv-ár er rennur í Limafiørd, þar eru 550 innbúar.

Allskamt frá Vebiørgum liggur bænda-þorpit Finderup, hvar Eyrikr Glippíngr var af døgum rádin 1286.

Vestar er landsbýrinn Daugbierg vid kalkbríngi nokkra, hvar landsmenn grafa upp kalk mikit og gott, og eru gryfiurnar 10 álna diúpar og vinna bændur siálfir at brennslunni og brúka lýng til eldsneytis. I grend vid þorp þetta er hin nafnkénda hæd edur ás, er Jótar kalla Daugbierg Daas, yfir hverium er ávallt bláleitr þoku-møkkr, er sést 4 milur á brott.

Nordar er bændaþorpit Mønsted, þar eru og kalknámur. 2 mílur fyrir sunnan Ve-biørg byriar Alheidin (Gradaheidi) at nordan-verdu; Fridrik kóngur 5ti fékk þýdska nýlend-umenn til at giøra raun til at koma rækt í

*) Menn meina at ordit komi af S. N. Aps Ting, edur skammstafat: St. Nicolai Apostoli Þíng.

jarðveginn og giøra hana bygsiliga, enn þeir dvøldu þar ſkamma hríð og ſnéru til átthaga ſinna, þó varð ſvo mikit unnit og atgiørdt, at nú eru þar 12 ſmá- nýlendur og ein kyrkia er kallaſt Fridriksfyrkia.

## VI. Aróſs Stipti

á eyſtri ſtrønd Jótlands, er ſyrrum kalladiſt Apa-Syſla. Þat er 117 f. m. á ſtærd og heſir 132,000 innbúa. Í ſtiptinu eru 253 kyrkiuſóknir og 2 ømt, ſem taka nøfn af Aróſs og Randers, og ſkiptaſt í 22 ſýſlur. Þeſſir eru ſtadir í nefndu biſkupsdæmi og høfudſtadrin:

1. Aróſ (Aarhuus; Arhusia, Arus) (20 mílur frá Kaupmannahøfn) er ſtendur á lágu ſlatlendi millum Jótlandshafs og ſtødu-vatns þeſs, er Brabantsſiór heitir, úr hvørium rennur á, er ſkiptir býnum í tvo hluti; þar er heimili biſkups og ſtiptamtmanns og 4100 inn-búa, 2 kyrkiur, látínuſkóli, lyſtiſpilahús, ýmſir klæda og handidna verkſtadir og feriuſtadr fyrir þá, er fara vilia til Kallundborgar á Siálandi. 5 mílum nordar ſtendur kaupſtadrinn:

2. Randers edr Raándrós allſkamt frá Gudenáróſi í friófſømu héradi; þar er lá-tínuſkóli, klædaverkſtadr og adſetr 4600 inn-búa, hvørra kaupeyrir eru handſkar og leirkér.

Fyrrum faungudu menn sæum lax bædi í ánni og Randersfirdi; enn nú er sú veidi minni enn ádur.

Merk: Á fyrri dögum var býr þessi miklum mun meiri enn nú og þá umgirtr med víggördum og virkium og siást enn þá meniar þeirra; þar var og hofgardr sá, er Drottningarborg hét, hvar Niels Ebbesen 1340 þann 1sta Aprilis vann Gert greifa af Holsetulandi bana, er med herskildi fór um Jótland og því nær hafdi brotit undir sig Danmerkur ríki.

Imillum þessara kaupstada, gengur skagi nokkr allbreidr í austur út í Jótlands haf, þar eru tveir kaupstadir, heitir annar:

3. Grená (Grenaae), litit kauptún, 6 mílur í nordaustur frá Árósi, vid á nokkura er hefir sama nafn, þar er litil höfn og 800 innbúar; og annar:

4. Ebeltóftir (Ebeltoft) 3 og hálfa mílu fyrir nordaustan Árós, í héradi því, er Molshérad heitir og á granda nokkrum vid vík þá, er tekur nafn af kauptúni þessu, er hefir 600 innbúa. Fyrir vestan téda vík er nes þat eda höfdi er Helganes kallast; enn fyrir austan víkina er Molsnes. Í landsudur frá nesi þessu og skamt undan landi liggur ey nokkur lítil í Jótlandshafi, er fyrrum kalladist Hiálm edr

Hiálmey, nú Hielm, þar finnast vegsummerki kastala þess, er Marsk Stigur lét giora 1290 til varnar sér og vigis, þá hann dvaldi þar, eptir dráp Eyriks konúngs Glippíngs.

Fyrir nordan Randárós standa tveir kaupstadir vid fiord nokkurn lángan, er gengur inn frá Jótlandshafi, er ýmist kallast Mariuakurs, edur Hábrúar-fiordr.

5. Mariuakr (Mariager) fyrir sunnan fiordin; þessi stadr hefir tekit nafn af klaustri, er helgat var Mariu og fyrrum var þar, hvors kyrkia enn er sóknarkyrkia bæjarins; þar eru 420 innbúar.

6. Hábrú (Hobroe) vestar, vid fiardar botninn; þat er og litill kaupstadr med 500 innbúum.

7. Skanderborg stendur 3 milur fyrir unnan Arós, í fögru skóglandi, vid vatn nokkurt er tekur nafn af stadnum. Þar var fyrrum hofgardr, hvar Kristián kóngr 4di var um hríd í úngdœmi sínu til at nema farmannsfrædi og skipastiórn; nú er slot þetta brotit i grunn og stendur alleina kyrkia þess uppi eptir. Þar er 500 innbúar.

8. Hrossanes (Horsens) 2 og hálfa milu fyrir sunnan nefndan stad, vid fiord nokkurn, sem er 2 milur á lengd og tekur nafn af

kaupstad þessum; þar eru 2 kyrkiur, látinuskóli, spitali og 2400 innbúa, er tilreida toluvert tóbak. Þar var fyrrum útlegdarstadr rússiskra kónga-sona og dætra.

Vid hafnarmynnit stód fyrrum viggirdtr kastali, er Stiernhólmr eda Stiørnuholmr hét. Utarliga í firdinum liggur Hiarney og á henni Hiarnahæd, er fornfrædaidkendum þykir einkar merk. Í Rimtófta sókn hafa menn og fundit allmarga forngripi.

Vid Randersfiørd nordanverdan er herrabólit Støvringardr; þar var 1745 nunnuklaustr stiptat handa 12 adalbornum meyum og 1 forsprakka (Priorinde). Clausholmr er hit besta stórbýli á Jótlandi; þar sat meginekkian Anna Sophia frá 1731 til 1743.

Í Arósa stipti eru 2 greifadæmi nl. 1. Frisenborg, stiptat 1672, ímillum Randers og Arósa; þat er hin mesta jardeign í øllu Danaveldi. 2. Scheel, stiptat 1725. Þar eru eins mørg barúnsdæmi: 1. Vilhialmsborg, stiptat 1673. 2. Marselisborg, stiptat 1680.

Undir Arósa biskupsstól liggur ey nokkur í Jótlandhafi, er Anholt heitir, 7 mílur í nordaustur frá Grená; en at verslígri skipan heyrir hún til Randers amti. Hún er hálfønnur míla á lengd og 1 á breidd; umhverfis hana er skériótt møg og grynningar miklar og í nordaustur géngr rif 1 mílu úti hafit, er því

kynditt vita-eldr þar sem á Bendilskaga á 56 álna háum turni er Kristián 4di lét giöra. Ey þessi er miøg giædalitil og hriósług, lika því innbúar hennar, sem eru 150 at tølu, mest á fiskiabla og selaveidum, samt af hagnadi þeim, er þeir hafa af skipsfløkum og farmanna farar-efnum er reka á land; því margir brióta þar skip sín. Eyamenn hafa verit illa ræmdir fyrir hardydgi sína vid hrakit siófólk; þeir eru og litt mentadir og mørgum kunnir af rýmum þeim er Holberg, þiódskáld Dana orkti um Petur Paars.

## VII. Ripa Stipti

er hit vídlendasta stipti á Jótlandi; med því partil liggur alt vesturlandit nordur til Limafiardar og allur sydri hluta þess millum sióa at austan- og vestan-verdu; þat er 50 f. m. á stærd og hefir 111,600 innbúa; þat greinist í 3 ømt, er taka nøfn af þessum kaupstødum: Ripum, Hríngkaupángri og Beile; í þeim eru 23 sýslur, 248 sóknir, 58 stórbýli, og 1 greifadæmi. Ei er þetta biskupsdæmi svo friófsamt og fiølbygt sem þau, er fyrr eru talinn; þó eru þar á ýmsum stødum sádlønd og fagurt skóglendi. Þar eru þessir stadir:

1. Ripar (á Ripum; Ribe, Ripæ cimbricæ) er høfudstadr í stiptinu, (40 mílur frá

Kaupmannahøfn) við Ripá (Ribs- edr Ribaae) á takmörkum Slesvíkur og Jótlands; þat er hinn elzti býr í Danaveldi og nafnkéndr biskupsstóll á fyrri døgum og mikill kaupstadr, þá árósin var svo diúpr, at kaupskip gátu lagt upp til bæjarins; en sídan ósin vard ofgrunnur fyri kaupfør og kaupskapr þaraf minkadi, hefir stad þessum æ hnignandi farit. Þar er heimili biskups og stiptamtmanns og 2000 innbúa; þar er 1 kyrkia, auk dómkyrkiunnar, sem gengur næst stólskyrkiunni í Arósi at vegligleik og fegurd, einhver hinn elzti látínuskóli í Danmørku, stiptadr 1298, og spítali.

Í Rípum var árit 860 bygd sú ønnur kyrkia í Danaveldi. Þar lét Fridrikr 1ti mynta peninga bædi af gulli og silfri.

2. Colding er litill kaupstadr nokkut nordar enn gagnvart Rípum og 8 mílur þadan á austur-strønd Jótlands vid á er rennur í Coldingfiord; þar er látínuskóli, tollstadr, audugt spítal og 1700 innbúa. Fyrir utan stadinn stód fyrr. háreystr hofgardr, er Koldinghús hét (fyrr. Öxnebierg) er Abel Hertugi lét giora á midri 13 øld; Kristián 4di lét giora þar turn háan, er kalladist Kemputurn og hafa ýmsir danskir konúngar setit þar um hríd. 1808 brendu spanskir slot þetta, svo ei stendur annat uppi, enn tóftirnar.

3. Fridericia (fyrr. Fridriksoddi) er allmikill og víggirdtr kaupstadr, nordar á sømu strønd vid Medalfararsund; hann lét Fridrikr 3 byggia 1650. Þar er látínuskóli, 4 klædavefnadar-verkstadir og 1 stór tóbaks tilreidslu stadr og 3500 inbúa. Til at auka tølu bæjarmanna gaf Kristián 5ti (1682) stad þessum þann einkarétt, at allir, hvorrar trúar sem væru, mættu at ósekiu rækja þar trú sína; hafa því Reformeradir þar 1 kyrkiu og katholskir adra, en gydingar samkundu hús; nefndr kóngr gaf einnin stadnum jus asyli edur mannhelgisrétt hvar inn- og útlendir stór glæpamenn og fridlausir skuldaþrjótar skyldu ørugt hæli finna og athvarf. Nýliga er þat úr løgum leidt. Øll þau skip, er fara um sundit, lúka þar toll, er straumtollr er nefndur og þadan gánga dagliga feriur yfir til Strib á Fióni.

4. Veile (Vejella, Vedelia) er kaupstadr nordar á sømu strønd í føgru dalverpi vid á nokkura, í hvørri er laxveidi og sem rennur í Veilefiørd. Þar eru 2 klædavefnadar-verkstadir og 1300 innbúa. Árit 1256 var þar fiølmennr þiódfundr, á hvorium biskupar og ædstu kennimenn tóku saman nafnkéudan álýktunardóm *).

*) Er svoleidis byriar: Cum ecclesia danica adeo persecutioni tyrannorum subjecta etc.

Í nánd við Veile liggur þorpit Jellinge (fyrr. Jalángr) er í fernttíð var kóngsgarðr og aðsetr konúnganna Vermunds og Gorms hins gamla; þar eru og þær nafnkéndu Jellingehædir hvar Gormr og Þuríðr Danabót liggia heygð, er rúnirnar á bautasteinum þeirra, er nú standa í kyrkiugarði, skýlausliga votta.

Vestur frá Veile liggur Randbølsheiði, þar eru bæjirnir: Fridriksvon (Fridrikshaab) og Fridriksnáð (Fridriksnaade).

5. Varde (Varinia) er lítill kaupstaðr á vesturströnd Jótlands, 5 mílur í norður frá Ripum, skamt frá fiarðarbotni nokkrum og við á, er rennur í fiørðin þar sem kallast Gráðiúp (Graadyb) hvar fyrrum var einhver hin besta høfn á Jótlandi, en nú er árøsin ofgrunnr fyrir kaupfør og tálmar þat miøg høndlan og tilflutníngi og fyrir því fer stað þessum heldur hnignandi; í hønum er 1000 manna. Í því bygðarlagi giøra menn þá nafnkéndu Jótapotta (Jydepotter) er víða flytiast.

2 mílum sunnar við sama fiørð er þorp þat eðr úthøfn, er Hierting eða Hietting heitir; þat er hleðslu- og tollstaðr varðemanna og búftaðr 200 innbýggiara.

5. Ringkaupángr edr Hringskaupángr (Ringkiöbing fyrrum Ragnarstadr) er lítill kaupstadr nordar á vesturströndinni, vid fiord, sem kéndr er vid stadinn, 13 milur frá Ripum; þar eru 780 innbúar, er fremur abla sér fiár og addrátta erlendis, t. d. í Hollandi, enn innanríkis. Framm undan býnum liggur ey sú í firdinum, er Hólmland heitir og er hun allstór.

6. Holstebrú, nordar 22 milur frá Ripum, vid á, er rennur í Risumsfiord; þar eru 850 inbúar.

7. Lemvik edr Limvik (Lemvig, Lemovicum) nordast í stiptinu, vid vik af Limafirdi, hvar fyrr. kalladist Siáfarandi; þat er litit kauptún med 550 inbúuni.

Auk þessara kaupstada má hér geta: 1. Estvadgards fyrir sunnan Skive, sem er stórbýli og klaustr (stipt. 1749) til handa gøfugum ekkium og adalbornum meyum; og 2. Schakkenborgar, sem er hit einasta greifadæmi í þessu biskupsdæmi, stipt. 1676; en mestr hluti fasteigna þess liggur i Slesvik.

Keisari Otti hinn 1sti stiptadi Ripa biskupsdæmi nærhæsis á midri 10 old, eptir at hann hafdi sigrat Harald Blátønn og kristnat hann

á Mors; þat er þvi hit elðsta slipti í ölln Danmérkur-riki.

Í fornum sögum og nýum hafa Jótar hlotit orðstýr fyrir hreysti og hugrekki; menn hafa hnýtt at þeim heimoldu fyrir búraskap og sákiænsku, en nú eru minni rök til þess. Þeir eru biargrædismenn miklir, starfsamir og góðir búhöldar. Ei tala þeir danska túngu svo vel eðr snoturt sem aðrir danskir; þar eldir og mest eptir af norrænu og fornum háttum í Danmörku.

## VIII. Hertugadæmit Slesvík eðr Suður-Jótland.

Slesvík fyrr. Sliavík (ducatus slesvicensis) 54°20′—55°20′ n. br. og Jótland skilur Skotborgar- og Kolding-á, sem fyrr segir; hun liggur millum Eystra Salts og Norðursióar og fyrir norðan Holsetuland. Slesvík er 162 f. m. á stærð og tala innbúanna er 278,350 (1817 á hverri ferh. mílu). Landit er 18 mílur á lengð og 14 á breidd, þar sem lengst er millum sióa.

Hvað áhrærir jarðveg og landslag, er Slesvík Jótlandi harla lík; austanframm er hálendi og hæðir; landit er þar mjög vagskorit og víða

skógivaxit og vel fallit til akuryrkiu, bar er og hreint og heilnæmt loptslag, Þann hluta lands fins kalla menn Geesten. Eftir midiu laudinu gengur lyngivaxin heidi í út og sudur, hvar smávidi elnast á ýmsum stødum; þar eru og gódir saudsiárhagar, mikill mósturdr og bíflugnaabli. Fyrir vestan heidi þessa er hædalaust lag- og mýrlendi, er Danir kalla Marsklaud edr Marsken (o: feitiland); þar eru svo ágiætir hagar fyrir búsmala og svo grøsugt, at varla vita menn dæmi til; en hvørki er þar skógr eda gott neytsluvatn. Þokulopt og suddavedr olla landsmønnum óhollustu og sinkleiks (Marskfeber) og ávalt mega þeir lifa í ótta fyrir geigvænligum ágáugi siáfar, er optsinnis, sérílagi á fyrri døgum, hefir giørt afar mikinn usla og eydilegging á jørdum þeirra.

Athugasemd. Þat er meining manna, at í forntíd hafi þar verit grunnsæfi eitt, er nú er land, og hafi siáfarbotni skotit upp, því meir sem hafrót og brim bar sand og ledin (Schlick) at landi, og hafi vatnit siatnat, og landit smámsaman ordit þurt. En til at reisa skordur vid siáarflædum og þaraf komanda tióni á eignum og mønnum, hafa Marsklendingar giørt stórkostliga varnveggi eda fráhaldsgarda af grióti og torfi, er kallast Diger, er fyrrum vóru 8 til 10 sóta, en nú

eru 19 fóta á hæd og eru þeir svo giörsir, at á þá siduna, er at landi horsir, eru þeir litt edr ekkert addregnir; en þeim megin, er til siòar veit, er halli allángt nidr til jafnsléttunnar, at bodar og brimgardar þvi heldr missi ablit, þá á skélla. Svo breidir eru þeir, at vel mega tveir vagnar aka samsida og á ymsum stødum er á þeim smávidur grødursettr. Þá hafit fyllir vilpur (Watten) og vatsdældir med aur, þá umgirda lands menn þann reit og kalla Kog; en med þvi at sífeldt eykst vid landit, sem ádur er sagt, fyrir utan girdingar þessar, þéttist þessi aur svo at lyktum, at þat verdur jardvegr og gródurvex; þat kalla menn Forland. En med þvi, at mikils þarf til at kosta med þessi nýlønd þá er landsmønnum veittr einkarettr og eptirgiøf i landskuldum þeirra; kallast þau þvi octrojeret Kog. Þat segir í fornum ritum, at Marskland hafi sumstadar verit nærhæfis 8 milur á breidd; en nú á døgum er þat ei yfir hálfa adra milu. Innbúar þess eru audugir at fé og starssamir og auka sidægris landareign sina á sagdan hátt. Þar lifa 4000 á ferh. milu hverri:

Slesvikur Hertugadæmi skipta menn:

I. i 10 konúnglig amtmannsdæmi, er taka nøfn af þessum stødum: Hadersleb, Apenrade, Tondern, Flensborg, Bred-

stad Husum, Gottorpi, Hutten, Femern, Nordborg og Sudurborg.

II. Þær landeignir, er tilheyra enum augustenborgisku Hertugum, bædi á Alsey og Sundevit.

III. Greifadæmit Reventlau • Sandberg á Sundevit, stiptat 1681.

Merkustu stadi í Slesvik má telia:

1. Kristiánsfeld, 2 mílur fyrir sunnan Colding; þat er fagurt þorp, í hverju eru 2 jafnsídis liggiandi stræti, med fögrum og þrádbeinum linditriáa-rødum bádum megin í hverju þeirra; í midiunni stendr snotr kyrkia á torgi nokkru. Árit 1771 keyptu þeir svokölludu mæhrisku brædur edr Hernhúttar at Danakonúngi gard nokkurn, er Thystrup hét og at fengnu einkaleyfi hófu þeir at leggia þar grundvöll stadar þessa 1773 og hafa þeir þar sídan búit at friálsu og fylgt sínum eigin kyrkiusidum og háttum. Þeir eru hagir vel og eliumenn miklir; þeir hafa allir eitt ættarbragd. Vörusmídi þeirra, klædi og annat, er þeir tilreida, er hvervetna í afhaldi. Þar eru 800 innbúa.

Athugagrein. Hernhúttar eru sidprúdir, gudhræddir í hegdan, kyrkiuræknir og miklir trúmenn; ei þora þeir at nióta lífsins gledi og gamans, af ótta fyrir at styggia Gud; upp-

fóstran ángdómsins hiá þeim er almenn; sveinarnir alast upp útaf fyrir sig í húsi nokkru, er kallast Bræðrahús, og meyarnar á líkan hátt í þeim áqværðudu heimkynni er Systrahús nefnist; svo ei mega þau samvistum ná, fyrri enn giafvaxta eru orðin og giftingafær, at ei skuli holdlig sýsn og ástarþokki ossnemma tengia hiörtu únglínganna; kiósa þeir þá ei konur siálsir, heldr úrskurðar einber skinsemi safnaðarins bæði giftingatíðina og qvennkostin, og at því skipuliga giörðu, púsar prestur at vörmu spori karl og konu saman, þótt aldrei hafi þau fyrri hvört annat augum litit. Með því þessi kynslóð er siðavönd, og vel at sér um marga hluti, koma allmargir þángat börnum sínum í fóstur og til mentunar, at þau fráskilin heimsins giálisi og hégóma-dýrð nemi þess heldur handyrðir og gott siðferði.

2. Hadersleben edr Haderslev (Hatterslebia) 2 milum sunnar við vík frá Eystra Salti norðanverða, er tekur nafn af kaupstað þessum, er skiptist í tvo hluti, nl. forna og nýa Hadersleb; þar eru 3 kyrkiur, látinuskóli, höfn fyrir smáskip og heimili 3200 manna. Þar eru kóngarnir, Fridrikr 2ar og 3die, fæddir.

3. Apenrade (Aabenraae) er kaupstaðr á sömu strönd i dalverpi við allmikinn fiörð, er tekur nafn af stað þessum; þar búa 2900 inn-

byggiara, er flestum fremur í þessu landi eru biargrædis- og megandi menn.

(Í nánd vid Apenrade stendur gamalt slot, er Magrét Drottning lét géra 1411, er Brøndlunds, (Brunnlunds) slot heitir).

Imillum Apenrade og Flensborgar liggur landsbygd sú, er Sundevit kallast.

Til Apenrade amts liggur einnin Lygum klaustr ásamt fasteignum þess. Þat er allmikit þorp vid á er rennur í vesturhaft. Þar eru kniplinga-verkstadir og merkar kaupstefnur.

4. Flensborg (Flensburgum) vid fiörd alldiúpan; þat er hinn fiölmennasti, audugasti og mesti kaupstadr í Slesvík; þar eru 4 kyrkiur, látínuskóli, spitali fyrir fødurlaus børn og gamalmenni, siúklingahús, gamalt bókasafn af mørgum fágiætum ritum, lystispilahús, margskonar verkstadir og málmasmidiur og heimili 15000 innbúa. Flensborgarar hafast miøg vid í kaupferdum og versla bædi útá Íslandi, Grænlandi, vestur í heimi og á Midjardarhafsstrøndum.

Árit 1412 deidi hin nafnfræga meginekkia og Danaveldis-drottníng Margrét á skipi, er lá þár á høfninni og 1646 fæddist Kristián 5ti í Flensborg.

Skamt þadan í austur liggur þorpit Glucksborg (Lukkuborg); þar er slot, er eins

heitir; sátu þar fyrrum hertugar, er kéndir vóru við slotit, uns þat varð konúngseign 1778.

Fyrir sunnan Flensborg er landspláts þat eða sveit, er Angeln kallast; þat er harla frióssamt, fiølbyggt og vel yrkt. Innbúar þess eru afsprengi þióðar þeirrar, er í forntíð vóru Anglar kalladir og bygðu eystri hlut Slesvíkur; þeir ásamt Søxum giørdu herfør til Bretlands hins mikla, brutu þar lønd undir sig og numu þar stadar; þadan eru Enskir edur Englismenn komnir.

5. Slesvík (Slesvig; Slesvicum, fyrri Heidabær edr Hadabýr) stendur sunnar (30 mílur frá Kaupmannahøfn), fyrir botninum á vog nokkrum afar laungum og miðum, er gengur inn í bugdu frá Eystra Salti og kallast Slien (fyrr. Sles) og mynni hans, Slesmynni. Þat er høfudstadrinn í hertugadæminu og adseturstadr Generalsúperintendentsins. Stadnum er skipt í 3 parta (er heita gamli stadr, Lollfuß og Fridriksberg) og er hann þvínær hálf míla á lengd; þar eru 1200 hús og gardar, 4 kyrkiur medal hverra St. Peturs dómkyrkia er hin vegligasta, 2 látinuskólar, spítali fyrir fødurlaus børn, nunnuklaustur fyrir adalbornar meyar, siúklingahús (Mariu hospitalit), almargir verkstadir og heimili 7000 innbúa.

Slesfiørdr er á feinni tídum giørdr dypri svo nú mega skip leggia upp til stadarins. J vog þesoum er lítil ey, er Mevenberg (Maagöe; Máfaey) heitir; þar er geisimikil mergd máfa og kría á sumrum, er nióta fridar um hríd, en verda veidimønnum at brád um midsumars leyti.

J Sles-vog søktu menn líki Eyriks kóngs Plógpenings, eptir at Abel bródir hans hafdi hann af døgum rádit.

Skamt frá Slesvík stendur háreistr hofgardr er Gottorp (Godþorp edr Gautaþorp) heitir; hann er bygdr á 12 øld og var þar adsetr Slesvíkur hertuga alt til 1713, þá Fridrikr 4 lagdi Slesvík til ríkisins; þar var allmikil bókahirdsla er flutt var til Kaupmannahafnar 1749 og hinn nafnkéndi gottorpski hnøttr (Globus). Nú situr jarlinn þar, er settr er yfir bædi hertugadæmin; þar er og yfirrettr haldin fyrir Slesvík og almennr kénnimannafundr (General Consistorium).

Kappel er þorp vid Sles nordanverdt, þar er mikil sildfiski.

6. Ekkernførde, á eidi, vid fiørd nokkurn, er sunnar gengur inn frá Eystra Salti; þat er kaupstadr med 2600 innbúum, er idka miøg verslun og kaupferdir; þar er látínuskóli, spítali edur umønnunarhús fyri 400 hruma og

vansæra og ágiæt høfn fyri herskip og kaupsør. Á skaganum millum Sles og Eystra Salts, er landsbygd su er kallast Schwansen (halinn) þar eru ei færri enn 20 adalligar fasteignir og stórbýli. Sunnar og austar stendur:

7. Fridriksort, litit varnarvirki og hit einasta í Slesvík, at nordanverdu vid Kils-fiardar mynni hérumbil 1 mílu frá Kil, í sveit þeirri er Danischwald (danski skógr) heitir og liggur imillum nefnds fiardar og Ekkern-fördu vogs.

Virki þetta lét Kristián 4di giøra og kall-adi þat Kristiánspris; þat var brotit nidur 1648 og bygt upp aptur af Fridriki 3 1663, og kalladist upp frá þvi eptir konúngunum ýmist Kristiánspris edr Fridriksort til daga Fridriks hins 5ta; hefir þat haldit sidan þvi sídstteda nafni óbreyttu.

Í Grend vid Fridriksort er hin adalliga jardeign Bulk á Bulkanesi. Austur undan nesi þessu børdust Sviar og Danir á skipum þann 25ta April 1715 og høfdu Danir sigr.

Í vestur frá stadnum Slesvík er:

8. Fridriksstadr 5½ mílu frá Sles-vík vid ármótin, hvar Eydarfliót og Trene (fyrr. Mildiná) renna saman í landsbygd þeirri, er Skapelhólmur heitir; býrinn er nýligastur allra stada í Slesvík og ødrum skipuligar byggdr

af hollendskum landflóttamönnum 1661, og nú búsadr 2500 manna. Þar nióta allskonar trúmenn örrugs trúarbragda frelsis.

Í vestur frá Fridriksstad gengur skagi allmikill fyrir nordan Eydarfliót í vestur er nú kallast Eiderstedt; þar var fyrrum borg sú, er Mildin- eda Mildisborg hét, er giörr var á 12 öld midri, en hrundi fyrir siáfargángi 1300. Þar ígrend vid vog bondi nokkr Abel kóng, þá hann flúdi fyrir Frísum, er hann hafdi hád orrustu vid og borit lægri hluta.

A tédum Skaga stendur kaupstadr sá, er:

9. Tönningen heitir; vid Eydarfliót, 6 mílur frá ósum þess; þar er bædi gód höfn og skipálega, látínuskóli, margir verkstadir og 1800 innbúa; öll kaupför er koma frá Vesturhaf og ætla at leggia gégnum Kilssikl mega klára sig þar.

Fridrikr kóngr 4di tók þar (1712) hinn svenska herstióra Steinbuk til fánga og allan Svía hér; þar var varnarvirki, er nefndr kónungr lét rifa 2 árum seinna.

Austar liggur landstadrinn:

10. Garding; þar er látínuskóli og heimili 900 innbúa, er idka verslun.

Í nordur frá Fridriksstad er kaupstadrinn:

11. Husum, er stendur ½ mílu frá sæ, gagnvart eyunni Nordstrand, vid á, i hvörrar

ósi er skipalega; þar er hofgardr bygdr af hertuga Adólf 1577, látínuskóli, spítalir, 8 tóbaks-tilreidslustadir og 400 innbúa.

Fyrrum var þar afar mikil kaupverslun og sigling á 40 kaupförum, er bæjarmenn áttu; en hafrót og landgángr siáfar hefir miøg styllat fyrir þeim þá biargrædis-vegu.

Nordar á sømu strønd stendur:

12. Tunder (Töndern) á hólma í Vidá; þat er einhvør hinn eldsti kaupstadr í Slesvík, hvar Marsklandit er einna frióssamast; þat er allfagr bør og heimili 2800 innbúa, sem eru audugir at fé og vinnusamir; þar er látínuskóli, spítali fyri sødurlaus børn, siúklíngahús og tugthús; þadan og frá nábygdinni flytiast þeir kostuligu og einka fínu kniplingar, er taka nafn af stad þessum.

Skamt fyrir utan Tunder er þorp þat, er Hoyer heitir, vid skipalegu; þar er tollstadr og 650 innbúar er idka østurskelia-fáng. Þar byria fiørugirdingar Marsklendinga á nordur bóginn.

Í Tunder-amti, í nánd vid bændabæin Galhús fann kniplínga-veskona nokkur (1639) hit nafntogada tundersk Gullhorn, er var yfir eina alin á lengd og tók 5 merkur, vóg 6 ℔ og 13 lód af enu finasta gulli; og annat fanst seinna, nokkut stærra, nl. 7 ℔ og 11 lód, med

greiptu rúnaletri; geymdust þau bædi um lángar hrídir í kirgripabúri kóngs í Kaupmanna-høfn, uns þeim var þadan stolit.

Bædi fyrir austan og vestan Slesvíkur Hertugadæmi eru allmørg eylønd, liggia sum til Slesvíkur, en sum undir Rívar-stól. Er þá

I. at géta eyanna i Eystra Salti:

a. Als edur Alsey, er diúpt, en miótt sund skilur frá meginlandi (Sundevit), hun er 6 ferh. m. á stærd og hefir 16,090 innbúa. (2682 á hverri f. m.) Eyan er forkunnar fegr og friðssøm, vel yrkt og vída skógivaxin; þar eru og villidýr og mørg fiskivøtn; auk akur-yrkiu, leggia eyarmenn mikla stund á aldin-gardarækt; þeir hafa einnin góð slódhross.

Hin nordlægi og sudlægi hluti eyunnar er konúnglig ømt; midbikit er eign hertugans af Augústenborg, og hvad kénnimannligum málefn-um vidvíkur, heyrir nokkur hluti eyunnar til Fiónar biskupsdæmi. Þessir stadir eru þar:

1. Sudurborg (Sönderborg) sudvest-an framm á eyunni vid Alsund; þar er ørrugg og diúp høfn, látínuskóli og 2700 innbúar. Vid hafnarmynnit stendur Sudarborgar-slot, hvar enna augústenborgisku hertuga ættbálks legstadir finnast. Þar sat Kristián 2 Danakóngr fángin frá 1532 til 1549 og var hardt leikinn.

2. Nordborg (fyrr. Kisbing edr Kaupángr) er þorp nordast á eyunni med 850 innbúum; á hólma í stoduvatni nokkru stendur hofgardrinn Nordborg.

3. Augústenborg edr Augústuborg, þorp á midri-eyunni. Skamt þadan er hofgardrinn Augústenborg er hertugi Ernst Gunther lét giøra á midri 17 øld; þadan er enna nefndu hertuga ættbogi kominn.

Hertugar þessir eiga þar at auki, adalliga jardeign, er Gravensteinn heitir í Sundevit í Slesvík. Sømuleidis eru þeir kyrkiupatrónar, edur hafa rétt til at kalla presta til 8 prestabrauda, af hvørium 7 eru á Alsey, og liggia undir kénnimanniligt løgdæmi Fiónar biskups.

b. Ærey edr Arrey (Aröe) er alllitit eyland fyrir sunnan Fión og 2 mílur fyrir austan Alsey, hun er nærhæfis hálf annur míla á stærd. Innbúar hennar eru 7570 at tølu (5048 á hvørri f. m.) hun er slétt miøg og allra landa frióssømust, og í tilliti til stærdarinnar, fiølmennust í Danaveldi. Á henni nordaustanverdri stendur kaupstadurinn:

Æreskisbing edr Æreyarkaupángr; þat er litill býr, en allaudugr at fé; þar er gód høfn, 3 tóbaks tilreidslu-stadir og

1300 innbúa. Austar liggur þorpit Marstal, þar eru 800 innbúar.

Ærey-ingar eru starfsamir biargrædismenn og hafast mjøg vid í kaupferdum, og þat hafa menn fyrir sannræmi um Ærey, at jafnlitit eyland sem hún er, þá vita menn þat varla, at jafnmargir fædist, sem þar.

c. Femern (fyrr. Ymbria; Fimbria, Cimbria parva) sudur vid Hoisetulands strond, 7 mílur fyrir austan Slesvíkur Hertugadæmi og 4 mílur fyrir sunnan Lágaland og skilur sund eitt allmiótt ey þessa og meginlandit, er kallast Femernsund. Hun er 3 f. m. á stærd og hefir 8000 innbyggiara. Ey þessi liggur lágt og er hædalaus; þar er svalt og hráslagafult loptslag; frióssamr jardvegr, en ei vrktr, sem skyldi, og qvikfé til hlýtar; en ei eru þar skógar né mósku rdr, né gott neytsluvatn; grión þadan eru i afhaldi.

Eyarmenn nióta ymisligs einkaréttar; hafa þeir siálfir mikinn þátt i umrádum lands og lýds, kiósa siálfir presta sina og hafa sín eigin búløg.

A sunnanverdri eyunni er kauptúnit:

Borg edur Burg med 1400 innbúum, høfnin i Burg-sió er uppfyllt med sand og leir, mega því øll kaupfør hlada og afferma $\frac{1}{2}$ mílu

þaðan, nálægt aurmáli slots nokkurs, er hét á Glambeck. Norðan framm á eyunni er Þorp þat er Peturs Þorp (Petersdorf) heitir með 500 innbúum. Í Vendabýnum Ohrde er lögferia, er gengr til Helguhafnar (Heiligenhafen) á Holsetulandi.

Á Colbergerheide, edur á þeim hluta Eystra Salts, er umgirðir Femern, stóð sjóorrusta mikil millum Dana og Svía 1sta Júni 1644, vár Kristián kóngr 4ði fyrir Dönum og féck þar gagn, en misti annat augat.

II. Í Vestur-hafi, skamt undan meginlandi, liggia þessi eylönd og eyar:

a. Faney (Fanöe) er þeirra norðust, suður undan Hiertingsfirði, hérumbil 1 f. m. á stærð, 2 kyrkiusóknir, með góðri höfn; þar eru 2300 innbúa, er leita atvinnu sinnar með fiskiabla, siglingum og skipasmíðum.

b. Maney edur Mandey, er lítil ey fyrir sunnan Faney; þar eru 200 innbúar; lítill hólmi liggur fyrir norðan hana, er heitir gamla Maney, hun er óbygð og alleina eingi man-eyinga.

c. Rymey edur Rómey (Romöe) fyrir sunnan Maney, hun er vidlíka stór og Faney og hefir 1500 innbúa. At veraldligum málaferlum heyrir hun bæði undir Ripa- og

Haderslebs amt, en alleina úrskurdar Ripa, biskup í kénnimannligum málefnum.

d. Sylt edur Sild, 2 milur frá meg, inlandi er þessara eya stærst (nl. 2 f. m.) med 2670 innbúum; nyrdri hluti hennar kallast List, er liggur til Ripa amts verdsliga lögdæmis; þar er höfn, er kallast Köngshöfn.

e.För (Föhr) fyrir sunnan Sild, hun liggur nær landi og er halfönnur f. m. á stærd og hefir 5670 innbúa. Henni skipta menn í tvo hluti og kalla hinn eystri Austurland, er liggur undir Tunders, amt, og hinn vestri, Vestur, land, er heyrir til Ripa, amti. Eyan er all, ávaxtarsöm og leggia innbúar hennar stund á jardyrkiu og qvikfiárrækt, eru þeir optsinnis at fuglaveidum bædi med vad og netum til mikils biargrædis, því at hallanda sumri veida þeir ástundum ei minna dagliga en 1000 til 2000 villiandir og helsingia. Þar er þorp nokkurt, er Vik (Wyck) heitir, bygt á hollendskan hátt; þar er kóngligt tollhús og heimili 700 manna.

f. Amrum (fyrr. Ömraum edur Aun, grou) fyrir sudvestan För, er $\frac{1}{2}$ f. m. á stærd og ein kyrkiu sókn, hvers söfnudr er 550 at tölu.

g. Nordurstrandar, Eyar er liggia undir Husum amt; medal þeirra er Pelvorm

og Nordstrønd enar merkustu, bádar hérumbil 1 f. m. med 3000 innbúum; þar til leggia 14 hólmar sem ei eru umgirdtir siørugørdum; kalla eyamenn þá Hallig.

Skíringargrein. Allar sídstnefndar eyar og hólmar eru leifar af enni stóru ey, er Nordstrønd hét er umturnadist af brimi og landgángi siáfar 1634, í October-mánudi, þá hafrót og siáarólga giørdist svo mikil, at á 44 stødum braut hlid eda skørd á siørugirdingar og burthreif 6408 manna, 50,000 saudfiár, 1332 hús, 30 vindmilnur, 6 kyrkiur; á Eyderstedts skaga fórust 2000 manns, 6000 nautpenings og eins margt saudfiár. Þat hafa menn fyrir sannindi, at á og vid strøndina frá Rípum alt til Hamborgarármynnis, hafi ei færri látit líf sitt, enn 15,000 manna. Hit hærsta leyti á Nordstrønd er nú heitir Pelvorm, stód alleina eptir.

Med því at ey sú, er í Nordursiós liggur og Helguland heitir, fyrir fám árum lá undir Danaveldi, þykir þat ei útilhlýdiligt at géta hennar hér fyrir grendar sakir vid Danmørku.

Eyland þetta liggur 6 mílur í vestur frá Hamborgarelfu- og Ægisdyrs-mynnum. Hun er miøg há (nl. 220 fóta frá láslèttu at reikna) og allvídast med klettum og hengiflugum um-kring; menn skipta henni í tvo hluti eptir lands-

laginu: Hálendi (Overland) er eyarmenn kalla Klif og Undirlendi (Underland) er þeir kalla Duner (Sandrif). Tala þeirra, er byggia hvoru-tveggiu, er 2000, sem hafa kyn sitt at rekia til Frísa. Eyan er giædalitil og úvedursæl, hvorki er þar skógr, né gott neytsluvatn á und-erlendi; innbúar hennar leita atvinnu sinnar á siónum, annattveggia sem fiskarar, edur sem leidsøgumenn skipa (Lodser). Fyrrum hefir ey þessi verit miklum mun stærri og hefir siáfargángr af henni brotit. Hálendit er ei yfir 7000 fóta á lengd; frá því og nidur á lág-lendit er trøppugángr giørr med 180 trøppum; á hól nokkrum er viti kyntr farmønnum til leidarvísis og høfdu hamborgarar allan kostnat, medan Danir áttu eyuna, hværra eign hún var frá 1714 til 1814, þá enskir fengu hana.

## IX. Hertugadæmit Holsetu-land (Holsteen; Holsatia 53°30′—54°20′).

Menn meina at land þetta hafi fengit nafn af skógarheiti þiódverskra: Hollzeden, er hafi um-skapast til Holsteen; med því þar vóru asar mikil markløn i forntid.

Land þetta liggur fyrir sunnan Slesvik og skilia Eydarfliot og Kílsfiki lønd þessi; fyrir

austan og sunnan liggia Lubekks lendur og Hertugadæmit Láenborg; á sudvestur bógin eru Hamborgar jardeignir og elsan, er rennur á Danmerkur og Þýdskalands landamæri; hit vestra er Vesturhasit. Þat er 153 s. m. á stærd og tala innbúa þess er 330,000 (2157 á hværri s. m.) lengd þess i austur og vestur, er 18, og hvar þat er breidast, i út og sudur, 14 milur á breidd.

Hvad vidvikur landslagi, frióssemi, jardvegi og bygdarlagi Holsetulands, er þat miøg áþekt Slesvík, svo ei þarf mørgum ordum um at fara. Hit eystra (Geesten) er hálendi, sletir, hædir, skógar og vøtn; um midbikit eru heidalønd (Segebergs og Harxheidi) og á vestur bógin eru Marsklondin.

Svoleidis greina menn nú landinu:

I. J 9 amtmannsdæmi, er kénd eru vid Rendsborg, Kíl, Pløn, Reinfeld, Steinberg, Segeberg, Nýmunstr, Tremsbuttel og Eismar.
II. J tvø sylki, er kallast Landskaber.
III. J eitt syrrverandi Rikisgreisadæmi.
IV. J 4 Herradæmi.

Fyrrum greindu menn Holsetulandi i 4 landsálfur, er svo hétu: 1. Holsteinn edr hit

eiginnliga Holsetuland. 2. Stórmarn. 3. Vagrien og 4. Pettmerski edur Ditmarsken. Med þvi at þessi nøfn eru alkénd og þessari adgreiníngu landa, þótt annars sé nú úr brúki, er á flestum landkortum fylgt, þykir þat ei illa tilfundit, at lýsa svo løndum og stødum, sem hún bendir til.

## a. Hit eiginnliga Holsetuland.

Þat liggur í midiu Hertugadœminu; þar eru þessir stadir:

1. Kill (Kiel; Kilia) 28 mílur í sudvestr frá Kaupmannahøfn, vid diúpan fiørd, er tekur nafn af stadnum; þat er állmikill kaupstadr i inndœlu héradi; þar eru 3 kyrkiur, kongúngsgardr, sá annar háskóli (Christiana Albertina) í Danaveldi, er Kristián Albert Hertugi stiptadi 1665 (þar idka vísindi hérumbil 120 embœttismanna efni), látínuskóli, mikil bókahirdsla (60,000 bindini), stiørnuturn, almúgakénnara-skóli, spítali fyri sødurlaus børn, allmargir verkstadir og heimili 7000 innbúa, er idka allmikla kaupverslun, einkum varníngsflutníng og útvegu; þar er stólmenn kaupstefna árliga í Februari-mánudi er kallast Omslag (Kieler Omslag), varir hun í hálfan mánud.

þar sömdu Dana- og Svía-konúngar frid millum sín 1814.

2. Rendsborg fyrr. Reinoldsborg (Rensburgum) vid Eyderfliot og á hólma í þvi; þat er gömul og víggirdt borg med sterkum virkium umhverfis. Henni er skipt í 3 hluti 'nefnil. Altstadt (Fornibær) á hólmanum í ánni, Neustadt edr Neuverk (Nýi bær) Holsetulands megin, og Kronverk á nyrdri árbakkanum i Slesvík; þar er látínuskóli, fángelsi, herthahús, margir verkstadir 4300 innbúar, auk hermanna, er þar eru til landvarnar settir; þar hefur hinn holsteinska Kanal er eykur miög og léttir borgarmönnum addrætti og kaupverslun. Í sudvestur frá Kíl er:

3. Itzehó fyrr. Isarnhó bádumegin vid Störá; þat er gamall stadr og skiptir nefnd á hönum í Nýastad og Gamlastad. Þar er látínuskóli, audugt klaustr fyri adalbornar meyar og búftadr 2660 innbúa, er versla og giöra spil. Þá Karl Gustaf Svíakóngr heriadi á Holsetulandi 1657, brendu Svíar bý þenna at köldum kolum. Imillum Kíl og sídstnefnds stadar þar á heidinni er þorpit:

4. Neumunster (les. Noymunster) vid Skvallá, er rennur í Störá; þar er klæda- og

búkavefnaðr allmikill og 2800 innbúar. Isuð-austr frá Kíl liggur þorp nokkurt, er:

Preeß heitir, þar er klaustr fyri 35 aðalbornar meyar; auk nefnds bæjar liggia til þess 36 bændaþorp; meðal eigna þess má telia miög frióssamt hérað við Eystra Salt er kallast Prófastsdæmi (Provstie), hvørs inn-byggiarar eru 6000 at tølu.

## b. Stormarn eðr Stórmæri.

Þessi landsálfa liggur suðvestast, við Ham-borgarelfu. Þar er borgin:

Glückstadr eðr Lukkustaðr (Gluckstadt; Thychopolis) er Kristián kóngr 4ði lét giøra 1620 og umgirða með sterkum varnarvirkium á eystri bakka Hamborgarelfu; þar er látínuskóli, hertha-hús, fángelsi, assistentshús, sem á Kaupmannahøfn, og 5000 innbúa, er versla allvíða um heim og giøra út skip á sumrum til hvalafánga í Grænlandshøfum; þar mega allir, hvøria trú sem hafa, búa og fylgia sínum tíðareglum; þar er einnin aðsetr ens holsteinska og láenborg-iska yfirréttar og yfirkénnidoms-réttar og álitst þat því at vera høfuðstaðr á Holsetulandi. Þeim megin, er til lands horfir, má ef þørf krefur, fyrir sakir hernaðar og umsáturs, stað þessum undir vatn skióta, eðr søkkva svo at eigi má

atsækia. Skamt fyrir sunnan Lukkustad er Þorpit Krempe, fyrr. Krempa vid á nokkura litla; þat var til 1705 víggirdt og hefir nú 1850 innbúa.

c. Vagria edr Vagrien.

Þat land liggur hit eystra, vid Eystra Salt. Þar eru þessir stadir:

1. Pløn (Plöen) á odda nokkrum, er gengur út í Plønesjó, sem er hit stærsta stødyvatn á Holsetulandi nl. 6 milur ummáls. Í bý þessum er látinuskóli og 2000 innbúar. Á hæd nálægt stadnum stendur hofgardr, hvar Holsetulands hertugar fyrrum sátu. Nordar 1 mílu frá Eystra Salti er:

2. Lutzenborg, einhvør hinn elzti býr á Holsetulandi med 1200 innbúum. Austar er:

3. Oldenborg edr Altenborg, fyrr. Staragardr, med 1600 innbúum; þar var fyrr. biskupsstóll, uns hann 1164 var fluttr til Lübeck. Í nordaustr þadan er:

4. Heiligenhaven edr Helgahøfn, gagnvart Femern, vid Eystra Salt med 1300 innbúum. Þadan gánga flutningsskútur til Nýstadar á Lágalandi. Sunnar vid vík frá Eystra Salti stendur:

5. Neustadt (Nýstadr), þar er góð höfn og 1600 innbúar. Fyrir sunnan Plön er þorpit:

6. Segeberg undir 200 fóta háum kalkhnúk; þar eru 1400 innbúar. Á hnúk þessum lét Keisari Hlodver giöra rambygdan kastala 1137, er hann kalladi Siegelberg, var hann tídum umsetin, en aldrei unnin; þar héldu protestantiskir furstar og sendibodar samkomu 1620. Ei lángt þadan er lystislot er Travendalr heitir, nafnkénd af fridarsamningi millum Danakoníngs, Fridriks 4da og Holsetulands Hertuga 1700. Vestar er:

7. Bramstadr (Bramstedt) þorp nokkurt; þar er heilnæmislind er menn fundu 1681; er þar sett (1809) læknir (Bröndlæge) fyrir þá, er leita þar heilsubótar. Sunnarliga í þessari landsálfu er:

8. Oldesló (Oldeslohe) vid ána Trave; þar er saltverk (Travensalzer-Saline) sem er konúngseign og 1800 innbúar.

Merk: Árit 1150 lét hinn saxiski Hertugi Heinrekr (Ljón) skémma saltlind þessa med þvi at veita læk þángat; þar honum var uggr um, at hans luneborgiska saltverk mundi óhagnad af hafa, ef fyrrnefnd saltlind giæfi af sér eins gott salt til lengdar, sem þá var, er þetta giördist.

d. Ditmarsken edr Péttmerski sörd.
Péttmersia.

Svo kalla menn þann hluta Holsetulands er vestast liggur, edr strandlengis vid Vesturhafit og er landslagi, kostum og aukonnum þar svo háttat, sem í Marsklondum, er fyrr er ritat. Þat er 7 milur á lengd, en 2 og sumstadar 5 á breidd og 24 f. m. á stærd. Því er skipt í tvo hluti. Nordur- og Sudur-Péttmerski og er einn landfógeti settr yfir hvorn þeirra; en bádir eru þeir einum jarli undirgéfnir.

a. Í Nordur-Péttmerski er: Heide, þorp nokkurt og landsfógetasétr; þar er látínuskóli og prestastefnur haldnar. Skamt frá Eyderfljóti er Lunden, er í forntíd hét á Lundi; þat er lítit þorp. Vestar og sunnar er snoturt þorp, er Veslingburen heitir, þar er sú fallegasta kyrkia í því landi.

b. Í Sudur-Péttmerski er: Hemmingsstadr (Hemmingstedt) bændaþorp nokkurt; þar unnu Péttmerskingar mikin sigr á Hans Danakonúngi 1500. Sunnar er Meldorf fyrr. Medalþorp; vid ána Miele; þat var fordum víggirdtr stadr og miklu stærri enn nú; þar er góð hofn og látínuskóli. Árið

1500 og 1559 unnu Danir stad þenna med sverdseggium.

Péttmerskingar nutu um lángar hridir fridsrædis og vóru sinir eigin herrar; vordu þeir land sitt med dæmafárri hreysti, þá Dana-kóngar herjudu á þá, uns Fridrikr 2 med herskildi braut undir sig landit 1559; kostadi þat Dani allmikit, þvi Péttmerskingar vóru hreystimenn og grimmúdigir.

## Greifadæmit Ranzá (Ranzau).

Þat liggur fyrir austan Lukkustad og er 4 f. m. á stærd og hefir 9000 innbúa; fyri þvi rædur umbodsmadr (Administrator) og amtsfógeti. Tvo þorp eru þar: Elmshorn med 2500 innbúum og Barmstadr med 600 innbúum.

Árit 1650 giørdi Ferdinand Keisari hinn 3 þá skipan, at greifadæmi þetta, er ádur var kendt vid Barmstad, skyldi kallast Rikisgreifa-dæmi og vera eiginndómr ens Ranzáiska ætt-leggs; fór þvi og framm um hríd, uns Fridrikr kongr 4di jók med þvi ríki sitt 1726, þá hinn sídsti greifi, nl. Ditlev Ranzá, er sat at eignum sinum, var myrdr af bródur hans.

Hérad auki má géta þriggia herradæma:

1. Harzhorn fyrir nordan Lukkustad, í sveit þeirri, er kallast Krempa-Marsk; vid á

er kallast litla Rin; þat er hálf f. m. á stærd, og hefir umbodshaldarin i Ranzá medgiörd og tilsión med þess forrádum (Intendant).

2. **Breitenberg** vard einnin kóngseign ásamt greifadæminu Ranzá; en Fridrikr 4di gaf þat systur fyrrnefnds greifa; en sídan 1703 hefir þat verit ýmsum á hendur falit til umsiónar, sem umbodsjardir.

3. **Pinneberg**, þat liggur vid elfuna og nær alt sudur til Hamborgar landeigna; herra þess kallast Landdrost; þar er og lándfógeti.

Herradæmi þetta var fyrrum greifadæmi er **Schauenborg** kalladist; en at látnum þeim sídsta greifa, sKiptu þeir, Kristián 4di og Holsetulands Hertugi, þvi ímillum sin.

Þar eru þessi stadir:

**Altóna** (All-zu-nahe ɔ: alt of nærri; eigl. Alteneue) á eystri bakka Hamborgarelfu, 40 mílur í sudvestr frá Kaupmannahöfn (réttan póstveg yfir land 66) skamt fyrir utan Hamborg; hvergi, at Kaupmannahöfn undanskilinni, stendur kaupskapr med þeim blóma, sem þar og engi stadr er svo fiölmennr i öllu Danaveldi; þar eru 2300 hús, 1 þýdsk og 1 frönsk reformerut kyrkia, 1 kathólsk, 1 mennonitisk og 2 lútherskar kyrkiur, 2 gydínga-samkundur, einn háskóli (Gymnasium Christianeum), eitt kaupmanna-

samkomuhús (Bursa) kóngligt mynstedi, tugthús, lystispilahús, 3 skipasmida- og margskonar vefnadar- og vørusmidis-verkstadir og heimkynni 25000 innbúa, medal hvørra 2400 eru Júdar, er ásamt øllum ødrum, hvøria trú sem rækia, nióta þar fullkomins trúarbragda frelsis. Borgarmenn hafa høfdingia einn yfir sér, er kallast Yfirforseti (Overpræsident); þeir hafast miøg vid í kaupferdum bædi á Englandi, Vallandi, Þýdskalandi og ødrum løndum og útbúa árliga skip til sildar- og hvala-fángs.

Altona vard ásamt Herradæminu Pinneberg 1640 eign Danakonúngs og fékk fyrst 1664 stadar-einkarétt af Fridriki 3. 1713 eydilagdi hinn svenski hersforingi Steenbock giørsamliga stad þenna, en seinna var hann bygdr at nýu.

Nordar er þorpit Vedel med 1000 innbúum; þadan gánga seriur yfir elfuna. Enn þá nordar er Pinneberg, þorp nokkurt vid Pinná; þar situr høfdingi herradæmis þessa. Fyrir austan Altona er Vandsbeckr; þar er slot, prentverk og ýmsir vefnadar-verkstadir, fri-stadr edr ørugt hæli fyri gydinga og 600 innbúar. Uetersen er þorp nokkurt vid Pinná; þar er klaustr handa adalbornum meyum, hvartil liggia 11 bændaþorp.

Adalligar fasteignir á Holsetulandi heita svo: a. enar Itzehóisku, med 20 stórbúum.

b. einar Kilsku með 19, c.) einar Prezi, sku með 21, og d. einar Oldenborgisku með 21 stórbýlum.

Á sérhverri þessara jarðeigna, er hér eru nefndar, er einn aðalborinn höfðingi kiörinn til umráða, er qveður alla aðalsmenn í sinu umdæmi til fundar við sig, þá halda skal samkomu eður Riddaradag.

Skíríngargrein: Í forntíð kalladist Holsetuland greifadæmi og réðu þá fyri því einir saxiskir hertugar, maðr eptir mann. Þá Adólfr greifi, er síðstr var ennar skáenborgisku ættar, deiði, völdu höfðingiar í landinu Kristián 1ta Danakonúng til höfðingia yfir sig og fékk hann því þá til vegar komit, at Fridrikr keisari hinn 3die hóf 1474 Holsetuland, Stórmæri og Péttmerski til hertugadæmis. Árit 1482 skiptu þeir bræður Hans Danakonúngr og Fridrikr hertugi Holsetulandi ásamt Slesvík imillum sín, og sat hinn síðstnefndi jafnan á Goðþorpi; en þá er hann var til rikis leiddr í Danmörku, gjörðust þau lönd, er hann fékk at skiptum, konúngseign. 1544 skiptust hertugadæmin á ný imillum Kristiáns 3dia og bræðra hans Hans og Adólfs, sat Hans í Haderslеb en Adólfr á Goðþorpi, og eru hertugar þeir, er Goðþorpingar heita, af honum komnir (den slesvig-holsteen-gottorpske Linie) en at,

Hans látnum, erfdu þeir Fridrikr 2ar og Adólfr lond hans. Um sömu mundir fèck yngsti kóngsbródir, Johannes at nafni, Sudrborg, Nordborg og Plön til eignar og vard hann ættarstófn hertuga þeirra, er Sudurbyrglingar vóru kalladir, auk þriggia ættqvísla, er kéndar vóru vid Nordborg, Glücksborg og Plön; en Sudurbyrglingar skiptust aptr í 5 ættstafi, er tóku audkénnis nöfn af Augustuborg, Beck, Frantshagen, Wisenberg og Retwisk, eru þær ættir nu allar undir lok lidnar, at undanteknum þeim tveim fyrstnefndu. En þat er af þeim hluta landa þessara at segia, er Godþorpingar áttu, at hann 1762 sameinadist Rúsaveldi, þá Carl Petur Ulrick hertugi kom til ríkis í Rússlandi; var þá Donum vænt ófridar af Rússum, fyrir sakir landa hans; en þau vandrædi tókust af, þá Petur 3dji andadist; 1773 giordi Danakóngr og Rússlands Stórfursti, Páll Petrovisch, þann samníng sín ímillum, at hin godþorpisku erfdalond skyldu affalast Danaveldi, en þar ámóti skyldi Stórfurstinn gioraſt eignarmadr Oldenborgar- og Delmenhorsts greifadæmis, er verit hafdi ódalseign Oldinbyrglínga um lángar hrídir.

Allt til 1806 var Danakonúngr í tilliti til Holsetulands, er talit var nokkr hluti ens

nidurſaxiſka fredslands, medlimr ens þióðverſka ſtiórnar-ſambands og hafdi hann þvi eitt átqvæd-isord á þióðþingum öllum í Þýdſkalandi; en þá hit forna ſtiórnarform í ríki þeſsu á ſeinni tídum breyttiſt, qvad Danakóngr ſig lauſan allra ſambanda við þat og áqvad, at uppfrá því ſkyldi Holſetuland giörſamliga adſkilit vera frá Þýdſkalandi og at öllu Danmörku ſamteingt. En þá ſtiórnarhættir í Þýdſkalandi á ný komu í hit forna horf, giördiſt Danakonúngr aptur, ſem Holſetulands Hertugi, medlimr høfdingia ſambands Þióðlands þeſsa og hefir nú á öllum þióðfundum þeſs í Frakkafurdu vid Mayn eitt atqvædi.

## X. Hertugadæmit Saxen-Láenborg (Sachsen-Lauenborg).

Land þetta liggur fyrir ſunnan og auſtan Holſetuland og lendur Hamborgar, hvar áin Bille ſkilur lønd, og Lubecks jardeignir og fyrir veſtan Hertugadæmit Meklenborg. Þat er 22 f. m. á ſtærd og innbúar þeſs eru 29,000, at tølu. Allvídaſt er land þetta ſlatt og fiallalauſt; eru þar ſumſtadar heidar en vídaſt gródurríkr jardvegr og føgr ſádlønd og ſkógar, medal hvørra Saxaſkógr (Sachsenwald) er ſtærſtr og merkaſtr; fiſkivøtn eru þar allmørg og um landit

renna skipsærar ár. Landsmenn leggia stund á qvikfiárrækt og á heydunnm er gott hagqvisti fyri saudfé og hagqvæmar stødvar fyrir býflugnarækt og hunángsabla. Hør elnast þar í gnægd og ufarmikit garn telst medal útfærslu varningstegunda landbúa.

Í þessu Hertugadæmi eru landsléttaráð (Landstænder) er samanstanda af 3 stødum og adalbornum landdrottnum, hværra þingstadr er í Buchen. Eignarherra jardeigna þeirra er Gudov heita, kallast Landmarskálkr. Stiórnarradin, er hafa adsetr sitt í Ratzeborg, eru: Stiórnin (Regieringen) hofréttrinn og kennidómsréttrinn (Consistorium). Sá dómstóll, hvørs dómar ei mega hallast eda hædsti réttr, er í Lukkustad og kallast hinn Holstein-Láenborgiski yfirréttr.

Landsmenn rækia þá trú, er løgtekin er í Danaveldi og kalla þeir þann, er yfir allan kennidóm er settr, Superintendent. Þat sem kémur árliga í kongsgard af landi þessu, qva vera hérumbil 80 til 90,000 ríkisdalir.

Menn skipta Hertugadæminu í 4 ømt, sem eru vidkénd Láenborg, Ratzeborg, Schvarzenbeck og Steinhorst. Þessa má hér stadi telia:

1. Láenborg (Lauenborg) sydst í landinu vid Saxelfur; þar sem Stecknitz, á

rennur í þær; þar eru 3000 innbúar, er leita atvinnu sinnar með kaupskap og vöruslutníngum; þar lúka farmenn toll af því er flytst um ána. Norðar stendur fagr stadr, er:

2. **Ratzeborg** heitir, á hólma í Ratzeborgarvatni, (sem er eitthvert hit stærsta í landinu og miøg diúpt), og liggur þaðan brú yfir sundit til Meklenborgar landeignar, hvørs eign arherra nl. Meklenborgar Stórhertuga tilheyrir nyrdri hluti staðar þessa. Í sudvestur þaðan er þorp þat, er:

3. **Mollen** heitir, millum tveggia vatna; þar eru 1500 innbúa.

Í forntíð bygðu **Vindar** land þetta; en Heinrekr Lión (Löve) lagði þat undir sig. A 15 øld varð þat eign Albrekts af Saxen og seinna hertugans af Celle og svo Kiørfurstans af Prúns vík. Um hríð lá þat undir hit franska keisaradæmi; en þá þat leið undir lok og sigrandi einvaldar skiptu løndum millum sín, féll Hertugadæmi þetta í hlutkésti Prússakonúngs og at lyktum hlaut Danakonúngr (auk 2 milliona ríkisdala) þat í makaskiptum við nefndan kóng fyrir þann hluta af Pommern, er lengi hafdi tilheyrt Svíaveldi, en sem einvaldi vor seingit hafdi í stað Norvegs í fridarsamníngnum í Kil 1814,

vóru þau makaskipti, báðum konúngunum hagqvæm, með því lönd þessi liggia nær ríkium hvorutveggiu.

§. 4.

Í Danmörku eru ei svo köld veður og frostasöm, sem menn mundu tilgéta, er alleina vita, at hun liggur undir nyrðri hluta ens tempraða meginnvegs á hveli jarðar; veldur því hafit, er umkríngir löndinn og mýkir kuldan, en ásamt ollir því, at loptslagit er hráslagafullt og svækiusamt. Ástundum blása stormar miklir, er reka á brott þoku og hafgufuna. Sialdan er þar vetrarríki; en votviðri og hreggviðri eru þar tíðari, enn frost og hreinviðri; þó ber þat við, at Eyrarsund og Beltissundin leggia landa ímillum, ber þat mest til þess, at ís sá er straumar og vindar bera frá Jótlandshafi, stadnæmist í sundum þessum og verður þar samfrosta. Í nyrðri hluta Jótlands eru veður hörð og nöpur á vetrum, en í Holsetulandi er rigníng tíðari enn snióköma. Jafnan er veðuráttinn óstöðug í Danmörkur löndum og skamt veðrabrigða at bíða, þó má ei loptslagit óheilnæmt kalla mönnum né mállepsingum, því bæði er þat, at allmargir verða þar háaldraðir og skepnur og vextir þrifast vel og blómgast. Öðrum landsplátsum fremur eru Marsklöndinn qvillasöm fyrir sakir dampa þeirra, er stíga þar upp af mýrum og vatsdældum og hvervetna er loptit óhollara á

siáfarstrøndum, enn upp í landinu, mega ei sist á því kénna strandamenn á Jótlands og Slesvíkur vesturkiálka, hvar hafþokan (Havguse, Havraag) er svo nøpr og bannvæn, at hún kippir kiarka úr triám og giørir korupúugana kiarnlausa. Hinn leugsti dagr í Danmørku er 17, en þá skamdegi er mest, 7 stundir.

§. 5.

Með því Danmerkur lønd eru sløt og fiallalaus, er Málmaríkit í þeim ysrit sátækt, því valla má telia kopar þann og gull, er menn fundit hafa á Borgundarhólmi, hvar einnin hefir hitst blýberg nálægt Hamarshúsi. Í Ripa stipti hafa menn og hitt ísarn eðr jarn í mýrum, en svo litit, at ei hefir fengrinn launat smelting þess og fyrirhøfnina. Af ýmsum steinategundum er Danmørk auðugri. Liósgulr marmari finnst á Saltbólmi og svartr á Borgundarhólmi og eru ýmsar kyrkiur þar af honum giørvar; þár hittast og þeir svokølluðu bornhólmsku Demantar. Gnægð kalkiarðar er allvíða t. d. á Salthólmi, við Faxa bæ á Siálandi, á Falstri, við Segeberg og Itzehó á Holsetulandi; en mest í Vebiørgastipti, í Daugbergs- og Mønsteds-sóknum og í enni skimmelmannsku námu (Gudumlundi) í Álaborgar-stipti, hvaðan árliga flytiast yfir 30,000 tunnur kalks. Kritin, er kemr frá Møn, er svo góð, at engu er hún síður enn hin enska; lakari er sú, en flytst frá Stevns-høfða

og Løgsteyri. Á Borgundarhólmi eru steinkola-námur, er Kristián 4di lét uppgøtva og frá Friðriks-steinbroti á sømu ey flytst sandstein og qvarnarsteinar; þar finnst einnin por-celansjørð og smiðiumór. Mergull eðr jarðmergiarjørð er því nær hvervetna at finna í Danmørku, þó mest á Holsetulandi, samt þófara- eða þvotta-jørð. Hvørgi er heldr skortr á mó til eldsneytis, en ei nokk-ursstaðar svo góðr sem á vesturstrønd Jótlands. Á ýmsum støðum hafa Danir aflat sér salts, bæði af þángi, sævatni (t. d. á Hléscy) og saltlindum; þó hefir saltfengurin af þeim síðst-nefndu ei til riða verit, utan af salt-uppsprett-unni við Oldesló, frá hvørri flytiast árlega 12 à 13,000 tunnur salts. Ölkeldur eða heil-næmis lindir eru og til á Holsetulandi.

Hvað Vaxtaríkit snertir, er Danmørk harla auðug. Má þarameðal telia þessar korn-tegundir: rug (vetrar- og vor-rúg) hveiti, bygg, bókhveiti eðr heiðikorn, ertur, baunir, vikkur, o. s. fr., mannagrión á Lálandi og Falstri, humal, er best elnast á Fióni og Borgundarhólmi og mustarð, einkum á Samsey; jarðepli (Kartofler) er Danir tóku fyrst 1743 at rækta, tímgast nú hvervetna. Lins eða hørs og hamps afla menn á ýmsum støðum, einkum í Hertugadæmunum, þó ei til hlítar fyri ríkit. Tobaksjurtin, sem komin er vestan úr heimi til norðurlanda, ræktast bæði á Siálandi, Falstri, þó hvorgi sem í grend við Fridricia, af frønskum nýlendumønnum.

Agiætr litunar raudi eda krapp tímgast best í Kaupmannahafnar- Arós- og Randarós-omtum. Ei leggr bændalýdr alúd á gardarækt, sem vera bæri og vída er hún miøg forsómut; Fiónarbúar rækia hana best, en Jótar minnst, en í Hertugadæmunum, einkum í grend vid kaupstadina géfa menn henni gódan gaum; hvørgi er hún í Danaveldi med jafn miklinni ástundun og ardi ídkut sem á Amagri. Í forntíd var Danmørk þvínær hvervetna skógivaxin, en nú á døgum er hún allvída skóglaus; þó eru hér og hvar marklønd allmikil og fagrir lystiskógar einkum í nordaustr hluta Siálands og sunnanfram bædi á nefndri eyu og á Fióni, í Arósamti og á austurstrønd Hertugadæmanna. Enar almennustu trétegundir eru: eik, beiki, elmividr, þill, askr edr eskitré linditré og esp og á seinni tídum hafa menn uppklakit furu og greni, er fullvel elnast. Einnin gródursetia og rækta Danir marghåttut aldintré, er bera margskonar aldini og kostuliga ávexti. Þar tímgast og allmargir vextir og jurtir, er þénanligar eru til ýmiskonar handverka og litunar, þó ei sé notat sem skyldi.

Medal enna tømdu og heim-dýra má fyrst telia: Hestana, sem nafnkéndir eru fyrir fakir, fegurdar, styrkleiks og þols; kaupa þvi útlendskir høfdingiar þá handa riddaralidi sinu; bestir eru hestar á Fióni, í Thýlandi, á Alsey og Marskløndum. Med stódhrossa-uppeldi (Stutterie) leitast menn vid at bæta kyn og edlisjarfeirra. Rautpeningr er þar gódr og þrif-

ligr; en hvergi svo vænligr og notadriúgr, sem á Marskløndunum. Saudfé er þar ullargott, en ei at tiltølu margt og ei er þat svo bragdligt, sem útá Islandi; hvergi er þar svo miúkhært saudfé, sem í landsplátsinu Eiderstedt og gengr ull þess enskri og spanskri nærst at fínleik. Til at bæta fiárabla og saudakyn lætur konúngr vandliga giæta hiarda sinna í Esrum, Jegerpris og vídar og hleypa menn í brunntídinni spønskum, enskum, frísiskum og moldáiskum hrútum til ánna. Mikill fieldi svína uppelst hvervetna. Villidýr eru ei mørg í Danmørku, þó má nefna: hirti, héra, dá- og rá-dýr, hverra tala árliga minkar; nióta þau því frelsis í dýragørdum, utan þá landsdrottnar siálfir eru at dýraveidum fyrir skémtunar sakir og villibráds-lystar; þaradauki eru þar refar, sérilagi raudleitir at lit, otur, mørdr, yldýr, greifingiar og úlfar er koma frá Þýdskalandi. Af margskonar fidurdýrum er þar og mikil mergd, medal hverra má telia enar almennustu og húsvønu suglategundir: gæsir, andir, hæns, alftir og hin kalkúnsku hæns; á Kristiánsey er ædarfugl; á Alheidinni úrhæns edr orfuglar. Auk afargrúa sæfugla, t. d. kría og máfa, er veidast sæum í Slesvík, samt villiandir í eyunum í Vesturhafi. Ei eru enir stóru hræfuglar t. d. ernir og haukar margligir í Danmørku; en enir minni, eda þeir svokølludu hálf-hræfuglar, svosem hrafnar, krákur, skadar og smirlar þeim mun fleiri. Alvída leggia menn miøg

vendiliga alúd á hýslugnarækt, þó hún á fyrri dögum hafi verit Dönum ardsamari; hún idkast nú best sunnanframm á Siálandi og Fióni og af heidabúum. Allvídast er nægr fiskiabli og veidi í sió og stöduvötnum. Sildfiski er mikit í Limafirdi, vid Jótlands sída, í Flensborgafirdi og Eyrarsundi. A Borgundarhólmi og í Randarósfirdi fángast lax, vid Jótlandsskaga slydrur og vída gódr þorskr og þyrsklíngr. I stöduvötnum og tiörnum veidast karpar, karrusöar, brasen, aborrur, gieddur, hornfiskr og mikill áll bædi í sætu og soltu vatni. Selaveidi tídkast á Anholt og á Sudur-Jótlands ströndum og marsvína edr hnísu-fáng í Limafirdi og Medalfararsundi. Framundan Flatströnd, Jótlandssídu og Hlésey eru Ostruskelia mid, og er sú veidi kónglig ískylda. Krabbar veidast í vötnum og lækium og Humrar á Helgulandi og vídar.

## §. 6.

Tala lýdsins í Danmörku er hérumbil 1,640,000 og lísa þá 1640 manns og ferhyrn. mílu hvörri; þó skilur þat miklu, hvörsu fiölmenn og fiölbygd landsplátsin eru, því á Marsklöndunum eru ei færri enn 4000, en í Ripar stipti alleina 744 á hvörri ferhyrn. mílu. Innbúar Danaveldis eru: 1. Danir. 2. Holsetulendingar og 3. Frísar; og hafa allar þessar kynqvíslir kyn sitt at rekia til ens margliga skandinaviska edr nordurlanda- og

þiódverska ættstofns. Allvídast er d ø n s k t u n g a tølut; þó er máltidskan ei hvervetna eins, og má vel greina Siálendinga, Fiónarbúa og Jóta af málfæri þeirra. Holsetulandsmenn mæla biagada Þ ý d s k u, er P l a t t y d s k kallast; en þeir lesa þó og skrifa hreina Þýdsku (Höitydsk). Størf Dana eru ei alleina biargrædis athafnir þeirra, svo sem akuryrkia, qvikfiárrækt, veidar, skógarannir og fiskiskapr, heldr vinna og margir at ýmisligu vorusmídi og búgøgnum; mikill hluti þeirra leitar og atvinnu finnar á siónum nl. i utanferdum og kaupverslun erlendis og lætur konúngr þeirra sér miøg annt vera um at styrkia og hiálpa vid sérhverri løgmætri biargrædis vidleitni i ríki sínu.

§. 7.

Voxtar- og dýraríkisins afrak og giædi færa Danir sér allvell i nyt og giora úr þeim naudsynligan varning og kaupeyrir; hafa þeir því sett á stofn allmarga verkstadi, i hvørium klædi og annat, sem þarfligt er og ómissandi fyrir alþióðliga velgeingni og velsemd. I hofudborginni eru hérumbil 12 vefnadar verkstadir, 1 i Slagelsi, 2 á Fióni og 8 á Jótlandi. I Kaupmannahøfn er og eitt s i l k i - vefstædi, einnin i Altóna, hvar men ogsvo vinna og vefa f l u g i e l, samt margskonar b ó m u l l a r - duka likasem i Kaupmannahøfn og Kristiánsfeldi. L í n og l é r e f t i giøra bædi Siálendingar, Fiónarbúar og Jótar; en Slesvíkingar k n i p l í n g a,

sem eru í miklu afhaldi, sérilagi þeir, er koma frá Tunder. Þarað auki iðka Danir margs konar handiðnir svosem, skinnaverkun, sápugiörð á 11 stöðum, kértasteypu, kynroksgiörð, sokur-suðning, laks- og spila-tilbúníng, 21 pappírs-makaraverk, brennivínsbrenslu, munngáts- og edíksbrugg o. s. fr. Steina- og málma-rikit sær þeim og næg verkefni til ymisligra búgagna og smíðisgripa; ei eru særri enn 100 tiglu-ofnar á Siálandi og allmörg kalkverk á ymsum stöðum, eitt Porcellans-verkstæði í kaupmanna-höfn, leirkérasmiði í Riparstipti og á Borgundar-hólmi; 1 málmsallstykkia, 4 jarnfallstykkia, 2 klukku- og 3 prentarastýls-steypuverk og margs-konar smiðiur hvar allshattar smíði af ymsum málmum, t. d. sigurverk, jarntól og byssur giörast. Hvað allmargar handiðnir og smiðar áhrærir, hafa Danir á seinni tíðum tekit miklum framförum fyrir tilstudlan konúnganna, er hafa varit ærnu gialdi til at sá útlendska verkmeistara til, at kénna undirsátum sínum haganligri meðhöndl-un ymsra hluta og listir þær, hagleik og snild, er fyrrum var þeim litt tom; og er nu svo komit, at ymisligt verksmiði Dana þykir ei síður giört, enn annara þióða. Einnin hefir Bú-stiórnarfélagit með heitnum og veittum verð-launum og Snilliverkidnisfélagit eflt, kénnt og styrkt búsyslun, hagspeki og handyrðir; sömu-leiðis eru þar tvö félög, og bera umhyggiu fyrir viðréttíng og framförum handverksmanna og málmsmiða.

§. 8.

Af Danmerkur afstødu millum tveggia hafa er auðsært, at hún liggr vel við kaupstap og sióferðum. Danir kaupslaga innbyrðis með eigin jarðar-ávexti og verusmíði, en sú kaup-höndlun er ei ávinningsmikil; miklum mun merkari og arðsamari er kaupstapr þeirra í útløndum, sem nú á døgum, þótt hann í síðstu 7 ára styrisld at mestu væri undir lok liðinn, heldur þróast og vex. Danir hafast við í kaupferðum til 4ra heimsálfa, við hverra inn-búa þeir hafa samit útsærandi (activ) höndl-unar, kaupgiørninga. Í norðrálfunni versla þeir í kaupstøðunum við Eystra-Salt, í Norvegi, Þýðskalandi, Englandi, Frackland, á Spáni, Portugal, Íslandi, Færeyum og Grænlandi. Með því at sióreisarar ei øðáða skip með dønsku flaggi, hafa Danir allmikin ágóða af varn-ings flutningum um miðjarðarhafit. Kauphøndl-un vestr í heimi (er frí varð 1785) iðka Danir sérílagi á Norður-Ameriku frílønðum og þeim dønsku Vestindia Nýlendum. Hin austind-iska og kínesiska høndlun, er hestr um hríð í dát legit, tekur at endurlisna, sømuleiðis kaupverslunin í Afrika (er varð frí fyrir alla Dani 1792), hvør þó ei hefir til riða verit síðan 1803, þá Danakonúngr bauð, at ei skyldi manns-manna sala þar lengr viðgángast.

Athugagr. Allmørg kaupverslunar féløg og kaup-manna sambønd hafa Danir stiptat, til í sam-biørgum at efla þau biargræðis størf og auðga

landit; en nú eru þau flest undir lok liðinn. Þau sem enn þá eru við líði eru: a. hit kóngliga Vestindiska höndlunar-samfélag. b. hit danska með kóngligu einkaleyfi sæmda (octroierede) asiatiska kaupmanna samband, er Kristián kóngr 6ti stiptaði (1730) og veitti því einkarétt til at verzla austur í heimi, nl. í Austindiunum og Kína; enn 1772 fengu allir danskir kaupmenn leyfi til at höndla í Indíunum; enn í Kína nútur félagit enn í dag síns einkaréttar. c. Hit kóngliga grænlendska og færeyiska verzlunar-félag og d. Siófkaða-ábyrgðar-félagit. Öllum Dönum er nú kaupskapr heimill, bæði vestur í heimi, á Grænlandi, Íslandi og Færeyum, þó með því fororði, at öll mega kaupförinn leggia út frá Kaupmannahöfn og afferma þar.

Í ýmsum stórum kaupstöðum erlendis hafa Danakonúngar setta vissa embættismenn, er liðsinna skulu og létta donskum farmönnum og kaupmönnum eyrindagiörðir þeirra og verzlunar störf, kalla menn þá ýmist Residenta, Agenta, Consula og Vice-Consula og eru þeir nærhæfis 250 at tölu. Þeir mestu höndlunarstaðir í Danaveldi, fyrir utan Kaupmannahöfn, eru: Helsingiaeyri, Alaborg, Flensborg og Altóna. Utfærslu-vörur Dana eru: korn (árliga 4 til 5 húndrud-þúsúnd tunnur, hestar (ástundum 16 þúsúnd á ári), stórgripir (nærhæfis árliga 15 þúsúnd), Svín, feitmeti, saltkiöt, skinnavörur, aldini, ostrarfiskr, æðardún, saltfiskr, fegldúkr, kartún, kniplingar, handskar, leirker o. s. fr. Frá útlöndum flytiast til Danmerkur: Vínfaung, brennivín, olia, suðurlanda-aldini, silki, bómull, ull, hör, hampr, humall,

tóbak, steinkol, gler, timbur, brennividr, tiara, salt, saltpetr, málmar, pappír, lín, léreftl, ledr, allskonar krydd, kaffe, the, sykur. Mikill hluti þess, sem talit er, flytst aptur til framandi landa, sérílagi til kauptunanna vid Eystra-Salt. Allskonar varníngr má nú á dögum flytiast til Danmerkur, at undanteknu sikri frá Nordurálfu löndum, samt spilum, porcellanskérum, klædi og ýmsum dúkum.

§. 9.

Sídann árit 1536, þá hin evangelisku og af Luther endurbættu trúarbrøgd vóru løgtekinn af Kristiáni konungi 3dia í giørvøllu Danaveldi, hafa Danir trúat og hagat tídagiørdum sínum samqvæmt skipan þeirri, er þá var giørr. Eptir bodi kóngalaganna er hin augsborgiska játning rikisins høfud-trúarjátníngarbók og bætir løgbók Kristiáns hins 5ta vid ýmsu áhrærandi trúna (2 bók. 1 cap. og norskulagi 2 b. 1 cap). Í Hertugadæmunum er þaradauki Formula Concordiæ í gildi. Oddvitar kénnimanna eru 7 biskupar og einn Generalsuperintendent (í Hertugadæm.) og einn Superintendent (í Láenborg) Varnarþing biskupanna er hærsti réttur og koma øll málefni þeirra undir kóngs úrskurd. Biskupsdæminn skiptast í amtsprófastsdæmi og þau apir í sóknir (2103). Prestar eru þar hérumbil 1800 at tølu. Á Siálandi, Fióni og Jótlandi haldast á ári hvøriu stiptsfundir edr kénnimanna rádstefnur, hvar í ýmisligum mál-

efnum, er vidvikia kyrkium og klerkdómi, rádslagast og úrskurdast. Í Hertugadæmunum þar á móti skipa menn um kénnimannlig mál á Klerka-fundum (Consistoriis).

Athug. Allflest trúarsambønd mega samqvæmt meiníngum sínum og kreddum at frialsuióka tída giørdir sínar í Danmørku. Gydíngar eru flestir at iølu (yfir 5000) og hafa samkundur í Kaupmannahøfn og Altóna, hvar einnin eru bædi franskir og þydskir Reformeradir, samt í Fridericia. Remonstrantar (Arminianar) og Qvækarar í Fridriksstad; Mennonitár (Endurskírarar) í Altóna; Herrnhútar í Kaupmannahøfn og Kristiánsfeldi; Jansenistar á Nordurstrønd og Kathólskir í Kaupmannahøfn, Altóna, Fridiricia, Friderikssstad, Rendsborg og Lukkustad.

## §. 10.

Danmerkr kongúngar og ýmsir afbragdsmenn hafa lagt alt kapp á at vísindi og nytsøm frædi skyldu í landinu idkast ei sídur enn í ødrum løndum, og at gáfu- og hugvitsmenn fengiu færi á at fá kennslu í bókmentum og íþróttum, er samsvara sérhvørs standi og kosnum atvinnu veg; svo Danir mega at vísu teliast ámedal Nordrálfunnar best mentudu þióda. Í Danmørku eru nærhæfis 3000 skólar, í hvørium almugabørn læra at lesa, skrifa, reikna og kristindóminn; en fyrir þá er giøraft vilia kénnarar í þvílíkum skólum eru 9 frumskólar stiptadir, er kallast Seminarier. Bædi í Kaupmannahøfn og ødrum stødum fá handverksdrengir kénnslu

alla sunnudaga í skólum nokkrum er Masmann klerkr setti á stofn og eru þeir **Sunnudags-skólar** kalladir. Í Kaupstødunum eru **Borgaraskólar**, í hvørium þeir gánga, er framast vilia fremur almúganum. Fyrir þá, er idka vilia bókmentir og giøraſt sidan embættismenn í ríkinu, eru í Danmørku 2 þiódskólar, 7 stólsskólar, 14 lærdir skólar, 8 látínuskólar og 2 Gymnasia (háskólar); enn þá frædi nemandi úngmenni hafa í tédum skólum lokit ætlunarverki sínu og eru þadan útskrifadir, flytiaſt þeir til enna hærstu skóla edr þiódskólanna til at nema þar speki þá og frædi, er beſt samsvarar þeim vegi, er hvør valit hefir at gagna fósturjørdu. Um alt þat, er vidvíkr þiódskóla og skóla þessara málefnum og uppfræding menta-sona hefir stiórnarrád nokkurt at skipa er kallaſt: Direction for Universitetet og de lærde Skoler. Þaradauki eru þar 3 háskólar (Academiæ) í hvørium þeir mentaſt, er giøraſt skulu stridshøfdíngiar á sió edr landi. Hér má og nefna hinn kóngl grædara skóla (chirurgisk Academie), dýralæknisskólan (Viterinairskole) og uppskurdarfrædisskólan (Collegium Anatomicum).

Til at útbreida vísindi og snilli, hafa ýmsir menta- og fødurlands-vinir stiptat féløg a. hit konúngl. **vísindafélag**, sett á stofn 1743; b. hit konúngl. **danska félag** stiptat 1744 til frama **sagnafrædi fødurlandsins og mælfæri þess**; c. **Félagit til enna fegru vísinda og smekksins útbreidslu**, stiptat 1759; d. hit konúngl. **mediciniska félag**, stiptat 1772; e. **Náttúrufrædis félagit**;

f. félag enna bókligu menta nordurlanda; g. hit kóngl. félag til dýra- og hesta-þekkíngar útbreidslu, stipt. 1807; h. hit classenska bókmentafélag, stipt. 1809; i. hit danska bibliufélag, stiptat 1814 og k. annur deild ens íslendska bókmentafélags, stipt. 1816.

Til mentunar þeim, er leggia vildu stund á teiknýng, málverkslíst, steinskurd, byggíngarkunst, stungulist og minnispeníngagiörd stiptadi Fridrík kóngr 5ti (1754) skóla fyrir snilli edr enar fegru íþróttir og setti þar 7 lærifedur í listum og 7 í vísindum þeim, er þeir skyldu kénna. Ámedal hiálparmedalanna til vísinda og lísta má hér nefna 3 mikla bókastóla, auk allmargra einstakra bókasafna, er tilheyra ýmsum bókavinum, geymslubúr náttúruþínga, fáséinna kiörgripa og verkfæra, forngripasafn nordurlanda, kóngl. mynta og minnispenínga hirdslur, utölulig kostulig málverk, sivískryddr urtagardr, stiernuturn, yfir 20 prentverk og almargar bókahlödur.

## §. 10.

Hvad stiórnarformit snertir í Danaveldi, þá hefir ríki þetta útakmarkat einvaldsdæmi verit sídan árit 1660, þá Danir giördu þá skipan á þiódfundi í Kaupmannahöfn, at einn skyldi þiódkonúngr ráda fyri ríkinu og engum tiá at hamla vilia hans edr giöra álýktardóma hans ógilda. Konúngstignin gengr í erfdir svo í qvenn- sem karl-línu og eru bædi födur- og módurfrændur bornir til ríkis; en allir skulu danakóngar vera þeirrar trúar, er hin augsborgska játníng fyrir-

mælir. Danakonúngr hefir útakmarkat veldi, han setr og ónýtir løg, bodar strid, semr frid, áqvedr skatta og tolla eptir velþóknan sinni; þó eru grundvallarløg nokkr sett, er hann án afláts má giæta, og eru þau: 1. Einvaldsrerfdaskráin og 2. Kóngaløgin, er Griffenfeldt reit og kunngiørd vóru 1709. Samqvæmt þeim álitr konúngr engan sinn yfirdómara, utan Gud alleinu; hann skal játa þá trú, sem løgtekiun er i Danaveldi; hann má ei gefa burt edr afstanda nokkurn hluta ríkisins edr lóga ríkisins meidmum eda meniagripum.

Konúngr telst friáls forrædis og einsær um alla ríkisstiórn, þá hann er fullra 13 ára; en ádr enn hann hefir nád løgaldri þessum, hefir Ekkiu-drottningin landsstiórn á hendi, edr nánasti prins, er má vera fullra 18 vetra og enir gøfugustu høfdíngiar og fulltrúar konúngs 7 at tølu; þó gétr konúngr fyrirskipat, hvørnveg med skuli fara lands og lýda stiórn, at sér lidnum, uns konúngsefnit giørist fullaldra til kóngsveldis. Hinn eldsta son konúngs kalla Danir krónprinds (kóngsefni) er hina kóngssyni erfdaprindsa.

Hit ædsta Stiórnarrád, í hvøriu sitia rádgiafar kóngs og hvar siálfr konúngr er forseti, kallast Statsrád, til hvørs úrskurdar ønnur rád skirskota øllum vandamálum, at fráskirdum málavexti. Parad auki gánga þessi rád konúngi til handa i landstiórninni: 1. Hin kóngl. nefnd fyrir útlendskum málefnum. 2. Hit kóngl. danska Cancellie. 3. Hit kóngl. Slesvíkur,

Holsetulands- og Edenborgar-Cancellie. 4. Hin kóngl. nefnd fyri fiármunum ríkisins. 5. Hit kóngl. Rentukammer. 6. Hit kóngl. Skipa-stólsráð (Admiralitets og Commissariats Collegium). 7. Hit kóngl. herstiórnar og lands-hersráð (General-Commissariats Collegium). 8. Hit kóngl. ráð fyrir tollum og kaupmann-skap. 9. Hin kóngl umsiónar-nefnd fyrir pósts-flutningum öllum í ríkinu. Yfir Hertugadæminn er jarl (Statholder) settr, er hefir þar landsstiórn. Í hvöriu stipti er stiptamtmaðr til æðstu valda settr og yfir öমtinn amtmenn er báa skulu i þeim stað, af hvör-ium öমt þeirra taka nöfn, héraðsfógetar (sýslumenn) og amtsfógetar, hvörium menn lúka kónglig inngiöld og skatta. Í sér-hvörium kaupstað er borgarráð (Magistrat) borgmeistari og ráðmen, og þá staðirnir eru allitlir, alleina býfógetar.

Hvað þingskop og réttargang snertir, þá er i kaupstöðum öllum undirréttr sá, er bý-þing nefnist, hvar býfógeti hefir lögsögn. Á landsbygðinni dæma héraðsfógetar um mál manna og á aðalsmanna eignum og léns-löndum halda birkidómarar þing, er birk-eþing kallast, og lögdæmi þeirra birk. Frá öllum þessum dómstólum stefna menn málum til ens kóngl. Landsyfirrétttar, samt til Hof- og Staðaréttarrins i Kaupmanna-höfn. Í Hertugadæmunum er i stað hvörium borgarráðsréttr og á bændabygðinni birki-og héraðsréttir, frá hvörium menn skirskota

málum til Slesvíkur yfirréttar í Gottorpi og til ens kongl. holsteinska yfirréttar í Lukkustað.

Hinn ædsti og sídsti dómstóll í Danaveldi er Hæsti-rétti (Höieste Ret); þar sitr konúngr í hásæti einusinni á ári hvoriu (í Martii mánudi) og ávalt endrarnær flytia menn mál fyrir honum og ávarpa hann, sem hann væri nálægr; frá þessum dómstóli eru enginn þingskot edr skirskotan giörr, utan til konúngs nádar og mildi. Í Yfir-Admiralitets-réttinum er og hinn ædsti þingstadr um sum mál, er þartil heyra.

Løgbók Dana er Christiáns hins 5ta dønsku løg (Codex Christianeus), er þiódløg giørdust 1683, auk allmargra lagasetnínga og réttarbota, er sídan hafa útkomit. Í Slesvík gilda Jótaløg Valdemars hins annars í dómum og úrskurdum; Holsetulandsmenn hafa lagabók útaf fyrir sig.

Titill Danakonúngs hliódar svo: Konúngr Danmerkur, Vinda og Gauta, Hertugi í Slesvík, Holsetulandi, Stórmæri, Péttmerski, Láenborg og Oldenborg.

Því danska Skialdarmerki edr Herkumli, er Dannebrogskrossinn skiptir í 4 hlnti, má svo lýsa: 1. 3 heidblá lión, umhverfis hvør standa 9 hiørtu á gullfeldi edr gullnu undirbordi fyrir Danmørku. 2. 3 gullkórónur á bláum undirlit sem þþdíngarmerki sameiníngar enna þriggia nordurlanda kóngsríkia. 3. 2 lión á gulu undirbordi fyrir Slesvík. 4. hit cimbriska og gautska lión, blátt at lit, ásamt 9 hiørtum raudum á gulu undirbordi. 5. hinn vindski gullsialladi og krónadi lfugormr á raudum undirlit, 6. eitt netlublad á raudum undirlit fyrir Holsetu-

land. 7. Alpt á raudu undirbordi fyrir Störmæri. 8. Riddari á raudu undirbordi fyrir Pétturskí. 9. 2 þverbiálkar á gulum undirlit fyrir Oldenborg. 10. Kross á raudu undirbordi fyrir Delmenhorst. 2 villimenn, med kylfur í höndum halda skildinum imillum sín.

Í Danmørku eru þessar Riddara-ordur og tignarmerki:

1. Fílsordan (Elephantordenen) stiptut af Christiáni kóngi 1sta 1462, en 1693 skipadi Christián 5ti um skrúd hennar og setti henni reglugiørd; tignarmerki þeirsarar ordu er: einn med hvítleitu smeltuverki prýddr fíll af gulli, er riddararnir bera í blán silkibandi edr borda, er gengr yfir vinstri øxl og um hægri sídu; kallast því ordan ástundum: hit bláa band, og limir hennar blábandsriddarar, hvørir enn-remr bera á vinstra brióssi áttbyrnda stiørnu af silfri, í hvørri midri gést at líta Dannebrogskrossinn.

2. Dannebrogsordan (Dannebrogsordenen), er Valdemar 2r stiptadi og Christián 5ti endrnýjadi 1693. Heidursteikn þessarar ordu er glérfarfadr gullkross, settr demøntum og er borinn í hvítleitu silkibandi, er liggr um vinstri øxl og hægri sídu; kallast orda sú optsinnis: hit hvíta band og medlimir hennar: hvítabandsriddarar, er þaradauki bera mikla silfur-stiørnu med krossi í midiu á hægra brióssi. Fridrikr 6. konúngr vor, jók ordu þessa og giørdi hana marabreytari 1808; skipti hann henni í 5 flokka, nl Stór-Commandøra, Stórkorsa edr Stórkrossa, Commandøra, Riddara- og Dannebrogsmenn. Enna sídstnefndu virdíngarteikn er silfurkross.

Til er hin 3dia orda í Danmørku, er nefnist á franska túngu l'Union parfaite (les: luniong varfét) edr in felicissimæ unionis memoriam (í minníng lukkusælustu sameiníngar) stiptut 1732 af Sophiu Magdalenu drottníngu til endrminníngar um trúlofun hennar.

Heidursteikn þessarar orðu er hvítr glerfarfaðr gullkross, á hvörium utanverðum hit norska ljón og hinn brandenborgski örn er at líta. Í miðiunni stendr nafndráttr konúngs og drottníngar; þat var borit í bláu bandi á bríóstinu bæði af körlum og konum; en síðan 1770 hefir enginn því sæmdr verit.

Skiríngargr. Danaríki gengr at erfðum til elðsta konúngssonar og sonar sona hans, meðan nokkr er til í þeirri qvísl; en þrióti þar ættbogan, gengr þat í erfðir til næstu qvísla á sama hátt, mann af manni, qvísl eptir qvísl, uns enginn er uppi af bræðra blóði; en þá konúngssona ættir eru aldauða, erfir ríkit hin elðsta dóttir hins síðsta konúngs; en sé hún ei á lífi, gengr ríkis-erfðin í ætt elðstu dóttur Friðríks konúngs hins 3dia. (Veri þetta sagt þeim til leiðar-vísis, er ei at fullu skilia, þá Danir qveða svo at orði um ríkiserfðina í Danmörku, at hún sé lineal og agnatisk-cognatisk).

§. 11.

Hinn danski landher samanstendr nú af 20,000 fótgaungulids, 5000 riddaraliðs og 4000 megin-skotfæra-liðs; allr þorri liðsins er nú á dögum innlendr og eru hermenn skyldir at þióna konúngi á þann hátt í 8 ár, at hvörium liðnum þeir innskrifast í enar viðtengdu hersveitir (annecterede Batailloner) er ei grípa til vopna, utan þá ústriðr er. Giörvallr danaher er greindr í 3 hluti (Divisioner) eðr flokka, er hinn æðsti herdrottinn eðr hershöfðingi hefir yfir at bióða ásamt hersforíngiaráðinu(Generalstaben),hvörs aðsetr avalt er í höfuðborginni. Í Kaupmannahöfn, Rendsborg og Randarósi eru hertýgi flest og atbún-

aðr mestr og forði handa hernum. Í höfuðborginni er spitöl fyri siúka og lemstraða og í Eckernförde fyri örvasa hermenn. Auk Kaupmannahafnar eru þessar enar merkustu festingar og varnarvirki í Danaveldi: Krónborg, Krossøyri, Nýborg, Fridericia, Rendsborg, Fridriksört og Lukkustaðr. Hvat Danmerkur herskip og siólið áhrærir, þá hefir herskipa floti Dana verit fáskipaðr síðan Enskir tóku hann 1807; en árliga hefir Dánakonúngr látit herskip giöra svo nú er floti hans 16 herskip nl. 3 linuskip, 7 fregöttur, 4 briggur og 2 skonertur og allmargir kanónubátar. Siólidit er annatveggia hit fastráðna lið (faste Mandskab) sem er 2500 manns at tölu og heyra þartil ýmsir handverksmenn, t. d. tímburmenn, jarnsmiðir og segldúksvefarar, er þióna at skipasmíðum; og enir innskrifuðu áskipanarmenn eðr flotnar, er í siáfarhérudum öllum giörast konúngsmenn. Skipaliðsforíngiar bæði hærri og lægri tignar hafa á seinni tíðum fækkat miög og eru þeir nú hérumbil 150 at tölu.

Fridrikr kóngr 4di stiptaði Skóla (Academie) í Kaupmannahöfn til handa þeim er giörast skulu foríngiar skipaliðsins; hvar einnin er siókortasafn allmikit og skóli, í hvörium menn nema skipabyggíngarfræði. Á Gamla- og Nýahólmi, frá hvörium gánga brýr til bæjarins, er herskipa-bygging Dana og allr atbúnaðr og gögn, er viðþurfa til at smíða, bæta og útbúa stór og smá herskip; þar standur og hertýg og skipsreiðahúsit; þángat fær engin út-

lendingr at koma útan með kóngsloſi, ei heldr innlendir, nema þeſs leyſt haſi, er æðſtr er þar höfdingia.

Nokkr hluti ſtaðarins innſrá Auſturhlídi er áqvardaðr (af Chriſtiáni 4ða) því ſaſtrádna ſiólidi til búſtaðar og kallaſt Nýbúdir; og 2 ſpitol eru í bænum því til hælis áqvedinn, þá þat í ſárum er ſiúkdómum liggr.

§. 12.

Inngiøld Danakonúngs vóru fyrir ena ſídſtu ſtyriøld hérumbil 7 til 8 milliónir rikisdala, af hvørium Norvegr lauk 1½ millión; en ſtrid þetta olli ſvo mikillar úhamingiu í búſiſium ríkiſins og penninga-áſtandi, at alvarliga atburdi mátti viðhafa, ef umſlýa ſkyldi niðurdrep þeirra og nauð þá, er almennt tók at geyſa of land alt. Á øndverðu árinu 1813 var einn ríkisbánki ſettr á ſtoſn og øllum þeim ſiárſióðum, er áðr høfðu verit, ſtyttiſt aldr og ný mynt varð nú gildandi í giørvøllu Danaríki, at undanteknum Hertugadæmunum. Frá ríkisbánka þeſsum komu ſtrax myntaðir peningar og ſedlar, er hliódudu uppá 100, 50, 10, 5 og 1 rbdlr. ſvo ei varð upphæð þeſsara pappírspeninga minni enn hérumbil 75 milliónir; ſamqvæmt því nýa myntmáli, vóru og ſilfurpeningar ſlegnir, er kallaſt Rikisbánkadalir og gilda þeir tveir við eina ſpeciu. Auk þeſsara peninga-tegunda, eru í ríkinu gull- og ſilfur-peningar, hvørra gildi í ſamiøſnuði við ríkisbánkapeninga er með konúngl. reglugiørð

áqvardat. Arit 1818 giørdi konúngr þá skipan; at rikisbánki þessi skyldi ei framar kallast svo heldr þióðbanki (National-Bank) edr alþióðligr fiársióðr og vóru hønum til umsiónar fengnir 15 kiørnir fulltrúar (Repræsentanter) er taka einn til ædsta forsprakka yfir sig, og 5 umráðamenn edr ármenn (Directeurer) af hvørium fulltrúarnir velia 4, en kóngr siálfr kýs hinn 5 og gøfugasta; þeir sem eiga medgiørd í sióð þenna, edr eru hluttakarar í hønum kallast Interessenter, þeir gialda hønum løgbodna 100 rbd. edr meira; líka kallast þeir svo, er lúka svo miklu fé siálfviliugir. En med því at silfrit var gildara metit í øllum kaupskap og gialdalúkníngum, giørdist naudsyn til at áqveda víst verdlag á því í tilliti til sedlanna á hvørium þriggia mánada fresti, og kallar nefnd sú, hvørri þvílíkt peníngamat á hendur er falit verdlag þetta Qvartals Cours edr hálfs misseris verdlag. Þióðsióðr þessi hefir lof at útgéfa sedla, er hlióda uppá reidu silfur, þó med því fororði, at borga þá fullu verdi, þá krafit verdr.

§. 13.

Med því þióð sú, er um margar aldir hefir bygd Danmerkur lønd, er meginþióð í riki þessu, hafa menn ávalt kallat túnga þá, er hún mælt hefir, danska túnga; en allmiøg er hún nú á døgum úlík því túngumáli, er talat var á øllum nordurløndum í forntíd, þá eitt var mál í Danmørku, Sviaríki, Norvegi og Islandi,

sem fornar frædibækur votta, hvoriar ei géta þess, at tédra landa innbúar hafi nokkru sinni ei undirstadit hvorir adra, þá sundum bar sam= an, edr ei mælt somu túngu. Því meir sem Danir höfdu mök vid þiódverska, briáladist og breyttist mál þeirra svo miög, bædi ordinn siálf og samansetning þeirra, at ei skilia Islendíngar þá túngu, er Danir nú mæla, nema þeir læri hana og má þat sama segia um Dani, at tor= selt veitir þeim at nema túngu forfedra sinna, nl. Islendskuna. Utliti og vaxtarlagi Dana lýsir nafnfrægr þýdskr rithöfundr á þennan hátt: Danir eru almennt velvaxnir og allvel á fót komit, fleiri eru blartir og jarpir, enn kolsvartir á hár; bláeygir og hraustbygdir. Fyrir hör= undsfínleik og skinnræstni er qvennfólkit nafn= kéndt.» I forntíd vóru Danir ásamt Nordmönn= um og Svíum, sem þá var aldarháttr til, vík= íngar miklir og herjudu þeir vída um lönd og vóru ránsamir og drápgiarnir; kolludust þiódir þessar Nordmenn af Sudurlanda=búum, er um lángar hrídir máttu sæta mikills ójafnadar og gripdeildar af þeim, þar engin stódst fyrir hreysti þeirra í vopna=vidskiptum; brutu þeir lönd undir sig og giörðust höfdíngiar yfir. Vid hernad og víg vöndust þeir frá blautu barns= beini og trúarbrögd þeirra midudu til at giöra þá hrausta í orrustum og hugada í öllum þrek= raunum og var þeim of alt heidr og frægd kiærara, enn lífit. Þeir höfdu og marga manns= kosti til at bera er nú á dögum eru skialdgiæfari, enn skyldi, medal hvörra telia má óbifanligt stödug=

lyndi, trygð og áqvikulann vinskap, aðallund og drengskap, rausn og líkn við þurfandi og þá, er vóru minni máttar. En sem stundur liðu fram, sefaðist ofurhugi þeirra og ofstæki; þá kristni var lögtekin, góðir siðir innrættust og fleiri mentir tíðkuðust, lagaðist smámsaman skap ferli þeirra svo, at þeir um allmargar aldir hafa hlotit verðskuldaðan orðstýr fyrir prúðlyndi og friðsemi. Hvat lunderni Dana nú á dögum snertir, þá fer einn nafntogaðr landaskipunarfræðis-ritari, danskr at ætt, á þennan hátt orðum um landsmenn sína: «Danir eru hraustir í orrustum, en þó friðsamir; ei fyrirtektasamir, en stöðuglyndir og stárssamir; hóglátir eru þeir og veglyndir; gestrisnir, en ei þénustuviliugir; glaðværir og einlægir í flokki landa sinna, en við útlendinga þurrlyndir, orðfáir, dáleikslitlir og fullir viðhafnar og dekurs; þeir unna fremur haggvæmum kosti enn sundurgérð og skrauti, fremur sparsemi og hagnytni, enn ávinníng og fjárafla, optsinnis annattveggia af hégómadýrð eðr þúnglifi; þeir semia sig miög at háttum annara þióða, og eru sialdan fyrstir manna til nýrra uppáfinnínga; allmargir eru skarpvitrir og diúpthugsandi, en nokkut seinir á sér, gáfaðir eru þeir háum og sterkum, en ei margbreyttum eðr andugum ímyndunarkrapti; búnir eru þeir til hrífandi géðshræringa, þó þeim býðst tilefni; fósturjörð sína og gagn hennar elska þeir miög, þó láta þeir sér oflítit umgéfit alþióðliga viðfrægð. Þeir una vel við giæfð einvaldsstiórnar, en hata þrældóm og lagalaust

veldi; þetta er, segir hann, höfud-flapferlis einkunn Dana.» Flestum kémr ásamt um þat at þeir séu heldur alvöru-géfnir, enn kátir, dulir, enn opinnskáir og ei svo liúfir á manni sem Þióðverskir; mildir eru þeir við játæka og naudstödda; þeim er brugdit um at þeir séu metordagiarnir og géfnir fyrir heidurslitla, samt at heldur hafi óhóf í skarti og skrautligum atbúnadi þróast ámedal þeirra á seinni tídum. Holsetulandsmenn líkiast Þióðverskum meir enn Danir og eru géstrisnari enn þeir og blidari í vidmóti, betri kaupmenn og meiri addráttamenn. Frísar, er byggia vestri strönd Hertugadæmanna og eyarnar fyrir vestan þau, eru Dönum ókurteysari og búraligri; þeir eru, ásamt Þéttmerskingum, ættmönnum sínum, nokkut dularfullir, stórbokkar og tregir til samblendis vid adra menn; þeir eru grimmir, þá illu er at ýta, og údælir.

---

Hér hefur lýsing þeirra landa, sem, þótt þau liggi í allmiklum fiarska frá þióðlandinu, eru Danakonungs veldi undirgéfin, en liggia þó innan takmarka þessarar heimsálfu; er þá fyrst at telia:

## I. Færeyar (Færöerne; insulæ færöenses).

Svo kalla menn eyaflokk nokkurn í nordr-höfum milli Norvegs, Skotlands og Íslands (ímill-

um 61° 15′ og 62° 20′ nordl. breidd.) og er þat meining manna at eyar þessar hafi i sndverdu tekit nafn af gódu hagqvisti fyri saudfé, er landnámumönnum þótti á þeim vera og hafi þeir þvi kallat þær Færeyar. Þær liggia 280 milur i útnordr frá Kaupmannahöfn, 85 milur i vestr frá Þrándheimi og 70 milur i landsudr frá Islandi. Öll eru likindi til, at eyum þessum hafi af ógurligum jardelda umbrotum af hafi uppskotit, hafa menn þat til marks þar um, at hvervetna finnst þar steintegund sú, er Basalt heitir. Færeyar eru 25 at tölu og eru alleina 17 af þeim bygdar; allar samt eru þær hérumbil 30 ferhyrn. milur á stærd, og lýdrinn er byggir þær nærhæfis 5000 at tölu, og ræfir hann fornu trú og Danir.

Færeyar eru háar og med hengiflugum umhverfis; fyrir sakir brims, hafólgu og strídra strauma, er sióleidin bædi nálægt þeim og ímillum þeirra geysi-hættulig; blása þar og tídum stormar og hvirvilvindar og allvida eru þar geigvænligar rastir og sker, medal hværra géta má Sumbeyar-rastar vid 36 álna háan þverhnýptann dránga, er Sumbeyar-munkr er kalladr; vid hann er sífeldr brimsúgr og gníandi giálfr, þó logn sé. Þó eru þar á ýmsum stödum lendingar og allgódar hafnir t. d. Vest-

manna- og Kóngshøfn; hit hæsta fiall á ey-unum er Skallingsfiall (2040 fóta á hæd).

Hvat loptslagit snertir, er abl kuldans ei svo mikit þar, sem i Norvegi undir sama him-invegi, og ollir því þat, at umhverfis eyarnar er meginhaf. Sialdan ber þat til, at hafnirnar leggi, og áftundum frýs á fiøllum uppi, þá þat riguir á dølunum. Saudfé gengr þar úti oll-um vetrum. Engir eru þar skógar, en i stad vidar, brúka eyarmenn bædi mó og steinkol til eldsneytis med því hverutveggia er þar at finna til hlýtar; sérilagi eru steinkola-námurnar á Sudureyu allardsamar. Litt rækia Færey-ingar akuryrkiu; þarámóti er saudfiárrækt og fiski-afli enir notadrinúgustu atvinnu-vegir þeirra. Kaupeyrir eyarmanna er: saltat saudakiøt, ædar-dún, alfta- og giæsafidr, les, smiør, tólkr, húdir, skinnavara, skidi, lýsi, hardr fiskr og steinkol.

Hvat kénnimannlig málefni áhrærir eru ey-arnar allar samt eitt prófastsdæmi, í hverin eru 7 kyrkiusóknir, og liggr þat undir Siálands biskupsstól; en hvat vidvíkr borgarligri greining á eyunum skiptast þær í 6 sýslur, yfir hveriar 6 sýslumenn eru settir, 1 landsógeti, 1 løgmadr og 1 Sórenskrifari, til at dæma løg og lands-

rétt, heimta sakeyri og landskyldir, og standa þeir allir undir Siálands Stiptamtmanni.

1. Straumsey, er þeirra vídlendust (6 mílur á lengd og 2 á breidd) þar eru 2 kyrkiur og 1560 innbúar. Nordan framm á henni er Vestmannahøfn. Á austr-strøndinni er hinn merkasti høndlunarstadr á Færeyum, er Þórshøfn heitir (Thorshavn; Thori portus) þar er heimili landfógetans, látínuskóli, høfn og litit virki henni til varnar; húsinn eru þar af timbri giørr og mestr hluti varníngs eyarmanna samankominn.

2. Suduren liggr sydst; hún er 5 mílur á leingd og 1 og sumstadar 3 mílur á breidd; innbúar hennar eru 700 at tølu.

3. Austurey, er 4 mílur á leingd og 1 á breidd, hefir 110 innbúa; sudvestan til á henni er Kóngshøfn.

4. Vorey. 5. Vogey. 6. Sandey eru smáeyar.

Í søgum nefnist Svíney nordast, svo Austurey, svo Sandey, Dimin, Suduréy og Straumsey sydst, Skúfey og Vogey.

Í úfridi þeim er Haraldr konúngr Hárfagri gékk til lands i Norvegi á 9 øld, flukku margir úr landi fyrir ofriki hans og áløgum og byggdust þá útlønd, medal hvørra vóru Færeyar; eru því Færeyingar norskir at ætt og

uppruna og er þat sögn manna, at víkingr nokkr Grímr Kamban at nafni hafi þar fyrstr manna land numit. Árit 1000 tóku Færeyíngar rétta trú og á 11tu öld lögdu Norvegs konúngar eyarnar undir sig og fylgdu þær sídan med því ríki, þá einn giördist einvaldi yfir Danmörku og Norvegi.

## II. Ísland (Islandia).

§. 1.

Þat hafa sumir menn haft fyrir sannindi, at land þat, er Rómveriar kölludu Thule, og þeir lýst hafa í frædibókum sínum, hafi Ísland verit; en ei er þat í lófa lagit at færa rök til, at þeir hafa þat land þeckt, þó margfródir væru; er því þeirra meiníng líkligari, er segia, at þat muni Þelamörk í Norvegi, er Rómveriar kölludu svo. Þat hafa frædimenn nordurlanda í frásögur sært, at víkíng nokkurn Naddodd at nafni hafi í hafvillum hrakit at landi þessu austanverdu (hérumbil 861) og med því hann sá snió falla á fiöll, þá hann sigldi af landinu um haustit, hafi hann því nafn gefit og kallat Snæland; 4 árum seinna vard svenskr farmadr er Gardar hét, sæhafi og rak hann vestr í haf; hann kom at landi fyrir austan Horn og sigldi sídan umhverfis landit og vissi af því at þat var eyland; þat var sídan kennt

vid hann og kallat Gardarshólmr. Hinn þridie er þar bar at landi (867) var víkingr norrænn, er Flóki hét, hann bióst af Rogalandi at leita Gardarshólma; hann gaf landinu nafn þat er þat hefir sidan haldit og kalladi þat Island af ísi þeim er hann sá vid nordurstrandir þess.

Land þetta liggr miøg nordarliga á hveli jardar og er laung sióleid til þess hvervetna frá løndum þeim er nánust eru. En med því ávalt hefir nokkr ágreiningr verit um leg þess edr afstødu, sérilagi um þat, á hvørri lengd þat lægi edr hvat austarliga eda vestarliga því sé grundvøllr takmarkadr í nordurhøfum, þykir þat sénniligt at fylgia helst þeirra manna ávísun, er sídast hafa mælt jadar þess øllumegin og eptir sem vidséft afmálun þess bendir til; og verdr þá nærhæfis þessi afstada þess, nl. at høfdi sá er lengst gengr í sudr og Dyrhólar kallast, liggi 63° 24′, en núparnir á Slettu í Þíngeyar-sýslu 66° 33′ fyrir nordan midjardarlínu, edr at Island liggi ímillum 63° 24′ og 66° 33′ nordlægrar breiddar; en at Gerpir, austast á Austfiørdum, liggi 15° 45′ fyrir vestan Paris og at landit nái í vestr alt at 26° 50′.

Þar sem landit gengr lengst í sudur, kallast Dyrhólar, er Danir kalla Portland, í Mýrdal

í Skaptafells-sýslu enni vestari; en 2 eru út-skagar hit nyrdra, er lengst gánga í haf út nl. nordasti høfdi á Hornstrøndum, er Horn kallast og Slétta í Þíngeyar-sýslu edr Raudinúpr og Reistarnúpr á Sléttu er lengst skiága í nordr allra útskaga á landinu og skér nordur-hiara hríngr þá yfir þvert, en engan annan skaga landsins, med því hann gengr slutta leid fyrir nordan Horn á Hornstrøndum yfir nordrhvel jardar; má þaraf siá at mikill er greinarmunr á mein-íngum enna eldri og nýari landamælenda um leg landsins hit vestra, þar þeir fyrri hafa látit þann hluta Vestfiarda, sem er fyrir nordan Ingolfs-fiørd á Strøndum og Arnarfiørd, edr þvínær alla Isafiardar-sýslu og nøkkurn hluta Stranda-sýslu liggia fyrir nordan tédan hríng; en hvat afstødu núpanna á Sléttu snertir, ber þeim saman; en líkligt þykir at hin eldri landkort skeiki of miøg frá sannindum. Biarg þat fyrir nordan Reid-arfiord á Austfiørdum, er Gerpir kallast, gengr lengst í austr; en Fuglabiargit (Staalbiærget) edr Biargtángi (Biarnanúpr) í Bardastranda-sýslu lengst í vestr á Islandi.

Island er allra eylanda mest í nordr-álfu heims fyrir utan Bretland hit mikla, og segia menn at þat sé hérumbil 1400, sumir rita 1480 ferhyrnings mílur á stærd, nærhæfis 90 mílur

edr 18 þingmannaleidir á lengd í austr og vestr, þá menn mæla frá útskaga tám hit eystra og vestra á landinu, og þar sem þat er breid, ast í út og sudr nærhæsis 50 mílr edr 10 þingmannaleidir. Þetta er at skilia um beina leid edr rétta siónhending.

Skiringargr. Fornmenn skorudu svo á um afstødu Islands og vegalengd til næsttliggiandi landa, at 7 daga sigling sé úr Norvegi frá Stadi í vestr til Horns á austanverdu Islandi, en frá Snæfellsnesi 4 daga sigling til Hvarfs á Grænlandi í vestur, þar skemst er; frá Reykianesi á sunnanverdu Islandi þriggia (sumir segia 4, adrir 5) dægra haf til Oldúhlaups á Irlandi í sudr, og frá Långanesi 4 daga sigling til Svalbarda nordr í Hafsbotna fyrir austan Greipar á Grænlandi. A seinni tídum hafa ýmsir fródir menn fært í letr og þókst sannat géta, at frá Austfiørdum séu 120 mílur til Þrándheims í Norvegi, er liggr vidlika nordarliga edr á sømu breidd sem Island, er liggi 150 mílur fyrir nordan Irland, 78 edr 80 mílur í útnordr frá Færeyum, 130 mílur frá Hialtlandi, hérumbil 260 mílur í vestr útnordr frá Kaupmannahøfn, þar sem skémst er, og nærhæsis 280 mílur í útnordr frá Hamborgarelsumynni, hvadan til Islands telst 7 daga sigling í gódu leidi; en frá Snæfellsnesi til Grænlands, er liggr Islandi næst allra landa, 64 mílur í fullt vestr; en skémra er þángat frá nordvestr-strøndum landsins.

§. 2.

Island er afar fiöllótt land og er mikill hluti þess óbygdr, med því at allr midhluti þess er fiöll ein og fyrnindi, hráun og heidar, öræfi og eydisandar; þat er og umfram flest lönd ísnum þakit hit efra og liggr þar vída snjór og jökull öllum sumrum, svo sem um vetur og kalla menn þat jökla edr snióflöll; undan þeim falla ís-köld vötn, sumstadar svo strídt og med stórum forsum at bergin og jördin umhverfis skiálfa fyrir ofureflis sakir. Vel má segia at alleina strandir lands þessa edr jadar þess umhverfis sé bygdr og er sumstadar svo bygdinni háttat, at ein striál bærod stendr vid sæ, en fyrir ofan hana taka strax flöll og heidar vid; allvída er þat og, at háfialla-múlar og höfdar ganga at sió framm er skilia sveitir og er þar annat-tveggia svo sæbratt og giædalaust at ei má byggia edr heingiflug eitt og sláfarhamrar; vída er og undirlendi mikit og all-lángt milli fialls og fioru (t. d. í Arnesz-sýslu) og sumstadar gánga víd-lend hérud og sveitir frá fiardarbotnum all-lángt uppi landit (t. d. Fliótsdals- og Skagafiardar-hérud) samt uppfrá þeim og fiordum fagrir dalir ímillum háfialla edr há-sa til heida upp, og renna eptir þeim elfr og ár, sem fullar eru af silúngi edr laxi; má héraf ráda, at vidsýni

til sniókrýndra fiallatinda, grænna hlída, fagurstreymdra vatnsfalla, lyngura og krókóttra qvísla um fagurt flatlandi, beliandi lækia og hvínandi forsa, er á ýmsum stødum inndælt og einkar fagurt.

At vísu verdr ei offøgum sagt frá snæfiøllum og jøklum á Íslandi; en hvergi eru þeir svo margir og miklir sem í sydri hluta Austfirdínga fiórdúngs. Yfir høfud má øllum jøklum á Íslandi deila í 3 flokka ul. a. Háiøkla, þeir eru háir og hvervetna brattir; eru þat snæþakinn háfiøll er siást í mikilli fiarlægd, t. d. Baldjøkull, Eyafiallajøkull og fl. b. Skridjøkla, þeir eru lágir og óbrattir, eru þeir komnir af jøkulføllum edr íøskridum t. d. Skeidarárjøkull og fleiri austanfranım á landinu, c. Grunnjøkla, þeir eru í øndverdu komnir af stífludum jøkulvatna rásum og vatnsdældum á láglendi, er frosit hafa og sídan ei nád at þydna, en hvar grunnit og vatnit hefir samfrosta ordit líkt og afarmikill svellbúnki, er heldr eykst enn þverrar árliga, og er ávalt hit efra med sprúngum svo miklum, at tilsýndar eru sem giár med gnýpum þess á millum, t. d. Breidamerkurjøkull. Sumir eru og jøklar þeir, er Falljøklar kallast og hafa þeir þat til þess, at þeir hníga edr falla framm um hríd hvar hvylft er

nøkkr edr hvar ei er fiall edr klettar fyrir þeim og hverfa edr hørfa tilbaka, (þykir þat edli þeirra ærit undarligt) t. d. Skeidarárjøkull, Hornafiardarjøkull, Drángajøkull; og fl. jøklar þessir eru ymsum breytíngum undirorpnir, og þykir sem þeir séu á sífeldu qviki. Þeir nafnkéndustu jøklar á Islandi eru: Hornafiardarjøkull, er einnin kallast Klofajøkull og Heinabergsjøkull, sem alt er einn jøklaklasi vestur af bygd í Sudurmúla- og Austr-Skaptafells-sýslu, er þar hefir ýms ørnefni; allnær sé liggr Breidumerkr-jøkull og sudur af hønum Ørœfajøkull, svo Skaptár- edr Sídu-jøkull, svo Mýrdalsjøkull, ásamt Kotlugiáar- og Sólheimajøkli og svo Eyafialla-jøkull; allir þessir jøklar liggia þvínær í rød, hvør í útsúdr af ødrum strandlengis med sæ sudr og eru þeir flestir áfastir. Fyrir nordan sídstnefnda jøkla er einstakr jøkull, er Torfajøkull heitir og í útnordr af hønum Tindfialla-jøkull, og en lengra vestr Bláfells- og Eyriksjøkull, þá Geitlandsjøkull og Baldjøkull nordastr, en fyrir austan hann Hofsjøkull, er Austlendingar kalla Lángjøkul. I Vestfirdíngafiórdúngi eru 3 jøklar miklir nl. Snæfellsnessjøkull, Gláma edr Glámujøkull og Drángajøkull ímillum Isafiardar og Hornstranda.

I samanburdi vid sum háfiöll í útlöndum, má fiöllinn á Íslandi ei há kalla, þar þau hærstu ei eru mikit yfir 1000 fadma á hæd; Snæfellsness-jökull og Eiafiallajökull meina menn séu þar fialla hærstir og siást þeir fyrstir allra fialla á Íslandi, þá sunnan at landinu er komit.

Fiöllinn á Íslandi eru annattveggia reglulig edr óreglulig; hin fyrri kalla menn en upprunaligu fiöll, edr þau, er i ondverdu hafa hlotit lögun þá og ásýnd, er þau nú hafa; eru þau at því audþekt, at eptir þeim liggia mörg (hérumbil 20 til 40) hamrabelti og líta svo út, sem þau væru stalladir múrveggir; þau óregluligu edr úskipuligu eru ei á þann hátt stollut, heldr líkiast þau haugum af urd, griót og leir, er jardelda umbrot hafa uppskotit, steypt, mindat edr umturnat; þau eru bædi svart, raudleit edr liósgul tilsýndar, eptir sem þau meira edr minna samanstanda af bruna-hrauni og vikr edr gagnbökudum raudleitum, hvítum og blágráum leir og ledju; sídstnefnd fiöll má og forn og ný kalla; þau gömlu eru öll þau fiöll á landinu, er þakinn eru jökli hit efra; en þau nýu eru minni og meir saman-smeltut, og eru sum af þeim uppkomin eptir landnámatíd.

Medal Íslands fialla má allmörg telia

Þau er gosit hafa eldi edr ollat ofurgángs elds þesö, er brædt hefir griót og berg, sem vax, flótit framm sem vatnastraumar, og umhverft og afmindat vidlend svædi. Þau fiöll, i hvörium eldr hefir uppi verit, og sem giört hafa jardusla og asmád bygdir bædi i manna minni og um hvör finnst skrád i árbókum landsmanna, má i stuttu máli hér nefna fylgiandi: Heklu, Kötlugiá, Kröflu, Hrafntinnufiall, Leirhnúk, Sandfell, Herdabreid, Trölladyngiur, Kérlíngarfiöll, Skialdbreid, Skardsheidi, Henglafiöll og fiallgardr sá er þadan gengr i útsudr til Reykianess, svosem: Trölladýngiur, o. s. fr.

J sumum jöklum landsins hefir einnin ógurligr eldr geysat, er brædt hefir jökulísinn og spreingt framm jöklana, svo afarmikil vatnahlaup nádu framm at streyma til siáfar, er báru ísjaka, sand og vikr á land alt er fyrir þeim var; til þessarar óhamingiu má nefna Ørœfajökul, Mýrdals- edr Kötlugiár- og Sólheimajökul.

Einnin hefir eldr þessi rudt sér veg og brostit upp af jördu allvida annarsstadar, enn i fiöllum og jöklum, t. d. á mörgum stödum nálægt Mývatni, svo sem: Biarnaflagi, Hitaholi, Hrossadal, Hrossaborg; samt i Sidumanna-afrétt og hvar Eldborg i Borgarhrauni nú stendr og

vldar, hvar brunahraun votta um ofurgáng jardelda fyrir og eptir landnámatid, er vollit hafa upp úr gögum og gloppum, og runnit forbreckis edr eptir sem halladi; þvilikar módur af smeltu grióti hafa landsmenn ýmist kallat: Steinár edr Þurrár.

Allmargir eru útskagar og andnes á Islandi og má þat med sannindum segia at vidast sé skamt þeirra á millum utan á þeim hluta landsins, er í landsudr veit edr frá Brunnahorni til Reikianess. Ena nafnkéndustu útskaga má telia: a. Reykianes, þat skagar lengst í vestr útsudr allra nesia á landinu (breidd þess telst 64° 6′ en lengd 24° 14′ 30″; ɔ: fyrir vestan Paris). Þar er brunasandr og hraun eitt og med öllu übygt, einkum fyrir sakir vatnsleysis; margir eru þar leirhverir og brennusteinspittir. Ut frá nesinu gengr röst mikil í útsudr í haf út og er þar mikill ûkyrrleiki jafnan og sjugstreymi; þat er sumra meining at þar komi allmiklar vatnsrásir til siáfar í gégnum hulda farvegi. b. Snæfellsnes, þat gengr vestr í haf imillum Faxa- og Breida-fiardar; þat er misg vidlendt og allra útskaga hærst á landinu, med því jokull sá, er kéndr er vid nesit, stendr á því utanverdu. Öndverdarnes kallast ytsti oddi ness þessa. c. Lánganes, þat gengr hérumbil 6 milur i landnordr í haf út, og liggr

ût eptir nesinu midiu gróðurlaus fiallhryggr, hvørs ytsti høfði kallast Fontr og er þar hladin varda, er Steinka heitir; vída er þar hengi- flug, hamrar, fugla- og fiudla-biørg hérumbil 50 fadma á hæd og þess á millum afar sæbratt til siáfar; útaf nestánganum gengr røst mikil og blindskeria-klasi í haf út, svo alla varúd má vid hafa, þá leggia skal fyrir nesit. Auk þess- ara útnesia eru mørg minna nafnkénd, er sídar skal gétit verda.

Um Island falla geysimargar elfur og ár og óteliandi lækir; vatn þeirra er annattveggia bergvatn edr jøkulvatn; þat er at því ólíkt ødrum vøtnum, at þat er hvítleitt, sem skolavatn og gáfu því fornmenn þvílíkum ám nøfn og kølludu þær Hvítár; en þótt allmørg medal vatnsfalla þessara séu vatnsmikil, mann- skiæd og úgreid yfirferdar, géta þau þó ei komit á samjøfnud vid stórár og meginfliót í ødrum løndum; ber þat til þess, at hvergi er atdrag- andi né atfall vatna svo mikit, þar óvída er ærit lángt frá uppsprettum þeirra til ósa; ei heldr er landslagi þar svo háttat, at stórár géti vída sammanrunnit. Þau vatnsføll, er nafn- kénduft eru fyrir sakir vatnsmegins á Sudur- landi, eru: Markarfliót og Þverá, Hvítá edr Ølvusá og Hvítá í Borgar-

firdi; á Nordurlandi: Blanda, Hérads-vøtnin, Skiálfandafliót og Jókulsá í Axarfirdi; en í Austfirdíngafiórdúngi koma þessar stórár til siáfar Jøkulsá á Brú, Lagarfliót, Jøkulsá í Lóni, Hornafiardarfliót, Jøkulsá á Breidumerkr-sandi, Skeidará, Núpsvøtnin, Kúdafliót, Jøkulsá á Sólheimasandi; er þá komit til móts vid þat er upp var hafit. Allar þær ár, sem hér eru taldar og margar fleiri falla undan jøklum, og eru þær því meira og minna hvítleitar eptir sem fleiri edr færri bergvatns vøtn renna í þær og giøra dekkri lit þeirra. Frá øllum þessum elfum og møgrum ødrum minni ám, skal sídar náqvæmar skirt verda, þá lýst verdr hvørri sýslu fyrir sig.

Ásarmørg eru støduvøtn á Íslandi bædi í bygd og á øræfum uppi; í allflestum þeirra er silúngsveidi, þó hún sé vídast vanrækt. Þau merkustu eru þessi:

1. Þíngvallavatn, í Árnes-sýslu; þat er hit mesta stødnvatn á landinu, 5 til 6 mílur ummáls; þat er diúpt miøg; í því er silúngsveidi gód bædi á sumrum og vetrum á dorg. Í því er allhár hólmi, er Sandey heitir.

2. Mývatn, í nordurparti Þíngeyarsýslu. Þat er hit mesta vatn á Nordurlandi

og hit besta fiskivatn á öllu Íslandi; umhverfis þat, er brunahraun og eydisandar og bygd su, er Mývatnssveit nefnist; í því segia menn séu 34 hólmar og eyar, medal hverra 2 eru stærstar, í hverium eru ágiætir fiárhagar og heyskapr, einkum í Mikley; og

3. Fiskivötn, í óbygdum uppi, nordr af Skaptártúngu, þau eru bædi stór og smá; er þat mál manna at nú viti engi tölu þeirra; hit mesta vatnit kallast Stóri-siór; þar var fyrrum veidimanna skáli og bátr og létu bændur gridmenn sína taka þar upp veidi, þá úthalladi sumri, og brást þar allsialdan gódr afli og hefir því midr sá biargrædisvegr í minni gengist.

Á Íslandi eru hverir afarmargir, er e vella ákafliga vetur og sumar og svo mikill er ákafi vellu þeirra, at þeir spýa lángt í lopt upp siódheitu vatni, og alt hvat vatn þetta drífr á um hríd, steinist utan, sem þat yrdi at steini. Medal þvílíkra hvera skarar Geysir og Strokkr í Biskupstúngum einkum framm úr, samt hverirnir á Hveravöllum og Uxahver í Þíngeyar-sýslu. Annars eru flest vellandi vötn í Árness-, Borgarfiardar- og Þíngeyar-sýslum.

Keldur eru og á Íslandi, er landsmenn

kalla ölkéldur, og eru þær fyrir því svo kallaðar, at likara smakkar vatn þat, sem í þeim er, munngáti enn vatni; bestu og merkustu ölkéldur eru í Snæfellsness- og Hnappadals-sýslum.

Ísland er, sem ádur er sagt, því nær allt umhverfis vogskorit; gánga þar firdir miklir inn í landit og inn af þeim hverja svo margir smáfirdir, víkur og vogar, at traudla má telia. Þat finnst ritat í frædibókum Íslendínga, at þar séu firdir nær 130 at tölu. Flestir eru þeir austan- og vestanframm á landinu og hafa því þeir fiórdúngar vid þá kéndir verit. Fiórir eru firdir mestir er ganga inní landit, af hverium 3 gánga úr vestri inn í þat; er þeirra sydstr fiördr sá edr flói er Faxafiördr er nefndr; hann er ímillum Reykianess-skaga og Snæfellsness og er hann talinn allra fiarda mestr og breidastr á Íslandi; er þat sögn manna, at hann sé 11 mílr á breidd frá Gardsskaga í hánordr til Stadarsveitar, en frá Reikianess-tánga í útnordr til Jokultáar, 18 mílur. Fyrir nordan fiörd þenna hverfr Breidifiördr edr Breidiflói inn í landit ímillum Snæfellsness og Bardastrandar edr Biarnanúps í Bardastrandar-sýslu; hann er lengri enn Faxafiördr en nokkut miórri; frá Öndverdarnesi til Stálbiargs edr þvert yfir mynni hans segia menn sé 10 mílur, en skamt

innar hérumbil 8 mílur; en lengd hans nærhæfis 17 edr 18 mílur inn í Gilsfiardarbotn. Á hønum liggia eyar svo margar, at ei er þat talit vinnanda verk at kasta tølu á. Diúp mikit gengr midsvegar inn eptir firdinum, er Kollaáll kallast. Nordar hverfr Isafiørdr í landsudr átt inní landit ímillum Stigahlídar edr Stiganúps og Grænuhlídar edr Ritanúps, hvar mynni fiardar þessa er hérumbil 4 mílur á breidd og er þar kallat Isafiardardiúp alt þar til at hofdi sá á Sniáfiallastrønd, er lengst skagar í vestr og Biarnanúpr kallast, deilir firdinum í tvo hluti; kalla menn hinn nyrdri Jøkulfiørd, og er hann miklu skémri; en hinn sydri heldr enu forna nafni og beygist hann, því meir sem inn eptir dregr, sudr á vid. Ur nordri gengr bugt mikil inní landit ímillum Hornstranda og Skaga edr Skagastrandar, er Húnaflói kallast (á kortinu Skagastrandarflói) hann er hérumbil 6 til 8 mílur á breidd; en lengd hans til Bordeyrar í Hrútafirdi er 10 edr 11 mílur. Lengra austr med land eru miklir og lángir firdir t. d. Skagafiørdr, Eyafiørdr, Skiálfandafiørdr, Axarfiørdr, Þistilfiørdr, en á Austfiørdum er Vapnafiørdr, Héradsflóinn og Reidarfiørdr fiarda mestir.

Athugagr. Sú meiníng, at eylandi þessu sé í öndverdu uppskotit af hafi og at þat hafi hlotit leg sitt og lögun af ógurligum jardelda umbrotum undir mararbotni, er ei allseina sannat med þeim røksemdum er heimfærast kunna hér uppá af útliti og lögun annara eya, er menn hafa fyrir satt, at upp séu komnar af hafi fyrir sakir elds umbrota; heldr og einnin hníga eptirgrenslanir allmargra náttúrufródra manna at því sama um upphöf landsins. Hvergi á giörvöllum huetti jardar hafa menn á jafnstóru landi fundit svo mörg eldfiöll, svo marga vellandi hveri og þvílík brunahraun, sem á Islandi; því allvida eru þar vídlend svædi er hrylliligri og hörmuligri eru at líta, enn sá, er aldrei séd hefir, geti giört sér hugmind um; því nær hvar sem farit er of land þetta, bera fyrir augu ofmörg vegsummerki eydileggínga og jardbruna, og hrellandi uppsprettur þessarar óhamíngiu og úsagnadar af gapandi gýgum gióſandi eldfialla og ógurligra jökla, er ýmist hafa gosit eldi edr sprúngit framm med hrædiligum jardskiálftum og med strídum straumum af brædðu griöti og vatnahlaupum umturnat og umhverft svo öllum jardveg, þar sem til nádi, at hvar fyrrum var graslendi edr blómlig bygd og velgiörvir bæir, ei sést nú annat en flód og eydisandar, hraun og hrióstr.

§. 3.

I forntíd skiptu menn Islandi í 4 höfudparta, er þeir kölludu fiórdúnga og nefndu

þá eptir ennm fiórum hofuðáttum heims, nl. Sunnlendinga-, Vestfirdinga-, Nordlendinga- og Austfirdinga-fiórdúng, (einnin kalla menn fiórdúnga þessa: Sudurland, Vesturland edr Vestfirdi, Nordurland og Austurland edr Austfirdi) og vidhellst sú sundrgreining til þessa dags; auk þessa hafa menn deilt landinu í tilliti til veraldligra valda, í 4 omt edr amtmannsdæmi, sem kénd eru vid 4 hofudáttir; en hvervetna samsvara þessi omt ei fiórdúngunum, med þvíSudur-amtit hefir aukist á tvo vegu bædi hit eystra og vestra, svo nú á dogum heyra til þess bádar Skaptafells- sýslurnar og Borgarfiardar-sýsla, er í fornold var sydsti hluti Vestfirdíngafiórdúngs, er nádi þá alt til Hvalfiardar og Botnsár sudr; en med því at menn hafa látit Hvítá í Borgarfirdi um lángar hrídir deila fiórdúngum á þann bóginn, mun best þykia hlýda, at svo sé enn; samsvarar þá Vestur-amtit Vestfirdingafiórdúngi. Amtmannsdæmin greinast í 21 sýslur og þær aptur í Hreppa. Eptir at kristni var logtekin á Íslandi, skiptu menn því i 2 biskupsdæmi, er kénd vóru vid biskupsstólana Skálholt og Hóla; en nú er alt landit eitt biskupsdæmi, er greinist í 19 prófastsdæmi. Borgir, stadir edr Þorp eru ei á Íslandi, sem í útlondum, þar bygdin er sundr-

leus og bæir striálir; þó eru þar ýmsir stór-bæir og nálægt og umhverfis suma þeirra standa nokkur smábýli edr hiáleigur, kalla menn þvílíka nábygd ýmsum nöfnum eptir landslagi og afstödu t. d. hverfi, torfu o. s. fr. Árit 1786 var sú skipan giörr, at 6 kaupángur á Íslandi skyldu Kaupstadir heita, er hafa skyldu þann einkarétt er þvílíkum kauptúnum er veittr; vøldu menn sérílagi þar til þá stadi, hvar hafnir vóru gódar og margar sveitir láu til; undir þvílíka kaupstadi liggia minni verslunarstadir edr úthafnir, er Danir kalla Udliggerstæder; en 1816 var kaupstødum þessum fækkat um tvo, svo nú eru 4 kaupstadir á landinu, einn í hvøriu amti. Allra þessara verslunarstada skal sídar gétit verda.

At svo fyrirmæltu, vilium vér skíra frá hvørium fiórdúngi landsins yfir höfud og svo sérílagi frá sýslum øllum í hvørium þeirra, svo sem: takmørkum og landslagi, sveitaskipun og sóknum, merkustu ám og stødvøtnum, hverum og laugum: kaupstødum og úthøfnum, stórbýlum og prestakøllum, eyum og útverum, almennum atvinnuveg og agnsemi, samt ýmsu ødru, er áminníngarverdt og nokkut afbragd þykir vera á einhvørn hátt í hvørri þeirra fyrir sig. Er þá fyrstr:

## I. Sunnlendíngafiórdúngr.

Þat er sá hluti landsins er í útsudr veit og nær tveim megin til siáfar nl. hit vestra til Faxafiardar, en í hásudr til meginhafs. Hann er hinn úvídlendasti medal fiórdúnga landsins, en þó þeirra fiolmennastr; takmörk hans hit eystra er Jökulsá á Sólheimasandi; at nordanverdu skilia fioll og öræfi Nordrland og Sudrland, en Hvitá og Borgarfiórdr Vestrland og Sunnlendíngafiórdúng. Landsstada og útlit Sunnlendíngafiórdúngs (sem hann var at forni skipun) er miög breytiligt og landskostir med ýmsum hætti; allr helmíngr hans er bygdr, og í óbygdum uppi eru allvída gód afréttarlönd, en úvída er hann skógi vaxin; hlýligra vedráttufar og minni frost á vetrum er þar enn í hinum fiórdúngunum, en miklu er hann þeim úfagrari og olla því jardeldar, en ásskræmt hafa og aflagat þar landit, einkum hinn vestri hluta hans, hvar brunahraun, holkn og sandorpinn jardvegr tálmar miög fulltyngiandi jardyrkiu-nytium; en náliga hvervetna er þar útrædi og allmörg fiskiver, og hvergi á landinu er svo mikill kaupskapr bædi millum landsmanna innbyrdis, og kaupmanna og þeirra, sem í þessum fiórdúngi; þar hafa einnin frá landnámatid fiolmennastir mannfundir haldnir verit og höfdíng-

iamót, medan alþing stóð at Þingvollum, og enn í dag er þar bústadr enna gøfugustu høfdíngia og helgistadr mentagydianna á landi þessu.

Lengd fiórdúngs þessa í austr og vestr edr frá Jøkulsá til Gardsstáar er hérumbil 30 mílur beina leid, en breidd hans í út og sudr er óvíss med því fiórdúngamót eru hvervetna á fiøllum úgløgg og óáqvedinn. Fiallgardr nokkr er liggr í útsudr frá fiallaklasa þeim, er umgirdir Kiós og Hvalfiørd hit sydra, alt til Reykianeß, deilir bygdinni í fiórdúngi þessum í 2 parta og er hver þeirra greindr í 2 sýslur; svo í honum eru ásamt Borgarfiardar- og Vestmannaeya-sýslum, 6 sýslur, en alleina 4 prófastsdæmi. Hér skirir í stuttu máli frá sýslum þessum og vilium vér hefia lýsing þeirra vid austr- takmørk fiórdúngsins; er þá fyrst at telia:

1. Rángárvalla-sýslu.

Takmørk hennar at austanverdu er Jøkulsá á Sólheimasandi, at vestanverdu Þiórsá og hit nyrdra nær hún á fiøll upp í óbygdir þær er liggia ímillum hennar og Nordlendínga-fiórdúngs; at sunnanverdu nær hún til siáfar; er þar strønd sandi orpin og úvagskorin. Høfudlandslag sýslu þessarar er: fiøll, sléttlendi og hálsar. Medal fialla þeirra er Eyafialla-jøkull; hann er vestasti hluti Mýrdalsjøkulls

er afarhár; farmenn kalla hann Cap Hekla. Í landnordr frá hønum er einstakr háiøkull, er Torfaiøkull kallast, og er hann at því merkr, at hverir vella þar upp af iøkulsísum; og mun þat eindæmi á Íslandi. Fyrir vestan Eyafiallaiøkul og nordr af Rángárvøllum, stendr Hekla, þat er uppdregit og einstakt fiall, er tídum hefir eldi gosit og unnit stórskémdir landi þessu, einkum Rángárvalla-sýslu; í nordr frá Heklu liggr Tinfialla edr Tindfiallaiøkull millum Túnár og Piórsár í óbygdum.

Allvída er í sýslu þessari slétt- og hardlendi mikit (t. d. á Rángárvøllum) og er jardvegr þar sendinn og sumstadar þakinn sandi einum og hrauni; bygdin þar er hin fegursta á Sudurlandi, einkum eystri partrinn at Rángá enni vestri; þó sæta árliga føgr beitilønd skémdum miklum af sandfoki, þá vindr stendr af Heklu-fialls vræfum, og hvar fyrrum var álitlig bygd, sést nú ei annat enn brunasandr og vikr.

Sveita-skipun og afstødu má svo lýsa: austast í sýslunni er Eyafiallasveit; hún liggr vestr med Eyafiallaiøkli sunnanverdum alt at Selia-landsmúla, og er þat ei allbreidt bygdarlag; vid nefndan múla þrýtr Eyafiallaiøkull og verdr þá bygdin breidari; þar liggr Dalshverfi undir Eyafiallaiøkli vestanverdum, en fyrir austan

Markarfliót; þá tekr vid fyrir vestan fliótit— til fialla: Fliótshlídin og er þat fögr sveit, þá Hvolreppr, þá Rángárvellir, þá Landmannahreppr, hann nær vestr at Piórsá; — til siáfar: Hólmabæirstamm. undann Fliótshlíd, enn vestar Austurlandeyar, þá Utlandeyar, þá Holtasveit vestust, er nær alt at Piórsá. Fyrir nordan Eyafiallajökul liggr Þórsmörk, þar var bygd í forntíd, er lagdist í eydi öndverdliga á 14 öld af eldi, er brast upp í fiöllunum fyrir nordan mörkina; þar segia menn sé allbyggiligt, en nú er þat afréttarland.

Þessi eru vatnsföll mest í Rángárvalla sýslu:

a. Markarfliót, þat sellr undan Torfajökli í 8 fadma breidu gili er Torfahlaup kallast; þat var fyrrum mikit vatnsfall, en nú hefir þat breytt nokkut farveg sinum og rennr meiri hluti þess í Alana, og í b. Þverá, er fyrrum var litil á, en ernú ordin ána mest í sýslunni og hefir hún ollat miklum skémdum og landuslá, í hana renna bádar Rángárnar, c. hin eystri fyrir austan Odda, og d. hin vestri fyrir vestan Odda; falla þær sídann allar saman vestr um Landeyar og Holt útí Piórsá og kallast

þar Ósar; fyrir fáum árum hefir vatnsfall þetta brotit sér farveg framm um Landeyar og kémr þar mikill hluti þess til siáfar er Ránga̋rsandr heitir. e. Tuná fellr undan Skaptárjökli og vestr í Þiórsá; hún rennr alla leid í óbygdum.

Stödövatn: Hrútsvatn og Stóravatn í Holtasveit, samt vatn þat undir Eyafiollum, er Holtsós kallast, þat er samdráttr margra lækia í dæld nokkurri og liggr grandi millum þess og siáfar og skal mannsøfnud til at grafa því affalla, þá þat vex um of.

Merkustu stórbæir í sýslunni eru: a. Oddi, í tungunni millum Rángánna; þar hafa setit gøfugir og margfródir merkismenn t. d. Sæmundr hinn frodi Sigfusson, er ritat hefir Eddu og sonarson hans Jon Loptsson, hiá hvorium Snorri Sturluson var um hríd at fóstri. b. Hlídarendi í Fliótshlíd, hefir þar einúin verit heimili merkra manna. Móeidarhvoll er og merkr bær.

Sýslan er eitt prófastsdæmi, er kallast Rángár-þing; þar eru 12 prestaköll er svo heita: 1. Eyvindarhólar, annexiurnar eru Steinar og Skógar; allar þessar sóknir kallast undir Eystri-Fiollum. 2. Holt undir Eyafiollum, metit 87 Rdlr. 2 mk. 3. Stóridalr; bádar þessar sóknir kallast undir Ytri-Fiollum; flestir Hólmabæir eiga sókn at Stóradal. 4.

Fliótshlídar þíng, eru Teigs- og Eyvind-armúla-sóknir. 5. Breidibólstadr i Fliótshlíd; þat braud er talit medal enna 4 bestu á Íslandi og þeirra best alt til skams tíma, þá af því var numit nokkut til uppbótar dómkyrkiu-kallinu í Reykiavík; þat var metit 182 Rdlr. 4 mk. 8 ß. 6. Krosz og Bodmúlastadir, hverttveggia i Eystri Landeyum. 7. Stórólfshvoll i Hvolrepp og Siglúvík i Ytri Landeyum. 8. Oddi á Rángárvollum, metit 121 Rdlr. (eitt af fiórum). 9. Keldr og Gunnarsholt, hverttveggia á Rángárvollum. 10. Landþíng edr Stóruvellir, annex. Skard og Klost á Landi. 11. Holtaþíng; þat eru Marteinstúngu-, Haga- og Arbæar-sóknir, er almenniliga kallast Efri Holt. 12. Kálfholt, þartil eru Ás og Háfr annexiúr; heita þær 3 sóknir Nedri Holt.

Í sýslu þessari er hverki kauptún né hofn fyrir sakir brims og grynnínga og eru þar því hvervetna illar lendíngar á sondum þeim, er liggia med landi sudr og kallast Eyafiallasandr og Landeya- edr Rángársandr; frá þeim er siór sóktr; en giæftir eru þar sialdfengar, utan þá nordan vindar gánga og svo er lángr vegr til siáfar, at róa má til skips. Einustu leyfar af skógum í sýslunni er at finna í Skarfanesz-skóg i Landmannahrepp. Hofud biargrædisvegr sýslubúa er fiárafli, þar vídast er þar allgodt hagavisti fyrir saudfé einkum á Rángárvollum og Landi, en lítill er þar heyskapr. Med því at optsinnis bregst fiárafli á meginlandi, fara sýslubúar út í Vestmannaeyar og sækia sió þar.

Á ýmsum stodum finnast hellrar í sýslu þessari og eru þeir med tvennu móti, annattveggia

úthegguir af mönnum í móberg edr svoleidis mindadir af náttúrunni; at Ási í Holtum er tvídyradr hellir í hól nokkrum á túninu, er brúkadr er fyri heyhlödu. Rúts hellir undir Eyafiöllum; í hönum er híbýli, 24 álnir á lengd, 8 á breidd og 4 á hæd og er þat hvelft hit efra; út frá því gengr afhellir nokkr med lopti uppí, ætlat til sængurstædis, og er gat á loptinu, igégnum hvört, menn segia, at hellisbúin, Rútr af nafni, er giørdt hafi hellirinn sér til varnar, þar hann átti sökótt í héradi, hafi á forneld lagvopnum lagdr verit til bana af fiandmönnum hans; ástundum búa menn í hellir þessum. Mögugils hellir, í Þóráfsfelli í Fliótshlíd er einn in hellra markasti at lögun og afstödu; munni hans er þraungr og illr atgaungu; golfit er hált, sem ís, og hellirin hit innra allrumgódr; ei vita menn giørla fiærd hans. At Móeydarhvoli eru 3 hellrar í túninu, er brúkadir eru fyri fiárhús og heyhlødr; á Selialandi, ytsta bæ undir Eyafiöllum, eru 2 hellrar og vídar.

Skiringargr. Hekla edr Heklufiall er í útlondum hit nafnkéndasta allra fialla á Íslandi; med því í engu fialli þar hefir svo tídum eldr brunnit, sem í Heklu. Þat finnst ritat í ýmsum árbókum, at 23 sinnum hafi jardeldar geysat í og nálægt fialli þessu, sídan landit bygdist.

Timabilit millum jardeldanna hefir harla misiafnt verit, því stundum hafa 2, stundum 5 og 10, ástundum ogsvo 50 til 60 ár verit imillum brunanna og lengst var hlé á fyrir hinn sídsta jardeld 1766—1768; hefir hún sídan haldit kyrru fyrir. Einnin hefir misskipt verit, hvorsu lengi eldrinn hefir geysat í hvert sinn, nl. stundum nokkra daga, ástundum heila mánudi. Fiall þetta stendr einstakt og er á því

vidsýni mikit; þat er hverki afarhátt né mikit um sig í samjöfnudi vid önnur upplandsfiöll og jökla, umináls er þat nærhæfis 4 mílur og hæd þess meina menn frá undirlendi at reikna sé hérumbil 3000 at fótmáli. Ei er þat ávalt snæþakit, sem adrir jöklar, því snióinn þýdnar á sumrum, utan hvad skaflar og fannir verda eptir í giám og skördum, sem í flestum stórfiöllum á landinu. Í firri tíd lá blómlig bygd og grösugt haglendi umhverfis fiallit, en svo mikit hafa brunar og eldgusur þess fengit atgiördt, at yfir 2 mílur út frá því öllumegin er nu hvergi gras né jurtir at líta, heldr svidna mold, brædt griót, svart og raudt vikurkol og sandhauga, er æ verda stærri því nær fiallinu dregr og kallast Raudöldur. Þá Hekla spúdi í sídsta sinni, olli hún Nordlendinga-fiórdúngi mestrar óhamingiu og úgiæfu, med því at sunnanvindr bar sand þann og ösku, er hún seykti í lopt upp, nordr yfir fiöll og heidar og fell haun nidur um endilángt nordurland, giördist þar þá svo myrkt um hádegi, at ei mátti hendur greina, med áköfu sandfoki; var þat, ásamt hördum vetrum, upphaf fylgiandi hrædiligs fiárfellis, hallæra og mannutións.

## 2. Vestmannaeya-sýsla.

Partil heyra eyar þær, er liggia fyrir Eyasandi, viku siáfar frammundan Landeyum edr Markarfliótsósum; þær eru 14 at tölu og eru alleina 4 af þeim grasivaxnar hit efra. Afstada

þeirrar er i midlt liggr, segia menn sé 63° 20′ 30″ nordl. br. og at hún liggi 22° 47′ 50″ fyrir vestan París.

Þær eru vídast umgirdtar biörgum og hengiflugum og eru þær því tilsýndar sem hvergnyptir og afar sæbrattir hnúkar, er síást 7 mílur úr hafi. Þeirra vídlendust er Heimaey, hún er í tilliti til kaupskapar, fiskiafla og agnsemis allra þeirra eya merkust, er umhverfis Ísland liggia; á henni er hriósir og hraun, klettar og smáfiöll, er gefit hafa eldi, en litit er þar graslendi edr hagqvisti fyrir qvikfé. Hún er öll 1. hreppr og 2 prestaköll, sem kénd eru vid Kyrkiubæ og Ofanleiti, og sækia þær sóknir bádar kyrkiu at Kyrkiubæ; þar er timburkyrkia, sem er allmikit og vandat musteri, er verit hefir sú einastá kyrkia í eyunum sidan 1573 og þióna þar 2 prestar. At eyu þessari er og verslunarstadr, er fyrrum hafdi kaupstadarrétt; þar er gód höfn og vedrasæl, í hlé vid Heimaklett, er tekr úr allan stórsió. Helliseyn géngr Heimaey næst at stærd og dregr hún nafn af 2 hellrum, sem á henni eru, í hvöriuni qvikfé liggr um nætur; á henni er ágiætt haglendi fyrir naut og saudpening. Ardsömustir atvinnuvegir Eyarmanna eru: fiskiafli

fuglaveidar og eggiatekia; biargfugl, lundi, fylíngr og ritsa veidist þar sæum, og hvergi vid edr á Íslandi, nema á Sulnskéri, fyrir sudvestan Heimaey, verpir hassúlan; skér þetta er at því markverdt, at á því er dýr edr port, og géta þar skip róit ígégnum í ládeydu. Lengra á brótt í sömu átt er og skér þat, er Geirfuglaskér er kallat.

Eyamenn eru siómenn miklir og sækia þeir sió med mikilli eliu og atorku; þeir eru og hugadir og fimir biarggaungumenn; hvergi eru skip svo stór edr rammliga giörr á Íslandi, sem þar. Í eyunum er siúkdómr sá, börnum miög skiædr, er menn heita ginklofa.

Öndverdliga á landnámatíd (875) tóku eyar þessar nafn af 10 írlendskum þrælum, er flúdu þángat, eptir at þeir höfdu bana unnit höfdíngia sínum Hiörleifi at nafni, vid Hiörleifshöfda á Mýrdalssandi, en sem sídar vóru drepnir af Ingólfi fóstbródur Hiörleifs. Um hríd var þar veidistød og eingra manna vetursetа til Herjólfr og Ormr Aurgi son hans bygdu eyarnar. Arit 1627 rændu stóreifarar frá Nordurströndum Afríku eyar þessar, drápu þar suma (medal hvörra var skáldit Jón Þorsteinsson eyaprestr) og hertóku suma. Litlu sídar var þar lítit virki edr skans bygdr til varnar eyunum, hvöriar annars er hægt at veria, því þær eru vídast ógreidar atgaungu.

Hvad kénnimannligt umdæmi snertir, hefir Rángárþinga prófastr þar málum at gégna.

### 3. Árnesz-sýsla.

Sýsla þessi tekr nafn af hólma nokkrum í Piórsá, er Árnes heitir; hún liggr ímillum Piósár og Sýslusteina undir Geitahlíd edr fiallgards þess, er liggr frá Botnsheidi til siáfar sudr, er Sudurheidarkallast; at nordanverdu nær hún á fioll upp í óbygdir þær, er liggia ímillum hennar og Nordlendingafiórdúngs; at sunnan nær hún til siáfar, er þar strønd sendinn og grýtt og sumstadar nokkut vagskoriun. Bygdin í sýslu þessari er fremr flatlend, enn fiøllótt. Medal. fialla þar ma telia: Sudurheidar, þat er allvídlendr og úbygdr fiallgardr, er nær frá Botnsheidi í Kiósar-sýslu og sudr at sió fyrir vestan Herdísarvík og deila þar vordur tvær Árnesz- og Gullbríngu-sýslum; á þessum fiallgardi, er hefir ýms ørnefni, t. d. Mosfells-heidi, Henglafiøll, Hellisheidi o. s. fr. elst allmikill fiøldi villihreina. Ingólfsfiall er einstakt fiall á takmørkum Ølvussveitar og Grafnings; þat tekr nafn af Ingólfi, er frægstr var allra landnámsmanna og segia menn at hann sé heygdr á fialli þessu; Búrfell, Mosfell og Hestfiall eru smáfiøll nokkr í Grímsnesi. Laugardalsfiøll ímillum nyrdr hluta Grímsnesz og Pingvallasveitar gánga í úbygdir nordr; fyrir vestan þau er Píngvalla og

Giábakka-hraun. Fyrir nordan bygd í sýslunni eru fiöll mikil og jöklar. Skialdbreid, þat er einstakr jökull og ávalr, í lögun sem hvolfdr skiöldr og er lángr aðdragandi öllumeginn at topp hans; fyrir austan Skialdsbreid er slétt sá er Hlödüvellir kallast; en fyrir nordan hana er Geitlands-jökull, er gengr í nordr austanverdt vid Kaldadal; í hönum segia menn at Þórisdalr sé edr Aradalir; austr af honum hit sydra liggr Bláfellsjökull, er tekr nafn af Bláfelli fyrir austan Kialveg; austur med hönum og í landnordr frá Skialdbreid eru há og gnýpótt fiöll er Tindafiöll kallast; en nordr af nefndum jökli gengr Eyriksjökull svo Baldjökull nordast og austast; 4 sídst nefndir jöklar eru ásastir og breytast þvi mjög örnefni þessi; fyrir austan jöklaklasa þenna er hvylst edr dæld mikil, hvar Kialvegr er lagdr í nordr, en fyrir austan hann liggr Hofsjökull, er lengst gengr í nordr allra upplands-jökla; á hönum sunnanverdum segiá menn sé fiórdúngamót. At vísu má alla þessa jökla háa jökla kalla og eru þeir allir afarbrattir öllumegin.

Med þvi bygdin í sýslu þessari liggr at miklu leiti í hring og er ei af fiöllum greind, þykir tilhlýdiligt at láta Hvítá della henni í

tvö hluti og lýsa svo afstödu sveita sem sú skipan bendir til; er þá fyrst at telia fyrir austan Hvítá: Eystri-Hrepp (fyrr. Gnúpveriahrepp) austast og til fialls strax fyrir vestan Piórsá, svo Ytri-Hrepp (fyrr. kalladr Hrunamannahreppr) vestar; hreppana skilr Stóra-Laxá; fyrir sunnan þá báda liggr Skeida-sveit ímillum Piórsár og Hvítár; fyrir sunnan Skeidir er Villingaholtshreppr vid Piórsá þvínær framm at sió, tekr þá Gaulveriabæjarhreppr vid vestr med sæ og svo Stokkseyrarhreppr, er nærvestr at Ölvusá; nordr af bádum þessum hreppum liggr Sandvíkr hreppr og Hraungerdishreppr, bádir ímilli Villingaholtshrepps og Ölvusár; þessir 5 sídst töldu hreppar kallast allir samt Flói. Fyrir vestann Hvítá liggia Biskupstúngr til fialls upp og vestr af þeim Grímsnes, svo Pingvallasveit vestast vid sýslu takmörkinn; en fyrir sunnan hana liggr sveit sú er Grafníngr kallast og skilr Sogit hánn og Grímsnes, þá Ölvus fyrir sunnan Grafníng, ímillum fialls og Ölvusár og þá Selvogr sydst vid sió; skilur þær sveitir Selvogsheidi og Hafnarsandr. Í sýslu þessari er vídast láglendi, mýrar og votlendi (t. d. í Flóa og Ölvusi) og þvi er hún ei nær svo fögr sem Rángárvalla-

sýsla, en fullt svo grösug, frióssöm og fri fyrir Þeim ánka og skémdum, er hin má sæta. Í Þeim sveitum, er lengst liggia upp til fialla (t. d. í Biskupstúngum og Hreppum er vída-skridu-hætt; Þíngvallasveitin er snodin miog og vottar um jardelda umbrot; þar er allvídlendt hraun er nær upp til Skialdbreidar; í Sel-vogi og á Skeidum eru einnin brunahraun mikil og vidar.

Þessar eru stórár í Arnesz sýslu:

1. Þiórsá, hún fellr undan Hofsiøkli og telst medal enna mestu vatnsfalla á Islandi, er hún hvergi reid fialls og fiøru imilli, utan á vadi hví í Eystri-hrepp, er Nautavad-er kallat. Í henni eru 3 eyar, er Arnes, Ol-modsey og Hágaey kallast. Í ánni er tals-verd sela- og laxa-veidi.

2. Hvitá, hún fellr úr Hvitárvatni í Hreppa-manna-afréttum og kallast Olvusá, þá hún kémr nidr í Olvussveit; þat er afarmikit jøkulvatn, og verdr med ollu óreid eptir at þessar 3 stórár renna í hana, nl. a. Túngufliót, er fellr í hana fyrir austan Skálholt; b Brúará, er rennr í Hvitá fyrir vestan Skálholt; yfir á þessa var fyrrum siálfgérdr steinbogi, en nú er hrunit skard í brúna, og c Sogit (Alptavatn) þat er allmikit vatnsfall, er fellr úr Þíngvallavatni og

rennr í Hvítá fyrir austan Ingólfsfiall. Med því Hvítá rennr um láglend hérud, flædir hún optsinnis, einkum á vetrum, yfir mikinn hluta Flóans, svo at eins standa bæirnir uppúr flódinu, sem líkt er allbreidum firdi med mörgum smáhólmum. Auk þeirra, sem taldar eru, renna allmargar minni ár um sýsluna, svosem: Stóra og Litla-Laxá í Hreppum, er falla í Hvítá. Oxará, er rennr í Þingvallavatn, Varmá í Ölvusi og fleiri.

Auk Þingvallavatns, hvørs ádr er gétit, eru þessi stöduvötn í sýslunni: Villingaholtsvatn, Vogsósa- edr Hlídarvatn, Laugarvatn og Apavatn í Grímsnesßveit. Í óbygd er Hvítárvatn austanundir Bláfellsjökli; þat er allmikit og fullt jökulvatns; fyrir austan þat liggr Kialvegr; í öllum þessum vötnum er silúngsveidi.

Í sýslunni er fiöldi hvera og lauga, er oflángt yrdi hér at telia; má því at eins géta enna merkustu: Geysir, hann er talinn hvera mestr á Íslandi og enginn hver honum nafnkéndari í heimi; hann er í Haukadal ofarliga í Biskupstúngum, 3 mílur í útnordr frá Skálholti; þángat giöra flestir er út koma til Íslands, ferdir sínar, at skoda þeita náttúrunnar undranda eindæmi; Geysir hefir spúidsiódheitu vatni 60 til 70 fadma í lopt upp med svo ógurligum dunum og dynkium, at jördin skélfr umhverfis, og med þeim ákafa

og ofurefli, at sé steinum i hann varpat, þá spýtir hann þeim at vormu spori jafnhátt enum hvítfyssanda vatnsstróka, er med afar hvidum og ydusudu ölgar uppúr gýg hverfins, er líkla má vid tregt i legun med allbreidum og ávelum bormum umhverfis, en er 72 fóta á dýpt og at þvermáli 57 fóta á breidd at ofanverdu. Med því Geysir spýr ei ávalt eins hátt, fer ýmsum fegum um hæd vatnsstrókans og ákafa vellu hans; en sönn mun sú sogn, at á seinni tídum hafi allmikit úr hönum dregit einkum sídan hver nokkr i grend vid hann, er Strokkr er kalladr magnadist svo mieg, at hann þykir nú á dogum hródurskota edr minka ordstýr hins gamla Geysirs; ber þat hellst til þess, at vatnsstróki sá, er Strokkr skýtr i lopt upp, er þrádbeinn og tilsýndar sem marmarasýlla, á hvörs toppi sitr hvítróttr þokumokkr; þykir hann því einkar fagr og skémtiligr á at horfa; en Geyser ógurligr og skélfandi. Strokkr er miklu minni um sig, en hærra segia menn nu hann komist, enn Geisir; en ei er hann svo reglubundinn med vatnsspreytuna, sem Geysir, er jafnadarligast ólgar tveim sinnum i tveim dægrum tíærhæfis hvert sinn um sama mund; en Strokk má egna med því, at kasta steinum i gýg hans, til at sprenta sig, þess á millum at hann spýr siálfkrafa; en magna má ölgu þeirra hvorutveggiu og ofurefli á sagdan hátt. Auk þessara hvera eru þar allmargir smáhverir svo oll líklndi þykir til vera, at i grundvollum nefnds dalverpis sé mikit safn vellandi vatna. J

Hreppum er Grafarhver, er vellr og spýr alls mikit. Í Ölvusi eru margir hverir, nl. 2 nálægt Reykium, er kallast Geysir og Badstofa; hinn fyrri hefir vollit og spýtt vatninu ákafliga í forntíd, en nú hefir hann hægt á sér; hinn sídari spýr 6 til 8 álnir í lopt upp og drifr Vatnit út í Varmá; hinumegin árinnar eru og 2 siódheitir brunnar, midg dizpir, er Akrahverir heita.

Stórbæir í Árness sýslu eru: Skálholt, er stendr imillum Hvítár og Brúarár í Biskupstúngum; þar gierdi Gissur hinn hvíti bæ mikin (1000 árum eptir Krists burd) og færdi þángat bú sitt, bió þar sídan sonr hans Ísleifr, er fyrstr var biskupa á Íslandi; en sonr hans Gissur biskup lagdi lög á þat, at stóll biskups þess, er á Íslandi væri, skyldi vera í Skálholti og var þat svo alla tíd, ádr og eptir at Hólastóll stiftadist og tveir vóru biskupar í landinu, at þar sátu biskupar þeir, er yfir Skálholts stipti vóru settir. Bær þessi var fyrrum bæa mestr og merkastr á Íslandi og allvel húsadr, en litit er nu á dögum mark til þess; var þar dómkyrkia allveglig, bygd í kross, en nú er þar timburkyrkia og ber lángt imillum, stærdar þeirra og skrauts. Gaulveriabær er velhúsadr bær. At Oddgeirshólum er einnin allreisugligr og snotr bær.

Kauptún Arnesínga er Eyrarbakki; þar er einhver hin hættuligasta innsigling og skipalega á Islandi sakir skeria og brims; menn binda þar skipsfestar i 8 hringa, er settir eru í kleitana bádumegin vid lónit, er skipit liggr á. Frá Eyrarbakka alt til Diúpalóns á Austfiordum er hverki hösn né skipalega fyrir sakir ólgusiéar og sandrifa.

Sýslan er eitt prófastsdæmi, og eru í þvi 16 prestakoll, er svo heita:

1. Villingaholt og Hróarsholt, hverttveggia í Flóa; 2. Gaulveriabær í Flóa, og Stokkseyri á Eyrarbakka; (metit 83 Rdlr. 4mk.) 3. Kaldadarnes í Flóa. 4. Hraungérdi, annex: er Laugardælir. 5. Olafsvellir á Skeidum. 6. Núpr í Eystri-Hrepp. 7. Hólar (almennt kalladir Hreppshólar) í Ytri-Hrepp. 8. Hruni, annex. er Túngufell; hverttveggia i Ytra-Hrepp (mun mega meta 60 Rdlr. 4mk. 15 ß.). 9. Torfastadir; annexiurnar eru Haukadalr, Brædratúnga og Skálholt, alt í Biskupstúngum. 10. Middalr í Laugardal, annex. er Uthlíd i Biskupstúngum. 11. Mosfell í Grimsnesi. 12. Hólar (almennt kalladir Klausturhólar) annex. er Búrfell, hverttveggia i Grimsnesi; 13. Þingvellir í Þingvallasveit og Ulfliótsvatn i Grafníngi. 14. Arnarbæli, annex. Hialli og Reykir, allt i Olvusi. 16. Selvogsþíng, annexian þartil er Krísuvík í Gullbríngusýslu.

A Kaldadarnesi i Flóa er spítali edr herbergi fyri likþráa á Sudurlandi; var þat fyrri at Klaustrhólum i Grimsnesi.

I Flóa er hellir nokkr í móberg, er brúkadr er til íbudar; í Laugardalsfialli eru hellrar tveir er Laugardalshellrar eru kalladir, þar hafa sæluhús verit.

Skóglendi litit í Grimsnesi, Biskupstúngum og Eystri-Hrepp, samt Þingvallaskóg, er fyrrum var mikill og gódr, má at eins leyfar kalla skóga þeirra, er allvída vóru bædi í bygd og í óbygdum (í grend vid Skialdbreid) sýslu þessarar. Vída er þar allmikill heyafli, en vidast kiarnlitit gras og náliga hvervetna lakir landskostir, fyrir saudfé. Ei er nokkr sýsla á Islandi svo hæg og vel lagin til atdrátta og fánga, med því bædi eru fiskiver allgód innan takmarka hennar (Stokkseyri, Þorlákshøfn og Selvogr) og skamt er þadan til kaupstada og vera í Gullbríngusýslu; svo biargrædi á bádar høndur lokkar mestan þorra sýslubúa fremr at sæta gagni af fiskiveidum, enn af jardyrkiu og qvikfiárrækt; hvar þó, ef betr væri stundut, mundi giøra hana verdugri til at álitast sýsla best á Islandi; Sølfatekian á Eyrarbakka er þeim einkar ardsøm atvinna, er eiga hlut at, samt allmikill búhagr þeim er tilná. Manntalit í sýslu þessari er nær 4700, má þar af siá, at hun er sýsla fiølmennust á Islandi.

Vid Oxará var løgþíng allra Islendínga edr Alþíng hád bædi í heidni og kristni til sídstu aldamóta; var upphaf þess þíng þat, er Þorsteinn Ingólfsson lét fyrstr manna setia á Kialarnesi, er sídan var flutt á fyrrnefndan stad. Oxará deildi þíngstad þessum í 2 hluti; var hinn kennimannligi rétir (Consistorium) fyrir austan ána, er haldinn var í Þíngvalla kyrkiu, fyrir alt Skálholts Stipti; en fyrir vestan ána stód Løgréttan (at løgbergi) á

stódsu tídum af timbri giørr, líkasem yfirréttar- edr Amtmannshúsit. Annars var løgrétta lengst af þád undir berum himni, uns 1690 þá hún var bygd sem adrar þíngbúdir á þann hátt, at veggirnir edr toptin var hladin af køntudum hraunsteinum og reistar sperrur á ofan og þanit hvidt vaemál yfir. Í øndverdu var løgréttan fyrir austan ána ásamt øllum valdsmanna búdum. Í Þorleifshólma í Øxará var aftøkústadr stórglæpamanna og upp í Almannagiá stendr kletir sá, framm af hvørium þeim var steypt í bálit, er brendir vóru fyrir kukl og galdra. Med því þessi stadr var fiølsókter miøg úr øllum fiórdúngum landsins, vóru þángat ymsir þióðvegir lagdir yfir land t. d. Hellisskardsvegr, er kémr á Kialveg fyrir nordan bygd; Kaldadalsvegr ímillum Geitlands-iøkuls og Oks (fyrir vestan hvørt Borgfirdínga vegr liggr) til Kalmannstúngu, sydsta bæjar í Myra-sýslu, og þadan yfir Arnarvatns hædir og Sand edr Arnavatnsheidi til ymsra sveita á Nordurlandi; þessi vegr er nú hinn almennasti millum fiórdúnganna. Mosfellsheidar-vegr til Mosfellssveitar og Innesia. Vegir liggia einnin yfir Sudurheidar ímillum Gullbríngu og Árness-sýslu, nl. yfir Hellis-, Lága- og Olafs-skard og Sandskra.

Úr Austr-Hrepp liggr vegr sá í landnordr yfir þverar óbygdir, er Spreingisandr kallast og má af hønum koma framm bædi í Iøkuldal í Múlasýslu og Bárdardal í Þíngeyarsýslu. Medan alþíng var hád vid Øxará var þat alfaravegr þíngreidarmanna; er hann bædi vatnaminni enn bygdavegir og svó beinn, at vel má hann rída á 3 eda 4 døgum, nú er hann (því midr) sialdfarinn at nær aflagdan má kalla. Upp úr Biskupstúngum fara menn og yfir Kiøl til Nordurlands og má af hønum koma nidr bædi í Skagafiørd og Húnavatnssýslu, er sá vegr kalladr Kialvegr og var

hann fyrrum sløljarnari., enn nú á dogum; út af hønum liggr vegr í landnordr med. Hofsjøkli vestanverdum, er Vatnahiallavegr er kalladr, hann liggr nidr í Eyafiardardali.

4. Gullbringu-sýsla:

Frá takmørkum hennar og Árnefs-sýslu er ádr skirt; í útsudr er hún umflotin af útsæ, at vestanverdu nær hún til Faxafiardar, og í austr landnordr skilia Hellisár hana og Kiósar sýslu; þenna hluta Sudurlands kølludu menn í fornid: fyrir nedan heidi. Sýsla þessi er á skaga þeim enum mikla, er lengst gengr í útsudr á Íslandi og byriar hit eystra vid Porláksløfn, en hit vestra vid Kollafiord og er hann 12 milur á lengd, en 2 til 4 á breidd; gánga at vestanverdu ýmsir smáfirdir, vogar og víkur inn í skaga þenna og ámillum þeirra nes í haf út, er øll vita í vestr. Hvat jardveg og haglendi snertir, er sýsla þessi enum fyrrgreindu sýslum ærit ólík, med því jardbruni og módur af brædda grióti hafa umturnat og afskapat mikinn hluta hennar; er hún því allvídast miøg ébyggilig og hrylliliq at líta, at undanteknum Sudurnesium, Álpta og Seltiarnar-nesi, med því hraun og holkn nær víđast annarstadar at sea framm t. d. Præin-

skiolds hraun er gengr í vestr frá Keilir, Vatns-leysuhraun og Gardahraun.

Sveitaskipti eru þessi: fyrir sunnan Selvog er Krísuvík, og enn þá sunnar Grindavík, millum þeirra er hraun mikit er Ögmundarhraun kallast og fuglabiarg, kénnt vid Krísuvík; þessi bygdarløg liggia bædi austan framm á tédum skaga og er þar útrædi. Vestan framm á hønum eru Hafnir sydst, þá Sudurnes edr Midnes, Giardr og Leyra, þá Ytri-Niardvik (Nordvik) þá Innri-Niardvik, þá Vogar og skilur Vogastapi þau fiskiver; þá Vatnsleysuströnd, þá tekr Vatnsleysuhraun vid; í þvi eru nokkrir bæir. Fyrir nordan Hrannin hverfr Hafnarfiordr inn af Faxafirdi, en fyrir nordan fiordinn, gengr nes í vestr, er Alptanes heitir, þat er flatlendt og fiølbygt; kallast þat bygdarlag, er innst liggr á nesinu sunnanverdu, Gardahverfi; fyrir nordan nesit gengr Skériafiordr inn, er adskilr Aptanes og Seltiarnarnes; hann er miøg vogóttr hit innra og liggr bygdarlag nokkurt upp af hønum til fialls. Seltiarnarnes gengr lengra í vestr enn Alptanes og er þvi hálendara og hrióstugra, en uppaf þvi

til Hellisár er vída grösugt og mýrlendt. Í öllum þessum bygdarlögum er útrædi mikit og fiskiver, einkum í Njardvíkum og á Innesium og sækir þángat múgr og margmenni at austan og nordan til fiskiródra; en litlar eru þar grasnytiar og fár og sumstadar eingin bú smali, at kúm undanteknum. Engar eru ár í sýslu þessari, utan Hellisár edr Ellidaá, er renna í vog þann af Kollafirdi, er Grafarvogr heitir; í þeim er laxveidi mikil og er hún kóngseign; sunnar er litil á, er Kaldá nefnist; hún fellr undan Helgafelli í fiallgardi þeim fyrir ofan Hafnarfiord, er Undirheidar kallast; hverfr hún í hraunit og er þat meining manna at hún komi til siáfar skamt fyrir sunnan Hvaleyri.

Stöduvötn þar eru þessi: Kleyfarvatn, skamt frá Krísuvík; Vatnsvatn, Urridavatn og Vifilsstadavatn; þessi 3 sídst töldu vötn liggia skamt fyrir ofan nefnd Inn-nes og er í þeim allgód silúngsveidi.

Margir og merkir hverir eru í sýslu þessari, medal hverra má telia: Krísuvíkr hvera; þeir eru einnin erlendis nafnkéndir sökum brennusteins náma þeirra, er þar vóru um hríd; vídar vellr þar upp siódandi leirvatn med ýmsum litum, enn tært vatn og er sáséd

margbreytni litar þess í svo mikilli návist. Hverinn eini kallast mikill hver midsvegar ímillum Reykianess og Krísuvíkr; samt allmargir hverir og siodandi leirpittir á Reykianesi, sem med ollu er óbygt sökum brunahrauns og vatnsleysis. Skamt fyrir innan Reykiavík er Laugarness-laug, í mýrlendi; þángat sækia margir í grend vid til at laugast þar.

Á nordanverdu Seltiarnarnesi, á eydi ímillum sjáfar og tiarnar nokkurrar og í vogs ímillum tveggia, hæda, stendr Reykiavík (Reikevig), er menn kalla hofudstad landsins, med því at þar er heimili ædstu landshofdingia og stadr sislmennastr á landinu; þar er og kaupverslun mest á Islendi; og sislmennar kaupstefnur einkum, á sumrum, þá bædi leikir og lærdir frá allmorgum sveitum giora þángat lestaferdir, bædi til at versla kaupeyrir sinum og til annarra erindagiorda; auk þessa er þar ollum missirum mannqvæmt mios frá ollum landsfiórdúngum, þar stiptamtmadr, biskup, laudsyfirréttar dómarar, stiptsprófastr, landfógeti og sýslumadr hafa þar, edr í grend vid býinn, adsetr sitt og oll kennimannlig og veraldlig vandamál koma þar til dómsályktunar og úrskurdar. Reykiavík er kaupstadr í Sunnlendingafiórdúngi og fékk hún

kaupstaðarrétt 1786; liggia þar til 4 höndlunarstaðir, nl. Hafnarfiørðr, Kéblavík, Eyrarbakki og Vestmannaeyar. Þar eru 2 steinbyggingar, nl. dómkýrkian, hún er mikit og allvegligt musteri, í hvørri biskup vígir presta úr øllum landsfiórðúngum; hit annat steinhús er þat er stiptamtmaðr byggir og kallast því Amtmannshús. Øll eru önnur hús í býnum af timbri giorr og sum með bindingsverki og eru þau hérumbil 30 at tølu auk allmargra smábýla og fiskibúða fyrir austan og vestan býinn. Fyrir utan lánga húsarød, er liggr strandlengis með siónum, gengr stræti í landsuðr frá strøndinni, með bygging um á báðar síður, til fyrrnefndrar tiarnar; á hússabaki er fløtr nokkr, er Austurvøllr er kallaðr og er hann vel fallinn til kaupstefna. Viargræðis, útvegir bæarmanna er kaupverslun og fiskiafli; því litlar eru grasnytiar í því bygðarlagi. Þar eru búfastir kaupmenn og mángarar, flestir danskir at ætt og hérumbil 300 innbúar. Nýliga er þar Stiptsbókasafn á stofn sett, sem í ødrum stiptum Taxaveld s; samt ønnur deild ens íslendska bókmenta-félags. Þar er trygg og rúmgóð høfn, er farmenn kalla Holmens Havn, en ei er hún góð til veturlegu; en þartil segia

menn at Þerneyarsund sé vel hentugt. Reykia-vík liggr 24° 15′ fyrir vestan Paris (en 34° 29′ 45″ fyrir vestan Kaupmannahøfn) og 64° 9′ 6″ fyrir nordan midjardarhríng.

Auk Reykavíkr eru 2 verslunarstadir í sýslunni nl. Hafnarfiordr, vid botn fyrr-nefnds fiardar; þar kaupslaga 2 kaupverslunar-félög; þar má og hafkær skip giøra og bæta, þá vid liggr; høfnin er einhver hin besta á Islandi og géta þar allvel skip legit vetr-yfir; sunnar er Kéblavík, þar er ei høfn góð, med því-hún er hlélaus og liggr fyrir opnu hafi í nordanvindum. Fyrrum vóru úthafnir 2 enn þá sunnar í sýslunni nl. Grindavík hálfa þridiu mílu fyrir austan Reykiavíkes; þar er lítil høfn og opin fyrir landsynníngs siáfar-gángi; Bátsendar (Baadsand edr Boe-sand) á Sudurnesium, þar er allgód høfn bædi á enni ytri og innri legu, utan þá vestanvindar blása; á bádum þessum høfn-um vóru skipsfestar bundnar í hrínga í skerium eda landklettum, sem á Eyrarbakka. Nú á døgum skeyta ei kaupmenn um at versla þar.

Í sýslu þessari eru ýmsir allsnotrir og velhúsadir bæir og stróbýli og eru þessi en merkustu:

Bessastadir á Alptanesi nordanverdu, á eydi ímillum vika tveggia af Skériafirdi; þar eru steinhús tvø, nl. allsøgr kyrkia og íbúdar-hús, samt hálfgiørd timbur bygging, er vera skyldi skólahús; þar er sá einasti látínu-skóli, er nú

er á Íslandi, og var hann þángat flyttr fra Reykiavík 1805.

Í fornöld var bær þessi eign og lystigardr Snorra Sturlúsonar; en eptir at hann var af dögum ráðinn (1240) vard gardrinn konúngseign og kalladist kóngsgárdr, og hefir þat sídan verit til þessa dags. Þar sátu jafnan á sumrum höfdíngiar þeir, er danakóngar settu yfir landit og til ofanverdt á 17 öld kalladir vóru hösuðsmenn og sídan stiptamtmenn, og amtmenn, alt til skamms tíma. Þar var syrrum skans við Bessastadatiarnarós og áustanverdan og lítil höfn frammundan skansinum er Seila heitir, hvar skip hösudsmanna lá.

Sunnar á sama nesi er Brekka, þar eru 2 snotr timburhús og sléttat tún umhverfis; skamt þadan er Svidholt, velhúsadr bær.

Videyarklaustr í Videy; skamt í landnordr fra Reykiavík; þat er stórbær og hefir þar á seinni tídum verit stórhöfdingiasetr, og er svo enn í dag. Þar er allsögr steinkyrkia og íbúdarhús af steini giört og prentsmidia, hin einasta á landinu.

Í Videy var nafntogat klaustr til ſkaſskiptanna, og vard þá, sem önnur klaustr á landinu, konúngs-eign; þat stiptudu þeir brædur Magnús biskup Gissurarson og Þorvaldr fadir Gissurar jarls, ar 1226.

Nes edr Lœknisnes á utanverdu Seltiarnarnesi, þar er steinhús og læknismedalabúd og adsetr hisdlæknis (Landphysicus) og eins læknismedalasala (Apotheker).

Gullbríngu- og Kiósar-syslur eru bádar samt eitt prófastsdæmi, er Kialarnessþing kallast; í fyrrnefndri sýslu eru 5 presta-

koll, er svo heita: 1. Stadr í Grindavík; 2. Utskálar í Gardi, 3. Kálfatiørn á Vatnsleysuströnd, annex. er Innri-Njardvik, 4. Gardar á Alptanesi, annex, er kóngsgardrinn Bessastadir (metit 75 Rdlr. 3 Mk. 8 ß.) 5. Seltiarnarness-þing; kyrkiau er í Reykiavík, er feck dómkyrkiurétt 1785, þar-adauki þiónar dómkyrkiuprestr kyrkiunni í Videy.

Medal eyanna í Gullbríngu-sýslu er Videy hin nafnkéndasta; hún er fagr og vedrasæl; þar er gott haglendi og ardsamt eggver og ædardúnstekia. Vestar liggr Engey, frammundan Reykiavík, þar er eggvarp og útrædi. Nær landi er Ørfarsedr Efferseyr, orskamt frá Reykiavík; hana kölludu útlendskir Holmen, því þar var kaupstadrinn ádr enn menn fluttu hann til meginlandsins, hvar Reykiavík nú stendr; úr eyunni liggr grandi í land og er hann þurr um fiøruna; vestar liggr hin 4 ey, er Akurey er kollut, hún er gódyd; þar er lundaveidi, lítit eggvarp og slægiuland, er tilheyrir Ness ábúendum. Framm undan Reykianesi liggia 5 eyar í röd í vestr útsudr, allar grasbøarlausar og svo þverknýptar umhverfis, at traudla má upp á þær komast, þær kallast Reykianessfeyar (Fugle-skiær); þar er mikill sægr allskonar sæfugla. Skamt frá nestánganum standa 2 allhá skér, er heita Karl og Kérling (Karlsklippe) 1½ mílu lengra út er klettr sá er Eldey heitir (Meelsækken) og skamt frá henni klettr uppmiór, er Eldeyiar-drángr kallast. Enn þá vestar liggr Geirfuglaskér, þat er svo lágt at uppá þat má komast at vestanverdu, og er þat allmikit ummáls; vestar er allhár drángi, er ætíd er hvítr hit efra af fugladriti; líkist hann því tilsýndar skipi undir seglum; þat skér kalla farmenn Grenadeerhue og liggr þat nær 4 mílur frá Ness-oddanum, en 2 mílum vestar er blindsker nokkurt, á hvorin jafnan brýtr, einkum

um fiøruna, þá siá má lítinn hluta þess þurran; þat segia menn liggi 4 mílur í sudvestr frá fyrrnefndum dránga og at boda þess megi at eins sí, þar smillum þeirra, er menn fyrst eygi drángana. Sumir hafa þat fyrir satt, at skér þetta hafi ey su verit er skaut af hafi upp og gaus ógurligum eldi 1783, þá kaupmenn, er komu út þat vor, traudla fengu rudt sér veg gégnum hafþøk af vikur, er eya þessi bar upp. Søgdu farmenn svo frá, at eyann mundi 1 mílá ummáls og væri allhá med hømrum umhverfis og var þá eldr uppi á ýmsum stødum med feikna uppburdi; þeir qvádu hana liggia 7 til 8 mílur í vestr af enu ysta Fuglaskéri, hvat ei þykir samsvara áskoradri afstødu téds blindskers; sýnist því líkligt, at hún hafi vestar legit og hafi af sømu orsøkum hvorfit, sem hun kom upp; med því at eigi fanst hún árit eptir og ei hefir sídan vart vid hana ordit, þó hennar hafi leitat verit af ýmsum at bódi konúngs, er kalladi hana Nýey (Nyöe) þann 26 Juni sama ár. Skipaleidin er smulli og fyrir eyar þessar, sérilagi fyrir smáskip, miøg hættulig fyrir sakir blindskeria og brimsugs, þá røstinn er uppi. Fyrrum fóru Sudurnesíngar í ládeydu til Geirfuglaskérs at veida geirfugl, af hvørium þat hefir heiti sitt.

Allr þorri sýslubúa, sem eru at medtøldum Kiósarsýslu-búum, nokkut yfir 4000 at tølu, lifir því nær einúngis á fiskifaungum og þeim sveita- og kaupstadar-vørum, er þeir kaupa vid skreid sinni, hvør einsømul má þeim í hendur fá andvirdi allra naudsynia, ef ei skal bresta.

## 5. Kiósar-sýsla.

Sýsla þessi nær frá fyrrtédum Gullbríngusýslu takmørkum at nordanverdu til Botnsár, er rennr í Hvalfiørd; en sídan markar fiørdr

þeſſi, ſem gengr í landnorðr og auſtr inn í landit, ſýſlunni takmörk hit nyrðra alt at Kialarneſs-taungum; þá Kollafiörðr, er hverfr inn af Faxafirði ímillum nefnds neſs og Seltiarnarneſs ſamt vogar þeir, er gánga inn af honum; hit ſyðra eru fiöll og heiðar eðr norðurhluti þeirra óbygða, er atgreina fiórðúng þenna. Hit merkaſta fiall í Kiósarſýſlu er Eſian; þat er allmikit fiall og bratt umhverfis, og gengr í útnorðr framm at Hvalfirði ſunnanverðum; auſtar og norðar er Reinivallaháls, hann gengr í ſömu átt at ſæ framm og er harn bæði allhár og afarbrattr; ſalla því tíðum ſkriðr ur honum ſkáðumegin, er olla mikils ſkaða á túnum og úthaga.

Sveitir þar eru: Mosfellsſveit, er næſt liggr Gullbringuſýſlu, ímillum Elliða-ár og Eſiunnar og ímillum fialls og fiern; er þat víðlend ſveit; framm af Eſiunni gengr nes í veſtr ímillum Hvalfiarðar og Kollafiarðar, er Kialarnes heitir; þat er og allfiölbygt bygðarlag, er nær til Mosfellsſveitar hit ſyðra. Ímillum Eſiunnar og Reinivallaháls er quos allbreið og bygð mikil og fögr, er Kiós kallaſt, en fyrir norðan hálſin er ſæbratt ſtrönd og miög ſtriálbygð og upp af henni liggr dalr nokkr í ſuðr ímillum háſialla, er

Bryniudalr heitir og á hann kyrkiusókn, ásamt bæunum á nefndri strönd, at Reinivöllum í Kiós.

Hvat landslag og grasnytiar-snertir í sýslu Þessari, þá er hún enni syrrgreindu harla úlik, með því í henni er hvervetna graslendi gott og nytanlig beitilönd, og, einkum þá frá sæ dregr, allgód búhøfu; nálægt sió er gras og fódr létt og kraptlitit; vídast er þar vedra-sælt (einkum í Kiós og Mosfellsfveit) og gódr útigángr á vetrum; en allvída giøra skriðuføll og snióflód þar jarðusla og skémdir.

Auk elfa þeirra, er nefndar eru og renna tvæimmegin á takmørkum sýslunnar, eru þar þessar smá-ár: Leirvogsá í Mosfellssveit, Laxá í Kiós, í henni er laxveidi gód, Forsá og Bláskógaá edr Bryniudalsá.

Auk 3 fiskivatna á Mosfellsheidi (fiallvegi milli Þingvalla- og Mosfellssveita) má hér géta Medalfellsvatns í Kiós í því er silúngsveidi mikil og gód. Af Hvalvatni á Botnsheidi hafa søgur farit, þar menn hafa þókst fundit hafa hvalbein mikit vid þat, er at líkindum mun mosavaxin steinn-vera.

Í eystri hluta Mosfellssveitar er hin einasta laug í sýslu Þessari, er Reykialaug kallast.

Þótt bædi sé gód høfn vid Hvaleyri, hvar danskir kaupmenn kaupsløgudu sídst 1680

við Andresey í Hvalfirði og í Leynivogum og víðar, er þó enginn verslunarstaðr í sýslunni; þykir þess heldr ei þörf vera, þar ei er þaðan alllángt til kaupstúna.

Best eru bæir húsaðir at Gufunesi, Lágafelli í Mosfellssveit og Esiubergi; þar lét Örlygr Rappsson kyrkiu giöra og var hún hin fyrsta á Íslandi; um sömu mundir (888) var reist hit fyrsta hof á landinu at Hofi á Kialarnesi; þar setti Þorsteinn Ingólfsson þíng, at ráði Helga Biólu og Örlygs, og fylgdi því um hríð alþíngishelgun.

Í þeim hluta Kialarness þínga prófastsdæmis, er liggr í Kiósar-sýslu, eru 3 prestaköll er kallast: 1. Mosfell og Gufunes, i Mosfellssveit; 2. Brautarholt og Saurbær á Kialarnesi, og 3. Reinivellir og Meðalfell í Kiós.

Hvat valdamannligt umdæmi áhrærir er einn sýslumaðr settr yfir Gullbríngu- og Kiósar-sýslur; þó er sá greinarmunr umraða hans í hvorri þeirra at hann alleina er umboðsmaðr konúngs í Gullbríngu-sýslu, hvat skatta og tekiur snertir. Merkustu eyar í sýslunni eru: Þerney, þar er einn bær og æðarvarp; Lundey, báðar í Kollafirði og Andresey í Hvalfirði skamt frá Kialarnesi.

Af afstöðu og landslagi sýslu þessarar má ráða, at innbúar hennar stunda bæði landbúnat og fiskiafla, með því at þeir eiga skamma leið til veiðistaða og vera. Allítil og víðast engin stást nú ummerki skóga þeirra, er fornsögur herma um í þessum hluta Suðurlands t. d. á Kialarnesi, hvar fella mátti merkina til bæarstæða og brauta millum býla; og í Botni, hvar í forntíð var svo stórr skógr,

at bóndi þar giørdi þaraf hafskip og hlód þar sem nú heitir Skiphamar; samt bláskógr í Bryniudal og vídar.

Géta má hér **Bardarhellis** vid Bryniudalsá; hann er allbreidr, en varla 7 fóta á hæd, hvør smámsaman fer minkandi, þar menn brúka nú hellirinn fyrir fiárrétt, er fyrrum var samkomustadr Bárdar Snæfellsáss og vina hans!

## 6. Borgarfiardar-sýsla:

Kalladist fyrrum, ásamt Mýra-sýslu, **Þverárþing**; en sídan var þessum sydsta hluta Vestfirdingafiórdúngs skipt í tvo hluti eptir sem Hvítá og Borgarfiørdr mørkudu takmørk, og hinn sydri hluti edr Borgarfiardar-sýsla løgd til Sunnlendingafiórdungs *).

Endimørk sýslu þessarar hit sydra er Hvalfiørdr og Botnsá og at nordanverdu Borgarfiørdr og Hvítá; hit eystra nær hún til heida og fialla upp; en at vestanverdu til siáfar og gánga þar vogar og firdir af Faxaflóa allángt inn í landit; medal hvørra telia má **Hvalfiørd**, er gengr inn ímillum Kialarneß og Akraneß; hann er hérumbil 5 mílur á lengd og sumstadar 2 á breidd. Nordar gengr vogr

*) 1638 var deiling þessi alkunna, en úlióst er þat hvørt þá hóf∫t fyrst réd adgreining edr hvørt hún hefir vidhaldist til 1676; þá frædibækur votta, at 2 vóru valdsmenn í Þverár-þingi, líka sem nú á døgum.

inn imillum Akraneß og Melasveitar er Leirárvogr er nefndr og fyrir nordan hann Borgarfiördr; þat er miór fiördr og yfir 2 milur á lengd, af hverium sýslan hefir nafn tekit. Hit sydra í sýslunni eru brött fiöll og há t. d. Þyrillinn og Hraunabiarg á Hvalfiardarströnd; Akrafiall edr Akrafell, sem er einstakt fiall á Akranesi, (1800 fóta á hæd) og Skardsheidi, þat er allmikil fiallgardr fyrir nordan Leirár- og Mela-sveit; fra öræfum þeim er liggia fyrir ofan bygd alla, gánga hálsar í útnordr og fagrir og bygdir dalir imillum þeirra; þvert yfir þá er vegr lagdr, er kallast Hálsavegr og sydst Sildarmannagötur. I landsudr er Geitlandsjökull fyrir ofan bygd og austan Kaldadal, og Okjökull fyrir vestan nesudan dal, yfir hvörn liggr alfaravegr Nordlinga á sumrum til Sudurlands, en vegr Borgfirdinga liggr hinumeginn vid Okit.

Jardvegrinn er ýmisligr í sýslu þessari, þó er hann allvidast mýrlendr, einkum þá nær sæ dregr. Sveitir þær er sydst og til fialls liggia eru þessar: Hvalfiardarströnd vid Hvalfiörd nordanverdan; nordar Svínadalr, þá Skorradalr, þá Lundareykiadalr, edr Sydri Reykiadalr, þa Flókadalr, þá Reykholtsdalr edr Reykiadalr hinn nyrdri

og Hálsasveit nordast; vid sæ liggia: Akranes, þar er fiskiver og útrædi vetr og vor; Leirársveit og Melasveit; þessar 3 sveitir liggia fyrir sunnan Skardsheidi; en fyrir nordan hana liggr Andakýll næst henni og svo Bæarsveit, vestr af tédum dolum.

A ýmsum stødum er sýsla þessi skógivaxin; sérílagi telia menn Húsafellsskóg einhvörn hinn besta á landinu; þvínær hvervetna er hún grøsug mióg og gódum landkostum búin; hún liggr vel vid atdráttum og fangum bædi frá Sudurlands og Vesturlands fiskiverum og kauptúnum.

Þessar eru ár, er renna um sýsluna:

1. Hvítá, hún er mikit vatnsfall og allstríd; verdr hún úr 3 ám, nl. Geitá, Hvítá, er fellr undan Geitlandsjøkli, og Nordlingafliót; fyrir nedan ármótinn, eru sá vød á Hvitá, en þá allmargar ár bádumegin hafa sí hana runnit; verdr hún at lyktum óreid og lygn og kémur til siáfar út í Borgarfiørd. A henni er Eyarvad hit nafnkéndasta. Uppí Hvitá gengr silúngr mikill og lax, en torveldt veitir at veida hann fyrir sakir vatnsmegnis hennar og stridleiks. I Hvitá renna þessar ár úr sud-austri. 2. Reykiadalsá, er rennr um Reykholtsdal; svo 3. Flóka-

dalsá, svo 4. Grímsá, er fellr um Lundarreykiadal; í henni er hin mesta laxveidi á Íslandi; svo 5 Andakýlsá, er rennr úr Skorradalsvatni og út í Borgarfiörd. Í henni er fors svo mikill, at laxin má þar stadar nema. Auk þessara má telia Laxá er kémr frá Svínadal og Leirá og renna þær bádar í Leirárvog.

Stöduvötninn eru: Skorradalsvatn í skógivöxnum dal, þat er miög lángt, en all-miótt; í því er veidi gód vetrum og sumrum; Svínadalsvatn fyrir sunnan Draghális og Eydisvatn, ei stærra enn stór tiörn á eydinu millum Leirárvogs og Hvalfiardar og fyrir ofan Akrafiall; í þeim bádum er silúngs veidi.

Hvergi á Íslandi eru, á iafnlítlu svædi, svo margir hverir og laugar, sem í Borgarfiardarsýslu medal hverra þessa má telia ena merkustu: Túnguhver vid Reykiadalsá, hiá Deildartúngu; hann spýr siódheitu vatni af 4 munnum, er skiptast til, og sudar ákafliga. Árhver, er engum ödrum hver á Íslandi líkr, at því leiti, at hann vellr upp úr kletti í fyrrnefndri á midri, nokkut ofar. Snorralaug at Reykholti er hin nafnkéndasta laug á landinu, og er þat sögn manna, at Snorri Sturluson hafi hana giöra látit, og víst er þat, at hann þrávalt laugadi sig þar, þá hann bió á Reykholti; hún er múrut upp hvervetna med steinum umhverfis og er steinlagdr botnin; svo er hún stór, at 50 manna géta laugast þar síenn; 40 skref þadan er hver sá er Skribla heitir, þadan gengr múradr bunustokkr til laugarinnar, sem at ofan-

verdu er stiftadr med hellu og er gat á midri hellunni og tappi í, er úr má taka þá veita skal heitu vatni í laugina; sömuleidis má og þángat leida kaldt vatn edr læk til at tempra velgiu vatnsins í lauginni. Krosslaug edr Reykialaug o'arliga í Lundareykiadal; er natnfogut og í miklu afhaldi, þar í henni er eitthvert hit tærasta vatn, og stýlaust; þar vóru fleitir Vestfirdíngar skírdir, er af þíngi ridu árit 1000. Í pápiskunni vígdu klerkar laug þessa og reistu þar rødukross, var hún því Krosslaug köllut. Leirárhver, sunnanundir Skardsheidi í Leirársveit; hann vellr, en spýr ei; skamt á brott er laug, í hverri 6 til 10 géta í senn laugast. Auk þ ssara eru í sýslunni allmargir hverir, einkum í Reykholtsdal, er oflángt yrdi hér at herma.

Sýsla þessi er eitt prófastsdæmi og eru í því 6 prestaköll, er svo heita: 1. Saurbær á Hvalfiardarströnd. 2. Gardar á Akranesi annex Innrihólmr. 3. Melar í Melasveit annex. Leirá í Leirársveit. 4. Hvanneyri í Andakýl annex Bær í Bæarsveit. 5. Lundr í Lundareykiadal, annex er Fitiar í Skorradal. 6. Reykholt í Reykholtsdal, (metit 68 Rd. 4 mt)

Engir eru kaupstadir í sýslu þessari; en þessa má þar stórbæi telia: 1. Innrihólm á Akranesi, þar eru háreist og vøndut húsakynni, med því þar hafa ástundum stórhøfdíngiar setit. Framm undan bænum er hólmi og er í hønum allmikil ædardúnstekia og eggver. 2 Leirá í Leirársveit, þat er og vel húsadr bær; þar til liggr Leiráreyi í Leirárvog, í henni er eggver og ædardúnstekia. 3. Hvanneyri og 4. Hvitárvellir eru allsnotrir bæir.

Auk eya þeirra, sem um er rædt, má hér geta Geirs edr Hardarhólma innarliga í Hvalfirdi og vid Akranes Ytrihólms, skamt fyrir utan Innraholm; þar er ædavarp. Á Borgarfirdi liggia eyar nokkrar, er ýmist kallast Borgareyar edr Raudanesseyar og Alptanesseyar fyrir utan fiardarmynnit.

Innbúar sýslu þessarar (sem eru hérumbil 1900 at manntali) leggia vídast fremr stund á jardyrkiu og qvikfiárrækt, enn fiskikuir í útverum; þó vanrækia þeir ei at heldr þenna biargrædisveg. Margir hafa góð hlynnindi af skógum og veidum og allvida er þar gott fiárfar og affarasæll landbúnadr.

## II. Vestfirdingafiórdúngr.

Þat nafn hefir hlotit sá hluti Íslands er lengst gengr í vestr útnordr af ölli landinu, og hverium Hvitá í Borgarfirdi markar endimörk hit sydra, og Hrútafiardará hit nyrdra, samt fiallvegr sá, er liggr imillum bygda þeirra, er tédar ár renna í, og Holtavörduheidi kallast. Hvergi er Ísland svo vagskorit, sem í þessum fiórdúngi, og óvida er landslagit svo ýmisligt og margbreittni jardvegs svo mikil og marglig í hverium hinna fiórdúnganna fyrir sig, sem í hönum; med þvi at vida líkist sydri hluti hans enum indælustu sveitum á landinu, en hinn nyrdri, er almennt kallast Vestfirdir, hyklir þarámót allmiög ófagr á ymsum stödum, þar

hann náliga ei er annat enn gródurlaus fioll og diúpir firdir, er skéraſt inní landit, med ſtriálbygdum og ſæbrottum ſtrondum umhverfis og þvinær engu undirlendi. At þvi er fiórdúngr þessi frábrugdinn hinum, at engar eru þar ár, er stórár megi kalla; eigi eru þar heldr hverir margir eda laugar; en þarámóti eru hvergi á landinu ſvo mørg fiſkiver edr ſvo vída útrædi, ei heldr ſvo margar edr merkar Olkéldur, ſem þar.

Amti þeſſu ſkipta menn í 7 ſýſlur, og er lýſing þeirra, ſem fylgir:

## I. Mýra-ſýsla.

Hún liggr ímillum Hvitár oo Hýtar-ár, og á tvær ſidur ímillum fialls og fioru; hún kallaðiſt fyrrum Þverárþing fyrir veſtan Hvitá. Hún tekr nafn af landslagi, med þvi at megin hluti hennar er mýrlendr miog og fullr forœda og fenia; er hún þvi afar ill yfirferdar, og þvi nær ófærur einar, utan þá þeli er í jørdu; hafa menn þvi lagt alfaravegin yfir Skardsheidi ena veſtri edr ſtóru, er ſvo kallaſt og liggr fyrir nordan Mýrar; þat er allmikill fiallvegr og er brunahrann hit eſta yfir at fara og ſiáſt þadan í nordr 7 uppdregnir ſtrókar med gýgum hit innra, ſem Strákar eru

kalladir, og liósraudar fialla-gnýpr er Raudu-kúlur eru nefndar, er þotta um eldgosur í heim-fiallbygdum. Baula er og í sýslu þessari, er þat fiall hátt, gulleitt og uppdregit miög og eygia menn þat í miklum fiarska frá sæ og fiallvegum.

Í sýslu þessari er vídast graslendi mikit og gódr heyskapr; vída eru og í henni skog-ar-runnar og hrískiörr og vel er hún fallin til fiárræktar.

Svo er þar sveitum skipt: Hvítársída liggr nordast og austast, vid Hvítá gagnvart Reykholtsdal, fyrir handan ána; þá Þverárhlid; þá Nordurárdalr, er gengr alla-lángt til heida nordr; þá Stafholtstúngr lengra vestr; þá Mýrar edr Borgarþing vid Borgarfiörd vestanverdan; þá Hraun-hreppr; og vestast í sýslunni Hýtárdalr.

Ár þar eru þessar: 1. Þverá er rennr um Þverárhlid í Hvítá (af henni mun hit for-na nafn sýslunnar dregit vera); vestar rennr 2. Nordurá í Hvítá, hún kémr úr nordri frá heidum og rennr um Nordurárdal og Staf-holtstúngr, hvar hún verdr allmikit vatnsfall og ógreid yfirferdar, og er því feria á henni þar; hún skilr Stafholtstúngr og Mýrar; í hana rennr 3. Gliúfurá fyrir nedan Sól-heimatúngu; í öllum þessum ám er silúngsog laxveidi mikil, einkum í Nordurá. Vestast

rennr 4. Lángá um Mýrasveit og kémr hún til sjáfar i Borgarfiörd, hún kémr frá Skardsheidi edr Lángavatni, er liggr á heidinni 3 milr frá bygd bádumegin og i dal heim, er Lángavatnsdalr kallast; hann liggr í út og sudr, og er 3 milr á lengd; fyrrum var dalrinn bygdr og ein kyrkiusókn, en lagdist i eydi undverdliga á 15 öld i enum svo kallada Svartadauda; nú er þar gresugt afréttarland, en þó vel byggiligt, med því at þar eru landkostir gódir og mikil veidi i vatninu.

Enginn er nú á dögum kaupstadr i Mýrasýslu. Fornmenn lögdu kaupskipum sínum inni Hvítárós og mundi þar enn þá takast um flóbit, þá störstreymt er. A seinni helmingi 17du aldar verslndu kaupmenn í Straumsfirdi imillum Alptaness og Knararness á Mýrum, og hefir þar mörgum þótt vel til kaupstadar fallit, med því at þar er innsigling og höfn gód og afstadan hægqvæm, þar lángt er imillum kaupstada á þeim hluta landsins og vidlendar sveitir liggia til.

Mýrasýsla er eitt prófastsdæmi, er skiptist í 7 prestaköll, er svo kallast: 1. Gilsbakki, annex. Sidumúli, hverttveggia í Hvítársídu. 2. Hvammr í Nordrárdal, annex. Nordtúnga i Þverárhlíd. 3. Stafholt (metit 62 Rdlr. 2 mk. 6 ß.) annex. Hiardarholt, hverttveggia í Stafholtstúngum. 4. Borgarþing, kyrkiurnar eru at Borg *) og Alpta-

*) I kyrkiugardinum á Borg (ættarbóli enna voldugu ... ramanna) er legsteinn Kiartans

nesi á Mýrum. 5. Stadarhraun (Stadur undir Hrauni) og 6 Hýtardalr (at fornu Húsafell í Hýtardal) metit 102 Rdlr. 3 mk. 6 ß. er þat talit medal enna bestu brauda á Islandi *). 7. Akrar annex. Hiortsey, hverttveggia í Hraunhrepp og Mýrasýslu og hin 3 kyrkia er at Krossholti í Kolbeinstadahrepp í Hnappadalssýslu.

Framm undan Mýrum liggia Knararnes og Lambastada-eyar, og framm undan Hýtárrósi eyar þær en Hvalseyar eru nefndar.

Fiárrækt er höfud-atvinnuvegr sýslubúa (nær 1500 at tölu); á vorum sækia þeir sió; einkum Mýramenn, er ásamt þeim, er búa vid siáfarsídu rækia selaveidar, af hvorium þeir hafa allmikinn ard.

At lyktum má hér géta hellis nokkurs í hrauninu fyrir sunnan Þorvaldsháls, skamt frá Nordlíngaflióti, fyrir nordan Strút og vestann Eiríksgnýpu, er Surtshellir edr hellirinn Surtr, er kalladr; þat er hinn stærsti og nafnkéndasti hellir á Islandi og eru margar sögur um hann giördar og búa hans á hinum tídum; þykir þat ei heldr úlíkligt at þar hafi fridlausir og sekir skógarmenn optsinnis hælis leitat og dvalit, med því at ægi gott og allörrugt leynibýli er í hellirnum og torsókt atgánga en létt til sánga. Hann er at því úlíkr ödrum hellrum, at nidr í hann má gánga sem

Olafssonar; þar var og hin fyrsta kyrkia í þessari sýslu reist.

*) I Hýtárdal var fyrrum steinkyrkia og um hríd múnkaklaustr, er Klængr biskup setti á stofn 1166 fyri sálu Magnúsar biskups Einarssonar, er innibrann þar med 70 manns-

jardhús undir jafnsléttu edr undirhvelfing. Hann er 139 fadma á lengd, 34 til 36 fóta á hæd og 50 til 54 fóta á breidd. Þit innra eru veggirnir glasseradir med ýmsum litum og riáfrit sett dinglum af brædduu og storknudu grióti sem ísdinglar væru. Utúr honum liggia 3 afhellrar er Básar kallast, og er í einum þeirra ovrugt vígi; á riáfrinu eru 4 gloppr edr op, hvar þat hrunit hefir. Hellirinn liggr frá útnordri í landsudr; en beygist at lyktum til háfudurs.

## 2. Hnappadals-sýsla.

J forntíd kölludu menn nes hit mikla, er gengr í vestr í haf at millum Faxa- og Breidafiardar, Snæfellsnes, en þá landit komst undir Norvegs konúng, kalladist nesit Snæfellsness sýsla. A seinni tímum deildu menn þessari sýslu í 2 parta og kölludu þann hluta, er næst liggr Mýrasýslu, sunnan framm á nesinu, Hnappadalssýslu, hvar 1787 var lögd til Mýra-sýslu; svo nú er einn Sýslumadr yfirþeini bádum. Annars eru takmörk sýslunnar Hýtará og Straumfiardará, enn fyrir nordan hana gengr einlægr fiallgardr frá Skardsheidi enni miklu vestr eptir nesinu til Snæfellsnessjökuls, er hefir ýmis örnefni t. d. Fagraskógarfiall og vestar Raudamelsheidi og s. frv.

Sýslan er afar mýrlend og ill yfirferdar; en ur eim ófagnadi bætist at to fru leiti fyr ir lángferdamönnum, þá þeir géta farit Laungufiörur, sem liggia fyrir framan sýsluna;

þat er útfóri mikit nærhæfis 2 mílur á lengd og hérumbil 1 míla á breidd, hvar þær breidastar eru og slædir yfir þær med flódi hveriu; mega því ferdamenn sæta lagi medan fiaran er.

Hérumbil í midri sýslunni, fyri sunnan Laungufiorur, er hráun mikit, er Eldborgar-hraun edr Borgarhraun kallast, liggr alfara-vegurnm þat, og er þat seinfært og ilt yfirferdar, fara því margir, þá siáfarföll eru hagstæd, framan undir hrauninu, siorur þær er Váfar kallast, og áfastar eru vid Laungufiorur; sunnantil í hrauni þessu nálægt alfaravegi stendr borg nokkr allmikil, uppdregin og nokkut afläung, er Eldborg kallast. Hún er hol og tóm hit innra og 636 fóta at þvermáli en veggirn-ir eru 169 fóta á hæd. Á 10du öld brast jard-eldr upp á bæ þeim, er í Hripi hét og brann þá Borgarhraun; þar var bærinn, sem nú er borgin.

Þessar eru sveitir í sýslunni: Kolbeins-stadahreppr austast, svo Eyahreppr, og svo Miklaholtshreppr vestast, í hönum er bygdin þrísett millum fialls og fiorn.

Þar eru smá-ár tvær er kallast Hafur-fiardará og Straumfiardará, er bádar koma til siáfar á Laungufiörum og er laxveidi í bádum.

Hvad kénnimannligt umdæmi snertir, fylg-ir sýsla þessi Snæfellsness-sýslu prófastsdæmi

og eru í henni þessi prestakøll nl. Kolbeins-stadir (edr Hýtárnesesþing) þeirri kyrkiu þiónar Akraprestr, og Miklaholt í Miklaholtshrepp (annex. Raudamelr í Eyahrepp).

Skamt undan landi eru óbygdar eyar, er liggia undir Miklaholt, þar er eggver og selaveidi.

### 3. Snæfellsneß-sýsla.

Hún liggr imillum Hnappadalssýslu takmarka á þann boginn og Giúfrár í Hólmslátursiandi, en at léunimannlegri skipan, er hún ásamt Hnappadalssýslu eitt prófastdæmi, er kallađist ádr Þórnessþing (fyrir vestan Hvamsfiord), en ásamt Dala-sýslu kølluđust allar þessar 3 sýslur Þórnessþing. Nes þetta hit mikla tekr nafn af Snæfelli edr jøkli þeim, er einstakr, sinna lika, stendr utarliga á því, er Øndverdarnes heitir, hvers ytsta odda Danir kalla Jökelens Taa (jøkuls-tá). Breidd nesß þessa er miøg misjøfn, og er hún ýmist 3, 4, til 5, og þar sem þat er breidast, vid upptok þess edr austast, frá Hitáróß til Hvamsfiardar, 10 milur. Nærhæfis eptir midiu nesinu liggr einlægr fiallgardr, sem fyrr segir og liggia sveitir bádumegin hans á strøndunum suunan- og nordan-framm á nesinu; yfir fiøll þessi liggia

ýmsir þióðvegir, t. d. yfir Fróðárheiði milli Staðarsveitar og Olafsvíkr; Arnardalsskarð milli Staðar- og Eyrar-sveita, og Kerlingarskarð imillum Staðar- og Helgafells sveita.

Þessi eru hin merkustu fiøll í sýslunni: Snæfellsjøkull þann er eitthvørt hit hærsta fiall á Íslandi og nafnkendr miøg útanlands og innan; umhverfis hann er hrylleligt brunahraun øllumegin, og leiðin upp til brínganna torveld og hættulig, hvar jøkullinn siálfr tekr við, og er hann afar torsóktr uppgaungu fyrir sakir brattlendis og jøkulsprúnga; uppá hønum eru þrír 50 faðma háir snióhnúkar, er kallast Jøkulþúfur (norðl. breidd hans er 60°47′40″, en lengd 26°3′ 50″). Hæð Jøkulsins meina menn sé hérumbil 6862 fóta danskra og undirstaða hans sé 3 mílur á hvern veg. Enni, bratt og hátt fiall, 500 faðma á hæð, er norðanfram á nesinu imillum Rifs og Olafsvíkur; þat tekr nafn af løguninni at ofanverðu; neðanundir því er alfaravegr millum téðra sveita um fiøruna; er sá vegr hættufullr einkum þá rigníngar hafa lengi gengit, því þá hrynur stórgrýti mikit úr fiallinu, og hafa margir þaraf fengit bana. Búlandshøfði er viðlíka hár og Ennit og afarbrattr með feikna skriðufønnum; nærhæfis 200 faðma hátt uppí hlíðinni er stígr, sem er miøg sárligr og svo tæpr, at ei mega þar ferðamenn mætast, því ei er færi á aptr at hverfa; hafa þar optsinnis menn og gripir hrapat. At vestanverðu við Grund-

arfiørd eru 2 einstøk fiøll er kallast Kyrkiufell og Støð skamt frá Búlandshøfda, er farmenn kalla Sikurtopp og Likkistú og hykia þau nøfn vel eiga við, með því hvert þeirra fyrir sig líkist téðum hlutum. Drápuhlíðarfiall er einstakt og ei allmikit; þar finnast margkonar steinategundir, einkum stórar hrafntinnur. Þorgeirsfell og Ellidahamar eru 2 þverhnýptir hamrar ofarháir í fiøllum þeim er liggia at Staðarsveit.

Utanverdt við Búdir á nesinu liggr hraun þat er kallast Búdahraun, er þarí kleitr mikill, almennt kalladr Búdaklettr; lengra framm nær Stapa liggr Sølvahamar; þat er stórt og þverhnýpt hengiberg, þar er eggia- og fugla-tekia, er menn, mega síga eptir eins í Lóndraungum nálægt Lóni.

Með því at landgiædi og búhøfn í sýslunni er víðast rír og ónæg innbúum hennar til uppeldis, sækir allr þorri þeirra síbródra í þeim mørgu fiskiverum og veidistødum er liggia umhverfis Jøkulinn, og er þar á vetrum og vorum samankominn mikill fiøldi manna úr nálægum og fiarlægum sveitum. Fyrir vestan jøkulinn edur undir Jøkli, er siór hvervetna sóktr þá gefr og heita þau fiskiver er þar liggia: Gufuskálar ytst, svo Sandr og svo Rif; fyrir innan Ennit: Olafsvík og Vallnaþláts. Í þessum veidistødum eru skreidarkaup mikil øllum sumrum. En fyrir sunnan Jøkul sækia vermenn almennt ei sió utan á vorum framm til messna, og liggia þeir í tiølldum medan vertíd varir, einkum i Dritvík, er

vestast liggr veidistada heim megin jökuls, þá Lón, þá Hellnar, þá Malarif. Sýslan er ysirhöfud betr fallin til kúpenningsræktar, enn fiárabla, þótt á sumum stödum sé allgott hagqvisti fyrir saudfénad upptil fialla.

Menn deila bygdinni á þennan hátt: Stadarsveit fyrir vestan Straumfiardará, hún er hin fegrsta og grösugasta í sýslunni og best ysirferdar, svo Breidavíkr-þing, sunnanfram á nesinu, svo Neshreppr ytst, svo Eyarsveit nordan fram í nesinu, svo Helgafells-sveit austar á sömu strönd, svo innst og austast Skógarströnd; þat er allfagurt og slátlendt bygdarlag, smáskógar og gott hagqvisti fyrir saudfé.

Sunnanframm á nesinu eru engir firdir, er gánga inní nesit; enn hit nyrdra gánga inn frá Breidafirdi: Grundarfiördr vestast, þá Kolgrafafiördr, þá Hraunfiördr, þá Mióstfiördr, þá Vigrafiördr, þá Alptafiördr innst.

Hit merkasta stöduvatn er Lón edr Diupalón ímillum Dritvíkr og Lóns; hvörki er þat sökum stærdar né dýptar áminningarverdt, þótt menn hafi því þat nafn géfit, heldr þessvegna, at í því er flód og fiara sem í sæ, þótt í því sé sætt vatn. Lángavatn er ei alllít it stöduvatn, þat liggr vid Stadarholt skamt frá Stadarstad lángs med alfaravegi.

f) Hvörki eru þar stórar ár né hverir, er verdt sé at géta; enn hvergi eru svo margar Ölkeldr á Íslandi sem í sýslu þessari; medal hvörra þessar eru hinar nafnkunnustu; a. Ölkeldan skamt frá Stadarstad, er vellr upp af þúfu, vatnit í henni er nokkut beiskt og væmit. b. Ölkeldan á Fróda-

arheidi fyrir ofan Búdir í dalverpi nokkru skamt frá alfaravegi: vellr hún upp á lækjarbakka og rennr í lækinn; þat vatn er miklu smekkbetra enn ennar fyrrnefndu og er þat ágiætr svaladrykkr. c. Ausakots ølkélda fyrir austan Búdaós á hørdum velli nálægt veginum, skamt frá kauptúninu; hún vellr upp úr hardri og stórri þúfu, er at líkindum af mønnum er gérd; vatnit er hvítleitt at lit, tært og hefir sterkan og ei óþægiligan smekk. d. Olafsvíkr ølkélda fyrir austan Ennit skamt frá sæ, og á deigum støz; vatnit er gott og svalar vel, en er ei allmikit. e. Eýdis ølkélda vid Kolgrafafiørd vestanverdan í Eyrasveit; og f. Raudamels ølkélda undir fiallsrótum skamt frá Raudamel í Hnappadalssýslu, hún er hin nafnkéndasta á Íslandi fyrir sakir vatnsmegnis og giæda; kéldan vellr upp í stridum læk, er tekr mikinn hluta vatns hennar med sér, sem er svo mikit, at ei er þat sídr í lækinum enn í siálfri uppsprettunni, yfir hvørri er jardbrú; vatnit er einka tært og létt, þat hefir lítinn súrusmekk, lífgar og endurnærir harla vel. Á þessum ølkéldum skióta jafnan bólur upp, sem hver væri, en eru þó afarkaldar; drekki madr mikit af þeim sterkari ølkéldum í einu, verdr madr hálfdrukkin, en eptirá lífgast og hressast menn miøg

Í sýslu þessari eru 5 verdslunarstadir er heita: 1. Búdir í Stadarsveit, og 2. Stapi bádir sunnanframm á nesinu; á Stapa er gód høfn; þar er og fiskiver; vid Búdir liggia skipin á þurru í ósnum, þá stórstraums fiara er. 3. Olafsvík er at nordanverdu ystir kauptúna, svo 4. Grundarfiørdr (Grönnefiord) og innst 5. Stykkishólmr. Engin þessara høndlunarstada hefir kaupstadar-rétt utan Grundarfiørdr, er løg fyrirmæla vera skuli

kaupstadr í vestr-amtinu, undir hvern allir adrir verdslunarstadir í því liggia; en hværki þar né á Stapa er mikill kaupstapr fyrir sakir þeirra óhaggvænu aðstødu. Í Grundarfirdi er einhver hin besta skipalega.

Í sýslunni eru 6 prestaköll er svo heita: 1. Stadastadr í Stadarsveit (edr Stadr á Ølduhrygg, i Vilkins máldaga: Stadr á Snióvellsnesi): þat braud kalla menn eitthvert hit besta á Íslandi (metit 105 Rdlr. 5 mk. 10 ß). 2. Breidavíkr-þing, þar er Laugarbrecka prestssetr, annexiur Einarslon og Knør í Breidavík. 3. Neßþíng, kyrkian er at Ingialdshóli og annexian at Fródá milli Høfda og Ennis. 4. Setberg í Eyrarsveit metit 83 Rdlr. þat er talit jafnframt ennum betri braudum, 5. Helgafell annex Biarnarhøfn, hverttveggia í Helgafellssveit, (metit 97 Rdlr. 8 ß.) 6. Breidibólstadr á Skógarstrønd, annex. Narfeyri edr Geirraudar-eyri vid Álpafiørd, metit 52 Rdlr. 5 ß.

At Hallbiarnar-eyri í Eyrarsveit er spitali fyrir líkþráa í Vestfirdíngafiórdúngi, er á 17 øld midri var at kóngsbodi á stofn settr ásamt 3 ødrum, sínum í hverju amti landsins.

Í sýslu þessari hefir konúngr miklar eignir og er umbodsmadr nokkr yfir þær settr, er býr á Ingialdshóli í Rifi; umbod þetta kalla menn Arnarstapa umbod og liggia jardir þeis vídsvegar í þessari og Hnappadalssýslu; þat er talit eitthvert hit stærsta imedal kóngs umboda á landinu; fyrrum láu eignir þeis undir Helgafellsklaustr, er stiptat var á ofanverdri 12tu øld.

Á Breidafirdi eru engar eyar nálægt Snæfellsnesi fyrir vestan Melrakka-ey á Grundarfirdi, er útlendskir kalla Præstens Eyland, med því hún liggr undir Setberg; þar er slægiuland og ædarvarp Frammundan Helgafellssveit og Skógarströnd liggia allmargar bygdar og óbygdar eyar og hólmar, er miög bæta búhöfn nefndra sveita; þær nafnkéndustu eru: Akurey, Þormóds-ey, Seslón, Kidey, Melrakkaey, Fagurey, Arney, Bildsey, Skorey, Rifgerdíngar og Brokey, sem er þeirra ardsamust í tilliti til heyskapar, grasnytia, eggia og dún-tekiu; en í Elliduaey og Höskuldsey er veidistöd best og fiskiver.

Af lýsing sýslu þessarar má ráda, at innbúar hennar, sem eru hérumbil 3550 at tölu, séu hverutveggia, landbúnadi og fiskiveidum; þó má þat segia, at allvída er þar lítit biargrædi, þá sióar aflan brestr, einkum hit ytra á Snæfellsnesi.

## 4. Dala-sýsla.

Hún liggr fyrir Breidafiardarbotni og eru takmörk hennar hit sydra fyrrnefnd Gliúfrá og hit nyrdra Gilsfiördr, enn at austanverdu taka fiöll og fyrnindi vid, þá bygdin þrýtr. Í sýslunni er graslendi mikit og gott, bygdin fögr og vída flölsett og margbreitt landslag; med því at grösugir dalir og lágir hálsar og fiöll og sléttlendi skiptast til at giöra margbreitnina i sveitum þessum því inndælli; svo ei þykir þat ofkiört vera, at sýsla þessi sé einhvör hin fegursta á landinu. Í tilliti til stærdar hennar er hún einnig allfiölmenn og eink-

ar vel fallin til fiárræktar, á hverrar nytium allr þorri sýslubúa at mestu lifir.

Firdir 2 allmiklir gánga af Breidafirdi inní sýslu þessa og heitir hinn sydri Hvamsfiørdr og hin nyrdri Gilsfiørdri; frá botni hans og til Bitrufiardar og Kollafiardar í Strandasýslu er landit miótt og segia menn at eid þetta ímillum fiása sé 3 mílur á breidd, en miklu skémra ef flatlendt væri.

Ár eru þar fáar og ómerkar; þó má hér géta Haukadalsár, er kémr úr alldiúpu fiskivatni, er Haukadalsvatn er kallat; og Laxá er rennr úr Laxárdal; bádar falla þær í Hvamsfiørd og er laxveidi í hvorutveggiu, einkum í cani sidari. Auk þessara veidivatna eru á Sølvamannaheidi, sem liggr ímillum Dala og Hrútafiardar, mørg vøtn og tiárnir, er uá af silúngi. Skamt fra Túngu-kyrkiu í Sælingsdal er nafnkénd laug; er fornmenn laugudust í jafnan, sem nú er enn þá sidr til.

Dalasýsla er eitt prófastsdæmi er skiptist í 6 prestakøll, er svo heita: 1. Middalaþing, kyrkiurnar eru at Snóksdal og Saudafelli. 2. Kvennabrecka, annex. Vatnshorn í Haukadal. 3. Hiardarholt í Laxárdal (metit 57 Rd. 3 m'. 12 Sk.) 4. Hvammr í Hvammssveit, annex. Sælingsdalstúnga og

Ægardr í femm sveit, samt Fell (edr Medalfell) á Fellsströnd, almenniliga kallat St. Darfell (metit 67 Rdlr. 2 Mk 3 Sk.). 5 Skards-þing, edr Skards- og Búdardals sóknir og Dagverdarnes. 6. Saurbæar-þing edr Stadarhóls- og Hvols-sóknir.

Þat er gamalt ordtæki á Íslandi, at svo sén margar eyar á B eidafirdi, at ei verdi taldar, og mun þat at vísu satt vera, at torveldt mundi at telia þær; en allfáar af grúa þessum eru bygdar. Eyar þær, er liggia hit vestra í Hvamsfirdi, í nánd vid høfda þann er Skardsklofníngr kallast, heyra til Dálasýslu; flestar eru þær friósamar og ardsamar, med því at á þeim er kiarngott gras og gódr heyskapr, hagar gódir og fuglaveidar, samt ædardúns- og eggiatekia. Þessar eru bygdar: Lángeyar, Purkey, Hrappsey, Ryskey, Rúgeyar; samt Skáley, Akureó og Olafsey, er fyrrum hafa bygdar verit. Í Hrappsey setti Olafr Olavíus prentverk á stofn 1773, hvadan komu ýmsar bækur og bókmálar, uns þat eptir lángt hlé á sig um var flutt til Leirárgarda.

Allir þorri innbúa sýslu þessarar, (sem eru hérumbil 1600 at tøln) idia jefnlagt landbúnad og lifirmest á qvikfiárrækt og er þar allvída gód búhøfn. Þeir sækia sió undir Jøkli.

5. Bardastrandar-sýsla,

Þann hluta landsins, er gengr í útnordr fra fyrrnefndri eyd, kalla menn sérilagi Vestfirdi, og má hønum líkia vid miøg limat tré, med því at afarmargir eru firdir og vogar heir, er gánga bædi inn af Breidafirdi og af hafi, fyrir nordan hann, inní landit, einkum þeim megin, er í vestr veit. Þessum hluta

hafa menn deilt í 2 parta edr sýslur og kall-ast hin sydri Bardastrandar-sýsla, og hin nyrdri, Isafiardar-sýsla; en fyrrum kölluduft þær bádar samt Þorskafiardar-þing. Bardastrandar-sýsla nær frá Gilsfirdi til Lánganesz í Arnarfirdi; hit sydra er Breidifiói og hit vestra úlsærinn; en at nordaustanverdu eru heidar, og óbygdir. Þar eru allhá fiöll, gródurlaus og klettótt, sem annarstadar á Vestfiördum, og líkiast þau miög múrveggium; ávalum at ofan, med allmörgum langsetis liggiandi lögum edr klettabeltum bádumegin; víast eru þau brattari at sunnanverdu, enn hit nyrdra, hvar atlídandinn er lengri. Þar er allvídast lítit undirlendi og alleina ytsti jadar landsins med sæ framm bygdr; þó er þar á ýmsum stödum allfögr tún og graslendi at finna. Firdir þeir, er gánga af Breidafirdi inn í landit, liggia svo í röd vestr eptir frá Gilsfirdi: fyrst Krókfiördr, svo Berufiördr, svo Þorskafiördr fyrir vestan Reykianes, svo Diúpifiördr, svo Gufufiördr (bádir smáfirdir) svo Kollafiördr, svo Kvígindisfiördr, svo Skálmarfiördr, svo Vattarfiördr, svo Kérlingarfiördr, svo Kiálkafiördr, svo Vatns-

fiørdr, þá Vadill og þá Vœar-ós. Af hafi gengr Patriksfiørdr inn í sýsluna fyrir nordan Straumnes, þá Tálknafiørdr fyrir nordan Tálknabiarg, er liggr út ímillum þessara fiarda, þá Arnarfiørdr, er nes þat er Lánganes kallast, skiptir í tvo firdi, þá inn eptir dregr og gánga af hinum sydri smá-firdir nokkrir, medal hvørra er Forsfiørdr, Reykiafiørdr Trostansfiørdr og Geir-þiófsfiørdr. Arnarfiørdr heitir Borgar-fiørdr innst.

Hverki eru ár né stødu-vøtn í sýslu þessari er áminníngar þykia verd; en hverir eru skamt frá Reykhólum á Reykianesi øndverdu, er lángt bera af ødrum á Vestfiørdum og Reykhóla-hverir eru kalladir; auk allmargra smárra siód-andi uppspretta, eru þar 3 hverir, hvørra mestr er sá, er Krablandi kallast, hann spýtir vatn-inu upp úr steinkløpp 2 álnir í lopt upp med dynium vellu-nid 4 til 5 mínútur í senn og heldr þeß ámilium eins lengi kyrru fyrir. Menn setia katla yfir gúg edr munna hans og matreida á þann hátt fullt svo fliótt og vel sem yfir eldi. Hin-ir tveir eru ei svo heitir né miklir; annan þeirra telia menn ágiæta heilnæmislind vid margskonar meinsemdum. Í Tálknafirdi eru 2 laugar, er ønn ur þeirra at Eyrarhlíd og var hún vígd af Gudi-mundi biskupi hinum góda á 14 øld, (ásamt mørg-um ødrum laugum, brunnum og biørgum vída á landinu) og kallast hún þvi Gvøndar-laug. Í Reykiafirdi í þessari sýslu og allvída vid Arnar-fiørd eru hveri og vellandi vøtn.

Sýslan er eitt prófastsdœmi, í hvøriu eru 8 prestaköll, er svo heita: 1. Garpsdalr í Geiradal. 2. Stadr á Reykianesi, anner-

er Reykhólar í sama bygdarlagi. 3. Gufudalr í Gufudalssveit. 4. Flatey á Breidafirdi, annex. er Múli á Skálmarnesi. 5. Bardastrandar-þing, edr Briámslækr og Hagi. 6. Raudasands-þing, þat eru Saudlauksdals og Saurbæar (á Raudasandi) sóknir. 7. Selárdalr (vid Arnarfiørd sunnanverdan) annex. er Laugardalr í Tálknafirdi (metit 82 Rdlr. 2 Mk. 10 Sk.). 8. Otrardalr.

Mestr hluti eyanna á Breidafirdi liggr undir Bardastrandarsýslu; menn skipta þeim almennt í 7 flokka, med því at 7 eru þar taldar høfud-eyar, nl. Flatey, framm undan Skálmarnesi; hún er nafnkunn erlendis fyrir sakir ennar nafntogudu Flateyarbókar, er ritut er á kálfskinn og nú vardveitist í enni stóru konúngligu bókahlødu í Kaupmannahøfn; þar er ein kyrkia og allmørg bændabýli; Svefney, Svidnur (edr Sviduren) Hvallátr, Skáley, Skagley og Biarneyar; þær 2 sídst tøldu liggia lengst undan landi og hefir þar jafnan verit fiskisælt miøg. Allar eru eyar þessar 1 hreppr, er Eyahreppr kallast og 1 kyrkiusókn. Sudr undan Reykianesi er grúi smá-eya (hérumbil 300) er liggia í út og súdr og eru hærstar at nordanverdu. Fleistar eru eyarnar á Breidafirdi ardsamar miøg, því bædi eru allmargir medal þeirra grøsugar og fiølskrúdugar stødvar ýmsra sæfugla t. d. ædarfugls, er sérilagi eykr búsæld eyamanna.

Verslunarstadir sýslu-búa eru: Flatey, þar er einhvør hin fegursta, besta og vedrasæl-

afla skipalega undir hólma nokkrum, er Hafnarey kallast, frá hvorri gánga tveir skeria armar svo skipuligir, sem mannaverk væru, ímillum hvorra er diúp hösn fyrir fá skip. Patreksfiördr (Vatneyri) við samnefndan fiörd og Bildudalr við Arnarfiörd sunnanverdan.

Látrabiarg (Fuglebierget) á Bardaströnd og í Sandlauksdalssókn er eitthvört hit mesta fuglbiarg á Islandi; þat er 3 til 4 mílur á lengd og 100 og sumstadar 200 fadmar og þar yfir á hæd; þar er ógrynni svartfugls, eggiatekia mikil og fuglveidi. I Skirdalsbrún at vestanverdu við Berufiörd er allmikinn Surtarbrand at finna, samt í slalli við Læk á Bardaströnd, í Forsdal skamt frá Otrardal, í Barmahlíd og í fiöllunum við Raudasand.

Merkilegn þiódvegir í sýslu þessari eru: Þingmanna-heidi og Þorskafiardar-heidi ímillum Bardastrandar- og Isafiardar-sýslu.

Sidr er sýsla þessi til qvikfiárræktar fallin, enn til fiskifánga og annarrar agnsemis hvoria heldr má telia höfud-biargrædisveg sýslubúa, sem eru hérumbil 2500 at tölu.

## 6. Isafiardar-sýsla.

Hún gengr frá Lánganesi í Arnarfirdi umhverfis allan jadar landsins, er veit í vestr útnordr, hánordr og landnordr alt til Geirshólma edr Geirúlfsgnúps á Hornströndum;

forrum nádi hún at Hrútafiardará; en sídan deildu menn henni í 2 parta og kolludu hinn eystri edr frá Geirshólma til nefndrar ár, Stranda-sýslu. Isafiardar-sýsla er vidlend miøg, þó eigi sé hún fiølbygd, med því at mestr hluti hennar er grasiaus fiøll, iøklar og ørœfi. Hún er hvervetna afar vagskorin og má þar þessa firdi og merkustu víkur telia: sydstr er Dírafiørdr fyrir nordan Arnarfiørd, hann er 5 mílur á lengd og 2½ á breidd; þá Ønundarfiørdr (4 mílur á lengd og ¾ á breidd) þá Súgandafiørdr (er sumir kalla Sagundarfiørd) (3 mílur á lengd og ¾ á breidd) þá Kéblavík, þá Skála-vík, þá gengr Isafiardar-diúp inní landit imillum Stigahlídar, eda Stiga-gnúps (hvørs breidd er 66° 8′ 15″; en lengd 26° 25′ ɔ: fyrir vestan Paris) og Grænu-hlídar. Hit sydra gánga víkur og firdir af Isafiardar-diúpi í sudr inn í landit, er heita: Bolúngarvík ytst, svo Skutilsfiørdr, svo Alptafiørdr, imillum þeirra er Arnarnes, svo Seidisfiørdr (edr Eydisfiørdr) svo Hestsfiørdr, svo Skøtufiørdr, þá Miói-fiørdr, svo Vatnsfiørdr, svo Reykia-fiørdr, svo Isafiørdr innst. Fyrir hand-an sídstnefndan fiørd tekr Lángadalsstrønd

vid, er liggr þvínær í út og sudr fyrir botni Isafiardardiúps og nær alt til Lónsiardar edr Kalda-Lóns; en fyrir nordan þat liggr Snæfiallaströnd í útnordr til Biarnanúps, er adskilr Isafiardardiúp og Iökulsfirdina, sú sveit er einhvor hin grösugasta vid Isafiardardiúp, en mikit er þar vetrarríki og afar-sniódþyngsli. Imillum Biarnarnúps og Grænnhlidar, hit nyrdra, gengr Iökulfiördr inn í landit og er hann þar 1½ míla á breidd, af hönum hverfa, auk Grunnavíkr, 5 smáfirdir, er allir samt eru Iökulfirdir kalladir, heirra sydstr er Leirufiördr, er beygist allmikit til sudurs, þá Hrapps- edr Rafnsfiördr, þá Lónafiördr, þá Veidileysufiördr, þá Hesteyrarfiördr. Þá tekr Sléttan vid og Grænahlíd, hvorrar ytsti tángi kallast Ritur eda Ritanúpr; þat er fuglbiarg. Imillum Ritanúps og Skraumnesz er allbreidd vík er Adalvík heitir, (og gánga 3 víkur inn af henni, er Sæbólsvík, Midvík og Látravík kallast) þa Rekavík, þa vík sú er Fliót kallast; ímillum þeirra er hár höfdi, er Hvesti nefnist; fyrir austan Fliót er höfdi sá, er Kögr heitir, og fyrir austan hann er Kagravík, þá Haugavík, þá Sandvík þá taka Vestr-Almenningar vid, nl.

Balaströndin frá Sandvík til Karansvíkr; þá er Hlöduvík, þá Hælar- edr Heliarvík nærst fuglbiargi allmiklu, 1 milu á lengd, er Hælarvíkr-biarg kallast, fyrir austan þat er breid, en stutt vík, er Höfn nefnist, nærst Hornbiargi at vestanverdu, þar er einn bær, er heitir sem víkin er þar vigdr reitr í túninu til at jarda þá í, er deya á vetrum; med því at 5 mílur eru þadan til kyrkiu, þá farit er landveg; en siólcidin þángat er þeim mun verri, at yfir 4 rastir skal fara. Vid Hornit er bær sá, er Horn heitir hann er allra býla nordastr á þessum útskaga landsins. Hornit adgreinir vestr og austrstrandir Hornstranda og liggia þær sídstnefndu þadan í landsudr; nærst Horni at austanverdu er Látravík, þá Hrollaugsvík og þá smá-víkr þær, er Hólkabætr kallast, sem ásamt Hrollaugsvík eru enir svokölludu Austr-Almenníngar, er ná alt at læk þeim, er Drífandi kallast, þá er Smidiuvík, þá Bardsvík, þá Bólúngavík, þá Furufiördr þá Paralátursfiördr, þá Reykiafiördr og þá Sigluvík vid sýslu-takmerkinn. Í allflestum fiördum þeim og víkum, er eg talit hefir í Isafiardarsýslu, er nokkr mannabygd; í sumum eru allmiklar sveitir og fiskimenn fiskiver

og sumstadar fábýli edr einbýli og taka hvoru-tveggin hvervetna nöfn af þeim.

Því gródurminni eru fiöllinn á Vestfiördum, því miórra er undirlendit og því fleiri biörg og siáfarhamrar, sem lengra dregr vestr og nordr eptir. Tveir eru jöklar í sýslu þessari, nl. Gláma og Drángajökull, er Isfirdingar almennt kalla Lónjökul. Gláma liggr fyrir botni Arnar- og Isa-fiardar og nær hit sydra til Bardastrandar-sýslu landamæris; yfir hana er vegr lagdr, er kallast Glámuheidi og er hann talinn einhver hinn torsóktasti á Islandi. Dránga-jökull liggr fyrir ofan edr bak vid öll bygdarfiöll millum Isafiardar og Hornstranda, hvar hann nær nidr at hvörium fiardarbotni og gengr í út og sudr frá Skotaheidi hit nyrdra þvinær til Trekyllisvíkr sudr. Hit nafnkéndasta útnesiabiarg í sýslunni er Hornit (66° 29′) nordast á Hornstrendum, þat er hátt fiall, hvörs hæsti toppr, sem Kálfatindr kallast, er sagdr 1550 fóta hár; þat litr út at sunnanverdu tilsýndar sem bust edr húss-gafl; sió-armegin er þat þvergnýpt miög; þar er afargrdi svartfugls og lunda; en ei hafa Hornstrendingar þrótt eda sullthugi-andi tilfærur til at færa sér, sem skyldi, þá agusemi í nyt. Á ýmsum stödum er surtarbrandr í fiöll-

um sýslu þessarar t. d. í Stigahlíd, í Grænuhlídar fialli, samt í Straumneshlíd og Skorarfialli, Sandvík og Stadardal i Stadarsókn í Adalvík i Skálavík á Ingialdssandi og í Raudanúpi. Einnin má rauda stuna í Snæfelli vid Isafiord austanverdan, skamt frá Eyri í Isafirdi. A nesi vid Vatnsfiord, er Smidiunes kallast, finnast eptirstödvar af smidiu mikilli er mern meina Gestr Oddleifsson á 10 öld hafi bygt og bláfit þar rauda og giört þar jarn af.

Prír eru verslunarstadir í sýslunni: 1. Dírafiardar-höndlunarstadr (Þingeyri), þat kauptún liggr midsvegar vid Dírafiord sunnanverdan og fyrir innan Þingeyri; þar er allgód höfn og innsigling. 2. Önundarfiardar höndlunarstadr (Flateyri) vid nefndan fiord nordanverdan, þar er og trygg höfn og rúmgód. 3. Isafiardar-höndlunarstadr vid Slutilsfiord vestanverdann, hann er tédra kauptúna mestr og hafdi hann um hríd kaupstadar-rétt; þar er einhvör hin stærsta og besta sumar höfn á Islandi, er Pollr kallast og er þar land á þriá vegu, en litit sund á einn veg, er Mióa-sund heitir; mæla þat sumir menn, at þar géti hafskip á vetrum legit. A fleirum stödum má kaupförum til hafnar leggia t. d. á Haukadalsbót í Dírafirdi, í Lángeyrarvík og Hattareyrarbot í Alpta-

firdi, at vestanverdu i Eydisfirdi, vid Ædey, i Hrapps-Veidileysu- og Hesteyrarfiørdum, i Adalvik, i Fliótum, i Høfn vid Hornit, í Bardsvik, Bolúngavik, Furufirdi, Paralátursfirdi og vídar; og hafa Irskir á fyrri tídum, og Hollendingar, (er hvergi vid landit sóo optsinnis hafa hafna leitat sem i sýslu þessari), á seinni tídum hafnat sig á tédum stødum.

Margar eru smá ár i sýslunni er renna i nefnda firdi og er i þeim flestum nokkr silúngsveidi, en sialdsenginn er þar lax i sæ edr sætum vøtnum; hefir þat þvi verit søgn manna, at ei gengi lax at Vestfiørdum frá Laxá i Dalasýslu til Hrútafiardar ár; en þó eru dæmi til at hann hesir veidst i Lángadalsá vid Kyrkiuból.

I Reykiarfirdi, á nes-odda, skamt fra siáfarmali, er hver nokkr allheitr; þar var 1773 saltverk á stofn sett, at konúngs bodi og kostnadi og fékst þar mikit salt og gott; en þó kom þessi likvæntiga stofnan landinu at litlu gagni, þar hun at mestu leid undir lok eptir 13 ár. Þat mun i heimi eindæmi vera, at menn hafi sér á þann hátt salts ablat. Þar i náud vid er laug med steinveggium umhverfis. I Reykiafirdi á Nordr-Hornstrøndum eru hverir nokkrir, sem eru at eins volgir.

Hvad kennimannuligum málefnum vidvikr, skiptist Isafiardar-sýsla i tvo parta edr prófastsdæmi, er kallast Vestr- og Nordr-partr; i enum fyrri eru 6 prestakøll, er svo heita: 1. Rafnseyri, (Eyri vid Arnar-

fiørð) 2. Alftamýri (við sama fiørð) 3 Sandar, í Dirafirði sunnanverðt, annex. Hraun í Kielðudal. 4. Dirafiarðarþing, eru Núpr og Mýrar í Dirafirði (norðanverðum) og Sæból á Ingialðssandi. 5. Holt í Önundarfirði, annex er Kyrkiuból í Valþiófsdal (metit 75 Rdlr. 12 ß.); millum þessara sókna er illræmdr vegr, er Dals-ósæra kallast. 6 Staðr í Súgandafirði. Í Norðr-partinum eru 7 prestaköll, er kallast svo: 1. Eyri við Skutulsfiørð, annex. er Höll í Bolúngarvík. 2. Ogr og Eyri í Seiðisfirði. 3. Vatnsfiørðr, (metit 69 Rdli.) 4. Kyrkiuból í Lángadal. 5. Staðr á Snæfiallastrønd. 6. Staðr í Grunnavík. 7. Staðr í Aðalvík, þángat eiga Hornstrendíngar, bæði fyrir vestan og austan Horn, kyrkiusókn. Hér má og þess géta, at ástundum hefir í allri sýslunni verit einn prófastr, og stundum hefir norðr-hluti hennar fylgt Strandasýslu; og í fyrri tíðum innihéldt vesturpartrinn þau 7 fyrst-töldu prestaköll.

Á Isafiarðar-diúpi eru 4 eyar nafnkéndastar nl. Vigur, er liggr ei allfiarri undan landi og hérumbil miðsvegar millum Skøtu og Hestsfiarðar mynna; Eyauer bygð og er þar allmikit æðarvarp og eggver og útræði; en hvorki síngast þar kéttir né mýs. Austar er Hrútey á Miðfirði, þar er gott beitiland og eggver. Borgarey frammundan Vatnsfiarðar mynni; hún er eign kyrkiunnar í Vatnsfirði, á henni eru hagar góðir, æðarvarp og eggver, og Æðey við Snæfiallastrønd, skamt undan landi, hún er eya agætust, akir æðarvarps, hvíitsfra veiða, haga, útigángs og útræðis.

Þó at óvída sé landbúnadr og qvikfiárrækt høfud biargrædisvegr sýslubúa, (sem eru hérumbil 3900 at tølu) má þar þó á ýmsum stødum t. d. í fyrst tøldum fiørdum. á Lángadals og Snæfiallaströndum allmikit qvikfé hafa. At vísu er sumstadar grøsugt haglendi fyrir saudfé á Hornstrøndum, einkum fyrir vestan Hornit, og ýmislig agusemi svo sem fiski og fúgla veidar, triáreki og eggiatekia; en sá er andkanni þar, er spillir giædum þessara bygdarlaga, at jafnan eru þar þokur og svækiur á sumrum, svo hevinn ónýtast; en vetrarríki er þar mikit og vegir þadan til búsælli bygda og kaupstada lángir og skipadir mørgum torfærum; þetta ásamt ósialdgiæfum hafís komum vid útstrandir þessar ollir því, at búfæld er þar tæp og búhøfn qvikful. Hákalla- sela- og fiski veidar eru driúgasti atvinnu-vegr sýslubúa og eru þeir manna vaskastir til siósókna og fiskifánga og kunna ødrum landsmønnum betr at skutla hvali og seli. Merkustu fiskiver í sýslunni eru: Hafnir og Skier ytst vid Dyrafiørd sunnanverdan; Skagi, gagnvart þeim fyrir handan fiørdinn; Sandr sunnanverdt og Kálfeyri nordanverdt vid Onundarfiørd; Valnadals-ós, Stød, Sudr- og Nordr-eyri vid Súgandafiørd; Bolúngavík, þángat sækir mikill fiøldi Ísfirdínga einkum á vorum; Kalfa- og Selgu-dalr eru tvo litil fiskiver nokkut innar; Hafnir á Arnanesi, Ogurnes og Ogurhólmar; Adalvík og Høfn vid Hornit.

## 7. Stranda-sýsla.

Þat er strøndin frá Geirúlfsgnúp (sem er hátt og þvergnýpt biarg) alt til Hrútafiardarár, hvar skiptinn fyrrnm greinduft. At vestanverdu gánga einlæg fiøll og heidar í sudr til fiallvega þeirra er fyrr er getit. Strønd

þessi er hvervetna vagskorin og nesiótt. Fyrir sunnan nefndan hefda gengr breid vik inn, er kallast Skialdabiarnarvik, þá Biarnarfiördr, imillum þeirra er Skaufarnes; þá Drángavik (Drángafiördr) fyrir sunnan 7 dránga mikla, af hverium jökullinn tekr nafn; þá Eyvindarfiördr fyrir sunnan Engnes, þá Ofeigsfiördr; oll eru þessi pláts hriöstug, giædalitil og ill yfirferdar. Sunnar hverfr allmikill fiördr inn i landit er Ingólfsfiördr heitir; þar er allfögr bygd med grösugum hlídum bádumegin; þá Nordfiördr fyrir sunnan Mungdarnes, þá Trekyllisvik og skilr Krossaneßtángi þau, en Reykianes sidstéda vik og Reykiarfiörd, sem er 2½ vika siáfar á lengd; sunnar er Veidileysufiördr, þá Byrgisvik, þá Kolbeinsvik, þá Kallbaksvik, þá Biarnarfiördr, þá Steingrimsfiördr og skilr þá firdi nes þat, er Biarnarnes kallast; sidsttalinn fiördr er fiarda mestr á Ströndum (4½ míla á lengd); þar er allmikit bygdarlag bádumegin fiardarins og allmargir siná dalir, i hverium er ymist heyskapr, haglendi allgott, afréttarland edr skógar. Sunnar gengr Kollafiördr inn (1½ mílu), af hvaum gánga einkar fagrir

og grøfugir dalir; þá Bitra edr Bitrufiordr, er hverfr í útfudr inní landit ímillum Broddaneß eda Skridnings hit nyrdra og Gudlaugshøfda hit fydra. Þar er allgott haglendi; þadan er fiallvegr ſkémſtr til Gilsfiardar. Sudr af Bitru gengr Stikuháls fyrir veſtan Hrútafiord, framm med hvorium veſtanverdum Preſtsbakka-ſókn liggr ſydſt allra ſveita í Stranda-ſýſlu og er Bordeyri í Hrútafirdi ſydſti bær í þeirri ſókn.

Enar merkuſtu ár í ſýſlunni eru: Biarnarfiardar-á er nordaſt kémr til ſiáfar, þá Ey vindar-á, hún er allmikit vatnsfall, þá Hvalsá; allar eru þær jøkulvøtn og gengr berglax (laxúngi) upp í þær.

Þar eru og á ýmſum ſtødum hverir; þeir merkuſtu eru á Reykianeſi og vid vík nokkra af Steingrímsfirdi, er Reykiavík heitir; á bádum ſtødum mætti lítit ſaltverk á ſtofn ſetia, Klúnkalaug í Biarnarfirdi og Kaldadarneſz-ſókn, er hin markverdaſta í ſýſlunni; hún er múrut umhverſis og má í hana og úr henni vatni veita.

Á ýmſum ſtødum í fiøllunum vid Steingrímsfiord má Surtarbrand finna, ſamt vid Prúdurdalsá.

Stranda ſýſla er eitt prófaſtsdæmi, er ſkiptiſt í 4 preſtakøll, er ſvo nefnaſt: 1. Arnes í Trekyllisvík; 2. Stadr í Steingrímsfirdi, annex. er Kaldadarnes í Biarn-

arfirdi. 3. Túnga í Steingrímsfirdi (edr Túnga í Túnguſveit; almennt Trøllatúnga kollut, annex. er Fell í Kollafirdi; 4. Bitru-Þíng, er Preſtsbakki, (at fornu Bakki) í Hrútafirdi, og Eyri í Bitru, almennt kollut Oſpakseyri.

Kauptún ſýſlu-búa (ſem eru hérumbil 1000 at tølu) er i Reykiarfirdi; þar er allnýtanlig høfn en lítill kaupskapr.

Merkuſtu eyar eru: Grímsey, nordanverdt i Steingrímsfiardar mynni; þar er einn bær og giædalitill búſtadr. Arnesey í Trekyllisvík, Hrútey, Strákahólmi, Sultarſkér og Lángey, einnin Oddsey, Þordarey og Hrútey á Biarnarfirdi, af øllum þeſſum eyum, einkum þeim ſidſtnefndu, hafa Strandamenn agnſemi nokkura, þar í þeim er eggiatekia. A Hrútafirdi veſtanverdt liggia Bæar- og Kolbeins-eyar, í þeim er hagléndi gott og ædarvarp.

Jafnvel þótt á ýmſum ſødum ſe einkar kiarngott gras á Strøndum og vel til fiárræktar fallit, verda nytiar þeſs ſtopular fyrir ſakir þeſs, at þar er allmikit afl kulda og vetrarríki, samt þokur á ſumrum og þerrileyſi; í forntíd þótti mønnum þar gótt at búa, med því þar vóru landkoſtir gódir og margskonar agnſemi fremr enn í mørgum ødrum vedraſælli ſveitum á landinu; en búſæld þar hefir heldr hnignandi farit á ſeinni tídum, ſvo í þeſſum hluta landſins telia menn hérumbil 40 bæi, ſem í audn eru lagdir. At víſu er þar útrædi á ýmſum ſtødum, ſelaveidi og ønnur þvílík hlynnindi, samt triáreki mikill, (einkum í Skialdbiarnarvík, Biarn-

arfirdi, Ofeigsfirdi, á Reykianesi, Kaldrananesi og á Biarnarnesi rekum) er leggr Strandamønnum ærit efni í hendur til ýmsra smída og búgagna; en skarlægd, torsókeir vegir, slæmar lendíngar og almennr skortr á dugnadi nær og fiær liggiandi sióslu-innbúa, meina hvorutveggiu at hafa þat gagn af giædum þessum, sem væri skyniss á vera.

## III. Nordlendinga-fiórdúngr.

Svo kalla menn þann hluta Islands, er liggr ímillum Hrútafiardar edr Hrútafiardar-ár og Lánganesz, nl. Skoruvikr á Lánganesz-strøndum yfir kamb þann, er Launguheidar-kambr er kalladr, edr fiallgards þess er skilr Nordurland og Austfirdi. Hann er náliga allr þridiúngr landsins á stærd, hérumbil 45 mílur á lengd í austr og vestr og bygdin siálf frá 4 til 6 mílur á breidd í út og sudr; en sumstadar er alleina mió møn vid sæ bygd og taka þar strax fiøll og óbygdir vid fyrir ofan bæina. Fyrir sunnan bygd alla liggia vídlend øræfi og heidar og gánga frá þeim ýmist lágir og grasivaxnir hálsar edr há fiøll og brøtt í nordr, sumstadar alt at sæ framm og skipta þeir og þau bygdinni í sveitir og hérud, er ýmist kallast dalir edr firdir. Ur hánordri gánga 13 firdir inní Nordurland (fyrir utan víkur og voga) og eru nokkrir þeirra allstórir. Fyrir sunnan allar heidar eru joklar miklir er

liggia austr eptir landinu, þeir merkustu eru: Baldjökull, er Nordlingar kalla Lángajökul, þá austr eptir bregr; og Hofsjökull í sudr af Skagafiardar • dölum og fyrir austan Kialveg; bádir siást jöklar þessir úr bygd edr af bygdar • fiöllum. Af lýsing þessari má ráda, at vída er fagurt á Nordurlandi og at þat, at margbreytni landslags og fiölbreytni fegurdar skari framm úr ödrum fiórdúngum landsins. Þat hafa fródir menn ritat, at fiórdúngr þessi hafi fiölbygdastr verit af öllu Islandi og at þar hafi stærstar sögur giörst.

Nordlendinga fiórdúngr edr Nordur • amtit greinist í 4 sýslur; þeim má í stuttu máli svo lýsa.

## I. Húnavatns • sýsla.

Vídlendi hennar, í tilliti til mannabygda, er mest í austr og vestr og liggr hún fyrir botni Húnaflóa og nær alt frá fyrrgreindum fiórdúnga takmörkum hit vestra til fiallgards þess og örnefna er skilr hana og Skagafiardar • sýsluog sídar skal vendiligar skirt verda. Þar er bygd • arlagi svo háttat: at grösugir og fagrir dalir liggia ímillum fialla og hálsa til heida upp og bygdar strandir vid sæ; en náliga er þar hvergi sveit, er flatlenda megi kalla. Þeir gánga

firdir af Húnaflóa inni sýslu þessa: Hrúta-fiordr vestast, hann er hérumbil 6 mílur á lengd frá Gudlaugshøfda og þar $1\frac{1}{2}$ míla á breidd; þá Midfiordr millum Válkaness og Vatnsness, hann er skammr og miór; þá Húnafiordr (Vatnafiordr) ímillum Vatns-ness og innsta hluta Skagastrandar; hann er $2\frac{1}{2}$ míla á lengd og 3 á breidd; fyrir botni fiardar þessa eru sandar miklir, er skiptast í vissa parta edr reka, sem kéndir eru vid bæi þá, er þeir liggia undir. Svo skipta menn sveitum: Hrútafiordr austanverdr, vestast, svo Midfiordr og kallast fialvegrinn ímillum þeirra Hrútafiardarháls og nesit, er gengr út í hafit ímillum fiardanna Válkanes edr Hegg-stada- edr Midfiardar-nes. Framm af Mid-firdi gánga dalir 3, er kallast Vestrár-Núpa- og Austrárdalr; fyrir austan Midfiord liggr Vididalr og skilr þær sveitir háls sá er Midfiardarháls er nefndr og eru á honum bæir nokkrir, er Múla-bæir heita, en fyrir nordan þá hækkar hálsinn mjøg, og kalla menn fiøll þau Vatnsnæs-fiøll, en sveitina og nesit Vatnsnes, er gengr út ímillum Midfiardar og Húnafiardar. Fyrir austan Vididal liggr Vatnsdalr og ilskta Vididals-fiøll dali þessa, þau eru allhá,

en nordr af dølum þessum liggia sveitir þær er Vestr-hóp og Ping kallast fyrir botni Húnafiardar og enn þá austar bygdarlag þat, er Asar kallast, sem ná alt at Blöndu. Fyrir austan Vatnsdal liggr Svínadalr, og skilia þá allhá fiøll, er Vatnsdalsfioll heita; austar liggr Blöndudalr og svo Svartárdalr austast; en einn verdr dalr breidr og lángr úr sídstnefndum dølum fyrir nedan Túngufiall, og kallast hann Lángidalr, nær hann alt til siáfar og gánga há fiøll fyrir austan hann, á bakvid hvor hálendr dalr liggr í sømu átt, er Laxárdalr heitir; þar er jafnan vetrar-ríki mikit; strønd sú, er liggr at austanverdu vid Húnaflóa til Skagaheidar kallast Skaga-strønd, þat er almikit bygdarlag.

Ár í Húnavatns-sýslu eru: 1. Hrúta-fiardar á vestast, er skilr flórdúngana; svo 2. Midfiardar-á, sem er nokkut vatnsmeiri, en ei svo strid; svo 3. Vididals-á, sem er áþekk enni sídstnefndu, svo 4. Vatnsdals-á er rennr í Fliótit; en þá hún kémr úr því aptr, kallast hún Qvíslar, er renna í Húnavatn; í øllum þessum ám er Lax- og silúngs-veidi; svo 5. Blanda, þat er mikit vatnsfall, er fellr undan Hofsiøkli, rennr hún sídan um eydi-flat-lendi edr heidar, hverium hún skiptir svo, at Ey-vindarstada-heidi edr afrétt liggr fyrir austan hana, en Kiluheidi fyrir vestan; áin fellr þar um

sanda í mørgum qvíslum, og eru þar vøð á henni, er Nordlinga- edr Blöndu-vøð nefnast; sídan fellr hún i diúpu gili med ógurligum strídleik og forsum; en þá hún kémr í bygd, rennr hún um þraungan dal, er ber nafn hennar og sídan um Lángadal endilángan og kémr til siáfar i Húnaflóre; í ósnum er góð lax-veidi. J Blöndu fellr Svartá, er rennr eptir Svartárdal og ýmsar þverár. 6. Laxá á Skagaströnd er bædi stríd og mannskæd, þótt ei sé hún allmikit vatnsfall.

Medal stødu vatnanna í sýslu þessari má telia: Gauksmýrarvatn á Midfiardarhálsi, Vestr-hóp, Midhóp og Húnavatn, af hveriu sýslan tekr nafn, Helgavatn i Vatnsdal og Fliótit nedar i sama dal *) og Svínavatn i Svínadal, úr því rennr á, er Lax-á heitir, og er í henni allmikil laxveidi; i øllum þessum vøtnum er silúngs-veidi, þótt ei sé hún idkut sem skyldi. Þar ad auki eru ótølulig stór og smá fiskivøtn á Skagaheidi, samt á Kúluheidi, Gafiheidi (framm af Vídidal) og Arnarvatnsheidi og Tvídægru; giørdu búendr fyrrum út menn á heidar þessar til silúngs veida

*) Uppkef þeis eru þvílík: 1545 hrundi fiallsbrunin, sem undireins var bakki niarnar nokkurrar upp á fiallinu, nidr og umvelti skriduhlaupit med ógurligum vatnsgángi øllum grasvegi í blsdinni, tók Skídastadi af med 13 mønnum, fistadi Vatnsdalsá og hliop yfir dalinn; má þar siá ærin ummerki þessarar skridu á haugum þeim eda hólum, er Vatnsdalshólar eru kalladir.

haust og vor, og láu þeir þar vid skála; en nú er sá manndómr undir lok lidinn.

Hverir og laugar eru: Reykiahver í Hrútafirdi, í hönum er vatnit svo siódandi, at fullsióda má fisk í hönum á 8 mínútum; vatnit er annars létt at vigt, tært og bragdgott sem í Reykialaug hiá Reykium í Midfirdi, í hvorri menn laugast. Þessara lauga geta Íslendinga sögur. Lítill hver er og hiá Reykium í Svínadal, í mýrlendi; hann er ei svo nafnkéndr, sem enir fyrrtédu.

Á Skagaströnd er kauptún Húnvetninga, er Spákonu-fellshöfdi, (Höfdin, Skagestrands Handelssted) kallast; þar er miög hættulig höfn og útrygg, med því ekkert er þar hlé í nordanvindum; brióta þar því kaupmenn ei sialdan skip sín. Nordar enn í midri sýslunni er Þingeyra-klaustr, á eyndi ímillum Húnavatns og Midhóps; þat er allvel húsadr bær; fyrrum var þar múnkaklaustr, er var hit eldsta á nordrlandi, stiptat 1135; eptir sidaskiptinn féllu eignir þess undir kóung og er nú yfir þær umbódsmadr settr.

Einka merkilig er borginn skamt frá bæ þeim, er Stóraborg heitir, í Vididal; hún er miög lík kastala er náttúran siálf hefir at mestu bygdann og er hún 200 fadmar ummals og at nordanverdu 10 fadmar á hæd; en sunnantil er hún lág miög og hafa því fornmenn, hladit þar vegg af feiknamiklu stórgrýti; en ólióst er þat hvör unnit hafi þrekvirki þetta, þar sögurnar

ei gêta þess. Summum þykir líkindi til vera at Finnbogi hinn rami hafi giört virkit, þá hann deildi vid Hofsmenn edr at Bardi Gudmundsson, er kalladr var Vi a-Bardi, hafi þar um hríd búist um eptir heidar-víginn. Uppi á borginni er lítit dalverpi grasivaxit og uppsprettulind og siást þar enn ummerki litilla húsakynna. Þar er vígi gott og vídsýni.

Sýslan er eitt prófastsdæmi, og eru í því 15 prestaköll, er svo kallast: 1. Stadr vid Hrútafiörd; 2. Stadarbakki í Midfirdi (annex: Núpr); 3. Melstadr í Midfirdi, metit 62 rdlr. 3 mk. 14 ß. (annex: Kyrkiuhvammr); 4. Tiörn, á Vatnsnesi; 5. Vesturhópshólar; 6. Breidibólsstadr (annex: Vídidalstúnga); 7. Grímstúnga í Vatnsdal; 8. Undirfell (annex: Márstadir) í sama dal; 9. Þíngeyraklaustr; 10. Hialtabakki á Ásum; 11. Audkúla (annex: Svínavatn) í Svínadal; 12. Blöndudalshólar, annex: Holtastadir í Lángadal; 13. Bergstadir (annex: Bólstadarhlíd) í Svartárdal; 14. Höskuldsstadir á Skagaströnd, metit 51 rdlr. 3 mk. 2 ß., og 15. Hof (annex: Spákonufell) á Skagaströnd nordast.

Med því úvída á Íslandi er svo gott haggvisti fyrir saudsé sem í Húnavatns-sýslu, er saudsiárrækt hinn notadriúgasti biargrædisvegr sýslubúa (sem eru hérumbil 2500 at tölu) og er þar því allvída gód búhöfn og velgengni. Engir eru þar skógar, en allvída er fialldrapi og vídirrunnar i afdölum og á heidum uppi, er menn nota til kolagiördar. Húnvetníngar sækia og sió í sudurlands fiskiverum og

undir Jökli á vetrum og vorum, og á útnesunum í sýslunni er útrædi, þá fiski-afli gefst, einkum er fiskiver á Skaga vor og haust og gjöra bændr þángat menn til róðra.

## II. Skagafiardar- edr Hegranesz-Sýsla:

Tekr nafn af útskaga þeim enum mikla, er skagar í haf út, imillum Húnaflóa og Skagafiardar; skamt fra Skagatánni er hamar nokkr ímillum Hrauns og Asbúda, er skilr sýslurnar og kallast Deildarhamar; Sudr af Skaga gengr allmikill fiallgardr med mørgum dølum og klofníngum, er skilr sýslurnar, (eptir sem vøtn at draga bádumeginn) og géngr til øræfa sudr; yfir hann er alfaravegr lagdr yfir Vatnsskard frá Svartárdal til Vídimýrar-sóknar í Skagafirdi. Lækr á Vatnsskardsvegi, er Arnarvatnslækr kallast, segia menn sé sýslufkil. Hit eystra gánga fiøll há og brøtt frá heidum (Øxnadalsheidi) at sunnan alt til Dalatáar edr Strákabiargs í Fliótum (Fliótahorns); medal þessara fialla, þá nordr eptir dregr eru jøklar ul. Túnhryggiajøkull ímillum Kolbeinsdals og Hørgárdals; Unudalsjøkull ímillum Unudals og Svarfadardals og Deildardalsjøkull nordar ímillum Deildardals og Svarfadardals.

Skagafiørdr segia menn sé 5 mílur á

breidd frá Skaga til Fliótahorns, og 6 á lengd frá Skagatá til Hegraneſz, er ſkiagar út í midian botn fiardarins; liggia bygdar ſtrandir og ſveitir frammed hønum á báda vegu; en fyrir innan fiardarbotnin er vídlendt hérad og ſléttlendi mikit imillum fyrrtédra fiallgarda, er vera mun ſveita fegurſt á Íslandi.

Sveitum í ſýſlu þeſsari er ſvo ſkipt og háttat: a. fyrir veſtan Héradsvøtnin og fiørdinn: Skaginn er þeimmegin nordaſtr ſveita; þar er gras- og giæda-litill jardvegr; þadan liggr Laxárdalr í ſudr til fialla upp imillum Skagaheidar og Tindaſtóls hit eyſtra; þar er graslendi meira og gott hagqviſti fyri ſaudfé, en vetrarríki er þar mikit, ſem á Skaga. Fyrir ſunnan Tindaſtól edr Eylifsfiall, ſem er eitthvort hit hærſta fiall á Nordurlandi, bratt og afar klettótt, liggr Reykiaſtrønd, inn at fiardarbotni edr Héradsøndum (Borgarſandi) en at nordanverdu ſkilr Laxár- edr Sævarlands-vík, Skaga og nefnda Strønd edr Tindaſtól, er nær í ſudr alt til Gaungu-ſkards. Fyrir ſunnan Reykiaſtrønd og fiardarbotninn liggr Siáfarborgar-ſókn, þá Reiniſtadar ſveit og ſókn; þadan liggia 2 bygdarløg í ſudr og kallaſt hit veſtra frammed fiøllunum, Sæmundarhlid alt til Vatns-

skards; en hit eystra Lángholt, sem er fiølsett bæarod, er gengr jafnsídis med Hlídinni og skilr þau ás nokkr allbreidr, vída vaxinn fialldrapa og illr yfirferdar. Sudr af þessum sveitum liggr Vidimýrar-sókn og sveit fyrir austan Vatnsskardsfiall til Reykiasóknar; en fyrir austan Vidimýrarsveit er flatlendi mikit og fagurt ímillum Héradsvatna og Húseyarqvíslar, er Hólmr er kalladr og eiga bæir þar eptir afstødu kyrkiusókn bædi at Glaumbæ og Vidimýri. Fyrir sunnan Hólminn giørist bygdin hálendari og gengr fiall litit þvert yfir héradit millum sídstnefndra vatnsfalla, er Reykiatúnga kallast, en bygdin fyrir sunnan hana Túngusveit (Reykiasveit) og er hún 2 kyrkiusóknir, kendar vid Mælifell og Reyki. Sunnar er Goddala-sókn, bádumegin Jokul-ár ennar vestri í vestri Skagafiardardølum og í samnefndum dølum, er austar liggia, ásamt hinum, í sudr til øræfa upp, er Arbæar-sókn, fyrir austan Jokulsá ena eystri. Í vestari Jokulár-gili sunnanverdu má surtarbrand finna.

b. Fyrir austan Héradsvøtnin: er þar fyrst at telia Silfrúnastada-sókn sydsta, þá Miklabæar-sókn, þá Flugumýrar-sókn, þá Hofstada-sókn; allar þessar sóknir liggia lángsetis med Blønduhlídar-fiall-

um í út og suðr, í viðlendu bygðarlagi, er Blönduhlíð kallast. Nærhæfis miðsvegar millum síðstnefndrar sóknar og Reinistaðar-sveitar og ytst í klofanum millum austari- og vestari-Vatna, er sveit sú, er Hegranes kallast; þat er hálendara, enn héraðsbygðin, með biörgum og allvörgum fiskivötnum. Fyrir norðan Hofstaða-sókn er Viðvíkr-sveit og liggia dalir 2 til fialls frá henni, kallast hinn vestri Hialtadalr, er gengr nærhæfis samsíðis með Blönduhlíð í suðr alt til heiðar þeirrar er Hialtadals-heiði er kallut; en hinn eystri, Kolbeinsdalr, er gengr meira austr á við til fyrrnefnds jökuls, og skilr þá dali lágr háls; báðir eiga dalir þessir kyrkiusókn at Hólum. Ströndina við Skagafiörð austanverðan kalla menn Höfðaströnd af állháum höfða, er heimmegin gengr út í fiörðin og Þórðar-höfði er nefndr. Viðvíkr-sveit liggr nokkut út með fiörðinum til Kolbeinsdalsár; þá tekr Óslandshlíð við, Hofs-sókn, þá Fells-sókn eðr Sléttuhlíð. Norðr af Höfðaströnd liggia Fliót, þau skiptast í 3 kyrkiusóknir (nl. Barðs-Holts- og Knappstaða-) er norðast liggia allra sveita í sýslu þessari; þar er grösugt og fliótr gróðr á vorum, en vetrarríki er þar mikit og afar-snióþúngsli. Knappstaða-sókn liggr upp

til dala edr efst í Fliótum, er menn kalla Stiflu.

Þau merkustu vatnsfoll í sýslu þessari eru:

a. Hérads-vötnin, er verda úr tveim jökulsám, er falla undan Hofsjökli; þau eru allmikit vatnsfall og straung hit fremra og þá nidr í fiordinn dregr, allstaldan og litt reid; skamt fyrir utan Velli í Hólmi, sem er fer-iustadr, skiptast þau i tvær qvíslar, rennr þá önnr þeirra edr vestari Vötninn fyrir vestan, en önnr edr Austari Vötnin beina leid út med Blönduhlíd fyrir austan Hegraness til sjáfar; austari Vötnin eru ná ordinn miklu vatnsmeiri enn hin vestari, og er á þeim ferja undan Ási í Hegranesi. Lax mikill gengr uppí bsa þeirra; en sem er torveldni á at veida hann þar, sem í ödrum stórelfum á landinu; Selurinn getr betr hagnýtt sér þessa agnsemi, hvorn þar má veida til rida.
b. Diúpa- edr Holts-qvísl, er rennr vestar um héradit og í vestari vötninn; fremst kallast hún Svartá, svo Hálsenarqvísl.
c. Kolbeinsdalsá, er fellr undan Tún-hryggia-jökli; hún er allstríd og mannskæd. Auk þessara má hér géta: Gaunguskards-ár á Reykiaströnd, Sæmundar-ár í Sæmundarhlíd, er einnin kallast Stadará, sem rennr í Mikla-vatn; Nordrár í Silfrúnarstada sókn, hún er straung og ill yfirferdar; utar er Dalsá, þá

Hvamsá, þá Þverá, þá Gliúfrá, allar renna hverár þessar í Héradsvötninn; Hialtadalsá rennr í Kolbeinsdalsá; en fyrir utan hana rennr Grafará, þá Hofsá í Skagafiörd, auk allmargra minni áa, er oflángt yrdi hér at telia.

Afarmörg eru stödu- og fiski-vötn í sýslunni og alleina á Skagaheidi og Skaga, er þat sögn manna, at þau séu óteliandi og er í flestum þeirra silúngsveidi. Á Skaga er Ölvesvatn, í því er varphólmi er Ölvesey heitir; Miklavatn skamt fyrir utan Reinistad og Ashildarholtsvatn í Siáfarborgarsókn. Hofdavatn fyrir ofan Þordarhofda; í Fliótum er Flókadalsvatn, Hólma- og Mikla-vatn, sem er allstórt og nær fertugt at dypt; í þessum vötnum er góð silúngsveidi.

Hverir og laugar eru: á Reykium á Reykiaströnd er heilnæm laug í flædarmali svo utarliga, at ei er þurt umhverfis hana utan um stórstraumsfioru. Reykiarhóls-laugar í Reykiarhól austanverdum á Lángholti, hvar vellandi vatn spýtist framm úr kletti; þar þæfa menn og þvo og beygia girdi — at Reykium í Tunguſveit er laug nær kyrkingardi, og er þar volgr legstadr. Í Hialtadal er Reykialaug, er Hialtdælíngar sækia til. Hiá Reykiarhóli í Sléttuhlíd er vellheit vatnsſpreyta og nálægt Reykiarhóli í Fliótum ſkeudr 30 fóta hár íſſvalr klettr, upp úr hverium jafnan rýkr og vellr volgt og tært vatn.

Einn er verſlunarſtadr í sýſlu þessari, er Hofsós kallaſt, vid Hofsárós á Hofdaströnd; þar er hlélítil ſkipalega og állmikill ſkáſargángr.

Þat er søgn manna er betr sé til kaupstadar fallit á vesturstrøndinni í Selvik og Sauðakrók.

Þessi hafa stórbýli verit til skams tíma í sýslunni: Hólar í Hialtadal austanverdum; þat var biskupsstóll, og heimili allra Hólastiptis biskupa frá 1106 til 1801, þá eitt vard stipti úr tveim; Jón Ögmundsson hinn helgi sat þar fyrstr biskupa; þar var latínuskóli, og prentverk; en nú er alt þat ágiæti afmád og eckert vottar nú fremr um fyrri tída stærd og fegurd stadar þessa, utan steinkyrkia sú, er þar stendr og bygd er úr raudum sandsteini úr fiallinu fyrir ofan bæinn, er Hólabirda er kallat; hún er hit vegligasta musteri á Íslandi og rambygdr heidursvardi þeirra, er stódu fyrir kostnadi og smíd hennar; alt til skams tíma stod þar hús nokkurt, er kallat var Biskupsstófa; þat lét Audun biskup giøra 1315 og var þat mikit hús og rambygt á þann hátt, at tegldir biálkar vóru greiptir saman og lagdir hver á annan ofan. Þar er allsnotr timburstofa, Arna-stofa kollut.

Reinistadr (fyrr: Reinir) þar var helgimeyasetr eda nunnu-klaustr, er Jørundr Hóla-biskup lét giøra 1295. Nú eru jardir þess konungseign og er umbodsmadr yfir þær settr. Flugumýri í Blønduhlíd var fyrrum reisugr bær; þar vóru prestastefnur haldnar fyrir allt Hóla-stipti. Vídivellir, í somu sveit, er vel húsadr bær.

Sýsla þessi er eitt prófastsdæmi, er skipt ist í 14 prestakoll, er svo heita: 1. Hvammr í Laxárdal, annex: Kéta á Skaga; 2. Fagranes á Reykiastrønd, annex: Siáfarborg; 3. Reinistadar-klaustr; 4. Glaumbær á Lángholti, annex: Vidimýri; 5. Mælifell, annex: Reykir, í Túngusveit; 6. Goddalir, annex: Arbær, í Skagafiardardølum; 7. Miklibær, annex: Silfrúnastadir í Blønduhlíd; 8. Flugumýri, og annex: Hofstadir, í Blønduhlíd; 9. Rýp í Hegranesi, og annex: Vidvík í Vidvíkrsveit; 10. Hólar í Hialtadal; 11. Hof á Høfdastrønd, annex: Miklibær í Oslandshlíd; 12. Fell í Sléttuhlíd og annex: Høfdi á Høfdaströnd; 13. Bard, og annex: Holt í Fliótum, og 14. Knappstadir í Stiftu.

Þótt ei séu allmargar eyar í Sýslu þessari, þá er þó ein þeirra eya merkust fyrir ýmsa hluti nl. Dráng ey; hún liggr nokkut vestar enn í midium Skagafirdi og tekr nafn af dránga nokkrum skamt á brott. Tilsýndar er hún sem afarmikill kastali væri, med því allumegin eru þvergnýpt biørg yfir 100 fadma á hæd; fær þar eingin upp komist án stiga edr stiga, nema á sokauadri Grettis uppgaungu; uppá eyanni er fagurt og kiarngott graslendi hér-umbil 72 dagsláttur edr 400 fadmar í ferhyrníng á stærd; gengr þar saudfé siálfala vetrum og sumrum og verdr einka gott og bragdligt. Í biarginu er ógrynni svartfugls þá í ári lætr og veidist hann bædi þar og á flekium umhverfis eyuna. Í forntíd var eyan almenníngr; en vard Hólastóls eign eptir líflát Grettis; nú er henni, ásamt ødrum stólseignum lógat. Þar ad auki er Ingveldarstadarholmi vid Reykiastrønd, þar er

dúntekia nokkr likt og í Landey framundan Bakka í Vidvíkrsveit. Ardlsiull er: Elinnarhólmi fram undan Kolbeinsdalsárósi. Málmey skamt fyrir utan Þórdarhøfda, viku siáfar-undan landi og tilheyrir Fells sókn þar er einn bær, útrædi, selaveidi og nokkr eggiatekia.

At vísu er sýsla þessi eins skóglaus, en þó grøsugri enn Húnavatns-sýsla; en óvída svo vel fallin til saudfiárræktar, en betr til útigángs og er þar því stó-peníngr fleiri at tiltølu á hinsum stødum. Sýslu-búar (sem eru hérumbil 3160 at tølu) sækia til fiskivera fyrir sunnan land á vetrum og vorum; á sumrum fara þeir, sem adrir Nordlíngar, almennt í lestaferdir og eru þeir taldir manna vaskastir í ferdum. Allmargir leita einnin biargrædis á Skaga, vid Drángey og í Fliótum á vorum, samt í firdinum, þá afli géfst, edr þá alt of tídir meinbugir ei hamla þessum útvegum. Í Fliótum er útrædi best í sýslunni einkum til hákallafánga, hvar Fliótamenn sækia í reginhaf med mikilli atorku; þeir eru taldir medal enna knáustu siómanna á Íslandi.

### 3. Eyafiardar edr Vadla sýsla.

Takmørk hennar hit vestra, er fiallsgardr sá, er fyrr er mælt at liggi fyrir austan Hegranes sýslu; en hit eystra skilr Vødluheidi hana og Þíngeyar sýslu; þó ei til útnesia nordr, helldr gánga sýsluskilin frá heidinni nidr til Eyafiardar at austanverdu, og er Vargiá í Kaupángssveit talin skilnadar-ørnefni á þann bóginn. Ei eru hérud so mikil edr bygdarløg so vidlend í sýslu þessari, sem

í enni fyrrgreindu; eru þar dalir fleiri og há fiöll ímillum; enn vídast er þar graslendi mikit og gott, og sorkunnar-fagurt, einkum í Eyafiardarsveit. Fiórir gánga firdir úr nordri inní sýslu þessa, og er þeirra vestastr. 1. Siglufiördr, er hverfr nær 2 mílur inn í landit, ímillum Dalatáar og Siglunefs; þar er allgrösugt og hagqvisti gott fyrir saudfé; en vetrarríki og þokur á sumrum tálma þar, sem á ödrum útkiálkum, búhægindum; fyrir vestan fiördinn eru Ulfsdalir og eru þeir bygdir. Þá 2. Hédinsfiördr, er gengr 2 mílur inn í landit millum Siglunefs og Arnfiunsnefs, og er hann þar 3 mílur á breidd; at vísu er þar grösugt, en snióþýngsli og lángir vetur olla því, at strjál er þar bygd og stopul búfesta; strax tekr jökull vid, þá bygdinni sleppr í fiördum þessum, er bádir ásamt Ulfsdölum eru ein kyrkiusókn. 3. Olafsfiördr, hann hverfr 3 mílur í útsudr inn í landit millum Arnfinnsnefs og Brimnefsjúla; þat er allfagurt bygdarlag og einka grösugt; ímillum ádstnefndra fiarda eru óbygdir dalir nockrir: Sirdalr og Hvanndalir, er nafntogadir eru fyrir margskonar ságietar jurtir. 4. Eyafiördr, er einhver hinn lengsti fiördr á Íslandi nl. hérumbil 7 mílur frá Siögratá, eda

Reimsnesi inni fiardarbotn, og frá Olafsfiardarnesi til Siogra 3½ mílu á breidd, en þar sem hann er mióstr (nl. midsvegar) 1 míla. Hann hverfr í landsudr inn í landit, og er þar bygd mikil bádumegin og fyrir Botninum. Þessar eru sveitir þar: Ytsti hluti strendarinnar fyrir vestanfiordin kallast Upsaströnd, hún er sæbrött miøg; upp frá strønd þessari liggr dalr mikill og breidr, er Svarfadardalr er nefndr; vestanframm í honum er Tiarnar-sókn, sudr af Upsa-sókn, so Urda sókn, samamegin í dalnum, en Vallna sókn liggr at austanverdu (jafnsidis med Stærriárskógs sókn) og nær frá bygdum afdal nokkurum er Skidadalr kallast, hvar Urda sókn tekr vid, í nordr til siáfar nidr. Ur Svarfadardal liggia vegir vestr yfir jøkulinn ofan í Kolbeins-, Deildar- og Unu-dal í Skogafiardar sýslu. Frá Svarfadardalsárós heitir strøndinn framm med firdinum Arskógsstrønd; þar er Stærriárskógs-sókn, er þrýtr hit sydra, þar sem Mødruvalla-klausturs sókn tekr vid, er liggr sudr med firdinum til Hørgáróss, og so upp med henni hit vestra, þar til Bæisár, sókn tekr vid; hverri bædi tilheyrir nokkr hluti Þelamarkar og nedsti hluti Øxna-

dals, í hverjum, enn þá sunnar, Backa sókn nær svo lángt sem bygt er; uppúr botni dals þessa liggr vegr yfir Öxnadals-heidi til Skagafiardar. Fyrir vestan Hörgá, í þeim so kallada Hörgár-dal er Myrkár sókn. Á siálfri strøndinni fyrir sunnan Hörgár-ós, er Glæsibæar sókn alt framm at Glerá, og ofar í sudvestr, er Løgmannshlídar sókn, er gengr fyrir ofan alkyrkjusóknina og framm at Glerárdal, og kallast Hlíd þessi, Kræklinga-hlíd; fyrir sunnan Glæsibæar sókn, er Hrafnagils sókn, er gengr framm med Eyafiardará at vestanverdu: þá Grundar sókn, þá Miklagards sókn, þá Saurbæar sókn og skilr Djúpadalsá sóknir þessar, þá Hóla sókn, sem liggr í dal, er gengr upp frá Eyafirdi, fyrir austan Eyafiardará, fyrir utan þessa sókn og þeim megin árinnar, er Mødruvalla edr Mødrufells sókn, þá Múnkaþverár-klausturs sókn, þá Kaupángrs sókn, þá Svalbards sókn, er liggr á strøndinni fyrir austan fiørdinn og sem í tillitil valdstiórnar tilheyrir Nordrsýslu, en at geistlegu umdæmi, Eyafiardar prófastsdæmi.

Þriár eru ár mestar í Eyafiardarsýslu nl.

1. Svarfadardalsá, er fellr eptir nefndum dal, í hana rennr Reykiadalsá, samt ýmsar smá-ár og verdr hún at lyktum allmi-

kit vatnsfall; 2. Hörgá, þat er Jökulvatn og fellr undan jöklum á mæfum þeim, er liggia fyrir sunnan bygd alla; hún fellr eptir öllum Öxnadal og er þar kend vid dalin, en eptir at þverá nokkr, er Hörgárdalsá kallast heftr, úr vestri, i hana runnit, fær hún hennar heiti, og fellr hún þá um Hörgárdal og kemr til siáfar i Eyafiörd vestanverdan; þat er hit mesta og mannskædasta vatnsfall i sýslunni; 3. Eyafiardará, hún fellr eptir midiu Eyafiardar-héradi og úti fiardarbotninn; margar eyar eru i henni; hún er allvatnsmikil þá nidr eptir dregr, en lygn; þar rennr fögr á i inndælu héradi. Þaradauki má at eins nefna þessar smá-ár: Siglufiardar-, Hédinsfiardar- og Olafsfiardar-ár, Upsaá, Þorvaldsdalsá; Myrká, er rennr i Hörgá, Biarká, Glerá i Eyafiörd; samt allmargar smá-ár, er renna bádumegin i Eyafiardará.

Vatna mest i sýslunni er Olafsfiardarvatn, þat er nærhæfis ein mila á lengd, og liggr grandi i milli þess og fiardarbotnsins; er þat því meining manna, at hann sé af hafróti edr jardskiálftum uppkominn, og at fiördrinn hafi i forntid gengit svo lángt upp i landit, sem nú gengr vatnit. Þat er annars at því merkilegt, at menn, einkum á vorg, fánga þar haffisk t. d. þyrskling, ísu, skötu, heilagfiski og haffild, og segia menn þessar fiskitegundir eins dámadar vera átu, sem annan vatnafilúng.

Ei eru hverir edr laugar margar í Vadlasýslu. Fyrir austan Olafsfiord er laug af hvörri Reykiaheidi tekr nafn; einnin er laug á Laugalandi í Hörgárdal; og önnr á Kristsnesi í Eyafirdi; á Hrafnagili er hin besta laug í þessari sýslu, og má þar vel laugast; einnin á vatn hennar vid hinsum meinseindum.

Verslunar-stadr Eyfirdínga stendr innarliga vid fiördin vestanverdan, er Akureyri (Ö-fiords Kiöbstæd) kallast, og er þat einn af 4 á landinu, er veittr er kaupstadar réttr; hann gengr Reykiavik nærst at stærd og kaupverslun; höfnin (Hofsbót) er einhvör hin besta og tryggvasta á landinu og allrúmgód. Þar er Apothek, sem nýliga er á stofn sett, og allmikill jardeplagardr, sem mestr er á Íslandi. Þaradauki er Uthöfn edr litill verslunarstadr i Siglufirdi; þar er höfn rúmgód og trygg i sokalladri Hvanneyrarbót at vestanverdu í firdinum.

Tvö vóru klaustr í Vadlasýslu í Páfadómi, var annat á Mödruvöllum í Hörgárdal, stiptat 1295, og hefir þar stórhöfdingia-setr verit um hrid; þar er allmikil timburstofa og snotr kyrkia. Annat klaustr var á Þverá í Eyafirdi (Múnkaþverá), þat var stiptat af Birni Biskupi 1154. Espihóll og Grund í Eyafirdi eru vel húsadir bæir.

Vadlasýsla er eitt prófastsdæmi, er skiptest í 16 prestaköll, er svo heita: 1. Hvanneyri í Siglufirdi, 2 Qviabekkr í Olafsfirdi, 3. Upsar, 4. Tiörn, annex:] Urdir í Svarfadardal, 5. Vellir í sama dal, 6.

Stærriársfógr, 7. Mødruvalla-klaustr, 8. Myrká í Hørgárdal, 9. Bæisá, annex: Bakki í Øxnadal, 10. Glæsibær, annex: Løgmannshlíd og Svalbard, 11. Hrafnagil, annex: Kaupángr, 12. Mikligardr, annex: Hólar, 13. Grund, annex: Mødrufell (edr Mødruvellir) í Eyafirdi, 14. Saurbær (metit 53 rd.), 15. Múnkaþverár-klaustr (sem nú er lagt til Hrafnagils kalls), og 16. Midgardr í Grímsey.

Medal eyanna, er liggia undir sýslu þessa, má fyrst telia Grímsey, med því hún er markverd margra hluta vegna, og telst ámedal stór-eya í Íslands hófum; hún heyrdi at fornu bádum þeim klaustrum til, er sídst vóru talinn, en vard ásamt þeim konúngseign um sidaskiptinn. Hún liggr í reginhafi, hérumbil 1600 míiur í hánordr frá Siglunesi. Hún telst 1600 fadmar á lengd og 900 á breidd; þar eru lakir landskostir, og vída snodinn og seindinn jardvegr; þó er þar nokkurt gvikfé, þó lítt sé þat fullnúngiandi til uppeldis eyarmønnum, hverra adalatvinnuvegr er fiskiafli og fuglaveidi, og idkast þar hvørnveggia med allmiklum ardi, so meginlandsbúar sækia þángat árliga bædi til fiskiródra og skreidarkaupa; þar eru sagdir 9 bæir ásamt forkiuftadnum og prestsetrinu Midgardi. 12 Vikur siáfar í nordr frá Grímsey liggr Kolbeinsey (Mevenklint), þar er mikill grúi sæfugla og eggia og sela, og hafa menn at fornu giørdt ferdir þángat til mikilla hagsmuna; svo segia menn, at fugl sé þar gæfr, sem heimalinn væri. Frammundan Svarfadardalsár ósi liggr Hrísey í Eyafirdi; þar eru 2 bændabýli, hún er allstór en landgiæda lítil; ædarvarp nokkurt og fuglaveidi eru hlunnindi hennar. Í Hørgár mynni eru hólmar nokkrir, medal hverra Arnarey er þeirra merkust þar er eggver.

Hvat vidvíkr biargrædis útvegum, og heimaſkörkum innbúa ſýſlu þeſſarar (ſem eru nærhæfis 3500 at tölu) þá má þeim á líkan hátt lýſa og ennar fyrr ſédu ſýſlu innbyggiurum; þó ſækia Eyfirdíngar ei ſvo almennt fiſkiver undir Jökli edr fyrir ſunnan land ſökum vegalengdar, ſem hinir. A vorum ſækia menn ſió á Siglunesi í Vík í Hédinsfirdi, vid Olafsfiardarhorn, í Upſakrók og Kallsnauſtum, á Böggustadaſandi, ſamt í Gríms ey og vídar. Tóvinnan í Eyafirdi er talin beſt á Íslandi. —

## 4. Þingeyiar- edr Nordur-Sýſla.

Frá takmörkum hennar hit veſtra er ádr ſagt; en hit nyrdra eru fiórdunga takmörkinn jafnframt ſkil þeſſarar ſýſlu og Nordr-Múla-ſýſlu; at ſunnanverdu gánga örœfi mikil til jökla upp og ógurlig brunahraun, og at nordan nær hún til ſiáfar, og er jadar hennar all vagſkorinn. Afar-vidlend er ſýſla þeſſi og ördug yfirferdar bædi ſökum fiallvega og ſtrídra vatnsfalla; er þat ſögn manna at hún ſé 41 míla í auſtr og veſtr med ſtröndum framm, at undanſkildum víkum vogum og krókavegum. A þeſſa lund má þar ſkira frá ſveita ſkipun og ſóknum, og taka þartil er fyrr var fráhorfit ul. á auſtrſtrönd Eyafiardar edr Svalbardsſtrönd er gengr allt frá Kaupángs ſveit edr fiardarbotni og þvínær til Laufáss, hvaria ſókn telia má fyrſta í Þingeyarſýſlu, þó

Hofdahverfi og útmed firdinum Grýtubakka-sókn, er nær allt til Giogratáar, og kallast þat bygdarlag Látraströnd. Jafnsidis med Svalbardsströnd og Eyafirdi fyrir austan Vadluheidi, liggr Fnióskadalr, þar er Háls-sókn nedst í dalnum, og Draflastada-sókn framar; frá Giogratá til Lánganess hverfa 5 firdir inní landit, og er þar at telia 1. Þorgeirsfiord, þá 2. Hvalvatnsfiord. Í þeim bádum er ein kyrkiusókn, sem kend er vid Þaunglabakka, og gánga þeir bádir inn milli Giogratáar og Gélldínganess; fyrir austan hvert afarbreidr fiordr gengr 5 mílur inn í landit, er 3. Skiálfandafiordr heitir; utarliga á vestrströnd fiardar þessa gengr dalr nokkr í útsudr frá sæ uppi fioll þau, er skilia Eyafiord og Skiálfandafiord, er Flateyardalr er nefndr; í honum er bygd, er ásamt Flatey, sem liggr rúma hálfa viku siáfar framm undan dalmynninu, er ein sókn, sem kend er vid eyna; á henni eru 4 bændabýli, hverra ábúendur fremr lifa af fiskiafla, sela- og hákalla-fángi, enn landbúnadi; med því lítil eru landgiædi þar, en mikit vetrarríki. Ströndin fra Géldínganesi til Flateyardals eru hamrar einir og eydifioll, og þadan, edr frá Bríkum til Fiardarendasands,

er almennt kallast Náttfaravíkur (þótt ei heiti svo utan víkurnar fyrir utan Skuggabiørg); er strønd þessi miøg óbyggilig; með því hún er afar sæbrøtt og þá fiøll gánga út með firðinum; þeirra hæst er Odeyla. Frá Naustavík, sem er bygð, liggr sveit sú framm með fiøllunum fyrir vestan Skiálfandafliót, er Kaldakinn (Kinn) kallast, allt til Krossár eðr Diúpár, er rennr úr Liósavatni; hún skilr sveit þessa og Liósavatns-sókn á Liósavatnsskarði, er liggr í vestr allt til Háls í Fnioskadal; en suðr frá skarði þessu at austanverðu liggr Bárðardalr, 4 mílur til ørræfa suðr; í hønum eru 2 sóknir kendar við Eyadalsá og Lundarbrekku; þar eru ágiætir landskostir og góð búhøfn; uppúr Bardardal, eðr Fliótsdal, koma menn á Sprengisands-veg, er liggr yfir fiøll þver í útsuðr til Sunnlendínga fiórðúngs. Austar og jafnsíðis með dal þessum liggr Reykiadalr í sømu átt, og skilr Fliótsheiði dali þessa. Þat er og allmikit og gott bygðarlag, og nær hann allt framm til ennar sokølluðu Lágheiði; í hønum eru 2 sóknir, sem kendar eru við Helgastaði og Einarstaði; uppúr dalnum liggr vegr yfir Másvatnsheiði til Mývatns í austr; þá út eptir dregr, breidkar dalr þessi, við enda Skriðuháls er gengr út imill-

um dalanna, þá Adaldalr kémr, er hefst fyrir nedan Grenladarstad og Múla; og verdr þar einn dalr úr tveim er kallast Adalreykia-dalr, er nær allt at sjó út; er í hönum brúnahraun mikit og holurd med diúpum giám, eru þær innra glasseradar med ýmsum litum, og settar dínglum af bræddu og storknudu grióti, sem ísdinglar væru. — Þar er Nesz-sókn er nær til fiardarbotnsins, og liggr í túngunni ímillum sjótsins og Laxár. Framm af Adalreykiadal austast gengr Laxárdalr, og i hönum 2 Kyrkinsóknir, og er hin efri kénd vid Þverá og hin nedri vid Greniadar-stad; næsta sókn vid Greniadarstada-sókn er Múla-sókn, edr Skriduhverfit. Uppúr Laxárdal frá Hólum er vegr lagdr í austr yfir Hólaheidi til Mývatns-sveitar, er liggr umhverfis Mývatn; þar eru 2 Kyrkiusóknir, er taka nafn af Skutustödum og Reykiahlíd fyrir austan vatnit; umhverfis þat er hólku og brunahraun, en þó fögr tún og grasbeylar á millum; í nordaustr frá Mývatni stendr Krabla, umkríngd af ógurligum og vídlendum brunahraunum og grækum, og géta þess fródir menn til, at úr gýgum hennar muni eldstraumr sá flótit hafa yfir heidina fyrir austan Laxárdal er ollat hefir þess ófagnadar og jard-

usla, hvors ummerki má siá í Laxár- og Adalreykiadal og vidar um nálægt svædi. Þá fyrrgreind Ness-sókn þrýtr hit nyrdra, tekr Húsavíkr-sókn vid er liggr á austrströnd Skiálfandafiardar allt til Tiornnesz, en at austanverdu taka fiöll og heidi sú vid er Bláskógaheidi heitir, yfir hvoria liggr vegr sá er Bláskógavegr er kalladr til Ass í Axarfirdi; á heidi þeirri er mikil grasatekia. Fyrir austan Tiornnesz gengr 4. Axarfiordr inn í landit, hann er breidr miog, en allskammr; ströndin at vestanverdu inntil fiardarbotnsins hefir litit undirlendi og er miog flettótt, en hlídin er allgrösug; allt þat bygdarlag er liggr þeim megin fiardarins og Jokulsár og í sudr só lángt, sem bygt er, kallast Keldnhverfi edr Keldunesz-þing; þat er vídlendt og margbreytt at landslagi og giædum, med því bædi eru hraun þar, skógar, ægisandar og s. fr.; nú er þat allt ein sókn, er kénd er vid Gard; skamt þadan er allgódr skógr, er kallast Birgisskógr edr Asskógr og fyrir nedan hann klettabelti mikit, og meina þat sumir menn, at þángat hafi fiordurin nád í forntíd; en ólikligt þykir þat. Fyrir utan og nedan hamra þessa eru einlægir sandar til fiardarbotns, med því Jokulsá hefir smámsaman numit burt allan gras-vord, er þv

sandrok mikit náliga í öllum Axarfirdi, þá vedr er á. Undirlendit at austanverdu í Axarfirdinum er miklu breidara, enn fyrir handan fiördinn; er þar gott hagqvisti, nokkut út fyrir Skinnastadi og skógr; en þá út eptir dregr til Núpasveitar, er nær allt til Raudanúps, er þar giædalítit og magurt. Fyrir austan nes þetta tekr þat bygdarlag vid er Slétta kallast, 5 mílr í austr þadan, er menn austast kalla Melrakkasléttu og tekr hún nafn af landslaginu, því fá eru þar leyti edr hædir á allmikilli vídlendu. Sléttu skipta menn í 3 hluti er kallast Vestr-, Mid- og Austr-Slétta, og telst hún allra svcita örbyrgust af landskostum á Íslandi, er þat og at líkindum, med því einginn á medal útskaganna á Íslandi, er í nordr vita, skiagar svo lángt í þá átt í haf út, sem Raudinúpr og Reistarnúpr á Sléttu. Allt þetta bygdarlag ásamt austrströndinni vid Axarfiörd eru 2 sóknir er kallast Prestshólaþing, er ná at Hóli, austasta bæ á Melrakkasléttu; á Sléttu er alleina bænahús; 2 víkr gánga inn í Sléttu úr nordri, og kallast sú vestri Leirhöfn, ímillum Raudaness og Reistarnúps og Deildarfiördr ímillum Reistarnúps og Melrakkaness; fyrir austan Melrakkasléttu gengr fiördr fá inn í landit, er 5. Þistilfiördr er kalladr

imillum Sléttu og Langness; hann er badi breidr og lángr, og skiptist hann i tvo firdi þá inn eptir dregr, og kallast sá eystri og sem lengra gengr inn, Lónafiørdr. Sveit sú, er gengr upp af fiørdum þessum og kénd er vid Þistilfiørd, er ein sókn, er sækir kyrkiu at Svalbardi, og sem takmarkast hit eystra af Hafralóns- og hit vestra af Ormalóns-á. Millum Svalbards og Presthóla sókna, liggia vegir yfir Axarfiardar- og Hóla-heidi; á þeim er mikill sægr hreindýra. Austast i sýslunni er Saudaness-sókn á Lánganesi vestanverdu; þar eru gódir hagar fyrir saudfé og mikil agn-semi af fuglabiargsveidi út á nesinu, sela- og silúngs-veidi, samt ædarverpi i hólmum bædi i sió og vøtnum; þeim megin á nesinu er Skorn-vik ytst bæa, er liggr undir Múlastad; skamt þadan er fuglabiarg mikit er Skoruvikr-biarg kallast; þat er 60gt. á hæd, og er þar veidi mikil. Skamt á brott er Máfaness, þat er ei allhátt studlabiarg, hvar fugl ei gétr bólfestu tekit; ei helldr i þvi fialli, er Máfarákir kall-ast, er gengr allt frá Vatnsleysu þvi nær til Nessoddans.

Hinar merkustu ár i Þíngeyar-sýslu eru:

1. Fnióská; þat er allmikit vatns-fall og stridt, er kémr framan af øræfum,

rennr um Fnióskadal allan og Laufásskard og kémr til siáfar i Eyafiørd austanverdan skamt fyrir utan Laufás; framm af bádum gánga grynningar allángt i fiørd út, er Laufásgrunn kallast; þar er skipaleid hættulig; med því at gagnvart eru einnin grynningar i tédum firdi. Fnióská er talin áa køldust á Nordurlandi. 2 Skiálfandafliót, er fellr undan Klofajøkli, þat er allmikit jøkulvatn þat renne eptir Bárdardal endilaungum og út i Skiálfandafiørd; i því eru forsar 2 miklir, hinn efri uppi dalnum, nefniliga Ullarfors, hvørs gétit er i Grettis søgu; hinn nedri edr Godafors, er nokkut utar enn gagnvart Liósavatnsskardi, þat er allmikill fors, og skélfr jørd og bergin umhverfis fyrir ofureflis sakir og stríd leiks. I fliótinu eru 6 eyar, medal hvørra er Þingey, er sýslan tekr nafn af og er hún þeirra stærst og gagnsømust. Fyrir utan nedri forsinn eru tvø vød, sem téd eru vid Skridu og Vad; en utar er þat óreidt sokum dýpis og sandbleytu. Selr geingr uppi fliótit. 3. Laxá, hún kémr fra Mývatni, en hverfr i hraunit fyrir útnordan vatnit, en kémr sídan framm og renur um Laxárdal, so Adalreykiadal, og fellr nedarligar framm af gliúfrum og at lyktum út i Skiálfandafiørd, hún er straung og vída ill yfirferdar sakir hraungliúfra og hvergi er hún reid fyrir nedan Nes; uppi bædi sídstnefnd vatnsfall geingr lax mikill, og er laxveidi ágiæt i enu sídara; þar er brúkadr laxa stíngr undir tédum gliúfrum. 4. Jøk-

ulsá í Axarfirdi er allra vatnsfalla mest á Nordrlandi og óreid fialls og fiøru á milli, sakir vatnsmegnis og stridleiks: hún fellr undan Kiosajøkli, en sidan um Mødrudals øræfi í millum fialla þeirra og heida, er skilja landsfiórdúngana og Trølladýngur, Odádahraun, Herdubreid, Reykahlídarøræfi, Krøblu, Leir hnúka, sem allt er fyrir vestan ána: kémr hún til siáfar í Axarfiørd. A henni eru 2 løgferiur, og er ønnr þeirra á fiøllum edr á vegi þeim er liggr fra Mývatni yfir þver øræfi til Austfiarda; Feriustadurinn er Grimstadir á fiøllum hálfa dagleid fyrir austan ána; enn ad vestanverdu er $1\frac{1}{2}$ þingmannaleid frá bygd edr frá Reykiahlíd, hvørrar ábúandi helldr feriu á anni fyrir þá, er at vestan koma; og er þat kølluð glæfraferd. Í Axarfirdi er ønnr løgferia, og er hún fiølsóktari; feriustadrinn Ferinbakki fyrir nordan ána; hvøria jørd sýslan hefir at giøf þegit af núverandi valdsmanni, at hún ávalt skyldi lenguláus bústadr vera dugligra og árvakra feriumanna. Auk þessara má nefna þessar minni ár: Svalbardsá, austar er Sandá, þá Holltná, slæm yfirferdar; allar falla þessar ár í Pistilfiørd. Hafralóns-á fellr í Lóna-fiørd og er allmikil. Jøkulsá á Flateyardal; Reykiadalsá rennr í Laxá, sømuleidis Reykiaqvísl, er kémr fra Reykiahverfi at austan; Ormalóns-á kemr framan Hólaheidi, Deildará þær renna bádar um Sléttu.

Þessi eru stødúvøtn: Lió savatn á Lióssavatns skardi; í þvi er gód silúngsveidi;

Vestmanna- edr Vestmárs-vatn í Reykia-dals mynni, í þat rennr Reykiadals-á og úr því aptr í Laxá; Húsavíkr-vatn, er lítit vatn fyrir nedan Laxamýri og er þat af því merkiligt, at í hólmum þess er ardsamt ædarvarp; all-mörg eru vötn á Sléttu og á heidum uppi, í hvörium flestum, sem i enum töldu, er silúngs-veidi. En allra vatna mest er Mývatn, þat segia menn sé 3 mílur á lengd og $2\frac{1}{2}$ á breidd og 8 mílur ummáls, 2 til 5 fadma diúpt, og kalla menn þat ytri og sydri Flóa. Lögun og máské tilveru edr upptökum þess meina menn ollat hafi jardbrunar og eldstraumar fyrir landnámatid og sídan t. d. 1725-1730; vída rýkr þat, og má af því ráda, at eins-hveri heitar uppsprettur á botni þess, sem um-hverfis þat; seint leggr þat á vetrum, og einn ál svo nær sem aldrei. Miög vagskorir er þat öllumegin og fullt af eyum, sem ei eru færri enn 34, auk margra smáhólma, og er í þeim bædi kiarngódir hagar og eggver. Í vatni þessu er ágiæt silúngsveidi, og náliga hvergi á Íslandi er silúngr svo feitr og stór, sem í því og er Mývetníngum mikil bústed af veidinni og nálægustu sveitum, er fara þángat, sem adrir til fiskivera, til at kaupa enar svo kolludu Mývatnsreidar.

Mývetníngar sækia sialdan fiskiver edr mann-fundi í ödrum sveitum, eru þeir því afbrugdnir ödr-um í búnadi og háttum; og med því þeir frá barnbómi eru vanir dorg-veidum í vetrar hörkum, verda þeir manna ófulvissastir; þeir eru gestrisnir, en sér-

lundadir eru þeir og nokkut búraligir. Tvennar eru Brennusteins-námur í nánd vid Mývatn; liggia adrar 1 mílu frá prestsetrinu Vogum, í nordaustr frá vatninu; hinar liggia í landsudr frá því, af hvörium Mývetníngar fyrrum höfdu allmikinn ard; en nú heyra námurnar Húsavíkr verdslunarstad til. Á ýmsum stödum, ei í allmikilli fiærlægd frá Mývatni, hefir eldr qveikst í grundvöllum landsins og brostit upp, má þar á medal telia: Hitahól, Biarnarflag, Hrossadal; samt í þessum fiöllum: Hrafntinnu-fialli, 2 mílr frá Námunum, þat er þeirra stærst og med klettabelltí umhverfis hit efra; þar eru mestar og bestar hrafntinnur á Íslandi. Skamt þadan er Krabla, þat er lítill leirhnúkr er gaus 1724 til 1730; tvær tiarnir eru vid hana er Víti kallast; Leirhnúkr kallast fiall í nánd vid Kröblu, er var grasivaxit til 1725 þá þat gaus í fyrsta sinni. Sandfell millum Voga og námanna; þat líkist skál at ofan, hvar eldr hefir brunnit. Skamt þadan er gloppa mikil med fiálfsteypptum bruna-griótvegg umhverfis.

Mörg eru vellandi vötn í Nordurfióstu einkum vid Mývatn og nálægt eydijördinni Testareykium á Reykiaheidi fyrir nordan Mývatn, hvar einnin á seinni tídum hafa brennusteins námur fundist, er frá fornum tídum tilheyrt hafa Múla kyrkiu, en Húsavíkr-námna eigendr nú eigna sér, Harla markverdir eru Reykiahverir í Reykiahverfi; þeir eru 3 at tölu og liggia í röd hver út frá ödrum, hinn sydsti hefir tvo munna, og spýr siódheitu vatni 3 til 4 álnir í lopt upp í 2 mínútur í senn og helldr eins lengi kyrru fyrir; skamt þadan er hinn nafnkéndi Uxahver, sem bædi er vatnsmeiri, stærri um sig, og spýr vatninu 6 álnir í lopt upp í 2 mínútur, þar til hálfrar alinnar bord er á hann komit, safnast þá í 3 mínútur svo mikit í hann apter, sem svarar því, er hann uppspúdi, heyra menn þá dýnki undir fótum sér, og í einu vetfángi

brestr hverinn upp med buldri miklu, er áþekt er nauts-gauli; þykir því líkindi til, at hverinn hafi af því nafn fengit; Nordastr er Badstofuhver, hann er tvøfalldr vid Uxahver at breidd og dypt en vellr eigi ne spýr svo ákafliga.

Á strøndinni fyrir austan Skiálfanda-fiørd stendr kauptún Þyngeyarsýslu-búa, er Húsavík (Husevig) kallast; þar er ei høfn góð; med því hún bædi er hlé-lítil og grunnit sett eggiagrióti; má því tunnur vid skips-festar binda, at ei skérist þær í botni. Til at létta þeim sveitum kaupstadarferdir er liggia fyrir nordan Jøkuls-á, hafa kaupmenn nú fengit leyfi til at hallda skipum sínum inn á Raufar- edr Rauda-høfn á Sléttu, þar er góð skipalega, en innsiglingin þraung í milli Klaustrsteinsness og Hólmaflúra.

Best húsadir bæir í sýslunni eru Grenjadarstadr, þar er gømul timburkyrkia; Háls í Fnióskadal, Gardr í Nesjzsókn, Breidamýri í Reykiadal og Ás í Kélduhverfi.

Sýslan er eitt Prófastsdæmi, er skiptist í 17 Prestaköll er so nefnast: 1. Laufás (metit 62 Rd. 5 Mk. 2 ß.); 2. Høfdi, annex: Gritubacki, hvertveggia í Høfdahverfi; 3. Þaunglabacki, annex: Flatey; 4. Þór-oddsstadir í Køldukinn og Liósavatn; 5. Háls, annex: Illugastadir og Draflastadir í Fnióskadal; 6. Eyadalsá, annex: Lundarbrecka í Bárdardal; 7. Helgastadir, annex: Einarstadir í Reykiadal; 8. Múli í Adal-

reykiadal (metit 59 Rd. 5 Mk. 10 ß.); 9. Nes í sömu sveit; 10. Grenjadarstadr og Hverá í Laxárdal (metit 163 Rd. 6 ß.); 11. Reykiahlíd og Skútustadir vid Mývatn; 12. Húsavík; 13. Gardr í Keldu-hverfi; 14. Skinnastadir í Axarfirdi; 15. Presthólar í Núpasveit og bœnahús nokkurt á Sléttu; 16. Svalbard í Pistilfirdi, og 17. Saudanes á Lánganesi.

Auk Flateyar, hverrar fyrr er gétit, má hér nefna Lundey í Skiálfandafirdi austanverdum, nokkut fyrir utan Húsavík; hún lítr út tilsýndar sem kastali med háum múrveggium umhverfis; þar er lítit eggver og graslendi til beitar; lundaveidi er þar nokkr; og Máuáreyar útaf Tiörnnesi, eru þat 2 drángar háir; á þeim er lítit graslendi. Í lónum tveim, er gánga inn af Axarfirdi eru hólmar og í þeim œdarfugls-varp.

Yfir höfud er sýsla þessi ófriófsöm á flestum stödum, en margskonar gésast þar hlynnindi og má þartil hellst telia, af sió: nokkurn fiskiabla í Flatey og hrognkelsaveidi bædi þar og annarstadar vid sýslunnar siósídu; samt hákalla sela- og fugl-veidi; triáreki er opt mikill vid Flateyardal, á Sléttu og Lánganesi; í ám: lax- og silúngsveidi, hvar sidar nefnda veidi er í stödu-vötnum sýslunnar; œdar varp er þar allmikit; af landshlynnindum eru: grasatekia, einkum á Reykiaheidi; hreindýra- og rióa-veidi, brennusteins-námur og skógar. Sóknakar eru hérumbil 2050.

## IV. Austfirdinga-fiórdungr.

Svo kalla menn þann hluta landsins, er í austr veit og gengr strandlengis frá Skálatánga á Lánganesi til Jökulsár á Sólheima-

sandi; en með því at nyrðri helmingr þessa landsfiórdúngs, eðr frá Lánganesi til Eystrahorns eða Lónsheiðar, er afar-vagskorinn, hafa menn kallat þat Austfirði, og kénnt við þá allan fiórdúnginn, hvors stærð og víðlendi, at meðtöldum öllum eydisiöllum, heiðum og jöklum, er ærit mikit; en þá alleina er á bygðina litit, er hún at vísu ei, at samjöfnuði, víðlend. Frá ytsta Lánganesz-tánga þráðbeint til Austurhorns segia menn sé 35 mílur, en 90 mílur þá farit er með siæ framm; og frá Horni til Jökulsár á Sólheimasandi 36 mílur rétta stónhending; hvaðan menn almennt telia, þá farnir eru skémstu alfaravegir, nærhæfis 20 þingmannaleiðir til Lánganesz, hvoriar at vísu sumstaðar eru í styttra lagi vegna seinfarinna vega. Frá jöklum til siáfar eru í Austfiörðum 10 til 12 mílur vegar, en bygðin siálf er 1 til 4 á breidd fra siöru til fialls, en sumstaðar miklu meira t.d. Fliótsdalshérað og Vopnafiörðr, og aptr á öðrum stöðum er einginn mannabygð millum fialls og siáfar. Í Austfiörðum er margbreytt landslaða; með því at bæði eru þar hérud lángt frá siæ og bygðir umhverfis firði og andnes; þar er og jarðvegr betri og frióssamari og bygðir víðlendari; þar eldfiöllinn liggia þar lengra frá sveitum og elfurnar, sem falla um þær, olla

ei svo mikils tiôns og landbrots sem þar giøra á syðri helmíngi fiórðúngsins, hvar þær falla um flatlendi og sanda og með ógurligum vatnsyfirgángi og stridleik flæða yfir sléttlendit, breyta þvínær dagliga farvøgum, hrísa með sér þar jarðtór, er fyrir þeim verða og hafa á þann hátt giørt afar jarðusla og umminnat landit; þar er einnin jaðar landsins, millum fiøru og feykiligra iökla, miklu miórri enn annarsstaðar á landinu. Þau merkustu háfiøll, er liggia fyrir ofan bygð alla á Austfiørdum, má hér nefna Arnafiøll, Heliardalsfiøll, Hágaungur, Strandafiøll, og Eylifshnúk; sum eru fiøll þessi þakin snió sumar og vetr; en með því þau liggia lángt frá bygðum, eru þau ei giørla kunn landsmønnum. At austanverdu hverfa margir firðir og víkur inn i landit, meðal hværra þeir lengstu eru hérumbil 3 til 4 víkur sjáfar á lengd, en litit miórri eðr breiðari enn ½ vika á breidd; víðast gánga framm á millum fiarðanna há og hrióstug fiøll, er allvíða eru hærst ut á andnesunum, og eru þau optast ófær á vetrum; fara menn þá iafnan fyrir utan þau frá einni sveit i aðra og kallast þeir vegir almennt Skriður; er þat torsókt leið og hættulig. Í fiarðarbotnunum og i dølum þeim, er liggia inn af þeim, en eink-

um í hérads = sveitum er liggia fyrir vestan fiardafiøll þessi, er víða ágiætt graslendi og landkostir góðir, sérilagi fyrir saudfé; allrahelst á heidum þeim og óbygdum er liggia upp af því svokallada Fliótsdals = héradi. —

Alla Austfirdi ímillum fyrrtédra takmarka kølludu menn at fornu Múlasýslu, er greind var í Nordr =, Mid = og Sudr = Múla = sýslur, og var einn valdsmadr sétte yfir hvoria þeirra; en sídan vóru þeir tveir yfir øllum pørtunum og þat svo, at einn hafdi yfir Sudr = og Mid = partinum at skipa; þókti þá, at hinn, er alleina hafdi Nordr = partinn, varhluta verda og var því Mid = hlutanum svoleidis skipt ímilli hvorutveggu 1777, at meiri jøfnudr vard áqvedin bædi í tilliti til stærdar umdæmis og embættis = launa; svo nu eru Austfirdir deildir í 2 sýslur er kallast Nordr = og Sudr = Múla = sýslur; frá hvorium vér vilium skira ásamt; med því takmørk þeirra hvorki eru gløgg né svo náqvæmliga áqvørdut, at hægt sé at giøra lesendum skilianligt.

## I. Nordr = Múla = sýsla.

Þessar eru sveitir og sóknir þar frá Lánganesi at telia: 5 bæir sunnanframm á nesi þessu eiga kyrkiusókn at Saudanesi, en takmørk

fiórdunganna er Skálatángi, sem kémr er vid ytsta bæ á nesinu heimmegin, er heitir á Skálum, og Helkundarheidi (er nú kallast Hallgilsstadaheidi). Fyrir sunnan Skála er biarg mikit er Skálavíkur-biarg heitir og fyrir sunnan þat er Kumblavík, hún er bygd, þá Eydisbugt, upp af hverri Eydisdalr liggr þvert ysir nesit, þá Fagradalsvík, þá Gunnólfsvík, fyrir sunnan Melrakkaháls, sem er nokkr hluti Helkundarheidar; ímillum þessarar víkur og Sandanesz liggr fiallvegr sá er Sandaneszháls kallast. Át vísu er Lánganes nokkut grøsugra hit sydra, enn hit nyrdra, þó er þat þar hvervetna hrióstugt, at undanteknum Eydisdal. Fyrir sunnan Gunnolfsvík tekr strøndin at beygast í austr landsudr og gánga þessir firdr inni hana: Finnafiørdr nordast, þá Midfiørdr, þá Bakkafiórdr og eru þeir allir bygdir, þá gánga Vidvíkr-biørg lengra til hafs, inní hver Vidvík stérst; í þeim var fyrrum fuglaveidi mikil; þadan og til Gunnólfsvíkr kalla menn Lángan esz-strandir. Þá er Rupsfiørdr, þá Vapnafiørdr, ímillum hvørs og Bakkafiardar liggr fiallvegr mikill, er Strandhafnarheidi er kollut, sem er áføst vid Haugsøræfi og Hámundarheidi; uppaf Vapnafirdi liggia 3

fagrir dalir: Bustardalr, þar vestr af Mødrudalr og Sunnudalr sudr á boginn. Í sudr af þessum sveitum liggr Smiørvatnsheidi, hún er opt torfær og þingmannaleid á lengd; en Mødrudals ørœfi liggia hit vestra allt til Jøkulsár í Axarfirdi og sudr til jøkla. Fyrir sunnan Smiørvatnsheidi liggr Jøkulsdalr í sudvestr, sem at ofanverdu skiptist í Brúardal og Hrafnkéllsdal, en hit ytra edr fyrir nedan brúna á Jøkulsá kallast sveitin at nerdanverdu vid ána Hlíd, en at sunnanverdu liggr Túngan, edr Hróarstúnga ímillum Jøkulsár og Lagarfliòts, hvar vatnsføll þessi smámsaman nálægast hvørt annat og eiga skamt til siáfar. Upp af Hróarstúngu liggr sveit sú, er Féll kallast, og tekr hún nafn af landslagi sem Túngan af afstødu; fyrir ofan Féllinn liggr Fliótsdalr í sudvestr edr þat bygdarlag er liggr vid og fyrir innan Lagarfliót, er kallat er sveita vídlendast og fegurst á Íslandi; hit efra skiptist dalr þessi í 2 dali, er kallast Sudr- og Nordr-dalr og gengr fiall framm ímillum þeirra, er kallast Múli. Ímillum Fliótsdals og Fella á eina sìduna og Jøkulsdals á adra, liggr miøg há og vídast grasiyazin heidi, er kallast Fliótsdalsheidi, er nær alt nidr til Tungu-sveitar

og nefnist hún þar Lágheidi, med því hún er miklu lægri enn hin fyrrnefnda; á heidum þessum er grasatekia og gódar afréttir nærliggiandi sveita. Bugt sú, er nefnd stórvatn renna í, kallast Hérads-flói, er gengr inní landit ímillum Kollsmúla, er gengr út ímillum hans og Vapnafiardar, og strandafialla þeirra, er liggia frá Fliótsmynninu í sudaustr til Dyrfialla; strönd sú kallast Utmannasveit, þadan liggr fiallvegr til Niardvíkr og Borgarfiardar; þá gánga ýmsar víkur inní landit til Lodmundar-fiardar, er svo heita: Brunavík, næst Borgarfirdi, þá Breidavík, þá Heriólfsvík, þá Húsavík, þá Grunnavík, næst Lodmundarfirdi, er gengr allángt inní landit, þá Seydisfiördr, er gengr í sudvestr og er eitt mynni beggia þessara fiarda; Seydisfiördr liggr undir Nordr-Múla-sýslu at veraldligum málefnum, en hvat kénnimannliga skipan snertir, heyrir hann til Sudr-Múla-sýslu Prófastsdæmi.

## II. Sudr-Múla-sýsla. Sveitir þar eru:

Vallnahreppr at sunnanverdu vid Lagarfliót og upp vid Fliótsbotnin, hann adskilst fra Fliótsdal vid Gilsá; efst í þessum

hrepp er Hallormsstadaskogr, hvør, þótt árliga gángi heldr til þurdar, talinn er hinn stærsti og besti skógr á Íslandi. Í sudvestr af þessum hrepp liggr Skriddalr; þat er miøg grøsug sveit, er múli nokkr ofarliga í dalnum skiptir í 2 dali; þadan liggia 2 þióðvegir, annar yfir Þórdalsheidi til Reidarfiardar og annar yfir Øxarheidi til Berufiardar; fyrir utan Vallnahrepp lángsetis med Fliótinu austanverdu liggr sveit sú, er Eydaþinghá kallast og nær alt út til Utmannasveitar, þadan liggia fiallvegir til Lodmundar- og Seydis-fiardar, samt til Mióafiardar, er næst fyrir sunnan Seydisfiord og Dalatánga hverfr inni landit; þarnæst má telia Nordfiord, er deilist í Hellisfiord og Midfiord, þá Reidarfiord, er allra fiarda er lengstr á Austfiordum nl. fullar 4 vikur siáfar; at innanverdu skiptir Hólmafiall hønum í tvo firdi og kallast hinn nyrdri Eskifiordr. Imillum sídstnefndra fiarda er austasti tángi landsins; tekr þá strøndin at beygiast í útsudr. Fyrir sunnan Vattanes gengr inn frá Fáskrúdsey fiordr sá er Fáskrúdsfiordr er kalladr (Fráskrúdsfiordr); þá Stødvarfiordr, þá allbreid bugt, er Breiddalsfiordr nefnist; þar er vidlend sveit og fiølbygd; þadan liggr vegr yfir Breiddals- edr Stafs-heidi til

Skriddals; þá Berufiørdr imillum Beruneſz og Búlandsneſz, þá Alptafiørdr, ſem er allbreidr, og deilir hønum Melrakkanes hit innra og kallaſt ſá fiørdrinn, er ſydri er og næſtr Auſtr-horni, Alftafiørdr, en hin nyrdri, Hamarsfiørdr, en at fornu Alſtafiørdr hinn nyrdri.

Þá menn athuga landslagit í fiórdúngi þeſſum, mun audrádit þykia, at þar renni ſem á Nordrlandi, ár í velfleſtum dølum og fiørdum, ſem annattveggia falla undan jøklum edr koma frá fiøllum þeim og heidum er adſkilia ſveitir og hérud, og ſem framm at midiu ſumri eru jafnan þaktar ſnió. Enar merkuſtu ár í bádum ſýſlunum eru þeſſar: 1. Jøkulsá (á Brú.), þat er ſøgn manna at uppták hennar ſéu úr 3 ſtór-jøklum; en eiginliga er vatnsmegni hennar úr 2 ám, annari, er rennr eptir Hrafnkéllsdal, og annari, frá Brúar-ørœfum; þaradauki ſegia menn at í hana renni 36 minni ár. Þat er afarmikit vatnsfall, er beliar og føſſar framm í þraungum farveg imillum gljúfra og hárra hamra út eptir Jøkuldal til ſiáfar; hún er hvergi reid ſvo lángt ſem bygdir ná og ſialdan feriutæk vegna ſtrídsleiks; hafa því búendr øfarliga í dalnum drátt á anna, er ſvo er giørt, at kadlar tveir liggia yfir ána, er feſtir eru á bádum gliufrbørmunum, en kláfr ſtór edr hrip er ſettr á þá ofan, ſvo at kadlarnir leika á hiólum í ſtudlunum at nedanverdu, en ſá er ſitr í hripinu vindr edr dregr ſig framm á ſtrengium nokkrum, er gánga ígégn-

um ofanverda studlana og flytiast menn svo yfir ána med farángr sinn; þat kalla menn at fara á Kláfi. Fyrir nedan Iökuldalinn er trébrú sú yfir á þessa, er hún er vidkénd; Brúin er rúma 8 fadma á lengd ímillum tveggia jafnhárra klettasnasa og hérumbil 10 fadma há frá vatninu, þá áinn er lítil, en á vorum í leysíngum og jökulföllum fyllir áinn gilit þvínær á barma og 1625 braut hún brúna; hafa Austfirdíngar ymsum sinnum bygt hana og flutt og seinast giört hana 1819 á kostnad sýslunnar. 2. Lagarfliót, þat er talit vatnsfalla mest á Islandi; þat verdr úr 2 ám í Fliótsdal, er Iökulsá og Kéldá heita; þær eru bádar jökulvötn og mannskiædar fyrir nedan ármótinn; at innanverdu giörist Fliótit svo breidt og lygnt sem allmikit stöduvatn væri, og er þar yfir 900 fadmar á breidd og skamt fyrir utan leiru-bötninn hérumbil 100 fadma diúpt; en því lengr sem út eptir dregr miókkar þat og grynnist, svo at vid takmörk Vallnahrepps og Eydamannaþinghár er allgótt vad á því er kallast Einhleypíngr; á ýmsum stödum halda bændur ferinr á Fliótinu, en engin er lögferia á því, utan ein undan og frá Kyrkiubæ og fyrir nedan fors nokkuru, sem er hinn einasti í vatnsfalli þessu; eru prestar þar skyldir at láta flytia þá ókeypis, er þángat eiga kyrkiusókn. Optast er gód silúngsveidi í Fliótinu, þá hún er stundut. 3. Selfliótit, þat er slæmt yfirferdar sökum aurbleytu og dýpis; þat kémr frá Eydamannaþinghá og rennr

jafnsidis med Lagarfljóti fyrir austan þat, um Hialtastada-sókn og fellr ásamt fyrrtöldum stór-ám út i Héradsflóann, þar sem kalladr er Unaós; öllumegin vid ósa þessara vatnsfalla eru sandar miklir, er kalladir eru Héradssandar, og eru þeir 2 mílur á lengd og skiptast i tilliti til rekanna, i 6 hluti edr rekapláts. Héradauki má géta: Gilsár er adskilr Fliótsdal og Hallormstada-sókn og undireins Sudr- og Nordr-Múla-sýslu; Grímsár er kémr frá Skridudal og rennr á Völlunum og i Fliótit; Eyvindarár, er kémr frá Eskifiardar-heidi og adskilr Vallnahrepp og Eydamanna-þinghá; Héradauki rennr á i hverium firdi, hverra allmargar eru illar yfirferdar einkum i vatnavöxtum, þar á medal má telia Hofsá i Vapnafirdi, Breiddalsá, Berufiardará, Hamarsá, Geithellnaá og Iökulsá edr Hofsá i Alftafirdi.

Medal stöduvatna þeirra, er á Austfiördum eru, má auk mikils fiölda hér nefna: Eydisvatn á Lánganesi, vötninn á Smiörvatns-heidi og Iökuls-heidi; medal hverra Anavatn telst og qva vera ½ Þingmannaleid á lengd. I því svokallada Uthéradi eru Eyda- og Sniófhólfsvötnin; Urridavatn og Ekkiuvatn i Fellunum, samt Skridu- edr Haugavatn i Skriddal; i öllum þessum vötnum og mörgum minni, samt i Lagarflióti, er fremr má alt út at Eiuhleypingi stöduvatn kalla, enn stór-á, er meiri eda minni silúngsveidi.

Heitar uppsprettur eru miög fáar á Austfiördum og alleina má þar géta þessara lauga,

sem hafa verit edr eru brúkadar, nl. í Selardal í Vapnafirdi; 2 í Laugarvalladal allángt frá bygd og i Hrafnkelsdal at Laugarhúsum, er fyrrum var bygt.

Høndlunarstadir á Austfiørdum eru 3 at tølu: nl.

1. Vapnafiardar-kauptún at nordanverdu vid fiørdinn í Nordr-Múla-sýslu; þar er sæmiliga góð høfn, en eins má þar tunnur brúka og í Húsavík og litt trygg er hún, þá hafís er undir landi. 2. Eskifiardar høndlunarstadr í Sudr-Múla-sýslu, sem talinn er medal kaupstadanna á Íslandi, stendr á nordrstrøndinni vid fiørdin; þar er allgód høfn; innsiglingin er yfir 3 mílur vegar, en trygg. Fyrrum stód kaupstadr þessi utar á strøndinni vid Reidarfiørd nordanverdan og var þá kéndr vid þann fiørd. 3. Diúpavogs-kauptún (Berefiords Handelssted) vid hagaanligan og alldiúpan vog er hverfr inni sydri strønd Berufiardar edr Búlandsnesit og er umgirdtr á 3 vegu med klettum, þar er hlé þvinær fyrir øllum vindum og einhvør hinn besta høfn á Íslandi fyri fá skip vetr sem sumar.

Medal merkustu bœa í sýslum þessum má telia: Skriduklaustr í Fliótsdal, er Stephán biskup stiptadi 1494; umbodsmadr, er þar býr, hefir giætslu jarda þess á hendi, hvøriar nú eru kóngseign. Brecka í sømu sveit er fagurt býli, er áqvedit er lækni Austfirdinga til leigulausrar ábúdar. Fors er í

brúninni fyrir ofan bæinn, er talinn er einhvør en hærsti og fegursti á Íslandi. Í Sudur-Múla-sýslu: Ketilstadir á Vøllum, fernt sýslumannssetr, er vel húsadr bær.

Hvat kénnimannliga skipan snertir, er Múla-sýslu skipt í 2 prófastsdæmi, og eru þessi 9 prestakøll í enu Nyrdra: 1. Skeggiastadir á Lánganesz-strøndum; 2. Hof og Retstadr í Vapnafirdi (Hofsprestr skal og nokkrum sinnum á ári sýngia messu í Módrudalskyrkiu á Fiøllum); 3 Hofteigr á Jøkulsdal; 4. Kyrkiubær í Túngu (metit 61 Rd. 4 Mk.); 5. Ás í Fellum; 6. Eidar í Fliótsdals héradi med Valþiófsstad og Skriduklaustri í Fliótsdal; 7. Hialtastadr í Utmannasveit; 8. Desiarmýri í Borgarfirdi, annex. er Nordvík edr Niardvík; 9. Klifstadr í Lodmundarfirdi, annex. er Húsavík. Enn sydra prófastsdæminu er skipt í 11 prestakøll er svo kallast: 1. Hallormstadr í Skógum; 2. Þíngmúli í Skriddal; 3. Vallanes á Vøllum; 4. Dvergasteinn í Seydisfirdi og Fiørdr í Mióafirdi; 5. Skorrastadr í Nordfirdi; 6. Hólmar í Reidarfirdi; 7. Kolfreyustadr í Fáskrudsfirdi; 8. Stød í Stødvarfirdi; 9. Heydalir (Eydalir) í Breiddal (metit 53 Rd. 5 Mk. 4 ß.); 10. Berufiørdr med Berunesi á Berufiardarstrønd; 11. Hof í Alftafirdi og Háls í Hamarsfirdi; (Þvottár-sókn er einnin lögd til Hofs 1765. Þar saung Þángbrandr fyrstr manna messu um haustit 997 en vorit

eptir lét Síduhallr, er þá bió at A, skírast laugardaginn fyrir Páska og hión hans oll þar i árni, er sídan var kollut Þvattá.

Margar eru eyar i Austfiordum, medal hvorra þessar má merkiligastar telia: Leidarhólmi og enir svokolludu Kaupstadarhólmar á Vopnafirdi; þar er eggver, er tilheyrir Hofskyrkiu; Biarnarey framm undan Kollsmúla; þar er fiskiver Vapnfirdinga, ey liti. og slæmt vatn. Utaf Reidarfirdi at nordanverdu liggr Seley, viku siáfar frá Krossanesi; þar hefir at fornu verit og er agnsemi mikil og fiskiafli, einkum hákallsfáng á vorum; at sunnanverdu vid mynni nefuds fiardar edr framm undan Reidarfialli edr Vattarnesi liggr ey sú er Skrúdr edr Skrúdsey kallast, þat er tilsýndar sem sivalt og þverhnýpt fiall i løgun sem sikrtoppr, med graslendi at ofan; þvínær hverretna i biorgunum er mikill ægr ritu og svartfugls, er þar veidist til mikilla hagsmuna; fé gengr og siálfala i Skrúdnum, er á vetrum leitar skióls i hellir miklum, er gengr inni bergit litit eitt fyrir ofan láslèttu, og skiptist hann i forhellir og inuhellir, hvor aptr deilist i tvo afhellra og er nú hrunit fyrir dyr annars þeirra; en hinn er 50 fadma á lengd; fyrir midium dyrunum er tiorn nokkr allmikil af vatni þot er drýpr at ofan úr berginu; þat vatn er einka svalandi og málmdámat. J Breiddalsbugtinni liggia 7 allfagrar eyar er tilheyra Eydolum; i þeim er Ædarvarp; samt framm undan Bern-

firdi, Búlandsnesi og Alftáfirdi liggia eyaklasar, sem kéndir eru vid téda stadi; Berufiardareyar eru 16, Búlandseyar 10, en sydstar eru Þvottár-eyar, 9 at tölu; í mörgum af eyum þessum og hólmum er eggver, fugla- og sela-veidi. Framm undan Hamarsfiardar mynni, viku siáfar frá Búlandsnesi, leggia eyar nokkrar; þeirra mest og merkust er Papey, sem er eya agusomust á Austfiördum; hún er umgirdt klettum á alla vegu og er á henni nytanligt graslendi og haggvisti fyrir allskonar qvikfé; ædarvarp er þar allmikit, fuglaveidi og útrædi til fiski- og hákalls-afla; undir Papey liggia eyar nokkrar þar í nánd vid; þadan gánga rastir til Búlandsnes, er opt eru illar yfirferdar. Fyrrum var Papey kóngseign, og leigujörd ábúenda, er ástundum hafa verit audmenn miklir; nú er hún bónda-eign.

Af lysíngu landlags sýsla þessara hvoruttveggiu má ráda, at vída eru þar fagrar bygdir og ágiætt haggvisti fyri saudfé einkum í Sudr-Múlasýslu, engu sídr enn á Nordurlandi; en ei hafa Austfirdíngar svo gód tök á rækt og hirdíngu saudfiár, sísi vid siáfarsídu, sem Nordlendíngar. Margskonar agnsemi af sió og sætum vötnum bætir búhösn Austfirdínga, og allvída fær triáreki þeim næg efni í hendur til húsabyggínga og amboda, t. d. á Lánganesi, Hérads-söndunum og vídar. At vísu liggr þessi hluti landsins vel vid siósóknum og fiskiafla, en vída hamla slæmar lendíngar og brim þeim atvinnu-atdráttum; merkustu fiskiver má telia: Biarnarey, Seley, Vættarness-tánga, Andey og Hafnarey i Breiddal, sækia menn þadan og frá ödrum stödum sió til hákalla- skötu- flidra- og fiski-fánga; þó má qvikfiárrækt kalla enn almennasta máttarstólpa biarg-

rædis-veganna í sýslum þessum; þær eru einnin Nordurlandi audugri af skógum til allmikilla hægindа, þeim er til ná, má þar til greina, auk Hallormsstada-skógs. Eydaskóg, Midhúsaskóg, Sandfells-skóg og fl. Vída eru þar og grøs tekinn til gódra bú-dryginda. Innbúar Nordr-Múla-sýslu eru hérumbil 1780, en Súdr-Múla-sýslu, nærhæfis 1850 at tølu.

## III. Austr-Skaptafells-sýsla.

Takmørk hennar at austanverdu er Austr-Horn og allhár fiallgardr, er gengr framm af jøklum og nidr til siáfar og kallast Lóns-heidi; þar á henni, hvar hún er hærst og Heidarvørp kallast eru sýsluskil og undireins takmørk Austr- og Sudr-Amtsins; hún er hálf þingmannaleid at vegaleingd og liggr yfir hana einn þiódvegr; hit sydra skilr Skeidarár-sandr Skaptafellssýslurnar; miøg fiallendt er í sýslu þessari og hvervetna er ørskamt millum fialls og fiøru. Fyrir sunnan Austr-horn gengr bugt nokkr skamt inn í strøndina, er Lónafiørdr heitir, en bygdin umhverfis hann Lón þar standa bæir miøg strialir fram med fiallahlídum; flatlendit er þar, sem vídast í sýslunni, sandi orpit, med litlum grasgeirum á milli. Upp frá sveitinni liggia fiøll há, til jøklar taka vid, hvørir óvída siást þar í bygdinni. Fyrir sunnan

nefnt bygdarlag gengr ſkagi í landſudr, er Veſtr, edr Brunn-horn kallaſt, upp frá því liggr fiallgardr, ſem ſkammt er yfir at fara; yfir hann liggr þiódgata ſú, er Almannaſkard er kallat og er þat miøg bratt at veſtanverdu og því optſinnis óſært á vetrum; er þá farit fyrir framan Hornit, er Hornſkridur kallaſt og er ſá vegr vart 2 mílum lengri.

Imillum Veſtrhorns og Hreggsgerdismúla gengr bugt nokkr allbreid inni landit, og innáf henni fiørdr ſá er Hornafiørdr er kalladr og er hann at því ólíkr ødrum fiørdum á Íslandi, at eyd edr grandi liggr þvert yfir mynni hans og ſkéraſt óſar gégnum hann til útſiáſar. Bádumeginn fiardar þeſſa er allvídlendt bygdarlag, er tekr nafn af firdinum og ſkiptiſt í þeſſar ſveitir: Nes-ſveit, er liggr fyrir ſunnan Almannaſkard lángſetis undir fiallshlídunum fyrir auſtan fiørdinn, af hvorium gánga margar ſmávikr inn í ſtrøndina og andnes ímillum þeirra úti fiørdinn, af hvørum ſveit þeſſi dregr nafn; at veſtanverdu vid fiørdinn er litil ſveit er Mýrar kallaſt, og eru bádar þeſſar ſveitir einn hreppr, ſem kéndr er vid Biarnarnes, en fyrr: kalladiſt Holtahreppr. Sudr af Mýrum liggr Sudr-ſveit, edr Borgarhafnarhreppr; þat er lángt bygdarlag; ſtendr þar einſett bæa-

rød framan undir háum fiöllum og er undir lendit litit og ørskamt til siáfar. Sveit þessi nær alt til Breidamerkrsands og er Fell næsti bær vid Mørkina edr bæa sydstr i sveit þessari. Sumir kalla allar þessar sveitir Hornafiørd. Frá því Mýrar taka vid og svo sýsluna á enda gánga fall-jøklar framm i hvørn dal, dæld og hvylst imillum fiallanna, og undan þeim falla ár og smáqvislar, er árliga breyta farvegum og ølla á þann hátt mikils jardusla. Þá Sudrsveit þrýtr tekr Breidármerkrsandr vid er talin er einhvør hin leingsta þingmannaleid at vegaleingd; fara menn þá einlægt framm med jøkli þeim, er kéndr er vid sand þenna til bæar þess er Tvískér heitir, er þá þridiángr sands sins eptir; þá tekr laung og striál bygd vid, er Øræfi kallast; þau eru þingmannaleid á leingd og ná alt til Stafafells, er sýdst er bæa i Austr-Skaptafells-sýslu; 8 bæir eru i sveit þessari, er standa i rød frammed fiöllunum, en á millum hvørs bæar liggia dalir uppi þau og framm i þá fellr jøkullinn, er liggr á fiallabaki, á sagdan hátt. Øræfin eru einhvørt hit hriósturgasta og leidinligasta bygdarlag á Islandi; þar er litit gras, en einka kiarngott, vegr þar er grýttr, sem vídast i sýslunni. Fyrir sunnan Øræfin liggr Skeidarársandr, hann er

þingmannaleið á lengð, grýttr mjøg og með øllu graslaus; á hønum eru margar ár og eru þær illar yfirferðar.

Merkustu vatnsföll í Sýslu þessari eru:

a. Jøkulsá í Lóni, hún fellr undan Lónsjøkli, rennr krókótt eptir nefndri sveit og kémr til siáfar austan undir Brunnhorni; hún er strið miøg, en ei stórgrýtt; opt er hún ófær á sumrum vegna sandysiu og vatnsmegnis, einkum neðarliga.

b. Hornafiarðarfliót, kémr úr Heinabergsjøkli og rennr ígégnum Hornafiarðaros í sæ; þat skilr Mýra- og Ness-sveitir og skiptist í 2 hluti, er kallast Suðr- og Norðr-fliót; á því eru 2 þióðvega-vøð: annat upp við jøkulinn, en annat nokkut utar; þat er opt á sumrum miøg vatnsmikit og illfært søkum dyptar og sandbleytu einkum á ytra vegi; ímillum nefndra flióta er allbreidt land, er Skógey er kallat; þar vóru fyrr. 18 bæir bygðir.

c. Diúpá og d. Hólsá koma báðar úr Fláa- eðr Mýrajøkli og renna í Hornafiarðarós. e. Kolgrimaá fellr undan Heinabergsjøkli og rennr á takmørkum Mýra- og Suðr-sveitar út ígégnum Hálsa-ós; hún er sialdan óreið. f. Jøkulsá á Breiðamerkursandi, hún er hit skémsta, en ógurligasta vatnsfall á Íslandi; hún spýtist framm úr Breiðamerkurjøkli og fellr framm á hallendum sandi hérumbil $\frac{1}{2}$ mílu til siáfar, með þvílíkum stríðleik, at svo er til hennar at siá sem brim-ærsli

væri. Optsinnis er hún ósær á sumrum, þá hlí-
vidri gánga, hleypr hún þá um allan sandinn
og breytir tídum farvegum og brestr á ymsum
stødum framm úr jøklinum; ekkert er vad á á
þessara, mega því ferdamenn þræda brot-
inn, er allopt eru svo vandsundin, at þó þeir
leggi útí hana uppundir jøkli, ná þeir ei fyrri
landi, enn nidr vid brimbodana. Ástundum
fara menn yfir jøkulinn á skørinni, hvar hún
brytst framm og kallast þat at fara á yfirvarpi,
og er þat einkar torsókt. Í á þessari hafa opt-
sinnis menn og hestar farist. Um Breidamerkur-
sand falla margar ár, sem eingar eru stórvøtn
taldar. g. Skeidará fellr undan Skeidar-
ár-jøkli austanverdum og um Skeidarár-sand,
í sió út; hún er miøg áþekk nedri Jøkulsá;
hún er þó ei svo straumhørd, en eins vatns-
mikil.

Framm undan allri sýslunni liggia sandrif
med landi framm, og hvervetna fyrir ofan þau
lón mikil, er bædi eru diúp og breid á ýmsum
stødum og verda þau af ám og lækium er ei
ná at renna krókalaust til siáfar og gánga úr
þeim ósar og affaldar til meginhafsins. Sand-
rif þessi kallast almennt fiørur og á þar hvør
nærliggiandi bæa rekapláts fyrir landi.

Eingin eru annars markverd stødu-vøtn í
sýslu þessari, utan Grimsvøtn, þau liggia
fyrir nordan Skeidarárjøkul, og hafa þau jafnan
logat, þá eldr hefir verit uppi í nefndum jøkli.

Sýslan er eitt prófastdæmi, er skiptist í 5
prestaköll, er svo heita: 1. Stafafell í Lóni-

2. Biarnanes, Annex. er Hoffell hvert-tveggia í Nesium. 3. Einholt á Mýrum. 4. Kálfafell edr Kálfafellsstadr í Sudr-sveit (edr Fellshverfi). 5. Sandfell, Annex. er Hof hverttveggia í Œræfum. (Fyrr. var þar hit stóra prestakall Raudilækr, er ásamt 38 bæ-um lagdist í eydi í jøkulhlaupinu 1350.

Eyar: Vigr er lítil ey med hømrum umhverfis, ½ mílu undan landi imillum Austr- og Vesturhorns; þar er ædarvarp og slegin út-selr á haustum. Inni Hornafirdi eru margar smáeyar; í þeim er nokkurt eggver; þeirra merk-ust er Ákurey. Framm undan Breidamerkr-sandi liggia 3 eyar, er Hrollaugseyar eru kalladar, og sunnar skér tvø graslaus framm undan Tvískérium í Œræfum, er Tvískér kall-ast; á bádum stødum má útseli veida; en nú er hverki skip né útrædi í þvi bygdarlagi, er skémst á þángat at sækia.

Jafnvel þó í sókn hvørri í sýslu þessari sé út-rædi (útan í Œræfum) eru þó landnytiar og qvik-fiárrækt fremr máttarstólpi biargrædis og búskapar sýslubúa, enn fiskiskapr; med því brygdull er þar stáfárasti, en kémr þó optsinnis at gódu haldi; eink-um fánga Hornfirdíngar ástundum allmikinn Há-kall; hvørir eininn ásamt Lónsbúum veida tøluverdt af kola er þeir kalla Lúru og þykir hún herdt edur steikt á eldi gott mannfædi og betri fiski. Inn-búar sýslu þessarar eru hérumbil 930 at tølu, má þaraf siá, at hún er sýsla fámennust á Íslandi.

Skíringargr. Í engri sýslu á land-inu er svo vidlendr jøklaklasi, sem í Austr-Skaptafellssýslu og mæla þat sumir menn, at ein sé samfella af jøklum, frá Hofs, eda

Lóns-jökli alt til Skaptárjökuls sudr, hvörnm menn hafa ýmislig nöfn gefit, eptir því sem þeir, frá bygdum at siá, adgreinast af klofningum nokkrum edur fiöllum, er standa framan undir þeim og hvar þeir ei ná fram at falla; en þar sem þess er kostr, eru þeir kéndir vid ýms örnefni t. d. Hoffellsjökull og Svínafells-jökull fyrir vestan Hofsjökul, er austast liggr, þá Fláa- og þá Heinabergs-jökull (bádir upp af Mýra-sveit) er med vatnsflódi hefir giördt mikin jardusla í Hornafirdi t. d. 1362. Þá tekr Kálfafellsjökull vid bakvid einstakt fiall, er Fell kallast og er þat klofit nidr ígégn, og kallast fremri hluti þess Hella; allir þessir jöklar ásamt kallast Hornafiardarjöklar. Fyrir sunnan Fell þetta byriar Breidamerkur-jökull, hann er afar-mikill ummáls og stendr á jafnsléttu millum Breidamerkurfialla hit vestra og Máfabygda samt Hornafiardarfialla hit eystra; hann er hvergi brattr uppgaungu, heldr ávalr sem svellbúnki, utan hvar hann er sprúnginn hit efra og eins er til at siá sem hann settr væri smá-gnýpum. Í forntíd, alt til 1100 og máské lengr, var þar vidlend og fögr, grösug og skógivaxin sveit, er Breidamörk hét og rann þar þá á sú, er Breidá kalladist, en mön nokkur vid sæ, nefndist Breidársandr. Þat þykir fródum mönnum líkligast (því þat láta sögur og árbækur í þagnargildi) at eydilegging þessi hafi á 12tu öld byriat, en á 14du (nl. 1362) full-giörst, þá allir Austurlandsjöklar ýmist spúdu eldi edr sprúngu framm med vatnagángi og eydi-

løgdu alla bygd frá Sidu til Almannaskarðs; þat eru 5 þíngmannaleidir at vegaleingd. Fyrir vestan tédan jøkul tekr Knappafellsjøkull vid, þá Sandfellsjøkull, er bádir ásamt kallast Oræfajøkull; han er jøkla hærstr og áfar brattr og mun hann telia mega medal enna eldstu jøkla og eldstalla á Íslandi. Auk þeirra eydileggínga, er hann giørdi 1363, spió hann eldi, vatni og aur 1727 og afskræmdi landit herfiliga. Bak vid Skaptafell liggr dalr, er Jøkuldalr er nefndr, er fyrrum var bygdr og ein heil kyrkiusókn, og var kyrkian at Midfelli; hann er nú lagdr í eydi søkum vaxandi jøkla; í hønum eru einka gódir hagar fyrir sandst og vellandi hver.

Vestar er Skeidarárjøkull; hann er líkr Breidamerkrjøkli, at hann er lágr og stendr á sléttlendi, en þó øllu hrylliligri; er hann ordinn af ísskridum og jøkulsøllum kanské fyrst á 14 øld og má hann bædi kalla falljøkul og skridujøkul; svartr er hann tilsýndar og samanstendr af urd, aur og jøkul, sem alt er ordit samfrosta. Bak vid alla þá jøkla, er fyrst vóru taldir, tekr adaljøkullinn vid, er menn kalla Klofajøkul; hann er jøkla mestr og tekr nafn af hvylst nokkurri edr klofa er gengr upp í hann at nordanverdu. Oræsi og hraun eru fyrir nordan hann, er gánga alt til Nordrlands; þar er Odádahraun, þat er vidlendt mjøg, en afar hrylliligt; þat er søgn manna, at útilegumenn hafist þar vid.

## IV. Vestr-Skaptafells-sýsla.

Hún nær austr á Lómagnúps- edr Skeidarár-sand og vestr at Jökulsá á Sólheima-sandi; at nordanverdu nær hún lángt á fjöll upp, og er þar óbygdir miklar alt at Nordlendíngafjórdúngi; á þann bóginn eru þessir jöklar: vestr hluti Skeidarárjökuls, austast, þá Skaptárjökull, er liggr lángt frá bygd, þá Kötlujökull, þá Mýrdalsjökull edr Sólheimajökull og nordr af hönum Torfajökull, er liggr á fjórdúngamótum. I landsudr veit hún öll til sjáfar og er þar ströndin med sýslunni endilángri sandi-örpin, ávagskorin og hafnalaus. I sýslu þessari er bædi fjallbygd og sléttlendi: byriar fjallbygdin at vestanverdum Skeidarárjökli; þar er vídlendr skógr, er Núpstada-skógr er kalladr; hann gengr lángt á fjöll upp og er hann girdtr stórvötnum tveimmeginn, rennr Súla at austan, en Núpsvatn at vestan; hann er talinn medal enna bestu skóga á Islandi. At vestanverdum skógi þessum er Lómagnúpr, er hann ærit hátt fjall, og stendr austasti bær i sýslunni undir hönum at vestanverdu, er heitir Núpstadr í Fljótshverfi; frá Lómagnúpi gengr lágr fjallgardr, beinn at kalla vestr at Skaptárgliúfri; undir hönum stendr striál bæarod, er Fljótshverfi kallast og liggr fyrir austan hraunbelti

þat, sem kémr framm ámilli Selialands og Hverár, en Síða nesnast þeir bæir, er standa vestr með fiallgarðinum þaðan vestr alt at Skaptárgliúfri; mestr hluti Fliótshverfis, sem sléttlendr er, og veit til siáfar, er giør eyddr af sandi og stórvøtnum, og er þat ærit land; í Fliótshverfi er heyafli lítill, en fiárgánga forkunnar góð bæði vetur og sumar; þar er triáreki mikill, en nýtist litt, þvi vegr til siáfar er lángr og sialdan sær. Skaptá skiptir Síðunni og Landbrotinu; þat liggr frammundan miðri Síðunni, er fiallalaust bygdarlag og víða þakit sandi og eldhraunum bæði at fornu og nýu; þar er litill heyafli og fiárgánga og landskostir í meðallagi; bæði þar og á Síðunni (á Skialdbreið, sem bygd var til forna) vex tallsvert af þeirri korntegund, er þar kallast Melr *). Á Síðunni er víðast nægiligr og kiarngóðr heyafli; ser honum þó ávalt huignandi søkum sandfoks; fiárgánga og landskostir eru þar í betra lagi og allgóðr triáreki; þar sem eldr, vatn og sandr ei hafa briálat því forna landslagi Síðunnar, er þat einka fagurt bæði undir fiøllunum og upp á þeim: grasivaxnir hlíðar hálsar og dalir; en á seinni hluta nærstliðinnar aldar

*) Siá Sira S. Holms ritlíng í Félagsritanna 2 B.

hefir sveit þessi lidit hit hörmuligasta tión á fegurd sinni og landgiædum, og svo qvedr mikit at því, at þar sem fyrri vóru enar fegurstu merkr, skrautlig eingi, blómligar eyar umgirdtar fagurstreymdum vatnsföllum, er nú ei annat, enn svört og herfilig brunahraun og berir sandar. Fliótshverfit, Sídan og Landbrotit kalla menn allmennt Sídusveit edr Kleifahrepp. Medallandssveit liggr framm undan vestr-hluta Sídunnar og nær hún vestr at Kúdaflióti; þat er fiölbygd sveit og er þar landslag flatlendt og fiallalaust, vída brunnit, sandorpit og mýrlendt. Heyafli er þar vídast mikill, en littnýtt hagqvisti fyri fé; meltak er þar og sumstadar talsverdt og triáreki gódr. Skaptártúnga greinist frá Sídunni vid Skaptárgliúfr og nær vestr at Mýrdals- edr Kotlujökli og frammad Alptaveri; þar eru yfrit gódir landskostir og fiárgánga, en vídast litill heyskapr; föll eru þar ekki há og liggia grasi- og skógi-vaxnir dalir ímillum þeirra. Alptaverit er framm undan Skaptártúngu fyrir vestan Kúdafliót og austan Myrdalssand; þat er lágt og sumstadar mýrlendt bygdarlag; þar eru gomul brunahraun, er nú eru vída ordinn grasivaxinn. Meltak er þar og triáreki gódr. 3 sídstnefndar sveitir kallast Leidvallahreppr. Fyrir vestan Alpta-

ver liggr Mýrdalssandr millum fialls og fiøru og er hann þíngmannaleid at vegaleingd; fyrir vestan hann tekr Mýrdalr edr Mýrdalssveit vid, er nær vestr at Sólheimasandi; þar eru vída há fioll og diúpir dalir; sveitin er fiollbygd; þar er nægr og kiarngódr heyafli, einkum á slædi-eingi nokkru, sem nefnist Oeingi, í hveriu margar iardir eiga ítok; þat mun vera eitthvert hit fegursta eingi á Islandi. Í Reinis- og Vikrfialli og Dyrhóladraungum er biargfugla-varp; Dyrhólaey er einstakt fiall, umflotit af sió at framanverdu; á því er gluggi svo vidr og slýtr siór ígégnum, at róa má hveriu stærstu fiskiskipi gégnum fiallit; fiskiafli hefir þar opt vel gèfist.

Þessi eru vatnsføll en stærstu í sýslu þessari:

1. Súla, 2. Núpsvøtn, 3. Brunná og 4. Hverfisfliótit, í Fliótshverfi; þau renna øll saman á eydisøndum þeim, er liggia frammundan Fliótshverfi og falla øll samt í sió í Veidióst á Kálfafellsfioru; í þeim ósi er silungs- og sela-veidi. 5. Geirlandsá og 6. Skaptá á Sídu og margar smærri renna saman imillum Skialdbreidar og Landbrots og koma til siáfar í Skaptárósi; í hønum veidist silúngr; fyrrum var þar selaveidi. 7. Eldvatn í Medallandi; þat er slæmt yfirferdar vegna bleytu og hvarfa; á þvi er feria at Hnausum. 8. Ásavatn, þat er hvergi reidt og

er því ávalt farit á ferin. 9. Túngufliót, 10. Hólmsá, er allmikit jökulvatn. 11. Leyrá og 12. Skálm; 5 síðstnefndar ár renna um Skaptártúngu og koma allar saman í 13. Kúdafljóti imillum Medallands og Alptavers; þat er mikit vatnsfall og svo breidr farvegr þess, at þat er kallat vatnsfalla breidast á Islandi; þat rennr í mörgum qvíslum og er lygnt, en ákar ógreidt yfirferdar sökir sandqvika og bleytu; þat kémr til siáfar í Kúdaósi, í hverium er selaveidi. 14. Eyará og Múlaqvísl, bádar jökulsvötn á Mýrdalssandi. 15. Kérlingardalsá og Hafursá, tvó jökulvötn í Mýrdal. 16. Jökulsá á Sólheimasandi; hún fellr undan Sólheimajökli med strídleik miklum alla leid til siáfar; þat er ákarmikit vatnsfall, mannskiædt og tídum ófært siallsog sioru á millum, einkum þá vestanvindar gánga; veldr því mest strídleikr þess og griótkast, at þar hefir farist hátt á fiórda tug manna. I landnámatid hét á þessi Fúlilækr, med því at af henni leggr fyla mikil og er því af sumum kollut Ódaunselsa: er hún at því öllum ám á Islandi ólík.

Stödu vötn: Heidarvatn í Mýrdal, Túnguvötn í Landbroti og Mýrnavatn í Alptaveri; í öllum þessum vötnum er silúngsveidi og í því fyrstnefndi bædi vetr og sumar.

I Skaptafellssýslu enni vestari eru 2 klaustr, nl. Þyckvibær vid Kúdafliót vestanverdt, er Klængr biskup lét giora fyrir múnka 1169 og setti þar fyrstan ábóta Þorlák hinn

helga; ýmsir nafnogadir ábótar í Þykkabœ kolludist ábótar í Veri (Alptaveri), því svo heitir þat bygdarlag og lá mestr hluti þess og Medallandsins undir klaustr þetta. 2. Í Kyrkiubœ á Sídu var reglustadr fyrir nunnur edr hreinlífiskonur; þat klaustr stofnadi Þorlákr hinn helgi biskup í Skálholti 1185. Í ondverdu sátu Papar þar, er menn meina at fyrstir manna hafi á Íslandi búit, og vid hvoria Papey er kénd og Papyli í Hornafirdi; sídan bió Kétill hin fiflski þar og reisti þar kyrkiu, med því hann var madr vel kristinn, og var þessi stadr þá svo heilagr, at ei máttu þar heidnir menn búa. Á Hörgslandi á Sídu er spítali edr siúklinga herbergi fyrir likþráa á Austrlandi. Kéldunúpr á Sídu er Kristfiárjord, og skal ábúandi hennar halda ókeypis munadarlausa og orvasa kerling, en búa siálfr leigulaust.

Sýsla þessi er eitt prófastdœmi og eru í því 7 prestakoll: nl. Kálfafell í Fliótshverfi. 2. Kyrkiubœr á Sídu. 3. Ásar og annex Búland i Skaptártúngu. 4. Medallandsþing, kyrkian er at Lángholti. 5. Þykkvabœar-klaustr. 6. Reynir, annex. Hofdabrekka, hverttveggia í Mýrdal. 7. Sólheimar og Dyrhólar hverttveggia í Mýrdal.

Á fyrri dogum var alfarvegr millum Skaptártúngu og Eyafiardar yfir þverár óbygdir, lá sá vegr at austanverdu vid fiskivotn. Annar vegr liggr úr Skaptártúngu millum Kotluiokuls at sunnan og Torfaiokuls at nordan til Rangárvalla, sem kendr er vid Fiallabak.

I Kötlu-jökli er giá sú edr gýgr er **Katla** nefnist; ur henni hefir opt á undanförnum öldum eldr gosit med ógurligum sand- og brennusteins-uppburdi, hefir jökullinn þá einnin sprúngit framm og megnt vatnsflód fært jöklbrotinn bædi á sæ út og vídsvegar austr og vestr um landit, svo alt sléttlendi milli Höfdabrekku og Alptavers, sem ádr var fögr bygd, er ordit at eydisandi þeim, er nefnist Mýrdalssandr; á honum framanverdum stendr Hiörleifshöfdi. Katla spió seinast 1755, var þat í 6 sinni, er menn til vita. 1783 brast upp eldr í Sídumanna afrétt og rann framm tveim megin Sídunnar í Skaptá at vestan, og Hverfisfliót at austanverdu; breiddist eldstraumr þessi vídsvegar út, þá til bygda kom, einkum um vestrhluta Sídunnar, Medalland og Landbrot, giöreyddust þá nokkrir bæir, en margir mistu eingiar, tún edr beitilönd. I vatnsgángi frá jöklum ofan, er gétit finnst í Landnáma-bók, vard Sólheimasandr; hann er hérumbil $\frac{1}{2}$ þingmannaleid at vegaleingd.

Med því at allvída, sem ádr er ávikit, eru gódir landskostir fyrir qvikfé í sýslu þessari, er landsbúnadr og ágódi af saudfé höfud-atvinnuvegr innbúa hennar; þó er rækt og hirdíng saudfiár þar med lakara móti, med því at bændur láta víra búsmala gánga sialtala á vetrum og skeyta fremr um fiöldan enn góda medferd; er því fiárhöldum hætt í hördum vetrum. Hvergi vex melur til rida á Íslandi, útan í sýslu þessari, og er hann sýslubúum einkar gód búsílad. Vidr og vogrek berast þar tídum at, landi er sær bændum nægiligt efni

i höndur til búsabygginga og annara smída; þeir eru hérumbil 1560 at tölu.

At lyktum vilium vér géta hafíss þess, er sumir kalla hinn grænlendska hafís; med því at af engu stendr stærri óhamíngia né weiri stuggr giörvöllum Íslandsbúum, sem af þessum óaldar-gésti. Heimsækir hann optsinnis Nordrstrandir landsins, samt Vest- og Aust-firdi til Látrabiargs og Austr-horns sudr, fyllir firdi og víkur, umkríngir nes öll og skaga, og liggr svo lángt frá landi út, at ei má út fyrir hann eygia af hæstu fiöllum. Hann er med tvennu móti: Flakk-ís og Fiall-ís: Flakk-ísar eru svo flatir sumir at siá, sem þeir hafi frosit á siálfu hafinu og eru 2, 3 og 4 al. þykkvir og sægrænir at lit; hrekiast þeir meir af straumi enn vindum, og eru því meir hradfara, sem jakarnir eru stærri, er stundum svo mikil ferd þeirra og ákøf, at þeir fara ei seinna, enn þat skip er gott byrleidi hefir, og fara þeir ei sialdnar ímót vedri enn undan, þá þeir taka ferdina. Fiallísar edr fialljakar eru med ödrum vexti og miklu stærri, og eru þeir til at siá sem fiöll standi upp úr hafinu og eru jafnan einir sér; ástundum eru jakar þessir svo stórir, at þeir kénna grynsla á 80rædu diúpi og standa þar fastir um hríd, má þaraf ráda, samqvæmt mælíngareglum, at þeir séu 14 fadmar á hæd frá vatninu, en 100 fadma háir frá botni; hvítleitari eru þeir og skiærari enn fyrrtédir ísar. Þá ísar þessir nálægast landit, breytist miög vedrátt og giörist miög ósløðug; þá breytist og

reglulig tid flóds og fiøru; en þá hann er lands fastr ordinn, giørast vindar vægri, en kuldinn bitrari og þokur þráligari. Þat meina sumir spakir menn, at of alt og hversvetna í megin-höfum á heimskringlu vorri falli höfud-straumar frá austri til vesturs eda sén gagnstædir snúníngi jardar um hiara sinn; beri því höfudstraumr nokkr alllángt fyrir nordan Island ís og vid frá Sandvík og Siberialandsströndum, vestr eptir; en at straumar þeir, er falla med landinu siálfu austr eptir, sén idu- edr apturkast af fyrrtédum höfudstraumi, er, þá hann steytir á austurströnd Grænlands, kastast tilbaka í sudaustr undir Island og beri hafisinn til stranda þess; eykr þat líkindi þessarar meiníngar, at optar og meiri gnótt ísa nemr stadar vid vestr, enn austr-strandir útskaganna á Nordurlandi, t. d. Refsnes, Hraunhafnartánga og Lánganes o. s. frv. og at nefndir ísar optast koma at vestan edr úr nordvestri at landinu; en þá ísarnir leggia aptr frá landi á sumrum, berá landstraumar þá austr og í nordaustr og hvirfla þeim þá at líkindum inní höfudstrauma, rás þá, er fyrr var umgétit, er sídan ber þá á ný vestr eptir til hellu-íssins vid Grænlands óbygdir. Hve mikillar óhamíngiu hafís þessi olli bædi stranda- og sveita-mönnum, samt farmönnum, er ástundum koma í ísavolk í höfum þessum, þykir ei þörf vera hér at rita, þar þat er öllum landsmönnum giörla kunnugt.

Hvat vidvíkr ýmsum skíríngargreinum um loptslag og vedráttufar, allra þriggia náttúrurikia audi-

legð og notun hennar og meðferð um innbyggiara og tölu þeirra, handiðnir og almenn störf, kaupverslun og kaupeyri, trúarbrøgð, vísindi og listir, stiórnsemi og annat þesskonar í hvøriu landi fyrir sig: þá er alt þetta, at svo miklu leyti sem Ísland snertir, Íslendíngum svo kunnugt, at viðurqvæmiligra þykir, at undanfella þat at sinni í þessari bók, en vera heldur margorðari um þvílíka hluti í utløndum. Má og vera, at mørgum þyki þat oflángt, er komit er.

## III. Grænland, (Grönland; Grönlandia).

Um mikilleik lands þessa eru menn óvissir og hvørt þat er eyland eðr meginland, ser tvennum søgum; þó mun sú tilgáta líkligust, at þat sé ei áfast við ønnur lønd eðr Ameriku; með því at enskir farmenn, er nú á døgum eru í landa- og skipaleiðar-leit norðr af hafi því, sem er fyrir vestan Grænland, þykiast um þat sannfróðir vera, at sund nokkurt skili Grænland og Ameriku og ráða þeir þat af straumum og siáfarføllum. Í suðr nær þat til 59° 57′, en hvørsu lángt þat nær í norðr, er mønnum með øllu ókunnugt.

Landslag er þar ýmist, fiøll eðr sléttlendi; þó er sá hlutinn miklu meiri, er fiallgarðr er og dalir og er hverttveggia ísum þakit svo hvergi er hlið at finna; en lítill hluti landsins er þýðr

svo byggiandi sé og er þat at eins jadar landsins edr strandirnar austan og vestan framm á landinu, er kallast Austrbygd og Vestrbygd. Fyrir vestan landit er haf þat er Davidssund kallast og Baffinsflói, en fyrir austan þat er meginhaf þat, er Ísahaf nefnist. Hit sýdsta á Grænlandi eru höfdi sá, er Statenhúk heitir og á eyu nokkurri Cap Farvel (59° 57'). Landit er mjög vagskorit bádumegin og strandir þess girdtar eya- og skéria-klasa miklum. At Vestrbygdinni er fiordr sá edr bugt, sem kéndr er vid eyland mikit í Davidssundi, er Disco heitir, fiarda mestr og er hann sagdr 14 mílur á lengd; sunnar er Ísafiördr; en fyrir sunnan hann skýtr landinu út í vestrátt og er þá strandin frá nesi því, er Biscol heitir íboginn alt sudr til landsenda, á henni má géta þessara fiarda, nl. Rúmmelpot, þá Sudrbugt (Sydbay), þá Veidifiördr, þá Balsfiördr (Baals Revier), hann er 16 mílur á lengd, þá Einarsfiördr, þá Ragnafiördr og Fiskafiördr, þá Andafiördr og Ísabugt, þá Agnafiördr, (imillum sídstnefndra fiarda er höfdi sá er Cap Confort kallast), þá Straumsfiördr, þá Lodinsfiördr, þá Svartifiördr, þá Lýsufiördr fyrir vestan Statenhúk.

Med því at ei hafa farmenn mátt fara skipaleid til Austurbygdar fyrir sakir ísa, hafa Danir at eins stiptat nýlendur á vesturstrønd-iuni, og liggia þær allar undir Dana konúng; en ei vilia Grænlendingar heita þegnar hans. Nýlendur þessar heyra til Siálands biskups-stóli, hvat andlig málefni snertir; en at veraldligri skipan skiptast þær í 2 umdæmi (Inspectorater), hit nyrdra og sýdra og skilr þau fiørdr sá er Rúmmelpot heitir.

2. Hit nyrdra umdæmi er greint í 10 nýlendur, er svo heita: a. Upernavik, nordast (72° 30′), þá b. Umanak (71°), þar er steinkolagreftir; þá c. Rittenbenk (70° 10′), þar er hvalafángarahrof, er Svarta-Fuglabiarg kallast; þá d. Gódhøfn (69° 12′) á eyunni Disco; þar sitr umsiónarmadr þessa umdæmis; þar eru og 3 steinkolanámur; þá e. Fortunbugt (Fórtunbay), þar eru hvalfángarabudir; þá f. Arfaprinzins Eyland; þá g. Jacobshøfn (68° 50′); þá h. Claushøfn; þá i. Kristiánsvon (Christianshaab) (68° 30′), þat er hofud-kauptún og sýdst í þessu umdæmi, k. Egedisminni (68° 20) á eyu þeirri er kallast Kronprinzins Eyland; þar hafast hvalfángarar vid. Í enu

2. sydra umdæmi eru 6 nýlendur, er

svo nefnast: a. Holsteinsborg (67° 10'; þat er hit eldsta fiskiver; þá b. Sikurtoppr, (65° 40'); þá c) Gódavon (Godthaab) 64° 10'), þat er heimili umsiónarmanns þessa umdæmis; þar stiptadi prestr Hans Egedi en fyrsta kristna sǫfnud; þá d. Fiskanes (63° 10'); þá e. Fridriksvon (Friderikshaab) (62° 30'); þá f. Júlianuvon (61°), þat er hin sýdsta nýlenda, stofnut 1775. I þessu umdæmi eru 3 hernhuttiskir sǫfnudir, er kéndir eru vid Nýa-Hernhút, Lichtenfeld og Lichtená, og eru þeir allir áhángendur brædra-safnadarins í Kristiánsfeldi.

Hvat vedráttu og loptslag snertir, þá má þat um Grænland segia, at þar eru regn skaldgiæf edr stormar utan þá sunnanvindar blása; en opt eru þar fǫgur sólskin og gott vedr; þá sól géngr sem hæst, þá hefir hún meira afl til skins og biartleiks enn til yliar og hita, utan í dǫlum og fiǫrdum; en þó vermir hún svo landit þar sem þýdt er, at iǫrdinn géfir af sér gód grǫs og vel ilmandi, og má fólkit fyrir því vel byggia landit, þar sem þat er þýdt, en þat er einka litit, afarmikil þoka spillir annars mioǫg vedraháttum í landi þessu, er heldr mætti kalla vedurgott land um hásumars skeid, ef hún ei væri svo þráslækinn. Þar eru sumur skǫmm (frá

ofanverdum Majo til mids Septembers mánadar) og vetur lángir og hardir, einkum fyrir nordan 68°; er þar þá svo mikit frost at brennuvín frýs í húsum inni og eptir því er jördin þar snaud og giædalaus. Í Grænlandi fellr ei svo mikill snjór sem jafnnordarliga í Norvegi edr Íslandi, og úvida er þar hálfrar alinnar diúpr snjór á jördu. Ei er loptslagit óheilnæmt mönnum né málleysíngum, og fáir eru þar siúkdómar utan skyrbiúgr og brióstveiki, og ollir þeim siúkleik þokan á sumrum og hafgufa og frostreykr á á vetrum. Þar skiptist stórum sólargángr, sem nærri má géta, þó ber allmikit ímillum, í tilliti til skammdegis, hit nyrdra og sydra á landi þessu; þar þat er hérumbil 300 mílur á lengd, er mannfólkit byggir.

Ekki er Grænland svo kannat né giædi þess svo ransokut, sem vera ber, og er þat ei eindæmi um lönd þau, er liggja í fiarska miklum frá þiódlandinu; þar er ódýr marmari allmikill med ýmsum litum, bædi raudr, blár, grænr, hvítr og flekkóttr. brennusteinn, steinkol o. s. frv. Ei er vaxtarikit snaudt í landi þessu, því þótt hvergi séu þar skógar miklir né sádlönd fögur, skortir þar ei graslendi og nytsamar jurtir á ýmsum stödum, einkum ímillum 60 og 65 mælistigs og umhverfis Bonarbugt. Smávidr eluast þar sumstadar inni fiardabotnum t. d. birki og pill. Þar vex og mikil gnótt hvannar, blód-

bergs uppí fiallahlíðunum og skarfakál hvervetna við sæ, og er þat betra þar, enn í eðrum lønd-um. Ymsar káltegundir vaxa þar allvel. Reka-viðr er í Grænlandi nægr til eldsneytis.

Þar eru héri margr hvítr at lit; í því landi eru og vargar og mikill fiøldi reindýra samt refa, og eru þeir bæði hvítir, gráir og blá-leitir; biørn er þar og margr og er hvítr og lánghærdr; hann fer mest í hafi úti á ísum, einkum hit nyrdra (fyrir nordan 76°) og veiðir at sér bæði seli og fisk og lifir við þat; er þat dýr miøg mannskiædt; en bæði er þat, at Grænlendíngar eru manna lægnastir til dýra-dráps og skotmenn miklir, og líka veria hundar þeirra híbylinn svo vel, at sialdan verdr mann-skadin mikill. Hundar eru og afarmargi í Grænlandi, eru þeir stórir og sterkir og Græn-lendingum einkar þorf dýr, med því þeir draga seli heim til híbýla, og sleða med 5 eðr 6 stórum selum á, ásamt veidimanni, er á þann hátt ekr med 4 eðr 6, ástundum 8 eðr 10 hundum fyrir, 3 þíngmannaleidir á einum vetrardegi yfir ísa og hardsenni. Nautpeningr er þar nokkr hit syðra og hvervetna allmikill fiøldi sæ- og land-fugla, medal hvørra telia má riúpur og ædarfugl, hrafna og erni mikla einkum hit syðra; valr er þar og allmargr, bæði grár, hvítr og drøfnóttr, samt stórar uglur flekkóttar, sem haukarnir, titlingar og ýmsir smáfuglar. Í því landi er mý afarmikit á sumrum og ónáðar þat bæði menn og skepnur skémmiliga, og ýms onnur skorqvikindi, þó eru þau ei þar svo

margkyniut sem í ödrum löndum. Völskur og mýs eru ei á því landi. Þar veida menn og lax, fiska þorsk, síld og heilagfiski; þó er eingin veidi svo misg idkut af landsmönnum og þeim svo ardsöm og notadriúg sem selveidi, hvi bædi er þar selur nægri enn í nockru landi ödru og líka kunna Grænlendíngar margskonar veidibrellur, er ödrum eru lítt tamar. Margskonar hvalir eru einnin í Grænlandshöfum og skutla landsmenn þá til hlýtar, þótt lakligar þýki tilfærur þeirra til þvílikra stórveida; verda því danskir, enskir og hollendskir hvalafángarar, er þángat sækia öllum sumrum, þeim fengisælli, med því þeir hafa áhöld betri og traustari útbúnat.

Af Grænlandi flýtst: hval- og sel-lýsi, skidi, refa-, sela-, reindyra- og hera-skinn edr stökur og biarnarfeldir, ædardún, fidur, ull, einhyrníngshorn, rostúngstennur o. s. frv. En varníngr sá, er þángat flýtst er margskonar: t. d. járn og tiara og vidr, þann sem þeir skulu giöra hús af, lérepti og dúkar til nærfata, sokkar med ýmsum lit, ýmislig tól og verkfæri: knifar, sagir, nálar, aunglar, speiglar og margskonar smákiatr, kistur, katlar, föt og skálar af eyri og piátri, brennuvín o. s. frv.

Grænlendingur kalla sig Innuit (mann-eskiur), en vær köllum þá Skrælingia og hafa þeir kyn sitt at rekia til Eskimóa. Þeir eru lágir menn vexti, allvel limadir og þrekligir, breidleitir og varaþyckir, södulnefiadir og blakkleitir, hára-brúnir og nokkut augndaprir,

og eru manna ófriðastir sýnum. Þeir unna mieg fósturjörðu og una illa í öðrum löndum. Þá Danir tóku fyrst bólfestu á Grænlandi, vóru Skrælingar hérumbil 10,000 at tölu; en í bólusótt þeirri, er grænlendskr piltr nokkr flutti þángat 1733 fækkaði lýðrinn svo mieg, at síðan hefir ei manntalit náð sér og nú mun þar varla yfir 6000 innfæddra.

Lifnaðarmáti Grænlendínga er einfaldr miög og litt saminn at hátium þióða þeirra, er siðaðar kallast. A sumrum búa þeir í tiöldum, er giörð eru af skinnum; en á vetrum í jarðhúsum, er þakinn eru hellum og mosa og búa þeir hvervetna í sambýli. Þeir lifa mest við fæðu, tekna af dýraríki og villibráð, t. d. við kiöt, svosem hreinabráð, þvesti og rengi og selkiöt, er heim þykir mata best, og þeir snæða mest matar. Þeir eru gefnir fyrir brennuvín og tóbak og þykir þeim hverttveggia hnossgiætt. Föt giöra þeir sér af dýraskinnum, og hafa þeir góð tök á at tilreiða skinnin og sauma svo vel, at vatnsheld eru fötinn og snilliliga giörr. Störf þeirra eru sérilagi dýraveiðar á sió og landi og eru þeir manna veiðnastir og margslúngnastir við veiðar. Bátar (húðkeipar) Skrælinga eru með tvennu móti, stórir og smáir og eru hvorutveggiu giörfir af grinda-verki og súðaðir utan með selahúðum; á enum stærri flytiast þeir með hyski sinu og fiárhluta frá einum stað til annars og kallast þeir Konubátar; þá brúka menn einuin til stórveiðanna, þeim róa qvennmenn einir, en aldrei karlmenn;

þvi þat verk þykir þeim svívirdiligt; en veidibátar þeirra eru miklu smærri, þeir eru lángir (9 álnir) og mióir (3 qvartil) og miøg stafnhvassir og byrgdir edr luktir at ofan, med gati svo stóru á midiunni, at einn madr gétr at eins setit í bátnum, er at sér dregr vendiliga ølluneginn, svo ei gángi siór í bátinn, þótt á gési. Þessum bátum róa karlmenn einir, einn hverium, med einni ár, sem er rúmr fadmr á lengd og er blad á bádum endum, er þeir dísa í á víxl; mega þeir þannin vel fara 10 til 12 mílur á einu dægri; á þeim fara Grænlendíngar, hafandi gaflok edr spiót eitt vopna á sela- og fugla-veidar og eru á sæ úti í ofvidrum og ólgusió; þvi þótt undir þeim hvolfi, hafa þeir sérligt lag á ódara at reisa sig vid aptr; verdr þvi sialdgiæfari mannskadi, enn menn hyggia mundu. Ekkert dýr er Grænlendingum svo þarft edr notadriúgt, sem selurinn: vid kiøtit fædast þeir, af spikinu brada þeir lýsi, skinnit hafa þeir til fatnadar, tialda og báta, sinar til seimis, garnir til skiáa, maganna til lýsis-iláta. Af fuglahømum sauma þeir sér feldi, er kallast fuglahamsfeldir.

Karlmenn hafa, þá þeir eru í landi, eigi ødrum ønnum at gégna, enn þeim, er vidkoma veidum og fiskiskap, t. d. at smída og endrbæta báta, boga, pílur, gaflok, stingi og ønnur veidarfæri; en alt annat annvirki mega qvennmenn starfa, húsa og hýssa at híbýlum, sauma fatnat og skó; eru þau hvorutveggiu einkar lagvirk, ei konur sídr enn karlar til þeirra starfa, er at landsveniu, er hvoriu þeirra úthlutat og er

verklag þeirra og handidnir vandadar og at vísu snilliligir.

Danir og Hernhúttingar hafa bodat Grænlendingum rétta trú og hafa margir at því snúist og skírast látit; einkum verdskuldar Egedis prests framqvæmd og otula manuúd í þvi efni lof um alla æfi. Þeir ámedal Skrælinga, sem ei hafa snúist til réttrar trúar, hafa ýmsar fiflsligar fræddur og hiátrú um álfa og anda í log og lopti; þó trúa þeir, at nokkursfonar ædsta vera sé til og at sálin lifi eptir daudan og þá sé betra lífs at vænta. Istadinn fyrir presta, er flestar heidnar þiódir hafa, eru galdramenn á medal þeirra, er Angekutar kallast og eru þeir margslúngnir miog í tofrum og kukli, telia landsmannnm sinum trú um margskonar stórmerki og fréttaspurn af ondum og vidhalda á þann hátt hiátrú og villudómi medal alþýdunnar; svo ei verdr kristnibodurum þar svo ágengt, sem skyldi; þat ber einnin til þess, at klerkarnir eru útlendskir menn, er sialdan eru þar svo lengi, at til hlýtar numit fái ena grænlendsku túngu, og láta því litt mentada landsmenn, optsinnis um of, létta undir byrdina med sér. Grænlendskan er eingu máli lik i Nordrálfu heims; þó finnast í henni fá norræn ord, miog biogut; hún er þúngnumin miog og vandlærd.

Skíringargr. Eirikr raudi fann (982) og bygdi fyrstr Grænland, var þar í 3 vetur og kannadi þat, hvarf hann þá aptr til Islands, og kalladi land þat, er hann fann, Grænland, því

hann sagdi, menn mundi þángat miög sŷsa, ef at landit héti vel; fór Eirikr í annat sinn þángat 985 og 25 skip af Borgarfirdi og Breidafirdi og komust 14 út auk allmargra íslendskra manna, er námu land bædi hit eystra og vestra á landinu og ráku þángat kaupferdir bædi Nordmenn og Íslendíngar um lánga æfi. Leifr hinn Heppni, son Eiriks rauda, tók vid kristni i Norvegi, og sendi Olafr kóngr Tryggvason hann sama ár og kristni var løgtekin á Íslandi, til Grænlands at boda þar rétta trú. Á Austurbygd bygdu menn kyrkiur og klaustr og var Gardr hofudból þar og sídan (1024) biskupsstóll unz hinn sídsti biskup á Grænlandi deydi, er sendr var þángat 1406, vóru þar þá 12 kyrkiur, 2 klaustur og nær 200 bændagardar. Á vestri bygd segia menn verit hafa 4 kyrkiusóknir og hérumbil 100 bæir, og at Skrælingar, er í øndverdu bygdu landit, hafi á 14 øld þeim, er þar biuggu, bana unnit, og giørsamliga eydt bygdinni. Seinna meina sumir menn at Austrbygd sé eydiløgd af svarta dauda, þá drepsótt þessi, og afleidíngar hennar, samt ýmsar stiórnarbytlíngar og styrialdir á Nordurløndum hømludu siglíngum miøg og ollu því at þat gékst íminni af leita Grænlands; var þat þá um lánga æfi at eingin fór þángat, er hefdi sannar søgur af landinu; en þat hafa menn fyrir satt, at Austrbygdinn var vid lídi hérumbil 1540 edr nær 150 ár eptir at menn hættu at fara út þángat og ei eru sumir órkula vonar um at þar séu enn þá leifar af Íslendingum, er fyrst bygdu

Grænland. At 100 árum lidnum eptir at siglingar þángat hættu, systust ýmsir at leita Grænlands, má þartil fyrstan telia Eirik Valkendorff erkibiskup í Þrándheimi; en úvíngan sú, er hann kom í vid Kristián konúng 2 tálmadi áformi hans. Kristián 3 setti á stofn áform Fridriks 1ta og sendi skip til at leita landsins, en þat kom ei í landsýn vid Grænland. Fridrikr 2, sonur hans, sendi 1578 frægan stélkappa, Mogens Heinson at nafni, í landaleit; hann komst eptir lánga og harda útivist undir Grænland, en nádi ei landtökum sokum hafísa, en hafdi mikit at segia af undrum í Grænlandshöfum. Sama ár og aptr árit eptir sendi Elizabet meykóngr á Englandi Martein Torbisser at leita lands þessa; hann fann þat, byggt af villimönnum, er höfdu skrúdbúin konúng yfir sig settan; hann fann þar afarmikinn silfursand; en úlíklig þykir saga hans. Mest vard Kristiáni kóngi 4da ágengt med leit landsins; hann sendi 4 sinnum skip þángat, nl. 3 skip 1605 og réd fyrir þeim Godske Lindenov, og árit eptir 5 skip undir herstiórn ens sama, er nádu Austurbygd, eptir sem sagt er, (þó þar leiki efi á) og fundu þar villimenn eina og áttu nokkurn kaupskap vid þá; hann sigldi fyrir höfdann Farvel í hverttveggia sinn og fann þar vída hafnir gódar og fögur engi; seinna sendi kóngr Richard med 2 skipum, en hafís bægdi hönum frá at taka höfn vid Grænland, og 1616 sendi han Munk at leita lands þessa og jafnframt at finna sióleid frá Grænlands:

þøfum til Asia; allar þessar tilraunir hins mikla konúngs fullnægdu litt ósknm hans og áformi, því ei urdu menn frédari um Eystribygdina, né um þat, hvert afkomendr enna fornu landsmanna vóru þar lifs edr lidnir; félag nokkurt útbió 1636 tvø skip, er tóku land á Vestribygd og áttu kaup v.d Skrælinga. Í tid Fridriks 3 fór David de Nelles til Grænlands (1654) og Kristián 5ti sendi Axelson 1670, og komu þeir bádir vid Vestribygd. Loksins áfýsti Egede, prestr í Vogum á Hálogalandi, verslunarfélag nokkurt í Biorgvini, at útbúa skip til Grænlandsferdar 1721, og fór hann siálfr med því út þángat, med konu sinni og hyski. Vóru þar þá nýlendr stiftadar og kauptun giørd. Egede dvaldi þar í 15 ár og snéri allmørgum Skrælíngium til réttrar trúar; hann var hinn fyrsti biskup lútherskrar trúar á Grænlandi; eptir hann kom sonr hans Páll, er setadi trúliga í fødursins fótspor.

Frá jardeignum Dana-konúngs í ødrum heims-álfum skal sidar skirt verda.

# II. Norvegur (Norge, Norvegia).

Svoleidis hafa menn frá alda ødli kallat land þat, er lengst allra landa geugr í nordr í nordurálfu heims. Norvegr er afarlángt land í út og sudr, og beygist hann austr ávid, þá nørdr eptir dregr; at sunnanverdu er hann breidr, en miótkar þvi meir sem nordar kémr. Hann er ásastr vid Sviaríki hit eystra, hvar fiallgardr mikill, er Kiølur heitir, skilr lønd þessi; en nordast nær Norvegr í austr til jarldæmis þess í Rússaveldi, er kénnt er vid Arkangel, edr kallast hit rússiska Lapland. Fyrir sunnan Norveg gengr Jótlandshaf, en hit vestra Nordr-siórin, er fyrrum kalladist Sólundarhaf edr Vestrasalt, og at nordanverdu Ísa- edr Dauda-hafit.

Land þetta er 240 milur á leingd (frá 57° 50′ til 71° 12′ nordl. br.) þá menn mæla þat eptir réttri siónhending, edr taka beina stefnu frá Lidandisnesi til Nordrhøfda; hvat breidd þess snertir, er hún ýmislig og ójøfn; þvi þar sem þat er breidast, er þat 60 milur, og 9, þar sem þat er mióst; at stærd er Norvegr hérumbil 7558 ferh. milur, edr meir enn 7 sinnum stærri enn heila Danmørk.

Í Norvegi er hálendi mikit, fiøll mørg og

þá, og við siáfarsíðuna allmargar ógurligar þverhnýptar fiallagnýpr og ýmisliga lagaðir drángar; varla finnst nokkurt land í heimi svo vogskorit sem Norvegr; því traudla má telia firði þá, víkur og voga, er gánga inní landit, né nes þau høfða og túngur, er skaga úti hafit; sama má og segia um tølu eya og hólma, dránga og skéria, sem með øllu eru óteliandi; má þaraf ráða, at kunnugir meiga þeir formenn vera siólciðinni við Norveg, er voga at sigla með strøndum framm eðr leggia at landi þar; með því sú leið er skiput mørgum torsærum, víða hafnleysur fyrir stafni og allvíða er inn‑siglingin ásar háskasamlig og þraung ímillum grunna, boða og skéria; en þá inn fyrir þau er komit, er hafsólgan minni og víða góðar lendíngar og tryggar hafnir; allvíða gánga frá landi rif, skériagarðar og grynníngar í haf út, og eru á þeim fiskimið góð. Víða skémta føgur fiøll og gróðurríkir dalir, blómligar hæðir og grøsugt flatlendi augum ferðamanna í landi þessu, er undireins siá klettum og jøkli‑krýnda fiallatinda, og heyrir dunur øgurligra forsa og nið strídra vatnsfalla, er með hraðri rás brúsa framm úr giliúm og gliúfrum. Fiallshlíðarnar eru hit neðra skógivaxnar og forkunnar sagrar, og sumstaðar eru víðlendar ís‑ og snió‑breiður (Gletscher) at líta, er

aldrei þydna. At vísu veitir landslagit á ýmsan hátt mikin hagnat landsmønnum; en þó ollir þat þeim ástundum mikils tiøns, óhámingiu og jardusla, er hrædilig snióflód og skridur, jøkulhlaup og ágángr vatna ei siáldan valda.

Fiøllin í Norvegi eru, sem í ødrum fiøllóttum løndum, annattveggia fiallgardar edr einstøk fyrir sig; má ámedal enna fyrrnefndu telia þessa, er mest þykir atqveda:

1. Kiølriun (Kiölen), hann byriar vid Varángr í Finnmørku nordr og gengr hérumbil 150 mílur í sudr, alt til takmarka Prándheims- og Christianiustiptis; þar klofnar hann og verda úr hønum tveir fiallgardar, kallast sá sem gengr sudr eptir landinu og heldr sømu stefnu og Kiølurinn 2. Sevebiørg (er ýmist kallast Rúdfiøll, Súlafiøll og Skarafiøll), er adskilia Christianiustipti og Sviariki; en hinn kallast 3. Dofrafiall (Dovrefield), er gengr 20 mílur í vestr á Prándheims- og Kristianiu-stiptis landamæri, allt til siáfar í Raumsdal; hærsta gnýpa fialls þessa er Snæhetta kollut, sem er 8000 rínlendsk fótmál á hæd frá siáarhæd; hafa menn haft þat fyrir satt, at hún væri hveriu fialli hærri í Norvegi; þó er þat á seinni tídum meining manna, at til séu hnúkar hærri í Biørgvinarstipti. Frá Raumsdal gengr fiallgardr mikill í sudr, er 4. Lángafiall (Langefjeld) er kallat; þat er 70 mílur á lengd og endar sudr á Lidandisnesi; þat er 12 til 14 mílur

á breidd og skilr þat Kristianiu- og Biørgvínar-stipti; menn gèfa því á ýmsum stødum ýmislig nøfn, t. d. Sognafiall, Filafiall, Hardángurs-fiall, Hauglafiall, Foglafiall o. sv. frv. 5. Ty-dalsfiall í Þrændaløgum, er hérumbil 7 mílur í austr og vestr.

A Dofra- og Lánga-fialli og í ødrum fiallbygð-um, hvar þióð- edr kónga-vegir eru lagdir, eru sæluhús (Fjeldstuer) bygd ferdamønnum til íbúdar og líknar, þá þørf krefr.

Medal þeirra fialla er einstøk standa, má þessara hér géta: Skopshorn á Sunnmæri í Biørgvínarstipti er miøg há gnýpa, er til-syndar lítr út sem kastali med mørgum støpl-um. Raumdalshorn, svo kalla menn feikna háa fiallsgnýpu, sem álengdar líkist sívølu horni og eygia má 16 mílur þadan í hafi úti. Torfa-hattr (Torghatten) á Torfaeyu í Nordrlanda-stipti; hann er lángt frá til at líta sem efri hluti mannslíkneskis med hátt á høfdi, igégnum hann er siálfgiørdr gángr, sem er 50 fadma á hæd og 1000 á leingd; á hønum mida far-menn og fiskarar.

Merkustu høfdar eru:

1. Lídandisnes (Lindesnæs, 57° 50′ n. br.), þat er hinn sýdsti oddi á Norvegi; þat er áfast vid meginlandit (ɔ: Listerlandit) og geugr miór grandi milli þess og høfdans, er Spáng-areyd heitir. 2. Stadr (Stat, 62° n. br.) er hinn vestasti oddi landsins; hafit 10 mílur í grend vid høfda þennan, kallast Stathav. 3. Nordrhøfdi (Nord-Cap, 71° 12′ n. br.) er hinn nordasti útskagi í nordrálfu heims.

Af þeim afarmørgu fiørdum, er ſkérast inní landit, má þeirra hér géta, er meſtir eru og gánga lengst inn, nl. 12 til 20 milur, og er þá fyrst at telia: a) í Kriſtiániuſtipti: 1. Kriſtianiufiørdr (er fyrrum var kéndr vid Opslo og í forntíd kalladist Fold edr Foldin), frá eyunni Færder gengr hann 12 milur í nordr inní landit; þar ſem hann er breidaſtr er hann 3 milur; þá nordr eptir dregr, ſkiptist hann í 2 firdi og kallast ſá veſtri 2. Dramsfiørdr og beygist hann nokkut veſtr á vid. 3. Svinaſund gengr í auſtr allſkamt inní landit; þat er miótt og eru há fiøll umhverfis þat. 4. Skenfiørdr hverfr inní landit fyrir veſtan Foldina. Allir þeſſir firdir hverfa inn af nyrdri hluta Jótlandshafs edr flóa þeim, ímillum Kriſtiánsſandsſtiptis og Báhúsléns í Svíaríki, er á fyrri døgum kalladist Víkinn. b. í Kriſtiánsſandsſtipti: 5. Stafángursfiørdr gengr inn frá Sólundarhafi; hann ſkiptist í marga minni firdi, t. d. Hafurs- edr Bukka-fiørd, o. ſv. frv. c. í Biørgvinarſtipti: 6. Hardángursfiørdr, ſunnarliga í ſtiptinu, hann er 12 milur á lengd; nordar er 7. Sognafiørdr, ſem er 16 milur á lengd, bádumegin af hønum hverfa firdir inní landit, ſem qviſtir af tréból; nordar er 8. Stórfiørdr á Sunnmæri, 8 milur á lengd. d. í Prándheimsſtipti: 9. Raumdalsfiørdr, í hann renur Raumdalsá. 10. Prándheimsfiørdr gengr 20 milur inní landit; innst kallast hann Beitſtadfiørdar; nordar er 11. Veſt-

fiørdr, hann er 10 til 12 mílur á breidd og gengr hann í landnordr milli meginlands og eyaklasa at vestanverdu, er kallast Lófótr; nordar er: 12. Saltenfiørdr hann er 10 mílur á lengd; nordastr er: 13. Varángursfiørdr, er gengr frá Daudahafi fyrir austan Nordrhøfda inní Austr-Finnmørk, og skilr hann, svo lángt sem hann nær, Rússaveldi og Norveg.

Harla nafnkénd er hafydan edr røstin vid eyarnar Moskey, Værey og Røst, er liggia vid Vesturfiardar-mynni vestanverdt og tekr røstin nafn af fyrstnefndri ey og kallast Moskeyarstraumr (Mostöeström, 67° 40′) med ógurligu falli fyllir straumurinn í røst þessari rásir sinnar í nordr og eins lengi í sudr med hvøriu siáfarfalli og vogar þá eckert skip yfir at leggia edr í nánd at koma; en um flód og fiøru edr um liggianda minkar siáfar-ólgan og súgurin og røstinn liggr nidri, og má þá yfir hana sigla, þó þarf þar ávalt mikla forsiá fyrir at hafa. Ei vita menn dæmi til, at skip, sem stødd hafa verit í røstinni um þat tímabil, þá ókyrrleikr hennar er sem mestr, hafi frelsast og fer þat at líkindum, þar hvalfiskar drepast í henni, og stór-tré, er straumrinn rífur med sér, finnast mulinn ísundr, sem mølut væri; kallast því hafsvelgr þessi Malstraumr, med því at ydu kastit snýst íhring og sogar alt, sem nálægt er, í sig og mylur edr malar þat í smá-mola.

Allmørg eru støduvøtn í Norvegi, og eru sum af þeim miøg stór og øll góð veidivøtn. Þau stærstu eru:

1. Miörs (Miösen), þat er mikit vatn og liggr í út og suðr, 12 milur á lengð, og þar sem þat er breiðast fimm fiórðungar úr milu á breidd; norðar og austar er: 2. Fæmundsiór á Sviaríkis landamæri, hann er helmingi styttri og nokkut miórri. 3. Rand (Rand eðr Randsfiord) fyrir vestan Miörs; þar drukknaði Hálfdán konúngr svarti niðr um ís, sem segir í sögu hans. 4. Eyavatn (Öyeren) fyrir austan Foldina, þat er 4 milur á lengð. 5. Litli-Miörs, umhverfis hann eru háar gnýpur og fiallaklosar og er optsinnis áhætta yfir hann at fara, sakir hvirfilvinda; og 6. Sælubúsiór í Þrándheimi, 3 m. á lengð.

Um allflest stöðuvötn í Norvegi má á skipum fara. Á sumum þeirra eru flotahólmar, sem eru 60 til 80 fóta á lengð, er flióta ofaná vatninu, og berast hingat og þángat fyrir vindi og straumi; á þeim vaxa grös og tré.

Í Norvegi eru afar-margar ár og elfur, sem bæði eru vatnsmiklar og stríðar; þær mestu hafa upptök sín í Þrándheimsstipti og í nyrðri hluta Kristianiustiptis, hvar hálendit er mest og jöklar flestir. Þær merkustu elfur eru:

1. Glaumá (Glommen), upptök hennar eru í fiöllunum fyrir austan Reirás í Þrándheimi, hún rennr ígégnum Eyrasundsfiöin og þaðan í suðr eptir Austurdal, Oudal og Sóleyum, framhiá Kóngsvínger og Blákieri og beygist hún þar vestr á við og verðr þá fyrir henni: 2. Varmá (Vormen) er rennr í hana og kemr úr suðri frá Miörs; eptir at þær eru komnar saman

kallast vatnsfall þetta Raumá edr Stór-elfa og er þat afarmikil stór-á og vatnsmikil; Raumá rennr í Eyavatn og úr því aptr í sudr til siáfar i Vikina edr Jótlandshaf vid Fridrikstad. 3. Varmá edr Lougen rennr eptir héradi því endilaungu, er Gudbrandsdalr heitir, i sudaustr frammhiá klist því edr einstig, er Kringelen er kalladr, og fellr at lyktum i Miørs, úr hvørium hún rennr, sem fyrr segir. 4. Dramselfan, sem rennr úr vatni því, er Tyrsfiørdr er kallat, og kémr hún til siáfar i Dramsfiørd vid Bragarnes og Straumsey. Í téd vatn rennr Beina-elfa, er fellr undan Filafialli; þessar ár eru bádar ásamt 33 milur á lengd. 5. Loven kémr frá nefndu fialli og rennr eptir Nummudal i sudaustr frammhiá Kongsbergi og kémr til siáfar í Lárvíkurfiørd. Héradauki eru þessar ár i Norvegi, hvørra, þótt minni séu enn þær, sem frá er skírt, hér ber at géta: 6. Nid (Nidelven) kémr frá Jamtalandi, hvar hún kallast Neaelv; hún rennr ígégnum Sœlbúsióinn; í henni eru 8 forsar allmiklir; medal þeirra eru 2 mestir, nl. Stórt Leir- og Trang-forsinn. Nid kémr til siófar í Prándheimsfiørd. Í sama fiørd fellr 7. Gula-elfan, er rennr úr vatni nockru vid Skardsfiall, er kallast Gulsiór. 8. Namsá (Namselven) rennr frá Namsió á Sviaríkis og Nordrlanda takmørkun, hún er eitthvørt hit mesta vatnsfall nordanfialls i Norvegi; i henni er fors afarmikil, er Fiskumfors heitir; hann er 78 álnir á hæd, nidur af því nær þvergnypt-

um kletti og heyrist nidur hans 2 mílur á brott. 9. Mandalselfan rennr eptir Mandal og úti Nordrsióinn, þar er lax-veidi mest í Norvegi. Auk þeirra forsa, sem nefndir eru, má géta Sarpforsins (Sarpen) í Raumá, vid bæ þann, er á Hafslandi heitir, 1 mílu frá sæ; hann er hinn nafnkéndasti í Norvegi og feikna mikill; heyrast dunur hans 1 mílu burtu og leggr reyk allhátt í lopt upp, at í nokkurri fiar-lægd má líta. Fors þessi setr 24 sögunarmylnur í gáng.

Ei eru elfurnar í Norvegi skipfærar utan upp eptir ósunum fyrir sakir forsfalla og gliúfra, þær eru einnin strídar miøg, vída stórgrýttar og renna í þraungum farvegum; þó eru allvída lygnur og hyljir, hvar á bátum má yfirfara; en þótt þetta sé landsmønnum miøg til óhagrædis fremr enn í ødrum løndum, nota þeir ei at sídur hardstreymi þeirra; þvi á vetrum flytia bændur vid at ánum og á vorum, þá leysa tekr, varpa hønum í þær, er sídan bera hann til stranda nidr, edr þángat, er henta þykir. Fyrir nedan forsana safna menn timbrinu saman á vissum stødum, er kallast Lænser (: þver-slár yfir elfurnar). Nokkur 100 sögunarmylnur eru vid forsana, er setia sagirnar í gáng.

Landslagit edr fiallgardar skipta Norvegi í tvo hlúti, og kalla menn þann hluta landsins, sem liggr fyrir nordan Dofrafiall og fyrir vestan Filafiall: nordanfialls (det Nordenfjeld-ske); en þann, sem liggr fyrir sunnan og austan

téð fiöll: sunnanfialls (det Söndenfjeldske). Í hvörium þessara eru mörg minni, eptir snðverðligri sköpun, landsins asmörkuð hérud og sveitir, er allvídast kallast dalir, t. d. Gudbrandsdalr, Raumsdalr, Austrdalr, Nummudalr, Orkadalr, Gulardalr, Veradalr o. sv. frv.

Af veraldligri valdstiórn er Norvegi skipt í 4 stiptamtmannsdœmi, 15 amt og 45 fógetadœmi. Í tilliti til laga umdœmis er hönum skipt 9 lögdœmi og 51 sýslur, er kallast þar Sorenskriverier. Fógetadœminn og sýslurnar greinast aptr í smærri parta, nefniliga í þinghár og skipsagnir. Í tilliti til kennimannligrar stiórnar er landinu stipt í 5 biskupsdœmi, 44 prófastsdœmi og 330 prestaköll. Sunnanfialls í Norvegi eru 2 stipti, nl. Kristianiu-stipti, sem einnin kallast Aggershúss-stipti og 2. Kristiánssands-stipti. En Nordanfialls eru: 3. Biörgvinar-stipti og 4. Prándheims-stipti og 5. Nordurlönd.

## A. Kristianiu-stipti.

Svo kallast hinn sudaustlægi hluti landsins, umkríngdr af fiöllum á þriá vegu og af þeim adskilinn frá Sviaríki hit eystra, frá Prándalögum hit nyrdra, og at vestanverdu frá Biörgvinarstipti, en hit sydra er Jótlandshaf edr Víkinn, af hvörri sydsti hluti stiptisins edr lönd þau, er liggia nær siö,

fékk nafn og kallađist Víkinn. Stiptit er 1798 ferhyrndar mílur á stærđ og fólkstalan í því er hérumbil 378,600; má þaraf siá at þat er allra stipta stærst og fióllbygdast í Norvegi. Þat er greint í 5 heil og eitt hálft amt, er heita: Aggershúss- Kristiáns- Heidmerkur- Búskeruds- og Smáléna-amt, samt helmingr Brattsbergs-amts, ásamt 2 Greifadœmum. Þar eru þessir stađir:

Kristiania (Christiania, 59° 55′ 20″ nordl. br. og 28° 28′ 30″ austl. lengd.) í Aggerhúss-amti, vid botninn á firdi þeim, er tekr nafn af stađnum, 65 mílum nordar enn Kaupmannahöfn; þat er ei alleina höfudstađr stiptisins, helldr og giörvalls ríkis þessa, heimili stiórnarráds, medlima, stiptamtmanns og stiptsyfirrétt-ardómara. Í stađnum eru 12 stræti, er gánga í út og sudr og 13 þverstræti, 1600 hús, og vid hann 4 forstađir; þar er háskóli, er kóngr vor Fridrikr 6ti stiptadi 1811 og sem tekr nafn af stiptaranum, stólsskóli, hermannaháskóli, dómkyrkia, rádhús, spitali og tugthús, í hveriu allmikit les og ullarklædi eru unnin; þaradauki eru þar ýmisligir verkstađir, hvar klædi og margskonar vöruſmídi er giört; þar er og allmikill kaupskapr, og ei eru færri enn 100 skip í förum, er stađarmenn eiga, og fara til annara

landa járn, gler og timbr, auk annars varníngs; þar eru 12,000 innbyggiara.

Opslo edr Osló, er nú almennt kallast hinn Gamli-býr, liggr vid Biørvik austanverda, sami frá Kristiania; þann stad lét Haraldr Hardrádi giora 1060; var þat heimili ýmsra konúnga og ríkisins høfudborg, unz hún brann 1624, at undanteknum biskupsgardinum, hvar ávallt hefir verit biskups adsetur, sem á vorum døgum. Aggershús er stakkastali at vestanverdu vid fiørdinn og liggr hann svo vel fyrir borginni, at kúlurnar frá kastalanum géta flogit eptir strætum hennar endilaungum. Skamt frá borginni er Egeberg, þar er álúns-verk. Drøbak er allgódr verslunar- og hledslu-stadr, at austanverdu vid fiørdinn, 4 mílur frá høfudborginni. Í tédu amti eru 4 járnnámur (járnverk), sem eru kéndar vid Bærum, Dikkemark, Hakkedal og Eidsvold, hinn sídstnefnda er skamt fyrir sunnan Miørs, fundin á 16du øld, fyrri enn hvør hinna.

Fridrikshald, í Smálena-amti, 12½ m. í sudaustr frá Kristiania, vid Svinasund, bádumegin vid Tistedals-á, er rennr þar í fiørdinn, yfir ána er brú 300 fadma á lengd. Þar er allmikil timburhøndlun og heimili 3000 innbúa. Býr þessi hét fyrrum Halden og var þá ómerkiligr og litill, unz Fridrikr kóngr 3 gaf hønum kaupstadarrétt at launum fyrir hrausta vørn bæarmanna móti Svium frá 1658 til 1660.

Í nánd við býinn er rambygðr fiallkastali, er kallast Fridriksteinn; þar féll Carl 12 Svíakonúngr 11 Decbr. 1718. Fridriks-stadr, 10 mílur fyrir sudaustann Kristianía, þat er litill og fagr kaupstadr við Stórelfu ósa, bygðr af Fridriki 2 í stad Sarpenborgar edr Sarpsborgar, er Svíar brendu í þvi svo kallada danska 7 ára stridi. Þar eru 2000 innbúa, er versla mest med timbur. Umhverfis býinn eru 4 varnarvirki. Moss er litill kaupstadr og miøg gamall, vid Kristianiufiørd austanverdan, 7 mílur fyrir sunnan høfudborgina; þar er járnnáma mikil og 1300 innbúar. Í Heidmarkar-amti, er liggr fyrir austan Miørs og er hit kornríkasta land í Norvegi, er Kóngsvinger, þat er sterkt landaskila-varnarvirki vid Glaumá. Í sudvestr þadan er skansi vid Raumá austanverda, er Bláker heitir, skamt fyrir nordan Eyavatn.

Fyrir austan Austrdalinn edr Eystridali í nordaustr frá Miørs er fiallbygd sú er Trysild heitir; þar búa nafntogadir skídamenn, sem vídast vid fiallgard í Norvegi; þar eru elgsdyr.

Á Heidmørk vid nyrdri endan á vatninu Miørs stód fyrrum bær mikill og nafnkunnr er hét Stórihamar edr Hamarsbýr (á Hamri) var blómi hans mestr øndverdliga á 14du øld og mikill kaupskapr; þar var lengi

biskupsstóll, kóngsgardr vel giørr og dómkyrkia af hvørri enn má siá autmál, og heimili hérum bil 1800 vopnfærra manna. Sviar eydiløgdu hann i grunn 1567 og bygdu hann nockrir bændur i lángar hridir, unz Kristián 4di giørdi þá skipan, at þar skyldi herrabyli vera; en nú er mikill hluti jardeignanna, er lâu til, seldr.

J Kristiáns-amti, fyrir nordan og vestan Heidmarkar-amt, er sveit sú er **Toten** heitir, fyrr. **Þotn**, vid Miørs vestanverdau; þar eru gód kornlønd. J þessu amti er **Gudbrands-dalrin**, mikill bygd og fiølmenn, fyrir austan Austurdal, nordr undan Miørs. J dal þessum vid Breiden er klif nokkurt edr einstígr, er kallast **Kringelen**, hvar bændur frá nánustu sóknum (Lessey, Vage, Lóm, Froen og Ringbui) hiuggu nidr i strá 900 Skotta, ásamt ofursta þeirra, Georg Zinklar; hafa menn reist þar minnisvarda, hvar fundrinn var; med því þetta telst medal enna mestu hreystiverka, þar lidsmunr var mikill og Nordmenn vóru lítt búnir at vopnum. J amtinu eru tvø glerstøypuverk, sem kénd eru vid Hadaland og Biri.

J Buskeruds-amti, fyrir vestan Aggershúss-amt, er: **Drammen**, 4 mílur i sudvestr frá Kristiania; svo kalla menn tvo kaupstadi, er standa sinn hvøriumegin Drams-fiardar, nefnil. **Bragarnes** at nordanverdu og **Straumsey**, gagnvart, vid fiørdinn sunnanverdan, ásamt toll- og hledslu-stad þeim, er heitir **Tángi**, skamt fyrir sunnan Straumsey. J Drammen

eru 5500 innbúar, sem idka verslun og kaupferdir. Frá eingum stad í Norvegi flytst svo mikit timbur, sem þadan. Þar er latinuskóli, sem er nýliga stiptadr. Kóngsberg, 4 milur í nordvestr frá Drammen, bádummegin vid Lovenselsu, med 4000 innbúum.

Þat er bergstadr edr silfurbergverk; menn, er giættu fiár, fundu fyrst silfurbergit edr silfuræðarnar 1623, þá Kristián 4di sat at ríkinu; var þá strax bergfólk tilfengit frá Þýdskalandi at setia verkit á stofn. Í mörg ár létu Danakonúngar leggia stund á silfurleitina á eiginn kostnad; en ei svaradi ávalt ávinníngurinn kostnadinum. Þat er sögn manna, at þadan hafi komit 25 milliónir ríkisdala í kóngsgard til 1790, auk mikils kopars. 3000 verkmenn unnu at því í senn, og ei þurfti minna elldsneyti á ári hvöriu, enn 5000 lestir kola og 8000 fadma vidar. Skömmu eptir at silfurbergit fannst, hittu menn þar gull, af hvöriu nefndr konúngr lét mynta gullpeninga þá, er brilludúkatar vóru kalladir (því á þeim stódu brillur edr gleraugu). Um hríd hefir þat vanrækt verit; en sídan höfdíngiaskipti urdu í Norvegi, hafa menn freistat, hvört grant væri leitat, og hefir þat farit likvænliga at stofni. Í þessu amti, 1 milu frá Drammen, er marmaranáma, vid Giellebek; þadan er verkefnit i enni svokölludu marmarakyrkiu í Kaupmannahöfn; samt Hassels, járnverk, í gódri kornsveit, er Eger heitir.

1. Jarlsbergs greifadæmi liggr fyrir

vestan Kristianiufiordinn; þat er hérumbil 27 ferh. milur á stærd og hefir 25,800 innbúa. Þar er: Túnsberg (Tönsberg), 10 mílur í sudvestr frá Kristiania, vid fiord nokkurn, er tekr nafn af býnum; þat er hinn elsti kaupstadr í Norvegi; þar eru 1500 innbúa. Og Hólmastrønd, er stendr nordar vid sama fiord, lítill og snotr kaupstadr med rúmum 800 innbúum; í nánd þarvid er marmaranáma. Á Valley í Kristianiufirdi, hálfa mílu frá Túnsbergi, er konúngligt salltverk, er árliga gefr af sér hérumbil 20,000 tunnur salts, er menn tilreida af sævatni, sem pumpast 270 álnir hátt frá sæ. Í greifadæmi þessu er og járnnáman at Eidsforsi.

Jarlsberg, er fyrrum kalladist Túnsbergslén, giordi Kristián kóngr 5ti at fríu Rikisgreifadæmi og kéndi þat vid Griffenfeldt, med því hann veitti þat rádgiafa sínum, er svo hét, at léni. Þá Griffenfeldt kom í ónád konúngs, var þat frá honum tekit og lagt til Lárvíkur greifadæmis. Seinna vard Gyldenløve eignarmadr þess, er seldi þat med konúngs leyfi; breyttist þá nafn þess, og hefir sídan kallast Jarlsberg.

2. Lárvíkur-greifadæmi (Laurvig) fyrir vestan Jarlsbergs-greifadæmi. Lárvik er lítill kaupstadr, 13 milur í sudvestr frá Kristiania, vid vik nokkra, af hverri býrinn tekr nafn; þar

eru 2500 innbúar. Járnnáman í Lárvík er hinn mesta og arðsamasta í öllum Norvegi; þaðan koma árliga hérumbil 31,250 vættir af verkuðu járni. Danakóngur keypti námuna 1796, en nú er hún aptr seld.

Fridriksvørn (Fridriksværn), 1 mílu frá Lárvík; þar er varnarvirki, er Fridrikr 5ti lét giøra; þar byggiast galeiður eðr herskip; er þar einnin góð lega fyrir þau. Færder er eya í Kristianíafiarðar-mynni, á henni er viti.

Í þeim helmingi Bratsbergs-amts, er liggr undir Kristianíastipti og í því liggr amta vestast, eru þessir smá-verslunarstaðir: Skeen, litill kaupstaðr við Skensfiørð; þar eru 2000 innbúar; Porsgrund, sunnar við sama fiørð með 1400 innbúum; Brevik, hvar hin nafnfrægi kappi Cort Adeler er fæddr; Langasund og Krageren, syðst. Frá øllum þessum smá-støðum flytst allmikit timbr, tiara, járn og brýni.

## B. Kristiánssands-stipti.

Á fyrri tíðum kølluðu menn þat Stafángurs-stipti; þat er sá hluti Norvegs, sem lengst skiagar í suðr og er á þriá vegu umflotin, nl. hit vestra, syðra og hit eystra at nockru leyti, einnin liggr Aggershúss-stipti fyrir austan nyrðri hluta þess; fyrir norðan þat er Biørgvinar-

stipti. Stipti þetta er 698 ferh. mílur á stærð, en fólks tala þess er hérumbil 133,600; þat skiptist i $3\frac{1}{2}$ amt; þau heita: 1. Kristiánssands, edr Nedeness-amt, sýdst i landinu; 2. Mandals, edr Lister-amt fyrir vestan hit sídstnefnda; 3. Stafángurs-amt á vestrstrøndinni, og 4. hit hálfa Brattbergs-amt, sem er austasti hluti þess, næst Aggershússtipti. Sveit sú kallast einnin sú efri Þelamørk. Þessir eru stadir i þessu stipti:

Kristiánssandr (58° 7'), vid vik nokkra, 37 mílur i sudvestr frá Kristianía; þat er høfudstadr i stiptinu og heimili stiptamtmanns, biskups og stipts-yfirréttar-dómara; þar er dómkyrkia, stólsskóli, allmikill kaupskapr, gód høfn, hværia ver varnarvirki, er Kristiánshólmr heitir, og skansar nokkrir á Oturey (Otteröe). Kristián kóngr 4di lét reisa bæ þenna af grundvelli 1641 á fløt nokkrum, er Sandr kalladist; i hønum eru nú 7000 innbúar.

Frammundan stadnum liggr Flekkey (Flekkeröe), á hværri fyrrnefndr konúngr lét kastala giøra, er hann kalladi Kristiánsey. Seinna á tídum hefir varnarvirkit Fridriksholmr verit bygdr, er ver høfnina, sem er hin stærsta og besta i endilaungum Norvegi.

Arendalr, 6 mílur i nordaustr frá Kristiánssandi; þat er allmikill kaupstadr med

1600 innbyggiurum vid Nidelfu, yfir mílu frá sæ. Í grend vid býinn eru merkar járnnámur. Austr-Hríseyar (Öster-Riisöer) 4 mílum nordar og austar; þat er allmerkiligt kauptún med 1500 innbúum; þar er gód höfn; járnnáma er í nánd vid þennan bý, kénd vid Egeland. Bádir liggia kaupstadir þessir austanfram i stiptinu vid Víkina. Mandalr, fyrir vestan Kristiánssand, er lítit kauptún og tollstadr vid Mandalselfu. Stafángr (Stavanger), 24 mílur í nordvestr frá Kristiánssandi vid Búkkafiörd (Hafursfiörd), miög gamall kaupstadr; þat var fyrrum biskupsstóll og höfudstadr í þessu stipti; þar er mikil kyrkia og veglig, bygd 1013; hún gengr Þrándheims dómkyrkiu næst at stærd og segurd; þar eru 2500 innb. Þá stadur þessi brann 1686, lét Kristián kóngr 5ti flytia biskupsstólin þadan til Kristiánssands.

Á strøndinni millum Stafángurs og Kristiánssands eru kauptún þessi: Eggersund (Eykundasund), nordast og næst Stafángri, á Jadrinum (nú Jæderen); þat er lítit kauptún og hledslustadr. Framm undan hönum liggr eya sú, er Eggerey heitir og er hún allstór. Fyrir Jadri eru skér mørg og bodar, og því miøg hættusøm leid. Flekkufiørdr, í sveit þeirri, er Dalir kallast; þar er kaupverslun, tilsigling nokkr og fiskiafli. Farsund er sunnar á nesi

þvi, er Lister edr Listerland heitir, fyrr. Vestr-agdir; þat skagar lángt út, og er allángt og blindskér fyrir utan; eru sióferdir hættuligar þari grend vid. Um þessa sveit rennr Hviná, í hværri er fors sá, er Nofors er kalladr; þar er laxveidi gód, en hættulig.

Imillum Lister og Lidandisness er mikil og gód skipaliga vid ey þá, er nú heitir Selley edr Saley, en fyrrum hétu Sæleyar, skamt fyrir vestan nesit. Höfud-bygdarløg í þessum hluta Norvegs vóru: Nordr-Agdir, Austr-Agdir, Vestr-Agdir, Dalir, Jadar og Rygarfylki nord-ast vestanframm. Lister-sveit og Dali skilr á sú er Sýrá heitir; hún er afarstraung og kémr undan Lángastalli, rennr hún um Sýradal í vatu þat, er Lundasiór heitir, úr hønum og af háum kletti í haf út. Amedal eylanda þeirra og út-eya, er liggia umhverfis stipti þetta, þar sem þat nær til siáfar, er ey sú er Karmen heitir, fyrr Kørmt, hin stærsta; hún liggr í nordvestr frá Stafángri og er 9 milur ummáls; á nordr-enda hennar er Øgvaldsnes, er var fyrrum hofgardr og stórbøli; þar sat Haraldr Hárfagri í elli sinni og dó þar 636, og er hann heygdr á Haugum vid Karmt-sund. Þar er enn legsteinn sá, er lá yfir legi hans í hauginum, og er steininn 18 fóta lángr og 4 fóta breidr.

## C. Biorgvinar- edr Bergens-stipti.

Svo kalla menn þann hluta Norvegs, er vestast liggr, fyrir nordan og vestan stipti þau, sem frá er skirt og fyrir sunnan Þrándheims

biskupsdæmi; en at vestanverdu gengr Vestrhafit. Þat er minna enn hvert hinna nefnil., 669 ferhyrndar mílur á stærd; fólkstala þess er hérumbil 154,600. Stiptit er greint i 2 og eitt hálft amt, í 5 fógétadæmi og 1 løgdæmi. Ömtinn kallast: Sydra-Bergenhúss-, Nyrdra-Bergenhúss-amt og helmingr Raumsdals-amts.

Biørgvín (Bergen, Bergenhuus, 61° 15′) er høfudstadr og sá einasti kaupstadr í stiptinu og hinn fiølmennasti stadr í Norvegi, 56 mílur í nordvestr frá Kristiania. Þar er heimili stiptamtmanns, biskups, stipts-réttar-dómara og 19000 innbúa. Stadrinn stendr þremmegin vid botn vogs nokkurs, er kéndr er vid stadinn; en fyrir ofan edr austan býinn eru 7 háar fiallagnýpur, medal hvørra nefna má Fløifiall, Ulriken og Lyderhorn, er tálma hergángi at austan; en ølla og því, at þar er opt þoka og regn. Sæ-meginn verja sterk varnarvirki stadinn, medal hvørra er Sverrisborg og Bergenhúss-kastali; þar er setr høfdingia landvarnarlidsins. Í Biørgvín eru 4 kyrkiur, medal hvørra dómkyrkian (St. Olafs) er allveglig, og 3 trékyrkiur, stólsskóli og allmargar alþiódligar stiptanir. Hvergi er svo mikil kaupverslun og tilsigling i Norvegi, sem í Biørgvín, og allr þorri bæarmanna idkar

kaupskap og hesst miøg við í kaupferdum; þángat sækia strandamenn og Norðlendingar og selia þar skreið, lýsi og adra aura og fá tiland virðis allskonar miølfaung og adrar nauðsyniar sinar; en Biørgvinarmenn flytia afarmikinn hardan fisk til allra landa í Norðrálfu heims, er erlendis kallast Bergenfiskr.

Olafr kóngr kyrri, um hvørs daga miøg hófust kaupstadir í Norvegi, lét setia kaupstad í Biørgvín; giørdist þar brátt mikit setr auðigra manna og tilsiglingar kaupmanna af ødrum løndum; á 15du øld giørdust bæarmenn at nøkkru leiti bandamenn enna svokølludu Hansastada, sem høfdu þar kontór um lángar hríðir, er Eyríkr Danakóngr stiptadi og Christopher af Bajaralandi sæmdi einkaretti 1445; þat køllndu menn almennt hit þýdska kontór, og er þat nú undir lok lidit. 1248 brann borginn med 11 kyrkium, og aptr allmikill hluti hennar 1472, 1623, 1640 og 1702; at mestu øll 1756, og 1771 brunnu 100 byggingar at øsku.

Í þessu stipti er eitt barúnsdæmi, er Rosendalr heitir, og er þat hit einasta í øllum Norvegi, stiptat 1678 af Kristiáni 5ta; þat hét fyrr. Hatteberg. Fasteignirnar og gardrinn liggr í sudaustr frá Biørgvín, hvar sú skipan var giørd med kóngligum bréfum 1749, at þat skyldi ódalseign vera þeirra Rósenkróna, at hvørra ættbálki útdaudum, þat skyldi tilfalla Kaupmannahafnar háskóla.

Margar og merkar eru eyar þær, er liggia

vid þennan hluta meginlandsins, medal hverra þessara má hér géta: Guley var nafnkunn í forntíd; þar vid hana vóru kénnd log þau, er Hákon kóngr Adalsteins fóstri gaf 940 og kalladuſt Gulaþíngslög, med því at á eyunni var þíngstadr mikill og sóktu menn þángat þíng úr þeim fylkium, er fylgdu þessum lagasetníngum. Stord (nú Stórey, Storöe), fyrir mynni Hardángrsfiardar; hún er 3 mílur á lengd í út og sudr og optsinnis nefnd í Norvegs kóngasögum; þar sat opt Haraldr Hárfagri og son hans Hákon Adalsteins-fóstri. Mosturey, og Selley, þar fann Olafr kóngr Tryggvason lík ennar helgu Sunnefu og lét henni til minníngar byggia þar kyrkiu og klaustr. Vigrey; þat er sögn manna, at þadan hafi Hrólfr Rögnvaldson, er kalladr var Gaungu-Hrólfr, lagt, á ofanverdri 9du öld, í víking, er sídan, eptir hann var útlægr giörr um endilángann Norveg, lagdi Normandí í Fránkaríki undir sig og giördist höfdingi yfir, lét skírast og kalla sig Róbert; eru frá honum komnir hertugarnir af Normandí og ýmsir Englands kóngar. Háreid er allmikit eyland, ul. 5 mílur ummáls. Hér má og géta ráſtár þeirrar í sundi nokkru miou millum eya og meginlands, er Kulstraumr heitir, 4 mílur fyrir nordan Biörgvin; þar er öfugstraumi mikit og brimsúgr, med því straumrinn ávalt er gagnstædr dagligum siáfarföllum; leid þessi er afar háſkasamlig, þó er hættan minst um liggianda, sæta því særi mest allir farmenn, er at nordan koma. Sólundar edr

Sólundareyar (í Sólundum, nú Suler) eru eyar tvær, er nú kallast ytri og innri Sulen, og liggia framundan Sognafiardar-mynni; eptir þeim kolludu fornmenn Vestrhafit, Sólundarhaf; þar kom saman her Haralds Sigurdssonar þat sumar, er hann fór til Englands at vinna landit 1066.

## D. Prándheims: tipti.

Þessi hluti Norvegs liggr fyrir nordan Aggershúss- og Biorgvinar-stipti, og nær, þá menn leggia Nordrlond til, allt til Ísahafs nordr; fyrir austan þat er nordasti hluti Svíaríkis og hit russiska Lappaland.

Prándheims biskupsdæmi, at fráskildum Nordrlondum, er 1068 ferh. mílur á stærd og tala lýdsins, er þar býr, er hérumbil 138,700.

Stipti þessu er skipt í 5 amt, er heita svo: 1. Raumsdals-amt, sudvestast í stiptinu, at undantekinni Sunnmæri, er liggr undir Biorgvinar-stipti. 2. Sydra-Prándheims-amt, fyrir sunnan Prándheimsfiordin og í austr allt til fiallgards ens mikla, er adskilr ríkiun. 3. Nyrdra-Prándheims-amt fyrir nordan fyrrnefndan fiord, ímilli fialls og fiorn, til Nordrlanda takmarka, í nordr. 4. Nordrlanda-amt. 5. Finnmerkr-amt. Í stiptinu er 12 fógétadæmi og 2 logdæmi. Þessir eru stadir í stiptinu:

Þrándheimr (fyrrum Nidarós, Trondhjem, 63° 26′ 10″) er hǫfudborgin og setr stipt-amtmanns, biskups og stipts-yfirréttar-dómara; hún stendr vid Þrándheimsfiǫrd nordanverdan, 56 m. í nordr frá Kristiania og 60 m. í nordaustr frá Biǫrgvin; hún er afargǫmul og nafnkunn, og kémr opt fyrir í gǫmlum sǫgum. Olafr kóngr Tryggvason lét hana giǫra á Nidár bǫkkum af grundvelli 997 og kalladi Nidáros, med því áinn Nid rennr þar í Þrándheimsfiǫrd. Þar eru 4 kyrkiur, medal hverra dómkyrkian telst, sem er allra kyrkna mest og vegligust í Norvegi; stólsskóli, hvar einnin hit norska vísinda félag helldr samkomur sínar og vardveitir þar náttúrugripa- og bóka-safn sitt, spitali fyrir fǫdurleysingia og annar fyrir siúklinga; tugthús; hin svokallada enska stiptan og fleiri líknarstiptanir, nokkrir verkstadir, hvar klædi og ýmisligt verksmídi er giǫrt, sikurhreinsunarverk, allmikill kaupskapr, helltst med vid, skreyd, feitmeti og kopar, er flytst þángat frá tveim nafnkéndum koparnámum í Reirási og Meldal.

Landmegin ver kastali fá, er Kristiánssteinn heitir (bygdr 1680) stadin, ásamt tveim varnarvirkium, er kallast Kristiánsfiall og Mǫllenberg (Myllubiarg). Sæmegin ver kastali sá, er Múnkhólmr heitir, borgina fyrir fiandmannligum árásum; kastalinn stendr

á allstóru skéri út í firdinum framundan bænum og er rammliga giørr. Þar pløgudu Danakonúngar at setia tigna stór-glæpamenn vid kóngsríki í fángelsi; hinn nafnfrægi Danakonúngs rádgiæfi Griffenfeldt sat þar fángi frá 1679 til 1698. Vid býinn eru tveir forstadir, nl. Bakkaland at austanverdu og Jhlen, og er sin kyrkia í hverium þeirra. 1522, 1650 og 81 var elldr uppi í borginni, er í hvørt sinn brenndi mikin hluta hennar.

Athugagrein. Um þat tímabil, er sagnaskrifarar kalla medal-aldr, var Þrándheims dómkyrkia afar nafnkunn, og er þat almannarómr, at hún hafi verit hit mesta og vegligasta musteri og mestvandada hús at allri smíd á Nordurløndum og rétt kallat byggingarkunstarinnar meistaraverk; hún var ýmist kollut Kristskyrkia eda St. Olafskyrkia, med því í henni stód skrín Olafs kóngs hins helga, er borit var um stræti borgarinnar á Olafsmessudegi hvørium í prócessión, því svo var mikil helgi hans, at hann var álitinn ármadr Nordmanna og allmargir hófu þángat gaungr edr pílagrímsferdir; jukust af því audæfi hennar og nafnfrægd. Þat er søgn manna, at á henni hafi verit 18 støplar edr turnar og hún siálf hafi verit 250 fóta á lengd; þat var krosskyrkia og ei bygd øll í einu, helldr aukin og stækkut smámsaman. Boda-elldr og ránsmenn hafa opt og svo misg grandat kyrkiu þessari, at hennar forni vegligleiki og prýdi er at mestu undir lok lidinn, og ei stendr nú eptir nema sá karmurinn,

er í austr sneri, er kalladist Háfkór, og nú á døgum er dómkyrkian, er nægiliga vottar um at ei eru þat øfgar einar, sem nú er frásagt. Auk Olafs hins helga, eru í henni leg allmargra Norvegs konúnga og merkismanna.

Molde, hérumbil 20 milur í sudvestr frá Þrándheimi vid Raumsdalsfiørd nordanverdan; þat er litit kauptún med 700 innbúum. Kristiánssund, nærhæfis 7 milur fyrir nordan Molde og 15 milur í sudvestr frá Þrándheimi; þat er og litill kaupstadr, er stendr á þremr smáhólmum; fyrrum hét hann Lille Fosen; en Kristián kóngr 6ti veitti hønum kaupstadar einkarétt og kalladi hann eptir sér; þar eru 1900 innbúar.

Reirás, 16 milur fyrir sunnan Þrándheim, er bergstadr lángt uppi í landi skamt frá Glanmá; þar er hin mesta og ardsamasta koparnáma í Norvegi og einhvor hin nafnkéndasta í Nordrálfu heims; bóndi nockr, er var at hreindýraveidum, fann hana 1640, en 4 árum seinna hófu menn grøftinn. Þadan koma á ári hveriu nærhæfis 10 þúsund vættir kopars; þeir, sem vinna at greftinum, hafa alvepni vid hønd, at veria námuna, ef til þyrfti at taka. Meldalr (fyrr. Medaldalr) í sveit þeirri er Orkadalr heitir (Örkedal) í Orkdælafylki, í sudvestr frá Þrándheimi; þar er allmikill koparnáma, er menn tóku at stunda 1655; bádar þessar námur eru í sydra Þrándheims-amti. Stiklastadir

er stórbýli 6 mílur í landnordr frá Þrándheimi í Veradal; þar féll Olafr hinn helgi þann 29da Julii 1030. Hladir, skamt frá Nidárósi, var fyrrum kóngasetr og stórbýli mikit; þar höfdu ýmsir jarlar atsetr sitt, er kölludust Hladajarlar; þar var og hof Odins og Þórs og nafnkunnr blótstadr í heidni. Froste heitir nes nokkurt fyrir nordan Þrándheim, er gengr út austri úti Þrándheimsfiördinn; þar var fordum Þíngstadr allra Þrænda; vid þann stad eru kénnd lög þau, er Hákon kóngr Adalsteins fóstri setti 941 og kallast Frosta-þíngs-lög. A nesi þessu og í sveit þeirri, er Skon edr Skaun, nú Skogn heitir, er kornvøxtr gódr. Í forntíd vóru fylki í þeim hluta Norvegs, er nú kallast Þrándheims-stipti: Mærafylki vestast og sydst; er skiptist í Sunnmæri, og nú liggr undir Biorgvinar-stipti, Raumsdalr og Nördmæri, Sparbyggia- og Naumdæla-fylki.

Hinn stærsta ey í Þrándheims-stipti er Hittir, er nú kallast Hitteren edr Hitterey; hún liggr fyrir utan Þrándheimsfiardar mynni og er 9 mílur á lengd. Í eynunni eru skógar miklir og villidýr mörg.

Athugagrein. Í fridarsamningi þeim, er Dana- og Svía-kongar giördu millum sín í Hróarskéldu 1658, máttu Danir afstanda heila Þrándheimsstipti til Svía; en Þrændr þoldu illa velldi þeirra og hófu flokk móti þeim; danskr herstióri Reichwein veitti þeim lid med 2000 mönnum, þeir kúgudu hinn svenska landshöfdingia Claus Stiernskiöld at skila aptr landinu, og ráku hann út af Norvegi.

## E. Nordurlond.

Svo kalla menn þann hluta Norvegs, er liggr ímillum Naumudals í Prándheimsstifti og Finnmerkur, og er þat hit sama land, er í fornum sögum kallast Hálogaland; þar er afarlángt, en hvergi er Norvegr miórri millum fialls og fiöru. Alt er þat 1 amtmannsdæmi, og ásamt Finnmörkinni 1 biskupsdæmi. Nordrlond eru, ásamt Finnmörku, 3326 ferh. m. á stærd, en manntalit í löndum þessum er hérumbil 78500.

Engir eru kaupstadir í biskupsdæmi þessu (nl. á Nordurlöndum og Finnmörku); þó eru þar fáein kauptún, er feingu kaupstada-einkarétt 1789; má þessara hér géta:

Bodey, (fyrrum Budey) vid Vestrfiörd, í ségétadæmi því, er Salten heitir; þar sitr amtmadr kóngs, sem settr er yfir öll Nordurlönd. Prumsey (í Prumu, Tromsöe, 70°) á eyu nokkurri allstórri er hefir sama heiti. Nordar er: Hamarsfest (Hammerfest, 70° 39′ 42″), lítit þorp. Í sudaustr frá Nordr-Hösfda (Knöskanesi) liggr ey nokkr, skamt undan landi, er Vardey (Vardöe) heitir; þar var til 1793 varnarvirki (hit nordasta í heimi), er Vardeyarhús hét. Pángat giördi Kristián 4di ferd sína 1602, og vita menn ei at þar hafi adrir kóngar komit. Altengardr vid ána Alten; þar er heimili amtmannsins yfir Finnmarkar-amti; vid sömu á er Kautokeino,

litit þorp; þar eru allmiklar kaupstefnur ástund-
um. Porsángr við fiørð allmikinn, er gengr
úr norðri inní landit fyrir austan Knøskanes;
þar var fyrr. atsetr kleika-félags þess, er boð-
aði Finnum rétta trú. Kautokeino, er fyrr.
lá undir Svía-veldi, kallast sá hluti Finnmerkr,
er austast liggr, eðr Porsangs- og Altenfialls-
bygðir og eiginliga kallast hin norska Lappmørk.

Fyrir vestan meginlandit liggia margar eyar
og stórar, meðal hverra eru þessar: Senia (Se-
nien), hún er 10 mílur á lengð í út og suðr
og 5 á breidd; fyrir sunnan hana er Biarkey.
Hindøn (fyrr. Hinn), er mikit eyland fyrir
sunnan Seniu. Í suðvestr frá eyu þessari liggia
eyar margar í röð, er nú kallast Lofoden,
ásamt fógétadæmi því, undir hvört eyar þessar
liggia; en svo vóru þeir kallaðar í forntíð:
Omdð, Vagey, næstar Hinn og fyrir vestan
hana, Lángey vestust og Ulfsey; þessar
kalla menn nú Vesteraalen. Lófótur, er
stórt eyland fyrir suðvestan Vagey, svo Mosk-
ey, þá Værey og Røst syðst.

## Finnmørk

liggr norðast allra landa í vorri heimsálfu; hún
er greind í Austr- og Vestr-Finnmørk; tak-
markast hún af Rússaveldi hit eystra, Svíaríki og
Norðurlöndum hit syðra, en at vestan- og norðan-
verðu er hún umflotin af Ísahaf. Hvorki er
land þetta fagurt né fríðsamt og fyrir sakir
kulda og skammvinnra sumra er jarðvegr þess

hardla tregr til gróſku edr gróda, at alleina mega innbúar þeſs leita ſér atvinnu og ſædſlu, annattveggia af fiſkiaſla og veidiſkap, edr af hreinum ſinum.

Menn ſkipta þeim, er land þetta byggia, í 3 flokka, neſnil. 1. Nordmenn, er byggia ſtrandir og eyar; 2. Finna edr Finnlappa, er aptr ſkiliaſt í Fiallfinna, er búa hit eyſtra á mørkinni og upp til fialla, og Siófinna, er hýraſt vid ſiáfarſidu, og 3. Qvena, er búa vid Porſángr og Altenfiørd og vídar.

Af Finnum er þat at ſegia, at þeir eru Nordmønnum afar ólikir at málferli, háttum og líſnadarhætti og hafa þeir kyn ſitt at rekia til hins forna ſinnſka ættbálks. Þeir eru miøg litlir vexti, en digrir og knáligir og þola hverium manni betr vosbud og kulda. Fiallfinnar eru á ſifeldu reiki og riátli á Kiøl uppi, ſem er 100 milur á lengd til Jamtalands ſudr, og hafa hreindýra hjardir miklar, hauda hverium þeir leita haglendis, þá ei er lengr biørg ſyrir þau þar, er þeir um hríd dvalit hafa. Ei eru hreinar Finnum ónytſamari dýr enn ſelir eru Skrælingium á Grænlandi, helldr miklu notadriúgari. Finnar hafa gód tøk á at temia þau, ſem annars gánga ſiálſala á fiøllum þeſſum og eru miøg mannſkiarr edr ſtygg; þeir bædi bera á þeim og láta þau gánga ſyrir ſledum ſinum, er þeir kalla púlk, og ſvo eru þau þolinn og frá, at vel mega þeir á þann hátt ſara 15 milur

á dag yfir ísa og jökla, fiöll og fyrnindi, at ei géfast þau upp; kiöt þeirra og slátr er Finnanna einkafæda, miólk þeirra fágætasti dryckr, skinninn sængr föt og fatnadr þeirra; og hvad eitt af dýrum þessum vita þeir at hagnýta sér til einhvörs hagrædis og gagnsmuna: í blödrunni geyma þeir brennivín og annan dryck, sem adrir í flöskum. Litinn edr engan kostnad þurfa Finnar at hafa vid uppeldi hreinanna, þvi siálf leita þau fædu sinnar og krafsa til jardar, þótt diúpr sé sniór, og koma þau aldrei í hús, en gánga ávalt úti. Þat kallast gildr bóndi, er á nokkr 100 hreina, og ástundum á einn Finnr eitt þúsund. Þá Finnar eru rikir af hreinum, hafa þeir alls nægtir og lifa mörgum ánægdari, er vid betri kosti eiga at búa; þá úlfar og drepsótt heimsækia hiardir þeirra svo miög, at til þurda gángi, eru útvegir fáir til lífs vidurhallds á fiöllum uppi og þreyngir þá svo miög at kosti þeirra, at þeir fá grönnum hreina sina til geymslu og nota, og hverfa frá fiöllum og flytiast til stranda nidr og leita sér þar biargrædis af fiskiafla, og kallast þeir því Siófinnar; þeir búa í föstum heimkynnum og idka nokkra qvikfiárrækt. Árliga fiöldga þessir strandabúar, en Fiallfinnar fækka.

Í öndverdu vóru allir Finnar heidnir og vóru þat í lángar hrídir, eptir at Kristni var á lög leidd í öllum nærliggiandi löndum, unz Fridrikr 4di Danakonúngr lét giöra kyrkiur og samkunduhús á mörkinni 1706 og sendi þángat klerka og kénnara at boda þeim rétta trú, og

géfa þeim ſkynbragð á mentaðra þióða ſiðum og háttum. Allr þorri Finna hefir tekit rétta trú og látit ſkíraſt. Sonarſon nefnds kóngs, Friðrikr 5ti, ſtiptaði í Þrándheimi ſkóla nokkurn (Seminarium lapponicum) þeim til handa, er ſýſtuſt at nema túngu þá, er Finnar mæla og kallaſt hin finnlendſka túnga eða Finnſka. Skóli þeſſi er nú undir lok liðinn; en nú á dögum ſendaſt preſtar þeim, er kriſtnir eru.

**Qvenar** eru miklir vexti, þrekligir og vellimaðir; þeir fluttuſt ondverdliga á 18 öld ſunnan frá enni ſvenſku Lappmörk til Finnmarkar. Iðia þeirra og uppeldi er ſkógarhögg, laxveiði og dýraveiðar.

Því nær 2 þriðiúngar Norvegs liggia undir nyrðri hluta ens temprada himinsvegar; en þat ſem norðar er, liggr undir enum kalda vegi; má af því ráða, at breytiligir munu veðrahættir, gróðr og dægra-ſkipti og lengð. Fyrir ſunnan fiall er dagr á lopti 18 ſtundir, þá rás ſólar er lengſt yfir ſióndeildarhríng; en allra norðaſt giætir ei nætrinnar í þvinær 2 mánuði, með því at ſólin er ſkamma ſtund óſiáanlig og nokkrar nætur gengr hún ei til viðar. Um vetur er þar at likindum litill ſólargángr, lángar nætur og ſtuttir dagar og miklu meiri mismunr á dægralengð, en á Islands norduſtu útkiálkum; hvat ekki er heldr at undra, þar ſá hluti Norvegs, er nú er umrædt, liggr miklu norðar. Norðrlióſit er þeſſum norðbúum heims því heilladríngari gáſa, ſem ſkammdegit hiá þeim er lángvinnt

og myrkt. Heldr má loptslagit í Norvegi kalla kaldt enn hlýtt; þó er afarmikill mismunr á vedráttufari þar, eptir því sem staða og lögun landsins, hálendi og strandir olla breytíngu og greinarmunar á hlýindum lopts og vedraháttum. Vídast er loptslagit í Norvegi hreint og heilnæmt einkum vid fiallgard og upp til sveita, hvorra innbúar almennt eru hraustir og heilsugódir og verda alloft fiørgamlir; til þess hiálpar og hófsemi og ómargbreyttr lifnadarmáti þeirra. Vid siávarsíduna er svækiusamt og ei heilnæmt loptslag; þar er minna afl kulda og frosts og sialdan leggr þar firdi, nema þá nordr eptir dregr. Þar hefr vetur í October mánudi og varir hann alt til Mai mánadar, og er hann opt hardr og sniómikill. Strandafiøllinn eru jafnan þokukrýnd og hulinn skýmøkkum, er olla regns og votvidra. Hit vestra í Norvegi blása vindar mest frá sudrættum, er færa med sér súld og þoku, en á sumrum blása þar nordaustanvindar, er ovisinnis eru lánggiæstr. Í eystri hluta landsins er frost meira og kuldi og blása þar tídast vindar úr nordaustri. Hvirfilvindar edr fellibiljir eru þar sialdgiæfir, en stormar og afar hvøss vedur eru því tídari. Sumarit er stutt í Norvegi, en heitt, einkum í dølum og fiallbygdum; því vex þar ódum gras og jurtir þá hlýna tekr í vedri og allskonar gródr er þar hradsnórri, enn í løndum þeim, er sunnar liggia.

Allr þorri lýdsins, er byggir land þetta, er at ætt og uppruna norskr, at fáeinum útlendíngum undanteknum, er þar hafa bólfestu tekit;

Paradauki byggia Lappar og Qvenar hinn nyrdsta hluta þess.

Tala giørvallrar þiódarinnar er nærhæfis 884,000 og býr rúmr áttúngr hennar i kaupstødum, en hinn hlutinn á landsbygdinni. Mestr hluti kaupstadarmanna er annattveggia, verslunarmenn edr handverksmenn; bændur skiptast í 3 flokka: nl, ódalsbændur, er hafa ódalsrétt; jarddróttnar, er ei hafa ódalsrétt, og leiglendíngar.

Þessi eru adal-størf og athafnir Nordmanna: akr-yrkia, hvør æ fær fleiri og fúsari unnendur; kálgarda-rækt, saud-fiárrækt, bergverk og námustørf, kaupmannsskapr og siófferdir, lax- og sílúngs-veidar, og fiskiafli, á hverium ei lifa færri enn 25 000. Nordmenn hafa mikla skémtun af dýraveidum, og ei hafa allsáir uppeldi sitt af þeim. Fuglaveidi er torsókt og skiput mikilli hættu; þar þeir megu sækia veidar í hengiflugum og biørgum, og verdr ei sialdan manuskadi at veidum þeim. Allmargir leita og atvinnu sinnar vid skógarhøgg og flutning vidar til elfanna. Léttiþóktastir eru allir flutníngar landsmønnum á vetrum, einkum þá snjór og hardfenni er mikit á jørdu; med því at þá megu þeir best sledum vidkoma.

Giædi þau og hluti, er øll náttúru-ríki léna Nordmønnum, má at vísu einkum heimfæra til þeirra stada, hvar þeir finnast, nl. fialla edr náma, skóga og siáfar. Þó þykir hér betr haga at skira frá serhvørs náttúru-rikis margbreyttu audlegd, hvørri útaf fyrir sig.

1. Málma- og stein-ríkit er þar afar audugt; gull hafa menn fundit þar, þó ei til rida; miklum mun meira silfr, þó hefir ágódinn ei tøluverdt giørt betr, enn svarat upp-áкostnadi. Erit járn finnst fyrir sunnan fiall og kopar nordanfialls. Menn hafa og fundit blý á ýmsum stødum, en tin hvergi. Med ýmsum litum finna menn þar marmara, helst fleckóttan og røndóttan; alún, fínan sandstein, qvarnar-, bryni-, hvet- og hverfu-steina, krystalla (þá svokølludu norsku demanta) á Sunnmæri, agata, granata vid Kóngsberg, amathysta í Gud-brandsdalnum, kalcedóna o. fl. Þar hittast einn-in margbreytt litunar jardkyn, t. d. bergblámi, blásteinn og ýmsar okkur-tegundir; samt all-mikit salt, þó ei til hlýtar fyrir ríkit.

2. Vaxta-ríkit: stórir skógar og mark-lønd eru vída í Norvegi og vaxa mest í þeim greni, fura, birki og eyk, hellst í sudrhluta landsins, þó ei allmikil, og beiki í greifadæmunum. Skógar ryđiast og eydast allmiøg í landinu og er þat ei at undra, þá menn íhuga, hve mikill timbur-grúi flytst til annara landa, útheimtist til húsbygginga, skipa, vatns- og vind-mylna, eldsneytis og kola, er vidþarf í svo mørgum berg-verkum og námum. Kornaflin ser dagvaxandi og er hann svo gnægr sunnanfialls, at þá vel árar, þurfa landsmenn ei at kaupa korn í útløndum; en nordanfialls þurfa flestir meir, enn þat sem heima er aflat og því heldr, er nordar dregr. Rúgr, bygg og hafrar vaxa þar best og almenn-ast; vída vid fiallgard tímgast alleina hafrar.

I hördum árum mala landsmenn mél af innsta berki furu og tilreida braud af. A ýmsra kál-tegunda- og matjurta- einkum næpna-, rófa- og jardepla-rækt leggia landsmenn allvida kapp. Lin, hampr, humall og tóbaksjurtinn ræktast allvel. Af margskonar villi-berjategundum tímgast gnægd mikil, samt allmikill fiöldi litunar- og lækninga-jurta, t. d. fiallagrös, hreindýramosi o. s. frv.

3. Hvat dýrarikit áhrærir, þá má því í stuttu máli svo lýsa: þar eru hestar litlir verti, en smáir, fiörugir og fótvissir; best eru stód í Gudbrandsdal og Súrendal, nautpeningr margr og gódr helst upp til sveita; allmikit saudsé; vellisét á eyum er stærst og ullarbest. Geitsé er þar margt, med því ei kostar mikit uppeldi þess, þar þat gengr í skógunum, hvar-ium þat ollir skémda. Bændur halda almennt búsmala sínum til haga lángt frá bygd upp til fialla á sumrum og hafa þar í seli; þar eru tilreiddir ostar þeir, er kallast gamalostar og mysuostar, sem erlendis eru nafnkéndir. Hrein-dýrit á hvat hellst heima í hinum nyrdri hluta Norvegs. Medal skógdýra þar má telia: birni, varga edr ulfa, er Nordmenn kalla grábeina, lossa, almennt kalladir Gouper, eikorna, (belgir þeirra eru almennt gráverk eda grávara kalladir) héra, merdi, hermelíndýrit og ýmsar snæmúsa- og safala-tegundir, er allar géfa eitt hit torgætasta fódrasskinn, samt ottra og bifra, þó eru þeir sidstnefndu fáir og einbúar miøg. Elgsdýrit, sem er eitt hit stærsta dýr á Nordurlöndum, sækkar meir og meir; en fiöldi refa er þar hver-

vetna; hirti er helst at finna á Hittir og dá-dýr. Þar er einnin merk dýra-tegund, er lemenn kallast.

Af fidurdýrum má þar telia: riúpur, tiúra, ûrhæns eda orfugla, akurhæns, jerpa og mikinn fiöldi ædarfugla og siö- og sit-fugla, einkum nordanfialls.

Margskonar fiskakyn sveima þar í sætum og söltum vötnum, medal hverra telia má: lax, er þvínær er í hverri á og firdi, silúngr, stór-þorskr, þyrsklíngr, síld, makríli, flydrur, húmri, angsiósur og margkyniut uggadýr, er oflángt yrdi hér at telia.

Af verkefnum þeim, er vaxta- og dýra-rikinu leggia Nordmønnum í hendur, giora og vinna þeir med allmikinni atorku og mandómi naudsyniar sínar og búhluti. Medal þeirra vefnadar-verkstada, er þeir hafa sett á stofn, má telia 1 í Kristianía og 1 á Kóngsbergi; þar-adauki verka þeir skinn og húdir, giora segl-dúka, tilreida tóbak, giora kadla og annan skips-reida, og hafa til nefndra starfa giorda verk-stadi á ymsum stødum í landinu. Þeir brenna á 26 stødum pottøsku, tilreida pappír o. s. frv. Þar eru 3 sikur-hreinsunarverk, 2 sápuverk; afarmargar søgunarmyllur og tiørubreunslur; þeir byggia og allskonar skip, bædi herskip og kaupfør.

Medal þeirra verkstada, í hverium lands-menn hagnýta sér fiársiódu jardar edr steina- og málma-rikis giædi, má telia: álúnsverk nálægt høfudborginni, er árliga gefr af sér 500 tunn-ur; 1 kóboltsverk vid Modum (árl. 3750 vættir);

saltverk á Valley; 5 glersmídiur; 1 steinkéra-smidia í Biörgvinarstipti; 2 fallbyssna-steypu-verk, 3 púdurmyllur. Ofna-steypuverk eru í all-flestum járnnámum og 9 naglasmidiur. Auk þessa tilreida menn allvída salt og brenna kalk og tígulsteina.

Nordanfialls eru koparnámur, en fyrir sunn-an fiall eru járnnámur, mestar og mjög ardsamar og eru hverutveggiu mørgum til biargrædis, er í þeim er til verka skipat. Í Norvegi eru 6 koparnámur og 19 járnnámur; og er þat søgn manna, at ei komi minna árliga frá þeim fyrr-nefndu enn 15,000 vættir og frá þeim sídart 312,500 vættir, kopars og járns.

Alt til 1807 stód kaupskapr Nordmanna med miklum blóma og var ýfrit ardsamr biargrædis-út-vegr; því þá vóru ei færri skip í førum, enn 800 og á þeim 7000 farmenn. Siólleidis flytia lands-menn varning sinn til annara stada innanríkis; því ørdugir eru þar flutningar allir til lands og vída óvinnandi at hafa nockr teluverd versl-unarmøk. Þá þeir høndla vid adrar þiódir, er þat mest vid svenska, danska, íslendska, hol-lendska og enska kaupmenn, og hafa einkum þeir sídstnefndu flutt frá Norvegi afarmikit timbr og járn og guldu fyrir steinkol og klædi og ýmis-ligt vøruſmídi; þó fer þessara verslun þar heldr hnignandi, med því þeir sækia vid og járn til Nýlenda sinna vestr í heimi. Fyrrum var einnin kaupverslun Nordmønnum, einkum Biørg-vinarmønnum, á Midjardarhafsstrøndum ábata-samari, þar þeir seldu þar ógrynni skreidar;

en síðan kathólskir urðu slakari með föstuhaldit, hefir fiskfeljendum brugðist mjøg sá fiár-útvegr.

Þá merkustu kaupstaði í ríkinu má, auk stiptanna høfuðstaða, telia: Drammen, Skeen, Túnsberg, Arendal og Kristiánssund. Frá þeim stødum, er liggia hit syðra og eystra flytst viðr og járn, og frá þeim kaupstødum, er standa á vesturstrøndinni, flytst einkum skreið og allskonar fiskæti, en hvergi kémr svo mikill kopar, sem frá Þrándheimi. Kaupeyrir landsmanna er: járn, bæði milta- og stánga-járn og steypt, t. d. fallbyssur, ofnar, katlar akkéri; kopar eðr eyr, bæði smíðat og ósmíðat; timbur (ástundum á einu ári 1000 skipsfarmar), tiara, harðr fiskr og saltaðr. At øðrum þióðum kaupa Norðmenn korn og hveiti, salt og steinkol, klæði og útlendskan vefnað, og ýmisligan varníng aústan og vestan úr heimi. Bann er viðlagt at flytia brennivín til landsins.

Allir Norðmenn játa, sem Danir, þan trúarbrøgð, er Marteinn Lúther hóf og í løg vóru leidd af Kristiáni konúngi 3. í báðum ríkiunum, samt í grundvallar-løgum Norvegs er løgtekit at vera skuli þióðtrú, meðan landit er byggt. Ei er þeim, er aðra trú rækia, synjat landsvistar; þó hafa þeir þar engar opinnberar tíðagiørðir. Gyðíngum er sett blátt fyrir bann at staðnæmast í Norvegi. Innbúum norðasta hluta landsins eðr Finnum, hafa Dana-konúngar sendt klerka at boða þeim rétta trú; en með því at þeir eru lítt skýnugir og heldr tregir til nýrrar trúar, samt ófúsir at leggia niðr forneskiu og

hafna gømlum átrúnaði, hefir þat verit harla torveldt verk; þó er nú allr þorri þeirra kristnaðr at kalla; þótt miøg sé trú þeirra hiátrúaarfull og blendun með heiðindóms villu.

Athugagrein. Hákon kóngr Aðalsteins fóstri (hinn góði) boðaði fyrstr manna kristna trú í Norvegi 956, en fyrir sakir ofurkapps Prænda, fékk hann miøg lítlu til vegar komit. Þá Olafr kóngr Tryggvason kom til ríkis, bauð hann øllu fólki at taka skírn og rétta trú, báru þá fáir traust til at mæla ímóti og kristnaðist þá alt land, þar sem hann fór; en með því at hann var svo skamma stund konúngr, var ærit mikit eptir fyrir Oláf konúng hinn helga, at kristna landit, hvorium þó loks auðnaðist at leiða kristni í løg um endilángan Norveg.

Hvat vísinda-iðkun Norðmanna áhrærir, þá eru þeir námfúsir og unna miøg mentum og bókfræði; þeir géta talit allmarga vellærða landsmenn og þióðskáld, er annattveggia heima eðr erlendis hafa aflat sér heiðurs og nafnfrægðar. Embættismanna-efnum til mentunar stiptaði kóngr vor Fridrikr hinn 6ti háskóla í Kristianía 1811. Paradauki eru 5 latínuskólar í ríkinu og ýmislig vísinda féløg, meðal hvørra telia má hit kóngl. norska vísinda-félag, er stiptat var 1760; og hefir þat allmargar fróðligar ritgiørðir fært í letur.

Þat segia menn, at norskir hafi enn þá ei svo miklu atgiørfi náð í enu føgru mentum eðr íþróttum sem aðrar þióðir, er þeim eru vel búnar í þessari heimsálfu.

Í þann tíd, er sögur giörduſt, vóru margir höfdingar í Norvegi, er ſifeldt heriudu hverir á adra, unz Haraldr hinn Hárfagri braut undir ſig landit og giördiſt einvaldi Norvegs (885). Eptir hann komu ſynir hans og afkomendur til rikis, unz ſá ættleggr, þá Olafr 3die deydi, var aldauda, og ríkit var ſameinat Danmörku 1397, hvörrar einvaldar ríktu, fyrſt med takmörkudu og ſídan 1660 med ótakmörkudu veldi, yfir Norvegi til 1814, þá þat lokſins hepnadiſt Carl 13da Svía-konúngi med ſáttagiördinni í Kíl, at ſlíta þat band, er um lánga æfi hafdi ſamteingt ríki þeſſi. Nú er Norvegr, eptir því ſem at ordi er qvedit í grundvallar-lögum hans: «eitt frítt og friálſt, óſkiptanligt og óafhendiligt ríki, ſameinat Svíaveldi, undir einum konúngi; ſtiórnarform þeſs er takmarkat og er þat arftækt einvaldsdæmi.» Lög þeſſi vóru ſett á Eidsvold þann 17da Maii 1814 og nákvæmari áqvardunum vidbætt í Kriſtiania þann 4 Novemb. ſama ár. Samqvæmt lögum þeſsum velr þiódinn ſiálf fulltrúa fyrir ſína hönd, er halda ſamkomu þá, er Stórþing er nefnd, er byria ſkal hinn fyrſta rúmhelga dag í Februarii mánudi, þridia hvert, ár í landſins höfudborg; nema konúngi þyki naudſyn á vera, fyrir ſakir einhvorra ſérligra orſaka, at áqveda annan kaupſtad til ſundarins. Ei mega fulltrúar þeſſir vera færri enn 75 og ei fleiri enn 100 at tölu og ſkal einn þridiúngar kiörinn í ſtödunum og tveir þridiúngar á landsbygdinni. Stórþing þetta, er nú er ſrá ſagt, má ſetia lög og

ónýta þau eptir vild; áqveda skatta og adrar álögur; taka lán fyrir hönd ríkisins, hafa gætslu fiárstióda þess, géfa leyfi til ríkis-gialda lúkníngа og veita útlendíngum borgararétt o. s. frv. Í tillíti til lagasetnínga velr Stórþíngit af medlimum sínum einn fiórda part, og kallast sá hluti þess Lögþíng; en Odalsþíng sá hlutinn, er allir hinir limirnir sitia í, og skulu þeir yfirvega og áqveda, hvört laga-frumvörp skuli at nokkru edr at öllu leiti stadfestast edr ónýtast; sídan skal lögþíngit um dæma. Veri svo til, at frumvarp laga nokkurra hafi af Odalsþíngi tveim sinnum Lögþíngi fyrirlagt verit, og þat hafi med þverneytun Lögþíngis mátt aptrhverfa, þá mæta allir Stórþíngs-fulltrúar í einu, og er þat þá gildr dómr um lagafrumvarpit, er atqvedi tveggia þridiúnga þeirra fella; ímillum þvilíkra laga-rádslagana má ei skémri tíd vera, enn 3 dagar. Þá lagasetníng nokkr á þennan hátt er samin og med atqvædum stadfest, leggst hún fyrir konúng til fullgildandi samþykkíngar, hvörrar hann gétr synjat, ef svo vill. En séu lög nokkr á þremur áqvördudum Stórþíngum, hvört eptir annat, óbriálut giörd og samin, verda þau landslög, og kémr þá at einu, hvört konúngr býdr edr bannar. Kóngr hefir alleina vald til at yfirskiva, at því, er landslögum er samqvæmt, fylgt sé og hlýdt. Hann velr ei færri enn 8 norska innfædda höfdíngia til stiórnarráds nokkurs, er Ríkisrád (Statsraad) kallast, og sitr í því einn ríkisrádgiafi (Statsminister) og 7 ríkisrádherrar

(Statsraader), og er sú skipan giørr, at hinn fyrstnefndi høfdíngi og 2 rádherrar skuli ávalt med kóngi vera, þá hann heima sitr; en árliga skiptast rádherrarnir til at vera med kóngi. Konúngr má leida son sinn edr konúngsefni til ríkis í Norvegi og kalla hann auka- edr undir-kóng, og setia jarl yfir ríkit, er annathvort er norskr edr svenskr at ætt. Konúngr sver eida øllum Nordmønnum at Stórþíngi, og í Þrándheims dómkyrkiu er hann krýndr, smurdr og hønum hollusta losut. Þá framandi þiódir heria á Svíaríki, eru Nordmenn skyldir at veita Svíum; en vilji konúngr hefia at fyrra bragdi styriøld vid adra kónga, má hann ei bióda út leidángri í Norvegi, nema hann hafi fengit lof til af stiórnarrádi. Øllum þeim lagasetníngum, er vidvíkia kaupskap, tolli, biargrædisvegum og sidastiórn, má kóngr briála og breyta, ógilda og nýar setia, samhliódandi stiórnarformsins grunnreglum; þó álitast þvílíkar áqvardanir alleina lagakrapt at hafa til næsta Stórþíngs, þá náqvæmar skal um þær dæma og úrskurda. Adalsmanna-stétt er med øllu afmád í Norvegi, en prentunarfriálsrædi er þar í løg leidt.

Hvat valdstiórn og embætta-skipan í Norvegi áhrærir, þá er um hana sama at segia og í Danmørku, en engir sæmast embættum þar edr nokkurri tign, hverki í fridi né styriøld, sem ei eru innfæddir Nordmenn. Þar eru 5 biskupar, hérumbil 50 prófastar, og næhæsts 350 prestar og kapelánar. Hvat veraldliga valdstiórn snertir, þá eru þar 4 stiptamtmenn og 11 amt-

menn; þaradanki borgararáð og bøfógetar í kaupstøðunum; sýslumenn, er þar kallast Sóren-skrifarar, á landsbygðinni, er dæma í málum manna, og fógetar, er heimta skatta og skyldur. Rétt lagavegr gengr frá héraðsþingi til lands-yfirréttanna, sem eru 4, sinn í hvørium stipts höfuðstað, og frá þeim til hæsta réttar, sem haldinn er í Kristianía.

Herlið Nordmanna er skipt í 2 hluti, nl. 1. ágvedit málalið (Linietropper), er aptr grein-ist í héraðs- eðr fylkia-lið (Districtstropper) 10,000, og hit útboðna lið (hvervede) 2000 at tølu, auk yfir- og undir-hersforíngia. 2. Landvarnarlið (Landmilits), er ei má á aðrar þióðir heria eðr undir vopnum vera utan rík-isins takmarka. Þessu liði greina menn í 4 flokka: sveitabænda-lið, kaupstaðamanna-lið, strandabúa-lið og almenníng (Landstormen), þá allir herthaft.

Af herskipum eiga Nordmenn 6 stór brigg-skip og nokkr fá minni herskip og nærhæfis 100 fallbyssna-báta.

Kastalar eðr festíngar í Norvegi eru: Fridríksstaðr, Fridríksvorn, Fridríksteinn og Kóngsvinger, samt Blákier.

Svo finnst skráð í ritgiorðum þeim, er skira frá penínga-ástandi í Norvegi, at en árligu ríkis-inngiøld séu hérumbil 1,466,264 spec., og laun embættismanna og náðargáfur 346,820 spec. Skuldir ríkisins vóru, þá høfðingiaskiptinn urðu þar, 20 milliónir ríkisdala.

Svo lýsa sagnaskrifarar útliti og skapferli

Nordmanna: þeir eru almennt hverium ödrum Evropumönnum hærri vexti og karlmannligri, hraustir og heilsugódir, einkum þeir, er byggia hinn eystri hluta landsins. Strandabúar eru ei svo miklir vexti, edr hábeinir, en all-þrekligir og vel á fót komit. Norskir eru yfirhöfud hörundsfagrir og allvellimadir; allmargir eru bláeygir og liósir á hár, svo karlar sem konur. Holt lopt og hreint, ómargbreytt fæda, strit, hörd vedur og kuldi giöra þá heilsugóda, harda og þolgóda, svo allmargir þeirra ná háum aldri. I Biörgvinarstipti og vestri hluta Kristiánsandsstiptis er almennr qvilli sá, er menn kalla Radesyge, edr hin svokallada nordurlanda líkþrá og er þat meining manna, at því olli svækinsöm vedur í þeim hérödum og óholl fæda og sióföng illa verkat. Menn hrósa þeim fyrir hreysti og trúmennsku vid kónga sína, födurlandsrækt og staka gestrisni. Þeir eru gladlyndir og unna miög gladværdar-medölum: t. d. saung, hliódfæra-slætti, dansleikum og ölteiti. Dansleikr nokkr, er **Haling** edr Hallingdans heitir, er þeim einka kiær, med því at hann tidkast ei hiá ödrum þiódum; til hans útheimtast margbreyttar beygingar, fiörug vidbragd og mikill fimleiki. A hátidum, einkum á jólum, hafa bændur heimbod og vina-samkomur; dansa þeir þá og leika og skiptast giöfum á. Ei eru þeir giarnir til at breyta af háttum forfedra sinna. Nordmenn hafa ávalt verit hreystimenn miklir (hafa þeir optsinnis varit fóstrjörd sína med dæmafárri hugrekki og hardfengi) og afbragds-

gódir fiómenn. Bændur eru ødrum þiódum lagkænari, því siálfir géta þeir smídat verkfæri sín og ambod og margskonar fagurt vørusmídi og smídisgripi; þeir tálga og útskéra tré manna best. Menn bregda Nordmønnum um: at þeir séu einlyndir og heldr einrádir, metnadargiarnir dramblátir, skrautgiarnir og skrumsamir og heldr ósúsir til at lækka seglinn, þó vid meiri menn sé at skipta. Í forntíd vóru Nordmenn mótþróunarsamir vid konúnga sína og hófu flokk móti þeim, ráku suma úr landi, en suma drápu þeir, sem segir í søgum þeirra; en þá Danakóngar gengu til ríkis í Norvegi, sefudust smámsaman upprenstir og óróar í landinu og skipudust þá landsmenn svo mjøg, at þeir hafa manna best haldit hollustu-eida sína vid þá og verit trúir og hlýdnir þegnar.

## III. Svíaríki, (Svecia, á svensku Svea-rika; Sverrig eðr Sverige).

Land þetta kölludu menn í forntíð Sviþióð og Gautland, og er þat nokkr hluti þeirra landa, er Rómveriar kölludu Scandinavia eðr Scandia (Skáuey). Land þetta liggr í enum nyrdri hluta ens temprada himinvegs á hveli jarðar, ímillum 55° 32′ og 68° 50′ nordl. br. Fyrir nordan þat og vestan er Norvegr, þá Jótlandshaf og Eyrarsund *); en fyrir sunnan og austan Gautland er Eystra-Salt og fyrir austan Sviþióð er Eystra-Salt, Helsingiabotn og Rússland nordaust, hvar Torneá og áinn Múonio skilia ríki þessi. Svíaríki er 8247 ferhyrn. mílur á stærð (hér umbil 8 sinnum vídlendara ríki, enn Danmörk).

At landslagi er Svíaríki Norvegi harla líkt: bædi eru þar einstök fiöll og vídlendir fiallaklasar, sem þó óvída eru svo háir sem í Norvegi. Í Nordr-hluta þess eru allvída óbygdir miklar, vadlar og forædi, snió-fiöll, jöklar og fyrnindi. Mikill fiölldi er þar elfa og vatnsfalla, í hverium eru forsar miklir og

*) Í forntíð skipti Vænir og Gautelfur ríki Norvegs- og Svía-konúnga, þó breyttust tídum þau landaskil.

hardstreymi. Umhverfis strandirnar er afargrút smáhólma og skéria. Mikil markland edr skógar eru þar vida, mørg stødu vatn og flóar miklir, svo akuryrkian er þar allvida ærit-ørdug og sumstadar óvinnandi. Í sudrhluta landsins er vída føgur og frióssøm landpláts og vel fallinn til akuryrkiu. Høfud-fiallgardrinn í landinu er Kislrinn, er vid Heriadal kallast Sevebiørg, hann er 8 til 10 mílur á breidd og endar at sunnanverdu nálægt Gautaborg. Grein nokkr gengr af hønum í sudaustr ímillum Vermalands og ens eiginliga Svíaríkis og millum stórvatna þeirra, er Vænir og Veitur kallast; þat hærsta fiall í þessum fiallgardi er Kinnakulafiall (3000 fóta). Frá Kislnum liggia einnin allmiklir fiallgardar í austr um Nordurland og Lappmørk. Fiøll þau, er gánga í nordr frá Helsingiabotni alt til Ísa- edr Dumbshafs, eru þau hærstu í Svíaríki (nl. 5 til 6000 fóta). Alleina eru fiallsræturnar þar skógivaxnar, en efri hluti fiallanna er eintómr jøkull og urdir.

Medal enna mørgu og vatnsmiklu elfa í landi þessu eru: 1. Dalelfa; þat er hit mesta vatnsfall í Svíþiód og verdr hún úr tveim ám, er koma úr Austr- og Vestr-dal og renna saman

fyrir sunnan Siliansió. A þessi er glidsrótt og strid og fyrir þvi ei skiplæg; hún rennr um Gestrekaland og kémr til siáfar út í Helsingiabotn. Yfir hana liggia margar konstugar brýr; hún er hérumbil 60 mílur á lengd. 2. Claraelfa, er kémr frá Fæmundssió i Norvegi, hvar hún kallast Fæmunds-elfa; hún fellr um Vermaland og rennr í Vænir vid Carlstad. 3. Gautaelfa (Elfur), er rennr úr Væni, frammhiá Bahúsi og út í Jótlandshaf vid Gautaborg. Hún er 10 mílur á lengd; og er í henni fors sá, er Trollhetta heitir. 4. Mótala-straumr féllr úr Veitum og rennr í austr um Austur-Gautland og steypist framm af 16 álna háum kletti í vik þá af Eystra-Salti, er Brávik heitir. 5. Angermanna-elfa í nyrdri hluti Svíarikis, rennr í Helsingiabotn; ásamt 6. Tornea-elfu, er kémr úr nordri frá Lappmerkur fiellum.

Torsærur þær, sem hamla skipum frá at leggia upp eptir elfunum í Norvegi, eru med sama móti í Svíariki; þó eru þar sumar ár, sem skiplægar eru lánga leid. Þar eru og siki grafinn til at létta flutnínga timburs og annara hluta, er frá upplandinu flytiast; medal þessara kanala má hér nefna: a. Trolhettu-kanalinn, sem grafinn er ødrumegin vid Gautaelfur, hvar nefndr fors hamlar allri skipaferd um ána; sikit er grafit ígégnum klett og er 6600 fóta á lengd, 22 á breidd og 9 fóta diúpt, svo nú

géta byrdíngar lagt frá Væni til Gautaborgar. Þetta mikla þrekvirki stóð yfir í 7 ár (1793 til 1800). b. Carlsgrøf, þar sem nefnd á rennr úr Væni; því ei er hún þar skiplæg. c. Arboga-kanalinn, ímillum Hialmarsiós og Løgsins, og d. Straumhólms-kanall í Vestmannalandi.

Støduvøtn þar eru þessi: 1. Løgurinn, (nú Mælar) í enni eiginligu Svíþióð; hann er 12 mílur á lengd og 6 á breidd, hann er diúpr og fiskivatn gott; úr hønum renna ósar tveir í Eystra-Salt, er Nyrdri- og Sydri-Straumr kallast, en fyrrum kalladist Stokfsund. Í Løginum liggia yfir 1300 forkunnar fagrar eyar, sem prýddar eru skrautligum byggíngum og høfudbólum. 4 mílur í sudvestr þadan er 2. Hiálmarsiór (Hjelmar), sem er 6 mílur á lengd og 2 á breidd: auk fyrrnefnds sikis rennr affalli úr hønum í Løginn 3. Vænir (nú Vener) vestar í landinu, ímillum Vestur-Gautlands, Dalslands og Værmalands; hann er allra vatna mestr í Svíaríki og skiptist í tvo hluti, nefnil. hinn eiginliga Vænir og Dalbúsió. Hann er 14 mílur á lengd og 6 m. á breidd (48 ferh. m.) 4. Veitur (Vætter) í sudvestr frá Løginum; þat er eitthvert hinn kasta støduvatn í landinu, er 15 m. á lengd, en 4

á breidd; í þat renna 40 elfur; og 5. Stór-sióriun í Jamtalandi er 7 milur á lengd, en 3 á breidd.

Ei er land þetta svo vagskorit sem Norvegr og ei plaga menn at nefna þar adra markverda firdi, enn a. Helsingiabotn (den bothniske Bugt; Sinus bothnicus), svo kallast hinn nyrdri hluti Eystra-Salts edr hafsbotn sá, er gengr i nordr frá Allands-eyum til Tornea, ímillum Finnlands og Nordurlands; og b. Svínasund, er skilr Norveg og Svíaríki á þann bóginn.

Eptir því sem landkort sýna og almennast tídkast, skipta menn Svíaríki í 4 höfudparta, nl. I. í Svíþiód edr hit eginnliga Svíaríki, II. hit Gautska ríki (Gautland), III. Nordurland og IV. Lappland.

Í tilliti til lands og lýda stiórnar og skattskriftar, skipta menn landinu í 22 lén edr landshöfdingiadæmi (sýslur), og í tilliti til lögdæma, í 2 Hofrétti, er nefnast: hinn svenski Hofréttr í Stockhólmi, undir hvern liggia 10 lén edr sýslur, og hinn gautski Hofréttr í Jonkiopingi, þartil heyra hin 12 lén.

## I. Svíþiód edr hit eiginnliga Svíaríki

liggr í midiu ríkinu vid Eystra-Salt og Helsingiabotn, fyrir sunnan Nordurland og nordan

Gautland og nær alt til Norvegs takmarka í vestr. Land þetta skiptist aptr í 5 landsálfur, nefnil.

1. Uppland (Uplandia), fyrir nordan Løginn; þar eru þessir stadir:

Stockhólmr (Holmia; 50° 20′ n. br. og 35° 36′ austl. l.) höfudborg ríkisins og heimili konúngs og stiórnarrádanna; hún stendr bædi á meginlandinu vid Løginn og á 8 hólmum í honum og bádumegin vid vík þá af Eystra-Salti, í hvoria fyrrnefndir ósar renna undirstadar brúnum; borgin er 2 mílur ummáls og stendr á miøg ósléttum og margbreyttum grundvelli, þar strætinn ligga upp og nidr af hædum og sumstadar ímillum hamra og kletta, og standa vída húsa-radirnar í allmiklum hallanda; í kríngum hana eru háir ásar og þykkir skógar; sá hólminn, hvar hinn eldsti hluti stadarins stendr, er fiølbygdastr og ber sérílagi nafn borgarinnar; þar er kóngsgardrinn, kaupmannasamkundan, riddarahúsit, hvar adalsmenn halda samkomur sínar á þiódþíngum, þiódsióds- og kóngsstedia-húsit og rádstofan. Frá hólma þessum gánga brýr til þess hluta stadarins, er á meginlandi stendr, samt til hólma þess, er Riddarahólmr er nefndr. Á hólminu er afarmikill salr eda höll, er Ríkissalr kallast; þar

halda ríkisstøndinn samkomur sínar, samt slots-kyrkian, ríkisins skialahirsla, hit konúngl. bóka-safn (30,000 bindini) og mikit safn fornra kiør-gripa og málverka. Í borg þessari eru 6000 bygggíngar, 22 kyrkiur, 18 torg, 13 brýr og hérumbil 70,000 innbúar, er versla miøg bædi vid landslýdinn og adrar þiódir; þar eru margs-konar verkstadir til allskonar verksmídis og vefn-adar, lærd féløg, bókasøfn, lista-háskóli og alls-konar allmennar stiptanir. Medal kyrknanna má 3 telia, er af ødrum bera, nl. St. Nicolai kyrkia, sem er afargømul, St. Geirþrúdar kyrkia med 111 álna háum turni, og Riddarahólms kyrkia. í hvorri legstadr konúnganna finnst. Vid borgina er ágiæt høfn, hvar mikill herskipafloti gétr legit, en insiglíngin til hennar er torveld, hvaria kastali sá, er Vaxhólmr heitir, ver ásamt Fridriksborg.

Landit umhverfis borgina er forkunnar fag-urt; þar eru ýmsir skrautligir lystigardar og konúngligr slot, medal hverra telia má: Haga, skamt frá borginni, Ulfriksdal, nokkut lengra burtu og Drottningarhólm á Løfey i Løg-inum, þat er allra þessara lystigarda fegurst og sitr kóngr þar iafnan á sumrum med hird sinni. Á Carlsbergs-sloti, skamt fyrir vestan borgina, er kóngligr háskoli fyrir þá, er giørast skulu foríngiar bædi skipa- og landsslids. Át nordan-verdu vid Løginn stód fyrrum Sigtún (Sig-

tuna), einhvor hinn eldsti stadr á Nordurlöndum, er 1188 var í grunn eydilagdr; nú er þar lítit þorp. Þar tók Odin sér bústad og giördi þar mikit hof og blót.

Uppsalir (Upsala; Upsalia), 7 mílur fyrir nordan Stockhólm, bádumegin vid Fýrisá; þat er afargamall stadr, og er nú fremr nafnkéndr fyrir sakir elli sinnar og háskólans, er Steinn Sturi hinn eldri stiptadi þar 1476, enn sökum stærdar edr fegurdar, því eins eru þar, sem í ödrum borgum í Svíaríki, hvervetna lægri húsakynni, enn sidr er til á ödrum löndum. Þar er dómkyrkia, er bygd var á 13du öld, og er þat vegligt musteri, 360 fóta á lengd, 152 á breidd og 115 fóta á hæd, med koparþaki yfir, þar er legstadr ýmsra afbragdsmanna, og þar króna Svíar kónga sína. Þar er einnin atsetr erkibiskupsins, sem ávalt er forstödumadr háskólans, hvörium tilheyrir ágiætt bóka- (50,000 bindini) og ágiætt handrita-safn (Codex argenteus o. s. frv.) myntir, náttúrugripir, urtagardr, stiörnuturn og fl. Þar eru 4500 innbúar. Freyr reisti fyrstr manna at Uppsölum hof mikit og setti þar höfudstad sinn og hófst þá Uppsala audr, er lengi helst vid.

Fornu Uppsalir (gammel Upsala) er 1 mílu fyrir nordan Uppsali. Þar meina menn blótstadrinn edr hofit stadit hafi; sá stadr

var ei síðr nafnkéndr í Svíaríki, enn Hleðra í Danmörku. Ei lángt á brott er hin svokallaða Köngamörk, hvar Eyrikr hinn helgi var drepinn 1160. Eina mílu fyrir sunnan Uppsali má finna þá í norðurlanda sögum nafntoguðu Mórasteina, hvar Svíar í forntíð völdu kónga sína.

Í norðr frá Uppsölum (4 mílur) er Dannemóra; þar eru þær mestu járnnámur í Svíaríki. Alls eru þær 70, en alleina í 25 er járns leitat; þær eru 80 faðma diúpar og géfa 4 til 500 manns nóg at vinna. Þaðan flytst árliga 400,000 til 475,000 vættir járns, sem er þat besta er finnst í landinu. Norðar er Lösssta, þar er hin mesta járnsmiðia Svía með 2000 verkamönnum. Eyrargrund (Öregrund) er þorp nokkurt við Eystra-Salt með 700 innbúum, sem eru nafntogaðir siómenn. Ströndina norðr með sæ frá Agnarsfit (við Stokkfund norðanverðt) kölludu fornmenn Siáland. Nokkurn hluta Upplands kölludu þeir einninn Tíundaland og Attundaland við Löginn.

2. Suðurmannaland (Sudermannia), þat liggr fyrir sunnan Löginn og við Eystra-Salt. Staðir þar eru:

Nýkaupángr (Nyeköping; Neocopia), þat er lítill höndlunarstaðr við Eystra-Salt, með 2400 innb.; þar er skóli og eptirstöðvar af kastala þeim, hvar Birgir jarl svelti til dauða bræður sína Eyrik og Valdemar.

Strengnes vid Løginn; þar er biskups-setr, dómkyrkia, skóli og 1200 innbúar. Vestar er: Eskilstún; þar er sú stærsta stálsmidia í Svíaríki. Gripshólmr er kóngsgardr á ey í Løginum. Framundan bádum þessum løndum liggia Svíaskér.

3. Nerike (Nericia) fyrir vestan Sudurmannaland; þar er gamall stadr, er Eyrarbrú (Örebroe) heitir, vid Svartaelfu-ós og Hiálmarsió; þar er slot og 3200 innb. Þár hafa og nokkrir þiódfundir haldnir verit. Askersund er nordanverdt vid Veitur.

4. Vestmannaland (Vestmannia; fyrr. ennin kallat Fiathryndaland) nordar og fyrir vestan Uppland; þar er Vesturós, (Arosia), litill stadr í nordvestr frá Stockhólmi; þar er veglig dómkyrkia, biskups-heimili, gamalt slot, skóli og 3000 innb. Þar var haldin merkr þiódfundr um sidaskiptinn 1544. Lengra nordr er Sala (edr Salberg), hvar landsins merkverdasta silfurverk var, er Gustafr Adólfr setti á stofn; þat er nú á døgum svo at þrotum komit, at ei finnst þar tólftúngr vid þat, sem þá best lét; námurnar eru 160 fadma diúpar og gésa árliga af sér 1000 pund silfurs. Loka og Sæter eru heilnæmis-brunnar. Arboga, skamt frá Arbóga-síki, er stadr med 1600 innb. Nóra er bergstadr austar.

5. Dalirnir (Dalekarlien, Dalkarlia; fyrrum Járnberaland) eru nordvestr hluti ens eiginnliga Svíarikis. Land þetta er fiöllótt miøg og skiptist í Austr- og Vestr-dali; þar er bergstadrinn Falún í ófriófsamri og grýttri fiallbygd, á eydi millum tveggia vatna. Þar er hit stærsta koparverk í Svíariki og eitt hvørt hit mesta í Nordurálfu heims. Um upphøf þess vita menn ei at segia. Grýfiurnar eru 180 fadma diúpar og árliga finna nærhæfis 500 manna, er at greftinum vinna, 20 þúsund vættir kopars, auk gulls og silfurs, blýs og saltfýru, samt 1000 tunnur rauds farfa, med hvørium Svíar almennt mála hús sín dsckraud. Þat er mælt, at koparverkit olli svo mikils óheilnæmis og óhollustu, at sialdan komist bæarmenn yfir fimtugsaldr. Sifeldr málmþoku-møkkr sitr yfir bænum og umhverfis hann og fylgir hønum þvílikt bannvæni, at ei má nokkurs gródurs kénna hálfa milu vegar øllumeginn frá bænum og varla séfst mosi þar á steinum. Þat er annars trú og søgn bæarmanna, at einginn drepsótt fái á þá unnit.

Mora og Isala eru þorp tvø í Dølum, er um er gétit í søgunni af Gustafi Vasa. Heidmora og Elfdalr nordar, þar er porphyrsverk.

Athugagrein. Innbúar dala þessara

kallast almennt Dalakarlar; þeir eru heldr fátækir, enn audugir, hardfengir eru þeir og hugadir manna best, þeir unna miøg frelsi og fødurlandi sinu og eru trúir þegnar konúngi. Fiallbúar þessir eru frægir miøg af hreystiverkum í Svíaríkis søgum og hafa þeir áslundum, þá land og lýdr hefir í mesta vanda staddr verit, brunat framm sem varnar-einglar fóstur-jardar sinnar. Dalakarlar hafa sina málisku fyrir sig og halda fast vid háttum forfedra sinna; starfsemi og hagnýtni bæta þeim þat, er ófriófsamt land lætr þá þarfnast, og med því at bergverkin ei sá þeim heima næga atvinnu, fara þeir um adrar sveitir bædi til at leita sér verkefna og at selia smídisgripi sina. J dølunum búa einnin Finnlendíngar, er Gustafr Vasa og Carl 9di budu þángat at flytiast til at ryðia skóga og yrkia jørdina; sveitir þeirra kallast Finnmarkir.

## II. Hit gautska Ríki (Gautþiód).

Þat er allr sudr-hluti Svíaveldis, og var þat eitt ríki útaf fyrir sig til 1132. A allar sidur nær þat til siáfar, utan at nordanverdu. J því eru málmar minni, en ardsamari akur-yrkia og skógar miklir og nægr fiskiafli í sæ og sætum vøtnum. Menn skipta ríki þessu i 3 lønd: Vestr- Austr- og Sudr-Gautland.

1. Vestr-Gautland, er sá hlutin er vestast liggr, vid Jótlandshaf og Víkina. Þat skiptist aptr i 4 lønd, nl.

a. Vestr-Gautland, syðst og við sæ; þar er: Gautaborg (Gothenborg; Göteborg; 57° 42) skamt frá Elfu-mynninu; hún gengr Stockhólmi næst at stærð, mannfiölda og kaupverslun, hvörri ei litit viðhiálpar, at Elfan er skipfær samt Trollhettusíki og hit afarmikla síldarfáng í Jótlandshafi. Igégnum staðinn rennr á litil, er Mølndals-elfa heitir; þar er heimili biskups og hérumbil 20,000 innbúa; 1100 hús eru í stað þessum, 1 dómkyrkia, látinu-skóli, vísinda-félag, 2 spitalir fyrir föðurlaus börn og miög stórt fátæklingahús, nægtabúr mikil, kaupmanna-samkunda, góð höfn og skipa-smíða-verkstaðir. Um borgina eru varnarveggir giørdir með 2 skonsum; en frá sióſiðunni ver hana kastali sá er Nýa Elfsborg heitir, er stendr á tveim klettum í elfunni skamt frá borginni.

Athugagr. Carl 9 lét 1609 reisa borg þessa á ey þeirri, er Hísing heitir; en í Calmar-stýriøldinni brutu Danir hana í grunn, þar hún var kaupskap þeirra til baga. Gustafr Adolfr lét hana á ný byggia á meginlandi, hvar hún nú stendr og veitti henni einkarétt 1619.

Vænirsborg (Venersborg) í norð-austr frá Gautaborg við vatnit, sem hún er við-kend, nálægt afhlaupi Elfunnar. Þar er her-tøhús fyrir 24,000 manns. Liðkaupángr (Lidköping; Lidcopia) er almikit þorp fyrir

suunan Vænir og nokkut sunnar Skara (fyrr. í Skaurum), þar er biskupsstóll, dómkyrkia og skóli. Í sudvestr þadan er laudstadrinn Borås med 2000 innb. Þar eru og Allingsås, Mariustadr og Falkaupángr.

b. Bahús, Bahúslén edr Bagahús; þat liggr fyrir nordan Gautaelfur strandlengis vid Víkina alt til Svínasunds, kalladist þat fyrrum Ránaríki og Alfheimar. Þar eru þessir stadir:

Udavellir (Udevalla) í vestr frá Vænisborg vid vik nokkra; þat er forn stadr med 3200 innb. Nordar og vestar er: Straumstadr; þat er kaupstadr med 1460 innb. At nordanverdu vid Gauta-elfur er Kóngahella edr Kóngaelfa, þat er afar forn býr, og var áſtundum konúngsheimili. Þar mæltu optsinnis Nordurlanda kóngar mót med sér, þá um stórmæli var at giora. Marstrand er kaupstadr á eyu nokkurri í Jótlandshafi nærri landi; þar er ágiæt høfn, er fyrrum var frí. Skamt frá stadnum er rammbygdr kastali, er Carlssteinn heitir, er Tordenskiøldr vann 1719.

Fyrir nordaustan Marstrand eru hin hættuligu Paternoster-skér og framm undan strøndinni fyrir sunnan Straumstad er Sótanes og sunnar vid strøndina eyarnar Ordost r (nú Oroust) og Þiorn (nú Tiorn). Bahus edr Bagahús er forn og lítt nýt festíng á hólma í Elfunni, skamt frá Kóngahellu; vid hana er land þetta kéndt.

c. Dalsland, þat liggr austar, og vid Vænir vestanverdan og kalladist fyrrum Nord-

dalr, Sunndalr og Markir; þar er alleina kaupstadrinn Amál (Aamal) vid Vænir vestanverdan.

d. Vermaland, þat liggr fyrir nordan Vænir; þar er:

Carlstadr, á fagurri eyu í Claraelfuósum, bygdr af Carli 9da; þar er biskupssetr, dómkyrkia, skóli, rádstofa og 2200 innb. Þángat sækia Vermlendíngar í Júníi mánudi og er sá fundr kalladr Pétursmessa; fer þar alt framm med gladværd og dæmasáu hóglyndi.

2. Sudr-Gautland, þat er sydsti og fiölmennasti hluti landsins; þat er at mestu leiti slatt kornland og líkt Danmörku at landslagi. Nyrdri hluti þess er nokkut hálendari og hædóttari; því skipta menn í 3 parta, nl.

a. Skáney (Skaane), þat er Svíaríkis besta kornland og liggr þat gagnvart Siálandi; at nordanverdu skilr Hallands-ás Skáney og Halland. Nokkut sunnar gengr höfdi nokkur úti Jótlandshaf, er Kúll (Kullen) kallast; á hönum er viti kindtr. Í Skáney eru þessir stadir: Kristiansstadr, er umflotinn á 3 vegu af Helgá, 2 mílur frá Eystra-Salti; stad þenna lét Kristián kóngr 4 giera 1614; þar eru 3000 innb. Ahús (Aahuus), vid ármynnit, er höfn Kristiánsstadínga. Í sudvestr þadan er: Ystadr, sydstr allra stada í Svía-

ríki, við Eystra-Salt, með 2700 innb. Þaðan gánga flutníngsskútur til Stralsunds á Vindlandi. Norðar er: Málmey (Malmogia), þat er kaupstaðr með 6000 innbúum við Eyrarsund gagnvart og 4 mílur frá Kaupmannahöfn; þar er víggirðt slot, skóli og allgóðir handskaog tóbaks-verkstaðir; þar er kornverslun mikil; þar umhverfis eru akrar góðir og kornlønd við Lýðá; þaraf er máltækit: ei géta allir búit á Lýðár bøkkum. Norðar á sømu strønd er kaupstaðrinn Landskróna, bygðr af Eyríki af Pommern 1413; þar er víggirðt høfn, hvar nokkr hluti Skériaflotans liggr, og heimili 2800 innb. — Þar sem Eyrarsund er mióst og gagnvart Helsíngiaeyri, er kaupstaðrinn Helsíngiaborg með 2100 innbúum. Skamt þaðan er heilsubótar-brunnr, er Ramløse kallast; á sumrum sækir þángat múgr og margmenni. Uppí landinu, $1\frac{1}{2}$ mílu í nørdaustr frá Málmey, er: Lundr (Londinum Gothorum) einhvør hinn elðsti staðr í Norðurløndum; þar er heimili biskups og 3200 innb. Þar er afarforn dómkyrkia og veglig, helgut dýrðlínginum Laurentius af Knúti hinum helga Danakonúngi, er ásamt føður sínum Sveini kóngi Ástríðarsyni (Ulfssyni) lét þessa kyrkiu giøra; þó segia menn, at ei væri smiðinni at fullu lokit

fyrri enn 1125, þá hin svokallada Kraptkyrkia, sem bygd var undir hinni, var búin og vígd. Þar er einnin háskóli, hvørs formadr biskupinn er, stiptadr 1666 af Carli 11ta, bókasafn (20,000 bind.), stiörnuturn, urtagardr og náttúrugripa-búr.

Í Lundi var fordum heimili Skáneyar kónga. Árit 1168 stiptadi Sveinn kóngr Ulfsson þar biskups-heimili, er seinna (1103) giørdist erkibiskupsstóll á Nordurløndum; þar biuggu um lángar hrídir enir ríku og voldugn erkibiskupar, er vóru kéndir vid stad þenna, og sem optsinnis ei vildu fyrir sér at elta grátt silfur vid Danakonúnga. Þá Lundr stód med mestum blóma, vóru þar 22 kyrkiur; má þaraf ráda stærd hans og aud. Skamt frá Lundi er hæd sú, er optsinnis finnst gétit í fornum søgum og kalladist Slibbarshæd (St. Liborii hæd), hvar landsmenn hyltu kónga sína.

Skáneyri og Falsterbú eru tveir litlir stióstadir á sudvestr horni Skáneyar. Þá strøndina, er í landsudr horfir, kølludu fornmenn Skaneyar-sídu.

Undir Skaney liggr ey nokkr í Eyrarsundi framm undan Landskrónu, er Hvedn (Hveen) heitir; hún er 1 míla ummáls og hefir 400 innbúa; hana afsøludu Danir Svíum 1658. Sérilagi hefir ey þessi nafnkunn ordit af enum vídfræga danska stiørnuspekingi Thycho Brahe, er fékk hana at giøf af Fridriki 2rum 1576. Brahe lét þar giøra háreistan hofgard med tveim

turnum og kalladi Uraniuborg, samt annan minni stiornuturn, er hann kalladi Stiornuborg; þar hafdi Brahe sín dýrmætu verkfæri og nafntogudu himinhnetti; en þá hann kom í útvíngan vid konúng, fór hann utan og stórvirki hans hrörnudu brádum; svo nú siást valla aurmál Uraniuborgar.

b. Halland, þat liggr strandlengis vid Jótlandshaf; þar er skortr á korni og ödrum landgiædum, en mikil er þar laxveidi og fiskiafli. Þar er: Halmstadr vid Nidsár-ós med 1300 innb. Þá einn var konúngr yfir þremur nordurlanda rikium, skyldu þar, at kóngi látnum, þessara rikia fulltrúar mæta, til at velia konúng yfir sig. Nordar er kióstadrinn:

Falkenberg vid Svartá, hvar hinn nafnfrægi hersforingi Dana, Daniel Ranzau vann mikinn sigr á Svíum 1565. Nordar er höndlunarstadrinn Vardbierg (Varberg); þar er forn kastali; þar vann fyrrnefndr kappi gagn í orrustu vid Svía 1569 og féll þar. Þaradauki er þar landstadrinn Siörod edr Knæred i sudaustr frá Halmstad, hvar sáttargiörd var samin millum Svía og Dana 1613; samt kaupstadirnir: Kóngsbakki og Lagaholmr, sem er sydstr og hinn nordastr i þessu landi.

Medal enna mörgu skéria vid Hallandsströnd er skér þat, er Nidingr heitir, gagnvart Hlésey, hit hættuligasta; þar er vitaeldr.

c. Bleiking (Bleking), fyrir austan Skáney og við Eystra-Salt; þat er gott land og viða skógivaxit. Þar er: Carlskróna (Caroli Corona) fyrir austan Kristiánsstað við Eystra-Salt; þat er fogr og hin 3dia mesta borg í Svíaveldi, er Carl 11ti lét giøra á 5 hólmum, millum hværra liggia býr; þar er stór og trugg høfn og eru henni til varnar giørvir 2 skansar, er Kóngshólmr og Drottningarsker heita. Þann hluta staðarins, er stólidsráðit hefir yfir at skipa — og hvar ena nafntogudu dock er at finna, sem er úthøggvin í klett, samt hvar herskipa byggingar- og endurbótar-verkstaðirnir eru — skilr lángr múrveggr frá hinum hluta hans. Í dokkunna géta øll herskip Svía legit og er þat því høfuð-skipastøð þeirra. Þar eru 10,500 innb. Vestar er:

Carlshøfn (Carlshamn; Caroli portus) með 3400 innb.; þar er kastali og trygg høfn. Kristianopel, almennt kallut Nopel, bygð af Kristiáni 4da 1600; Sølvitsborg, fyrr. Sølliøborg og Rønnebýr eru litlir stóstaðir við Eystra-Salt.

Øll þessi 3 lønd, er síðst var fráskírt, vóru eign Danakonúnga, uns þau vóru afsøluð Svía kóngi í sáttargiørðunum í Hróarskeldu 1658 og í Kaupmannahøfn 1660, og hafa þau síðan legit undir Svíaveldi.

3. Austr-Gautland, þat liggr, sem

nafnit bendir til, hit eystra, nl. vid Eystra-Salt. Pat skiptist í 2 parta á meginlandi og 2 allmikil eylönd í Eystra-Salti.

a. Austr-Gautland, þat liggr fyrir sunnan Sudurmannaland og nordan Smálönd; þar eru þessir stadir: Nordkaupángr (Nordköping; Norcopia), bádumegin vid Mótala-strauminn; þat er allmikill verslunarstadr og merkr býr, med því þar eru verkstadir miklir, klaustr fyri 7 adalbornar meyar, lystispilahús, spitali fyrir födurlaus börn og margskonar verkstadir eda vodverk og málmasmidiur og 8600 innbúar. Í sudvestr þadan er Linkaupángr (Lindköping; Lincopia) vid Stangá; þar er biskupssetr, forn dómkyrkia, hofgardr, skóli med gódu bókasafni og heimili 2400 innb. Vestar er Vadstena (Vadstenum), austanverdt vid Veitur; þar er forn hofgardr, 2 kyrkiur og siúklíngahús og 1400 innb.

Þar var fyrrum hit nafnkénda Vadsteina-klaustr, er sett var á stofn 1344 af enni helgu Birgettu; meniar þess er alleina kyrkian, er enn þá stendr uppi, í hverri geymast lik allmargra Sviakonúnga og tignarmanna. Sudrkaupángr (Söderköping; Sudercopia) er litit kauptún í sudaustr frá Nordkaupángsi. Medevi er hin eldsti og nafnkéndasti heilnæmisbrunnr i Sviariki.

b. Smálönd, liggia fyrir sunnan og vestan Austr-Gautland. Þar eru þessir stadir: Calmar (Calmaria), þat er forn og viggirdtr höndlunarstadr vid sund þat, er skilr Eyland og meginlandit og kéndt er vid stadinn; þar er biskupssetr, dómkyrkia, forn hofgardr, í hverium enn þá finnst salr sá, hvar giördr var hinn nafntogadi Calmarski samníngr 1397, at einn skyldi konúngr vera um aldr og æfi yfir öllum 3 nordurlanda ríkium. Þar eru 4200 innbúar. Vid sudr-endan á Veitum, í einka fögru héradi, er Jónskaupángr edr Jönakiöping (Jönköping; Junecopia); þar er heimili hærstaeda Hof-réttar dómara yfir giörvöllu Gautariki og 4100 innbúa.

Eina mílu fyrir sunnan Jönakiöping er berg nokkurt 400 fóta á hæd af eintómum járnmálmi, er Taberg heitir.

Vexiö (Vexionia), vid hinn hélga sió, sunnanverdan, í útnordr frá Calmar; þar er biskupssetr og skóli og 1400 innbúar. Vestrvík er kaupstadr vid Eystra-Salt fyrir nordan Calmar med 2600 innb.; og á ströndinni fyrir sunnan Calmar er Bruusebrú (Bromsebro; Bromsebroa); þar mátti 1645 Danakonúngr ofurselia Svíum Heriadalinn, Jamtaland, eynarnar Gottland, Eyland og Eysýslu í Eystra-Salti, samt Halland í 30 ár.

Héradauki má telia landstadin Vimarby

(Vimmerby; Vemmaria) fyrir sunnan Vestrvik og Adalfors, nokkut sunnar; þar er gullnáma. Vernandi (Værnands), sem er adalligt stórbýli og var atsetr hins nafntogada Axels Oxenstiorna. Visings- edr Visnis-ey, í Veitum, er harla friófsöm; þar er skóli. Allra þessara bæa finnst getit í gömlum sögum, samt í Smálöndum, Brávallaheidar, sunnarliga.

c. Eyar 2 í Eystra-Salti, nl. 1. Eyland er allstór ey (14 ferh. m.) 1 mílu undan landi og framundan Calmar. Eyarmenn eru 22,000 at tölu og er kaupeyrir þeirra sérílagi timbr, álún og kalk. Midt á vestrströndinni stendr nafnkendr og forn kastali, er Borghólmr heitir (fyrr. Þórsborg); þar er höfn gód. Eyland heyrdi i lánga æfi Dönum til, en þeir afsöludu þat Svíum í sættinni í Brunsabrú 1645.

Í Calmarsundi, nærhæfis 1 mílu frá Eylandi, er eydi-biargey nokkr, er Jómfrú edr Blákolla er nefnd; yfir henni er ávalt bláleitr þokumokkr og er hún sióferdamönnum afarmeinlig. Þar heldr alþýda sé aldiesli og meinvætta-býli.

Í nefndu sundi og nordr med landi eru skér þau, er Gautaskér kölludust, og fyrir nordan þau Sótaskér framundan Nýakaupángri og þá Svíaskér nordr med Svíaþiódarströndum.

2. Ey-Gotaland edr Gottland

(Gothland edr Gulland), þat er almikit eyland (nl. 18 mílur á lengd og 7 á breidd) fyrir austan Eyland; kalk, sandsteinn og marmari er hinn ardsamasti kaupeyrir Gotlendinga. Þar er: Visbýr med 3600 innbúum; þat er forn kaupstadr á útnordr strøndinni og biskupssetr.

Visbýr taldist medal Hansastada á midium øldum og var hann þá afarauđugr og hafdi yfir allri kaupverslun í Eystra-Salti at skipa; farmannaløgum Visbýinga fylgdu þá ýmsar þiódir. En eptir at Valdemar atturdagr vann 1361 stad þenna, fór hønum heldr hnignandi. Þar lét Eyríkr af Pommern giøra kastala þann, er Visborg hét 1411, og dvaldist hann þar um hríd. Gagnvart Visbý, á austrstrøndinni, er bær sá, er Sudheimr heitir og sunnar, nokkut frá sæ, Rúma edr Róma-klaustr, hvar landshøfdinginn sitr. Þat meina sumir, at enir fornu Gautar edr Gotar fyrst hafi byggt eyu þessa. Snemma vóru eyarbúar kaupmenn góđir, en med því at sveim og órói var allopt í eyunni, fengu Svíar færi á at brióta hana undir sig med hernskildi 1361. Eptir þat vard hún víkingabæli þartil hinir þýdsku riddarar kostudu eign sinni á hana; eptir þat brigdadi Margret meginekkia eyuna med 9000 gullkrónum og vard Eyríkr af Pommern eignarmadr hennar, er sídan ofurseldi hana Kristiáni konúngi 1ta, og var hún upp frá því eign Oldinnbyrglínga til 1645.

## III. Nordurland (Norrlandia).

Þat liggr nordr med Helsingiabotni frá Upplandi til Rússaveldis takmarka og er þat hérumbil 120 milur á lengd; med því at þar eru fleiri fiöll og meiri esia og ófærur, enn annarsstadar í ríkinu, er þat ei at furda, þó korn skorti þar og annan jardar-ágóda; er því fiárrækt, skógarhögg, fiskiafli og veidiskapr þvínær einúngis biargrædisvegir landsmanna. Þar koma til siáfar í Helsingiabotn mörg og mikil vatnsföll, er flest koma frá Lapplandi. Menn greina land þetta í 7 lönd, nl. Gestrekaland, er sydst liggr, þá Helsingialand, þá Medalpad, þá Angurmannaland og Vesturbotn, nordast; öll þessi lönd liggia vid sæ; en Heriálfsdalr og fyrir nordan hann Jamtaland liggia vid Norvegs landamæri og ná þau hvergi til siáfar. Öll þessi lönd eru 3 landshöfdingiadæmi. Í Nordurlandi eru þessir stadir:

**Gefle** edr **Gefleborg** (Gevalia) í Géstrekalandi vid fiörd og árós, sem bædi eru kéndt vid kaupstad þenna, hann er allsnotr og liggr vel; þar er 1 kyrkia, sœrnt slot (Gefleborg), skóli og skipalega, hvoria ver skansi nokkr, og 6000 innbúer. Nordar eru 2 smástadir í Helsingialandi, nl. **Sudurhöfn** og enn þá nordar **Hádavíkur-vellir** (Hudviksvall) vid Hádavík, med 1400 innbúum, er verslun og

hafa skip í förum. Í Medalpad er litit kaup-tún, er Sundsvellir heitir, med 1600 innb. Hernøyarsandr á ey nokkurri í Angrmanna-elfu-ósum, er Herney heitir; þar er landshöfdingia- og biskups-setr, skóli, prentverk, er hefir einkaleyfi til at prenta bækur, ritadar á lappi-lendska túngu, og 2500 innb. Í Vesturbotni eru 2 torp, nl. Umeá, sunnarliga á strøndinni og Piteá nordar, bædi vid ár, er eins heita. Nokkr hluti lands þessa var affaladr Rússum 1809. Í Heriúlfsdal og Jamtalandi eru engir stadir edr stórbæir, at verdt sé at géta.

IV. Lappland (Lapponia),

er Lappar kalla Samen, en Svíar Lapp-mørk. Þat liggr nordr med Kiøl austanverd-um, imillum Vesturbotns og ens rússiska Lapp-lands hit eystra, og Nordurlanda í Norvegi hit vestri; fyrir sunnan þat er Jamtaland, og hinn norska Finnmørk fyrir nordan þat, og nær þat hvergi til stranda. Stærd þess er nærhæfis 1800 ferh. m.

Landi þessu hafa menn skipt í 6 Lapp-merkur og nefndt þær eptir þeim løndum, er liggia fyrir austan og sunnan þær, t. d. Jamta-lands Lappmørk sydst, fyrir nordan hana Asele, edr Angrmannalands-mørk, svo Umeá-Lappmørk, svo Piteá-Lapp-mørk og fyrir nordan hana Lullá-Lappmørk.

og Torneá-Lappmork (Ymisland) nordast og er hún vídlendust og hrióstrugust. Ekkért Þorp er þar svo stórt, at stadr heitit géti, og eru þar prestasetrinn merkiligitn bæir. Varníngr Lappa er ærin grávara og safali, þeir selia og margskonar búsgögn af tré, því þeir eru gódir trésmidir og vel skurdhagir.

J landi þessu eru vída fiöll og joklar, sumstadar flatlendi og þar mýrar og forædi, margar ár og mikil stoduvötn; þar eru vedur hord og vopr, láugir vetur (frá September til Júuii mánadar) og stutt sumur, en afar heit og miog sliótt grodr á vorum; nordast í landinu gengr sól ei til vidar í 6 vikur. Alleina í sudrparti þess verdr jardyrkiu vidkomit. Innbúar þess kallast Lappar, en siálfir kalla þeir sig Samets, og þykir þeim sér háduńd giorr, þá þeir eru Lappar nefndir. Paradauki búa þar finnskir og svenskir nýbyggiarar, er flutst hafa þángat, annathvert fyrir sakir ørbyrgdar, edr fyrir tilstilli konúngs, at þeir kénni landslýdnum akryrkiu og fiárrækt; þeir eru hérumbil 1600, en Lappar eru nærhæfis 4000 at tolu. Búnadr karla og qvenna er miog áþekkr (nl. húa, hempa og skinnsokkar), þó brúkar qvennfólkit meira glingr; flestar naudsyniar og lifsuppeldi sitt hafa þeir af hreinum sinum, fiski- og dýra-veidum villiávoxtum og rótum; heimkynni þeirra eru annattveggia tiöld eda kofar. Eptir ólíkum atvinnu-störfum þeirra, hafa menn skipt þeim í 2 flokka, nl. Fiall-lappa, er flakka sífeldt um

kríng með hreinahiardir sinar frá einu haglendi til annars og liggia við tiold alla æfi; og Fiski-lappa, er eingin hreindýr eiga, en lifa ein-úngis af fiskifángi og dýraveiðum. Lappar brúka hreina til klifiaburdar og láta þau draga sleda sina. Hreindýrahiordum Lappa eru birnir og úlfar og onnur glepsandi villidýr skadsamligir andvarageslir, er allopt vinna þeim mikit tión. Ærin laxveidi er þar i hvorri á einkum i Taná, og færa Lappar sér þat vel i nyt. Þeir eru komnir af finnskum ættstofni og eru Svíum i háttum og lunderni harla ólíkir. Málíska þeirra er náskild finnskri túngu. At vexti eru þeir smámenni, móleitir og breidleitir, munn-stórir og gnúpleitir og heldr ófridir sýnum; jarpir eru þeir á hár og stutthærdir, allknáligir, hardir og miúkir; flestir eru þeir augnveikir; lunderuis einkunn þeirra er hugbleyda og hvorki skarar neinn maunkostr né løstr framm úr hiá þeim; þeir eru meinhægir og gédstiltir, sáfródir og hiátrúarfullir; þeir unna miøg fósturjørd sinni og lífa mørgum ánægdari. Þó þeir hafi skírast látit og numit kristilig frædi af svenskum klerk-um, eldir enn þá eptir af heidindómi hiá þeim, forneskiu og kukli.

I ødrum heimsálfum eiga Svíar ei nema litla ey vestr i heimi, er Barthelemi heitir; hana eignudust þeir 1784.

Þá menn athuga vidlendi og lengd lands þessa, mun þat ei ósennuligt þykia, at afar ólíkt og margbreytt er loptslag þar og vedurátt. Jøklar og marklønd, flóar og forædi olla hrá-

slaga og nepiu i nyrdri hluta þess, vetur eru þar lángir og snióasamir, vorinn køld og votviðra-som og hin óhollasta tíð ársins; sumrinn heit, og haustinn hin blídasta og þægiligasta árstíð. Í syðri hluta þess eru allar árstídir blídari og jarðvegrinn friðssamari, fiøllinn færri, akuryrk-ian ardsamari og at øllu leiti er hann svo áþekkr Danmørku, sem hinn nyrdri er Norvegi likr.

Hvat áhrærir ágóða landsins og kaupeyrir landsmanna, þá má því at mestu leiti á sama hátt lýsa sem Norvegs giædum; med því bædi eru þau lik og uppspretturnar enar sømu, nl. fiøll, skógar og sær.

1. Málma- og Stein-rikit: nøkkut gull finnst i Adalfors-námum og silfr kémr frá Sala silfurverki, kopar frá Dølunum, og ógrynni járns, einkum frá Uppløndum, Vermalandi og Vestmannalandi (hérumbil árl. 2,000,000 vættir) blý, tin og qvikasilfr; einninn álún, brennusteinn, vitriól (sýrusalt), steinkol (frá Skáney), por-phyrus, marmari, sandsteinn, qvarnar- skifu- eda fløgu-steinar, krystallar, nokkut salt. 360 ølkéldur eru i landinu.

2. Vaxtarikit: skógarnir eru réttkall-adar landsins gullnámur; því væri þar vidar-skortr, mundu landsmenn ei géta sært sér málma-rikis gáfur i nýt, og kostir þeirra heldr þraungir verda. Vídast i landinu, en einkum hit nyrdra, eru afar-vidlendir greni- furu- og birki-skógar, hvørra afrak er ógrynni timburs, tiøru, biks og pottøsku. Alleina hit sýdra finnst eykarskóg-ar, hvar kornvøxtr er allgódr, þó ei nógr fyrir

landit. J Skáney vex tóbak og humall; hvervetna eru þar litunar-jurtir og gagnligar mosategundir, og hit nyrdra gnægd villiberia, sem góð eru til mannsædis.

3. Dýrarikit: hestar Svía eru likir norskum hestum at stærd og edli, en illa medhöndladir. Nautpeningr er þar margr og saudfé smátt og ei ullargótt, geitfé og hreindýr. Villidýr og fuglar eru þar hinir sömu og i Norvegi. A seinni tidum hefir heldr sjásarafla aptr farit, en selir fiolgat, er vída veidast, einkum i Helsingiabotni. Ogrynni sildar veidist vid Gautaborg (3 til 400,000 tunnur), samt lax á Hallandi og i Helsingiabotni (árl. 20 til 25,000 tunnur), samt humrar og ostursskeliar. J stöduvötnum og elfum er hvervetna allmikil veidi.

Þiód sú, er byggir land þetta, kallast Svíar, og er hún ættbugr af enni forni þýdversku þiód, er bygdi Nordurlönd; þaradaukt búa þar Lappar, sem fyrr segir. Landslýdrinn er 2 milliónir og 640,000 at tölu, er deildr á ferhyrningsmilur, verdr 320 á hvörri. En miklu fiolbygdari eru hinar sydri landsálfur, enn hinar nyrdri; svoleidis eru 2888 manns á hvörri ferh. m. i Skáney, en i Vesturbotni 35 og i Lapplandi 5 á eins stórum landsparti. Svíar eru starfsamir atorkumenn, og venr þá landsins ásigkomulag vid eliun og hardmennsku. Sérílagi eru þessi daglig störf þeirra: akkuryrkia, er heldr þróast, fiárrækt, málmagreftir, skógarhögg, fiskiafli, veidar, hagnýting lands ágóda og handidnir, skipaferdir og kaupverslun.

Ei skortir Svía kunnáttu til at færa sér giædi þau í nýt, er øll náttúrurîki láta þeim í skaut falla, og hafa þeir því afarmarga verkstadi, í hvørium þeir tilreida þau, t. d. 102 silkivefara- 96 ullarklæda- 81 líus- og bomullar-dúka- og 10 segldúka-vefstadir; menn tilreida þar pappír á 40, spil á 13, sikur á 27, tóbak á 95, sápu á 9 og þrykkia kartún á 12 stødum í landinu og s. frv. Hvat málma- og steinstegundir snertir, þá er þar 1 silfurverk, 27 koparverk og margar járnnámur og 460 járnhømrunarsmidiur, 5 látúns- og 19 stál-smidiur, 6 fallstykkia-steypuverk, 4 byssu-smidiur, 6 púdurmillur, 7 álúnsverk og 10 glersteypur; menn giøra þar og porcellíns kér á einum stad.

Med því at bergverk og málmgreftir géfa Svíum mestan ard og ábata allra atvinnuvega, hefir konúngligt Rád yfir þeim at skipa og er því landinu skipt í 11 **Bergmeistaradæmi**; tala þeirra, er starfa at námum og málmagrøfum, segia menn sé 70,000dir manna.

Þótt konúngar hafi varit ærnu giøldi til at létta landsmønnum varníngsflutnínga og innanríkis kaupverslun, giørir engu at sídur landslagit þeim þvílíkar athafnir torfóktar; hin miklu stødvøtn, greidfærir þiódvegir, grafin síki, árligar kaupstefnur og akfæri á vetrum giøra þeim þó flutnínga og samfundi léttsóktari. Í landinu eru 28 kaupstadir (Stapelstæder), frá hvørium hérumbil 600 skip eru ávalt í førum og versla á Englandi, Frakklandi, Portugal, Spáni, Vallandi og Tyrkiaveldi, og hafa ærit gagn af

at leigia skip sin í Midjardarhafi. Parámóti er verslun þeirra í Ameriku, Afriku og Kína ei teluverd. Þeir auduguſtu kaupſtadir eru: Stockhólmr, (hvar allr helmíngr ennar svenſku kaupverslunar er), Gautaborg, Nordrkaupángr, Gefle, Carlskróna, Málmey, Landskróna, Marſtrand, og Udavellir. Kaupeyrir Svia er: járn (yfir 1,500,000 vættir árl. á ýmſan hátt lagat og ſmídat, t. d. fallbyſſur, kakalofnar, akkeri o. ſ. frv.), ſtál, timbur, kopar (eyr), tiara, bik, álún, vitriól, ſløgu- og qvarnar-ſteinar, ſild, lýſi, gróf lérepti, ſegldúkar o. ſ. frv. Parámóti kaupa þeir af ødrum þiódum: korn í Auſturvegi, ſalt í Sudurløndum, ſamt vín og ſudurlanda-ávexti, tóbak, ſilki, bómull, ull, hør, hamp og ýmisligan krydd-varníng frá Nýlendunum veſtr í heimi. Í alt ſelia Sviar fyrir hálfa millión ríkisdala meira árl. enn þeir kaupa.

Snemma á 11tu øld var kriſtni løgtekin í Sviaríki og Luthers endurbót kriſtindómſins 1544 at fullu í løg leidd og páfadómur bannadr; og hafa þar ſidan hin evangeliſku-lútherſku trúarbrøgd þiódtrú verit. Í ríkinu eru 12 biſkupar, hvørra gøfugaſtr er Uppſala-biſkup, er hefir erkibiſkups nafnbót. Biſkupsdæminn eru greind í 170 prófaſtsdæmi, og þau aptr í 3600 preſtaköll.

Skíringargrein. Fyrir ſakir ákéfdar ýmſra kathólſkra kénnara at ſnúa landslýdnum til hins forna páfadóms, leiddu Sviar í løg, at engir, utan Lútherſkir mættu bólfeſtu taka í landinu og fór ſvo framm til 1779, þá giørd

var sú skipan, at ønnur trúarbragda-féløg mættu þar búa, þó ei til valda setiast, né klaustur byggia, né telia adra á trú sína, og svo frv. Sídan hafa þar verit allfáir Katholskir, er hafa eina kapellu í Stockhólmi, grísk-kristnir, Reformeradir, Hernhúttar og Svedenborgianar edr þeir svokølludu Svevíkar; eru þeir engir allmargir; þeir sídstu hafa valit sér bústad í Vermdey í Leginum. Í høfudborginni hafa Judar eitt samkunduhús og miøg fáir hirast í Gautaborg, og annarsstadar ei, med því at velsemd þeirra og uppgángr er lítill í Svíaveldi.

Listir og fródleikr hafa haft og hafa í Svíaríki allmarga námfúsa og nafnfræga idkara, og því nær í øllum lærdómsgreinum hafa þar verit nafntogadir vísindamenn; einkum hefir mælingar- og náttúru-speki, brædslu- edr blondunar-frædi (Chymia), steina- og málma-þeckíng, búsliórnarfrædi og náttúrusagan (Linnæus), nordurlanda sagnafrædi og landaskipunarfrædi vídfrægt Svía og fremur eru þeir hneigdir fyrir alvarligann lærdóm, enn fegur vísindi; þó vanrækia þeir þau ekki, því allmarga hugvitsmenn og skáld má telia medal þeirra. At Uppsølum og Lundi eru háskólar 2, þeir einustu í ríkinu, og 12 látínuskólar (Gymnasia) einn á hveriu biskupssetri. Í nefndum stødum og høfudborginni er heimili lista og fródleiks, ýmsra vísinda félaga og bókasafna, samt geymsluhúr forngripa og allmargra sáfédra hluta. Meiri alúd leggia Svíar á enar hærri vísinda idkanir,

enn á almúgans upplýsíng, og fleiri eru látínu-skólar í landinu eptir tiltölu, enn almúgaskólar, hvörjir allvíða eru svo striálir, at ei mega úng-língar sækia þá, sakir vegaleingdar; til at bæta úr því, giöra umfarandi kénnendur húsvitianir hiá bændum til at uppfræda úngdóminn og eru ávextirnir af því sem optast ærit lakir. Nú segia menn, at kóngr rádi nockra bót á því. Til mentunar hermönnum eru þar 2 kóngl. háskólar og skólar fyrir þá, er giörast skulu foríngiar sió- og land-lids, á Carlsbergi og í Carlskrónu, samt farmanna-skólar í Stockhólmi og Carlskrónu.

Samqvæmt lagasetníngum, útgéfnum 1809 og 1815, er Svíaveldi takmarkat einvalds-dæmi, er gengr í erfdir alleina í karl-lyst frá fodur til frumborins sonar; konúngr skal vera fullra tuttugu vetra, þá til ríkis gengr og játa ena lúthersku trú. Uppsala biskup skal smyria hann og krýna. Engin svenskr prins má án konúngs og ríkisstandanna samþykkis takast annara landa stiórn á hendr, ef ei vill hafa fyrirgiört erfdarétti sínum. Ef ei er kóngsefni til, þá konúngr deyr, þá skulu kiörnir höfdíngiar af Stórþíngi og Ríkisstönd-um, er taka þann kondúng yfir sig, er þeim best líkar. Er kóngsefnit of úngt til landsforráda, skal eitt Ríkisrád (af 10 norskum og 10 svensk-um hofdíngium) hafa ríkisstiórnina á hendi, uns kosinn er kóngsefni formyndari af Stór-þíngi og Ríkisstöndum. Kóngi gengr til handa rád þat, er Statsrád kallast, í því eru 9 höfd-

ingiar og 4 Statsſekreterar. Kóngr má, (þó með vilia og vitund ens norſka Stórþings) ſegia ødrum kóngum ſtríd á hendr, ſemia frid, ſtipta ſylgis-ſamband, náda illgiørdamenn, og géfa veitſlur og embætti og ſiálfr ſkal hann vera ædſti hersforíugi í fridi og ófridi. 5ta hvørt ár ſkal hann ſtefna ríkisſtøndunum til fundar, er áſamt hønum hafa þátt i tveim harla markverdum málefnum, nl. at ſetia løg og ákveda ſkatta.

Ríkisſtøndinn eru 4, nl. 1. Adalſtéttin, er hin gøfugaſta og greiniſt i 3 flokka, nl. Herraflokkinn, i hvørium eru greifar og barúnar; Riddaraflokkinn, er heſir kyn ſitt at rekia til Ríkisráda; og Sveinaflokkinn. (Nú á døgum eru ei færri enn 1100 adalmanna ættleggir i Svíaríki.) Høfdingi ſá, er landmarſkálkr kallaſt, hvørn kóngr kýs, er forſeti adalsmanna á fundunum. 2. Kénnidómsſtéttin, nl. biſkupar, ſem ſliptanna eyrindsrekar. Uppſala-erkibiſkup flytr ávalt tølur fyrir hønd kénnimanna. 3. Borgarar frá hérumbil 100 ſtødum, er ſækia mega ríkisdaga, og ſendir hvør þeirra koſna fulltrúa, eptir tiltølu og ſtærd þeirra, t. d. Stockhólmr ſendir 10, Gautaborg 3 og adrir ſtadir 2 edr 1; af þeim frá Stockhólmi ſendu fulltrúum velr konúngr einn, er flytr tølur fyrir hønd borgara; og 4. Bændur, þeir eru annattveggia jardeigendur edr leigulidar kóngs; hann útvelr ſvaramann þeirra.

Þá þvílíkt Stéttaþing (alþing; Rigsdag) ſkal halda, ákvardr konúngr ſiálfr tíd og ſtad;

hvar slétt hefir eitt atqvædi; 3 atqvædi og kóngs samþykki skal til gildra laga.

Elsti sonr kóngs kallast krónprins, og ef fleiri eru kóngssynir og kóngbornir, eru þeir erfdaprinsar nefndir og hertugar, og eru þeir kéndir vid hmsar landsálfur í ríkinu, t. d. Sudurmannaland, Vestmannaland o. s. frv.

Fyrir giørvøllu Svíaveldi rædr nú kóngr sá, er Carl Johann hinn 13di heitir (med því nafni), hann er franskr at ætt og ódælum, mikill kappi og gódr stiórnari; ádr hann tók kóngdóm í Svíaríki, hét hann Bernadotte og prins af Ponte-Corvo, hvøria nafnbót Napoleon gaf hønum fyrir hermennsku hans og vígkiænsku.

Þessar eru Riddara-ordur í Svíaríki: a. Seraphin-ordan, stiptut af Magnúsi Smekk 1334, endurnýut af Fridríki 1ta 1748; hún er hin tignarligasta, og bera hana ei adrir en kóngbornir og ædstu høfdíngiar. Heidursteiknit bera þeir í bláu bandi. b. Sverd-ordan, stiptut af Gustafi Vasa 1523 og sídan endurnýut 1748; hún úthlutast alleina þeim, er sýnt hafa dád og dreingskap fyrir fødurlandit (pro patria); berst í gulu bandi. c. Nordrstiørnu- edr Leidarstiørnu-ordan, stiptut af Fridríki 1ta 1748 þeim embættismønnum og borgurum til heidurs og launa, er skara frammúr at dugnadi og manndómi. Í midiu þessa heidursteikns, sem borit er í svørtu bandi, stendr ímind leidarstiarnar med þessari undirskrift: nescit occasum. d. Vasa-ordan, er Gustafr 3 stiptadi fyrir þá, er í einhvørskonar handidnum, snild og atulum dugnadi, í akuryrkiu og kaupverslunar størfum eru ødrum fremr; heidursmerkit er gullit knippi og er þat borit grænu bandi.

Hvat réttargáng og lagasóknir áhrærir, þá

fer Svíum allvel at stofni; á landsbygdinni eru hérads- og lögmanna-réttir og í stödunum eru kæmmera- og rádstofu-réttir; frá þessum dómstólum skírskotast málum til 2 hofrétta: í Stockhólmi (fyrir Svíþiód og allan nyrdri hluta landsins) og í Jonkaupángri (fyrir Gautland), varnarþing hirdarinnar er undir- og yfir-borgrèttr. Frá öllum þessum réttum má málum vísa til ens köngl. hædsta dómstóls; þann rèt sitia 6 adalbornir og 6 óadalbornir dómarar og konúngr sem forseti, eda landdróttseti hans; ei mega fremr þau mál í dóma koma, er þar eru dæmd.

Land-herlid Svía er 60,000 at tölu, er skiptist í málalid, er ávalt þiónar konúngi og fær mála af hönum; og bændalid, er leiglendingar kóngs halda. Varnarvirki Svía eru einkum í Calmar, Carlskróna, Kristiánsstad, Carlssteini og Gautaborg. Sömuleidis skipta menn herskipum þeirra í 2 hluti, nefnil. stórflotann, er samanstendr af 12 línu- edr megin-skipum og 8 fregáttum, og er stod þeirra í Carlskrónu; og skériaflotann, svo kalla menn hin minni herskip (kanónubáta), 200 at tölu, er bstr eru lögut til at leggia inn og út millum skéria og eya, enn hin fyrrnefndu; sá floti liggr á ýmsum stödum, einkum í Stockhólmi og Gautaborg.

Þiódsióds-tekiur Svía koma sérilagi af kóngsjördum, skatti fyrir höfud hvört (höfdaskatti), tollum og landauragialdi, bergverkum og línnum o. s. frv., til upphædar árl. hérumbil $7\frac{1}{2}$ millión ríkisdala banco. Arit 1813

vóru ſkuldir ríkiſins hálf⸗áttunda millión bædi til útlendra og innlendra lánardrottna. Auk gull⸗ ſilfurs⸗ og eyr⸗peninga, eru einnin medal Svía ſedlar algengir.

Hvat vidvíkr ſkapſerli Svía, þá lýſa ýmſir frædimenn þeim á þennan hátt: «Svíar eru vingiarnligir og allgladlyndir, þó hóglátir og idinſamir, og unna miøg friálsrædi og fødurlandi ſínu, hugrakkir eru þeir og hrauſtir í orruſtum og þolgodir í øllum mannraunum. Almennaſt eru Svíar háir vexti, (ſem Nordmenn) og réttvaxnir, en ei gildir, vellimadir og vaſkligir, karlmannligir og mannborligir, ſterkir og þrautgódir, hørundshvítir og hárabiartir. Hiá alþýdunni á landsbygdinni ſinna menn ſmíadrlauſt frómlyndi, einfaldan lifnadarmáta og ómargbreytta ſidu, fremr enn í ſtødunum og hiá heldra fólki, hvar dekr og marginðalæti, ſundrgérd og margskonar vidhøfn ſkara meſt frammúr á Nordurløndum. Innbúar Stockhólms ſemia ſig einkum at háttum Franſkra, en Gautabyrgíngar at háttum Enſkra, eptir þvi ſem hverir fyrir ſig hafa ſérílagi møk vid tédar þiódir; en ávalt heſir Svíum, er ſidprúdir hafa viliat ſýnaſt, franſkir ſidir ſér einir ſæmiligir.» Um alla æfi heſir nábúa⸗þiódunum þótt Svíar vera vidſiálir og ótryggir, litt vinfaſtir og hvatſkeytligir til ſátta⸗rofanna og fremr ſtundat hafa vinalit enn ſanna vináttu; heſir þvi langgiæf óvingan edr þiódhatr innrætſt hiá hverutveggiu, ſem ſiá má af ſogum þeirra.

---

# EYSTRI HNATTAR=HELMÍNGR

*Lagad eptir Sotzmanns landkorti*




VESTRI HNATTAR-
-HELMÍNGR
ÍS HAFID
GRÆNLAND
ASIA
Kamkatka
Nyrdri hiólgaddshríngr
VÍL-
LÍMANNA
LABRADOR
AMERÍKA
KANADA
NORDR
VER-
NORDR
VESTR
LØND
NORDRAM
FRILØND
NYA
MEXIKO
Florida
Boston
Nyport
Filadelfia
Baltimore
Bermúdas eyar
ATLANTISKA
Krabba
hvarfs-
baugr
Sandvíkur eyar
Óvaihí
HAFID
VESTINDÍA
Karaibiska hafid
Jamaika
Hondúras
Barbados
Grænanes eyar
Sólmerkia-
ALDAR
HAFID
Iafndægrabaugr
Gallópagos
Íolaey
GRANADA
Paramaribó
Kayenne
Marankao
KÓNGSRÍKID
BRASÍ-
Rockshöfdi
Fernambúkó
Salvator
BLÁ
AMERÍKA
Háskaeyar
Markesueyar
KYRRA HAFID
SUDR-
Sterngeitar
hvarfbaugr
Páskaey
Kaledónía
Tongatabú
Vinfendaeyar
O Taheiti
Vonarey
Kúskó
Areqvipa
St. Felix
Konseptión
Valdivia
Kíle
Búenos Ayres
LANDS-
NYA SÆLAND
HAFID
SUDR HAFID
Bóntyeyar
PATAGONÍA
Magellans Sund
Horn
Stateneland
Falklandseyar
Nya Georgía
Sydri hiólgadds hríngr
-HAF
SYNNRA ÍS HAFID
Sandvíkrland
Sudr Heimsskaut
Lagad eptir Sótzmanns Landkorti
Ritad á steintöblu hiá Lóse


ISLAND
1821
Femtan danskar Milur
15° fyri Vestan Paris
Kolbeinsey
Grimsey
Horn
Isa-
fiardar-
dup
Dranga Jökull
Isafiördr
Dyrafiördr
Arnarfiördr
Thingeyri
Reikiafiördr
Bildudalr
Patrixfiördr
VEST-
Flatey
Breidafiördr
Stikkesholmr
Helgafell
Grundarfiördr
Olafsvik
Snæfells Jökull
Stapinn
Budarstad
Hvamr
FYR-
DINGA_F.
Holta-
vördu-
heidi
Skaga-
stran-
dar-
Flói
Skagastrënd
Reinestadr
Thingeyri
Svinavatn
Vididalstunga
Hólar
Siglufiördr
Skaga-
Fiör-
dur
Drangey
Hofsós
Mödruvalla
Akureyri
Eya-
Fiör-
dur
Hrisey
Grenjadarst.
Skial-
fan-
da F.
Husavig
Keldu-
hverfi
Axar-
fiar-
dar-
Flói
Melrac-
ca Slétta
Raudarhöfn
Thistel-
Fiördr
Langanes
Vopnafiördr
Hof
Kirkiubær
Dyrfiöll
Hérad
Vallanes
Eskifiördr
Reidar F.
Holmar
Nyvatn
Munkathveré
NORDLENDINGA-
FIÖRDUNGR
Herdubreid
Langa Jökull
Bald Jökull
AUSTFYRDINGA F.
Bulandstindr
Berufiördr
Bredalr
Eystrahorn
Vesturhorn
Klofa-
Jökull
Breida-
merkr-
Sandr
Ingolfshöfdi
Kirkiubær
Medalland
Thykkebær
Dyrhólar
Myrdalr
Eyafialla Jökull
Vestmanna Eyar
Faxa Fiördr
Borgar F.
Leirá
Akranes
Hval F.
SUNNLEN-
Geiser
Alþing
Skálholt
Hekla
DINGA F.
Reikiavik
Keblavik
Hafnarfiördr
Báasendr
Reikianes
Grindavik
Krisuvik
Eyrarbacki
Oddi
Breidabolst.
Geirfuglaskér



Nº IV.
DANMØRK
Mæliqvardi
til Þíngmannaleida edr ís almennra mílna
NORDR SIÓRINN
Íótlands Skagi
Skagen
Hiørring
Sæbye
ÍÓT LANDSHAF EDR CATTEGAT
Hlésey
Anholt
ÁLABORGAR STIFTI
Thisted
Álaborg
Nibe
Løgstör
Lemvig
Skive
Hobroe
Mariager
Viborg
VEBIARGA STIFTI
Holstebroe
Randarós
Scheel
Greenaae
Lövenholm
Frÿsenborg
ÍÓTLAND
ÁRÓS STIFTI
Árós
Ebeltoft
Skanderborg
Ringkiöbing
Horsens
RÍPA STIFTI
Weile
Warde
Fridericia
Kolding
Riper
Fanöe
Haderslehen
HERTOGADÆMID
Rómey
Tondern
Apenrade
Sylt
Schackenborg
Flensborg
SLÉSVIK
Angeln
Slésvik
Gottorp
Husum
Eckernföhrde
Fridriksstadr
Fridriksort
Tönningen
Amrom
Helgoland
Kiel
Rendsborg
Plön
Eutin
HERTOGADÆMID HOLSETULAND
Itzehoe
Lübeck
Glückstadt
Pinneberg
Altona
Hamborg
Trave
Katzeborg
Mölln
Bergedorf
Lauenborg
BREMEN
AUSTR. FRÍSLAND
MECKLENBORG
Vismar
Rostock
POMMERN
RÝGEN
Bergen
Stralsund
AUSTR. SIÓRINN
EÝSTRASALT EDR
FEMERN
Borg
FIÓN
Bogense
Medalfár
Odinsey
Nyborg
Assens
Fraborg
Svendborg
STÓRA BELTI
LÁNGALAND
Rudkiöbing
Nordborg
ALS
Sönderborg
ÆREY
SAMSEY
SIÁLAND
Kallundborg
Holbeck
Hleidra
Slagelse
Korsöer
Skelskiör
Næstved
Kiöge
Store Heddinge
Præstöe
Wordingborg
MÓN
FALSTUR
Nykiöbing
LÁLAND
Kaupmannahöfn
Fridriksborg
Fridriksverk
Hirschholm
Krónborg
Helsingiaeyri
Amager
Saltholm
EYRARSUND
Gautaborg
HALLAND
Warberg
Falkenberg
Hálmstadr
SVÍARÍKI
Hellsingborg
Landskróna
SKÁNEY
Lund
Malmöe
Ystadr
BLEKING
Kristiansstadr
Karlskróna
Kristiánsey
BORGUNDARHÓLMR
Rönne
Svanike
Nexöe
Lagad eptir Folzmanns landkorti
Ritad á Steintöblu hiá Lohse




Lagad eptir Sotzmanns Landkorti

Ritad á steintöblu hia Lore

